# Huss-Postilla/

EDUR

EINFALLDAR

# PREDIKANER

Yfer øll Hatijda og Suñudaga Gudspiøll Ared um̃ Kring.

Giørdar Af

Vel-Edla og Vel-Eruverdugum Saal. Byskupenum Yfer Skaalhollts Stifte',

MAG. JONE THORKELSSYNE VIDALIN.

Añar Parturen̄.

Fra Trinitatis Suñudeige / til Adventu.

EDITIO VI.

Prentud a Hoolum i Hialltadal, Anno 1745.
Af Halldore Erikssyne.

# A Trinitatis Hatijd.

## Gudspialled / Joh. III. Cap.

JPañ Tijma, Var þar eirn Madur af Phariſæunum, Nicodemus ad Nafne, eirn Høfdinge Gydinga. Hañ kom til JEſu a Naattarþele, og ſagde til hañs: Rabbi, Vier vitum ad þu ert eirn Læremeiſtare komeñ af Gude, þvi eingeñ gietur giørt þau Teikn ſem þu giører, utañ Gud ſie med hønum. JEſus ſvarade og ſagde til hañs: Sañlega, Sañlega ſeige eg þier, þad eingeñ nema hañ, ſa ed fædeſt ad nyu, fær ad ſiaa Guds Rijke. Nicodemus ſagde til hañs: Hvørneñ maa Madureñ Endurfædaſt þa hañ er gamall? Hvørt gietur hañ horfed aptur i ſiñar Moodur Kvid, og fædſt ſo ad nyu? JEſus ſvarade: Sañlega, Sañlega ſeige eg þier, nema þad nockur verde Endurfæddur wt af Vatne og Anda, þa kañ hañ ecke iñ ad gaanga i Guds Rijke. Hvad af Hollde er fædt, þad er Holld, Eñ hvad af Andanum er fædt, þad er Ande. Undraſt þu ecke, ad eg ſagde þier, ad ydur byriar ad fædaſt ad nyu. Vindureñ blæs hvar er hañ vill, og þu heyrer hañs Þyt, eñ eige veitſt þu hvadañ hañ kiemur, eda hvørt hañ fer. So er og ſierhvør af Andanum fæddur. Nicodemus ſvarade og ſagde til hañs: Hvørneñ maa þetta ſkie? JEſus ſvarade hønum, og ſagde: Ertu eirn Meiſtare i Iſrael, og veitſt ecke þetta? Sañlega, Sañlega ſeige eg þier, ad vier ſeigium þad vier vitum, og vitnum hvad vier ſied høfum, og vorn Vitnisburd medtaked þier ecke. Hafe eg ſagt ydur Jardneſka Hlute, og þier trwed ecke, Hvørneñ munud þier þa trwa, ef eg ſegda ydur Himneſka Hlute? Eingeñ uppſtijgur til Himnens, utañ ſa ſem ofañ ſtie af Himne, Mañſins Sonur, ſa ſem er a Himne. Og ſo ſem Moyſes upphoof Høggormeñ a Eydemørkeñe, Lijka ſo byriar Mañſins Syne upp ad hefiaſt, ſo ad aller þeir ſem a hañ trwa, Fortapeſt eige, helldur ad þeir hafe Eilijft Lijf.

### Exordium.

MJKil var Blindne Heidingiaña Fordum Daga i Guds Dijrkañ, Hiner Vijſuſtu af þeim ſøgdu, ad eitt miked Rijke kyñe ecke leinge ad ſtanda fyrer utañ Einvallds-Dæme, þo ſkøp-

udu

udn þeir sier Otal Gude til ad stioorna allre Verølldeñe; svo sem eirn være ecke fær uñ ad ræda fyrer þvi, er þeir þo af Naatturuñar Lioose þeckia mætta, ad hañ siaalfur skapad hefde, og svo ad þeir a einhvern Hætt feingu smijdad sier Einvallds-Dæme i Heimenum, þa trwdu þeir, ad eiñ være þeirra mestur sa ed ødrum stioornade, ætte þo slijkt ad vera epter Mañlegum Plagsid, svo ad hañ þurfte þeirra vid a Stundum, eins og Agamemnon siña Under-Konunga, þoott hañ hiete hiaa Grickium Konungaña Konungur. Þegar eg athuga þetta, þa kiemur mier i Hug þad sem Paulus skrifar, 1. Cor. 3. Ad Speke Veraldar þessarar sie Heimska hiaa Gude, og under eins breñur mitt Hiarta i mier af Elskuñe til mijns Skapara, ad hañ hefur Openberad oss sijnum Vesælingum, þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum, þar vier trwum a eiñ Gud Þreñañ i Einingu og Einañ i Þreñingu, hver ed einkis vid þarf, eñ aller hañs, og er Siaalfraade allra Hluta, bæde a Himne og Jørdu, svo sem David seiger i Psalm. 115. Vor Gud er a Himnum, og giører hvad hønum lijkar. Þessarar Haaleitu Guddoomsins Þreñingar Veglega Hætijd eigum vier nu i Dag ad hallda, a hverre oss verdur Predikad þad Evangelium sem iñebindur þa hellstu Velgiørninga, er Fader, Sonur og Heilagur Ande hafa veitt oss syndugum Møñum til Myskunar, þad er Endurgietningeñ og Endurlausneñ, af hvørium allt añad hanger, sem hiñ Naaduge Gud vill laata oss þiona til Saaluhiaalpar. Uñ siaalfa Hlutena hefe eg ædur i þessare Book vijda talad; Eñ þad er Merkelegt i þessu Gudspialle, ad hier kiemur eiñ Høfdinge Gydinga, eiñ Meistare i Israel til ad læra þessa Himnesku Fræde af hønum, sem til þess var sendur wr Fødursins Skaute, ad operbera hana syndugum Møñum. Þvi vilium vier nu hier af athuga eiñ Froomañ, eñ þo Faavijsañ Læresvein, og under eins eiñ Goodañ og svo Alvijsañ Meistara, med þeim Lærdoomum er þeirra Samtal med sier færer.

Styrk oss til þessa Verks goode Gud med Naad þijns Anda, fyrer Sonarens Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

ÞAr Var Eirn Madur Af Pharisæunum, seiger Texteñ: Hvilijkañ Vitnisburd DRotteñ giefur þessum Flock, maa allvijda siaa i Gudspiallamañaña Bookum, og þo ecke sijdst hiaa Matth. 23. Cap. Hvar hañ medal añars kallar þa Eytur-Orma og Nødru-Kyn, þo fanst þesse Gudhrædde Madur medal þeirra; Þad Ord stendur stødugt uñ Æfe, ad þecker Gud þa sem hañs eru, seiger Postuleñ.

Lær þad af þessa gooda Mañs Dæme, Christeñ Madur, ad ei samlager þu þig vondre Verølldu þessare, þoott þu hliooter i heñe ad lifa. Þar var þo eiñ Abraham i Gerar, eiñ Loth i Sodoma, eiñ Hobadia i Achabs Hwse, eiñ Simeon, eiñ Zacharias, þesse Nicodemus og Joseph af Arimathia a Christi Døgum, hverier hiner sijdustu Tveir ecke samþycktust Gydingum i Lijflaate DRottens, Luc. 23. Svo vared ydur og, Børn mijn, þier sem lifed i hreckvijsre Ølld þessare medal vor, eñ vilied þo DRotteñ Ottast, ad ecke draged þier Ok med heñe, svo þier ei medtaked af heñar Plaagum, helldur skijned svo sem Lioos i myrkvum Stad a medal þessarar Þrettvijsu Kynsloodar, og treysted þvi, ad sw Alvolldugа Bæn er Frelsareñ beidde fyrer sijnum Læresveinum, hun nær og til ydar, ef þier Otteſt Gud, þar hañ sagde: Joh. 17. Eg bid þig Fader, ecke ad þu taker þa burt wr Heimenum, helldur ad þu vardveiter þa fyrer hinum Vonda. Siooreñ er salltur, eñ Fiskarner sem þar iñe lifa, þeir eru þo ecke sallter. Svo eiga Guds Børn ad vakta sig fyrer Spillingu þeirre sem i Heimenum er af Gyrndeñe, svo sem Petur ad Orde kiemst; Þoott þau verde ad synda i giegnum þeña fwla Dam, a medañ Gud vill reyna þau med þvi, ad horfa uppa alla þa Ohæfu, sem þar iñe frameñ verdur.

verdur. Þesse Madur var eiñ Hofdinge Gydinga, aan Efa eiñ af þeim 70. Olldungum þess mykla Raads, samt var honum svo miog giefed um̃ Velferd Saalar siñar, ad hañ þootteſt ecke Of=goodur til ad læra af JEsu, hvern hañs Lagsmeñ kolludu Vijn=Svelg, Vin Tollheimtumaña og Bersyndugra. Hvad giora þeir hier aa moot, er sig kalla Hofdingia medal vor? Og eru þo Vesælingar ad reikna hiaa Nicodemo; Eg voga ad seigia, þeir vita ecke sumer hvad þeir eiga ad trwa, Fræden hafa þeir lært ad soñu, eñ eg þecke þa sem ecke skilia ollu meir i þeim, helldur eñ Gielldingur Drottningareñar Candaces i Spaadoome Esajæ, eñ hvert þeir eru svo Leidetamer til ad laata sier underviijsa svo sem hañ var, þegar Philippus til hañs kom, Act. 8. Þad bid eg þa ad Hugleida, sem jafnvel hata sijna Saalusorgara fyrer Heilsusamlegar Kieñingar, og þoott sumer af þeim meige vita ad nockru Leite, hvad þeir eiga ad trwa og giora, þa meiga þeir þo ecke Sañleikañ heyra af Presſtsens Muñe Reidelaust: Medañ hañ þeiger yfer Lijtum þeirra og Skomum, þa er hañ Guds Eingell, eñ tale hañ um̃ nockra Ohlutvendne, þa sturlar hañ Israel eins og Elias, 1. Reg. 18. Hañ skytst under Chaldæos eins og Jeremias, Jer. 37. og verdur allt til Saka funded, Gud betre þessa Tijma, Taled þad sem oss er þocknanligt sogdu Judar Fordum, su Olld er apturkomeñ, Spaadoomur St. Paals er rættur, þeir samañhrwga sier Lærendum epter þvi sem Eyrun klæa, Meñ laata so daatt ad Lostum sijnum, eins og Mooder ad einasta Syne, Jafnvel þoott þeir sieu bæde marger og liooter, Meñ elska siñ eigeñ Þreck, eins og Siaalldur Auga sijns, svo eru Meñ vidkvæmer, nær hañ snertur er, svo sem væru þad Saar, og ad mestu Leite eru vorer Hofdingiar svo lynder eins og Joachim Konungur, þa hañs Þienare Judi hafde lesed honum Þriu eda Fiogur Blod af Spaadoome Jeremiæ, þa skar hañ Bookena i sundur og kastade heñe i Elldeñ, Jer. 36. Eg ætla þa einu gyllte þoott allar Bækur være brendar sem hliooda um̃ Guds Otta, og aller Muñar tilbyrgder sem þar um̃ tala.

Nicodemus kom til Jesum a Naattar=Þele, aan Efa fyrer Otta saker eins og Joseph af Arimathia, er var heimuglegur Christi Læresveiñ, sokum Hrædslu vid Gydinga, Joh. 19. Veikleike fañst nockur hia þessum goodu Moñum i slijku, og þo var þad Upphaf til þeirra Hiaalprædis; Eñ þu sem eingañ þarft ad ottast i þvi ad fylgia Christo epter; Tak þier Dæme af Nicodemo i þvi, ad vilia læra af honum, og þeim sem hañ hefur i siñ Stad sett, eñ ecke i þvi ad fordast Verolldena ad slijku; Þad er audraaded af Samtale Drotteñs vid hañ, ad hañ hefur ecke vered miog Froodur i Christeñdoomenum þegar hañ fyrst kom, eñ ecke varde þad leinge, þar til hañ vogade ad forsvara Christum berlega i Raadenu, er hañ sagde: Dæmer nockud vort Logmaal Mañeñ nema hañ sie aadur heyrdur, Joh. 7. og maatte heyra þar fyrer: Ert þu og vordeñ Galilæus? sem var hin mesta Smaan medal Gydinga. Þad maatte sijnast ad wte være med Christ, þegar hañ var svo sem Illrædes Madur til Dauda dæmdur og a Gaalgañ uppfestur, hvar hañ liet sitt saklausa Lijf, ecke er Lijklegt ad þeir Joseph munu hafa vered Froodare um̃ Upprisuna helldur eñ Læresveinarner, samt vogudu þeir ad greptra hañ, og

og vordu þar til Femunum sijnum, Svo er Gud kroptugur i goodum Vilia, þott vei-
kur sie, eñ þu sem vordeñ ert Sañfroodur uñ Dijrd Drotteñs i hañs Upprisu, og veitst
ad hañ situr til Kraptarens hægre Handar; Breit epter Nicodemo i þessu, og lat þier
einkis Maal svo skylldt vera, ad þu afrækest riett ad giora; Lat einga Veralldar Ma-
gt svo ofbiooda þier, ad þu i miñsta Maata skierder Dijrd þijns Guds i þvi ad fremia
þad epter Mañaña Bode sem hañ bañad hefur. O! hversu Faavijser og Onijter eru
aller þeir, ed kalla sig Ohullta nær þeir giora allt hvad hiñ Vollduge bijdur þeim; Hey-
re þier hvad Drotteñ seiger fyrer Muñ Zophoniæ, Cap. 1. Eg skal a þeim Deige straf-
fa alla þa sem stockva yfer Þroskullda, hverier ed uppfylla Hws Drottna siña med
Raane og Svikum. Sama er uñ allt añad ad seigia sem nockur Ofrijkis Madur bij-
dur a moote Guds Bode, hvert hañ er hærre eda lægre Stiettar, þañeg var nu Nico-
demo hættad sem ædur er sagt þa hañ kom til Jesum, eñ hvert Eyrended vered hafe, er
audsiært af Lausnarans Andsvare, þo ecke stande hañs Spurning wtþryckelega i Gud-
spiallenu, hañ hefur æn Efa viliad frædast af Drottne, med hveriu moote hañ kyñe Gu-
ds Rijke ad erfa; Eñ Drotteñ sem allt visse hvad med hønum bioo, hañ svarar hønum
ecke eins og hinum Rijka Ynges. Mañe, hia Matth. 19. er friette hañ ad hvad hañ gio-
ra skyllde so hañ mætte eignast eilijft Lijf, hverium hañ vijsade til Logmaalsens, af hvers
Verkum eingeñ kañ þo Hoolpeñ ad verda; Hvar fyrer? af þvi hañ þocktest Logmaa-
led uppfyllt hafa; Ecke svo sem Phariseis og Herodis Þienurum, er komu til hañs
med vidlijkum Formaala og Nicodemus, eñ þo fuller af Underhyggiu og Flaattskap,
og spurdu ad, hvert ad leysdest ad giefa Keysaranum Skatt edur ei: Ecke svo sem Ki-
eñemoñunum og Olldungunum, er spurdu hañ ad, af hverium Myndugleika hañ kien-
de, Matth. 21. Drotteñ visse ad Nicodemus var i Logmaalenu noogu Froodur ad
Gydinga Plagsid, þvi hañ var eiñ Meistare i Israel, þar fyrer tefur hañ ecke ad under-
vijsa hønum i þvi sem hønum var Aboota vant, og opnade hønum enar fyrstu Dyr Lijf-
sins Vegar, sem er Endurfædingeñ, med þessum Ordum: Nema ad einhver Fædest
ad nyu, Þa kañ hañ ecke ad siaa Guds Rijke. Hier af maa siaa hversu megnt Faafræ-
de ad drottnad hefur medal Gydingaña i Andlegum Efnum þegar Christur kom. Þad
sijnest ad þeir hafe ecke þeckt Uppruna Syndena, jafnvel þott þeir mættu lesa hiaa Da-
vid, Ps. 51. J Syndeñe em eg aleñ, og i Syndeñe hitnade miñe moodur med mier:
Ecke Endurfædinguna, edur ætlad ad Umskurneñ munde vera heñar Medal af Gude
tilskickad, helldur svo sem nockurskonar wtvortis Teikn, med hveriu Israels Foolk væ-
re adgreint fraa ødrum Pioodum, þar þo Moyses seiger þeim berlega, Devt. 30. Drot-
teñ mun umskiera þitt Hiarta og þijns Sædis Hiarta til ad elska Drotteñ Gud þiñ af
ollu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þiñe svo ad þu lifer, hvar ei kañ ad vera añad mei-
nt eñ þad sem Paulus uñtalar, Rom. 2. er hañ nefner Umskurn Hiartans sem er i An-
danum og ecke i Bookstafnum, hverrar Lofstijr ecke er af Moñum helldur af Gude. Ur
þessare Villu vill nu Drotteñ fyrst hiaalpa Nicodemo, og meigum vier Christner Meñ O-
daudlegar Þacker Gude kuña, ecke einasta fyrer þad hañ hefur Endurgieted oss til

einñar lifande Vonar, sem Petur ad Orde kiemst, 1. Pet. 1. helldur og þad, ad hvert Bar-
ned a medal vor a Kost aa, ad nema þa Himnesku Speke um̃ Endurgietninguna og hen̄-
ar Krapt, sem þesse Haalærde Olldungur visse eckert af. Gud giæfe ad bæde Kienñe-
Fedur og Forelldrar hefdu svo mikla Astundan a, ad brijna þvilijkt fyrer sijnum Bør-
num og hinum Einfølldu, svo sem þad er liooft i Guds heilaga Orde, þa mundu Meñ
ecke svo optlega flecka sitt Skijrnar Klæde sem Meñ giøra, þa mundum vær hafa mei-
ra Traust i Mootgaangenum og i Freistingunum, af þvi ad vier erum Christo iñplant-
ader og setter i hañs Rijke, og Kraptur Skijrnareñar munde framar auglijsa sig i En-
durnijungu Lijfdagaña, og Deydingu Holldsens helldur eñ almeñelega skiedur. Þad
er merkelegt, ad Endurlausnareñ brwkar þetta Ord, Ad Fædast Ad Niju. Skijrneñ
er ecke neiñ Stundar Þvottur, er giører Mañ hreinañ um̃ Siñ fyrer Gude, helldur
verdur hiñ Skijrde nij Skiepna i Guds Auglite, og þar fyrer kallast þad Endurgiet-
ningar Laug, Tit. 3. hverrar Kraptur varer um̃ allañ þess Alldur, er ecke afræker siñ
Skijrnar Saattmaala, helldur kostar Kapps um̃ ad endurnya hañ med Betrun Lijf-
ernesins Daglegana. Siaaed til, Børn mijn, Madureñ fædest i Heimeñ daudur i
Uppruna Syndeñe, Blindur i sijnum Saaluhiaalpar Efnum, þvi Holldlegur Mad-
ur skyniar ecke hvad Guds Anda er, seiger Paulus, 1. Cor. 2. Er þad ecke þa ad fæd-
ast ad nyu, ad heilagur Ande i Skijrneñe upplijser Hugskoted, endurskapar Viliañ,
og giefur oss nyar Andlegar Gaafur, ad vier faaum sied Guds Rijke, þeckt þad i Trwñe,
samsint þvi er um̃ þad talad verdur, ad vier leitum þess, laangar epter þvi, og ødlunst
þad um̃ sijder, hvad Omøgulegt er Hollde og Bloode, svo sem Postuleñ vottar, 1. Cor.
15. Spekingarner seigia ad Madureñ sie Madur fyrer Saalareñar Skulld; Þvi
aññars bere hañ eckert af Kvikindunum, svo er hañ og Guds Madur alleina fyrer heilag-
añ Anda, er vier i Skijrneñe medtøkum, aññars er hañ ecke einasta Skynlaus, helldur
og daudur i andlegañ Maata; Þvi er þetta Guds Verk riett kallad Endurfæding.

I Aññañ Maata er oss kuñugt, ad vier fædunst i Heim þeña Børn Reideñar, sem
Paulus skrifar; Þañeg er vor Naatturleg Fæding, eñ i Skijrneñe verdum vier Guds
Børn, þar verda oss fyrer alls eckert alleina fyrer JEsu Christi Forþienustu Synder-
nar fyrergiefnar, eñ vier Riettlætter fyrer hañs Naad, og til Arfs tekner med Guds
Syne; Þvi so wtmaalar Paulus Endurfædinguna, Tit. 3. Seiged mier, er ecke
slijkt ad nyu fæddur ad vera? I Þridia Maata, iñebindur og Skijrneñ i sier Avøxt
Endurfædingareñar, sem er Endurnyungeñ, hver ed Daglega aa fram̃ ad koma og i
Vøxt ad fara, fyrer hveria Madureñ Endurfæddur verdur ein nij Skiepna, 2. Cor. 5.
skapadur i Christo til goodra Verka i Skijrneñe, eñ Iklædest Daglega einum nijum
Mañe, sem Endurnyast epter hañs Mynd er hañ skapad hefur, og i þessu Þreñu er
Endurgietningeñ foolgeñ, hveria DRotteñ vill teiknad hafa, med þvi Orde ad fædast
ad nyu. Þo skal eingeñ svo daarlegur vera, ad hañ meine ad þad noog sie, ad færa
Børneñ aa Kyrkiuna, og laata þau þar Vatne ausa, og tala Guds Ord yfer, eñ allds-
rei sijdañ vekia i þeim Krapt þessa Himneska Medals med Gudrækelegre Uppfrædingu.

Þolañ-

Þolanligra være ad kasta þeim wt a Mørkena, og laata uppeta af Vörgum, sem þo er hiñ versta Glæpur, helldur eñ ad ala þad upp, sem Gud skapade i Moodur-Lijfe, og Endurskapade med heilögum Anda i Skijrnar-Laugeñe, Fiandanum til Þioonustu og honum i Braad, sem er Guds svareñ Ovinur. Umskoreñ var Nicodemus, Endurgieteñ var hañ epter þeirre Guds Skickan sem varde allt til Christum, eñ þo var hañ so Ofroodur um sialfs sijns Endurfæding. Meinar þu ad Barne þijnu, sem kañ skie alldrei fær ad heyra nema Faavitskuna, þvi mune betur farnast eñ þessum lærda Mañe? Nema þu aler þad a hiñe hreinu og skynsamlegu Miolk Guds Orda, sem Petur umtalar, 1. Pet. 2. Ef þu ert fær þar um, og siert þu ecke, sem eg dylst ecke vid ad margur mune vera, hvad Gud betre, þa skamast þijn ecke ad gaanga med Nicodemo, Jafnvel a Nattar-Þele, þad er heimuglega, ef þu blygdast vid ad giora þad Openberlega, þar þu ert gamall vordeñ, til Christi Þienara edur añara sem betur vita, til ad læra Fræde þa, er þu maatt ecke an vera, svo þu faaer hoolped bæde þiñe og svo þeirra Saalum er hier ertiltrwad, nema þu vilier kveliast asamt þeim i eilijfum Helvijtis Loga, sem Gud hafde boded hier med Christeligre Uppfrædingu til Himna-Rijkis ad leida. Ecke fær Nicodemus þetta so braadt skiled, er JEsus sagde honum, og þvi talar hañ um Holldlega Fædingu, honum þootte þad Ösgar, ad Madureñ Skyllde Hverfa Aptur J Siñar Moodur-Kvid, Nær Hañ er Gamall, Og Fædast Svo Ad Nyu: Eñ þoott þad være svo laangt fra hañs Painka og yfergeinge hañs Skynseme er JEsus talade, samt forlætur hañ ecke DRotteñ ad helldur, og vill heyra meira hier um talad. Olijkur var hañ þeim sem a vorum Dogum ecke vilia laata sier i Guds Orde undervijsa, St. Pauls Spaa er rætt a þeim er hañ seiger, 2. Timoth. 4. Ad þær Tijder mune koma, ad þeir mune ecke lijda Heilsusamligañ Lærdoom, þeir hlaupa i Felur nær þeirra Christeñdoom a ad rañsaka, þeir skioota Bornum sijnum undañ, nær þvilijkt skal um Hond hafa, þeir hæda ad Kieñendunum, nær þeir i slijku vilia giora sitt Embætte, og hroosa þvi hver fyrer odrum, ad þeir a einhverñ Hatt hafe gietad slopped fra þvi ad laata Leidseigia sier til Himna-Rijkis. Þetta giora nockrer af þeim a medal vor, sem bæde eru skijrder og gaanga til Guds Bords, Prisvar, Fioorumsiñum a Are hveriu, eñ reidast Guds Þienara, ef hañ vill ecke leifa þeim og Bornum þeirra, ad eta og drecka Holld og Blood DRotteñs sier til Fordæmingar. Þu Vitfyrringur, munt þu þa helldur vilia til Helvijtis fara, og þar eilijflega breña, eñ ad lia Eyru þijn Heilsusamligre Kieñingu, svo þu meiger þiña Saaluhiaalpar Medala verduglega niootande verda? Edur villt þu leida þiñ Kieñe-Fodur i þañ Saalar-Voda, ad hañ hafe Altared til ad syndga, eins og Ephraim? Þad giora þo aller þeir ed þa vijsvitande til Altares taka, sem þess Overduger eru. Ecke styggest DRotteñ vid þessa Einfelldne Nicodemi, hañ vill ecke þeña braakada Reyr i sundur brioota, helldur til þess, ad uppræta þessa Faavitsku wr hañs Hiarta um Lijkamlega Fædingu, þa seiger hañ hverneg þessare Andligu Endurgietningu sie vared, med þessum Ordum: Nema Ad Eiñ Endurfædest Af Vatne Og Anda, Þa Kañ Hañ Ecke Ad Jñgaanga J Guds Rijke. Hañ Blessadur hafde þa

alla

alla Reidu skijrast lœted nær þetta skiede, og Johañis Skijrn hefur Nicodemo alkuñig vered, þa var og Logmaal Umskurnareñar af mœd, svo ad i Christo gylldte hverkellm-skurn nie Yfer-Hwd, þvi Tijme Endurbootareñar var komeñ, sem Paulus uñ gietur, Heb. 9. Eñ Skijrneñ var aptur i heñar Stad iñsett, og DRottens Kvølldmaaltijd komu sijdar i Stadeñ Paaska-Lambsens, hver ed vara mun œsamt Skijrneñe þar til Verolld þrijtur. Pess gietur Paulus, 1. Cor. 11. er hañ bijdur, ad vier med þessu Himneska Giesta-Bode skulum kuñgiora Dauda DRottens þar til hañ kiemur. Til þessarar Alvijsu Rœdstøfunar hiñar Hæleitu Guddoomsens Preñingar, vijsar nu Frelsareñ þessum sijnum Lœresvein, og leggur Orsøkena til, sem þesse goode Madur hefur ecke œdur skyniad; Hvad Sem Af Holldenu Er Fœdt, Pad Er Holld, Eñ Hvad Sem Af Andanum Er Fœdt, Pad Er Ande. Pad er Upphaf Christendoomsins, ad Madureñ vite ecke einasta ad hañ sie spilltur ad nockru Leite af Uppruna Syndeñe, helldur og olldungis i Syndeñe daudur, svo ad vor Nœttura verdur ad Endurfœdast med ollu, hvad Omøgulegt er ad skie kuñe, nema fyrer Almœttis Krapt Guds er Mañeñ i fyrstu skapade riettañ edur hellagañ, svo sem hiñ vijse Salomon ad Orde kiemst, Eccl. 7. Og þess vegna hefur vor goode Kieñe-Fader Lutherus lœted Logmœled undañ gañga odrum Portum Christelegs Lœrdooms, ad vier af þvi kyñum ad sia vorn Holldlegañ Saurugleik, svo þad yrde þañig vor Typtunar Meistare til Christum. Eñ Hvad Sem Af Andanum Er Fœdt, Pad Er Ande; Pad er, þad sem Endurfœdt er, og af Gude fœdt, Joh. 1. J hverium Guds Sœde er, 1 Joh. 3. þad er Ande: Ecke svo, ad Holldeð umbreitest i Anda, helldur verdur sa hiñ same Andligur Madur, eins og Adam vard ad lifande Saal, 1. Cor. 15. þad er lifande Madur, hañ verdur eirn Ande med Gude ef hañ œhœnger honum, 1. Cor. 6. og Foottredur ecke Guds Sœttmœla, jafnvel þott ecke sie þess Von i þessu Daudliga Hollde, ad vier aldeilis Andliger verdum, þvi er su Glijmañ a mille Holldsins og Andans, er Paulus svo optlega talar uñ; Pad skiedur fyrst i Upprisu Riettlœtra ad vier Andliger verdum til fulls, þa munu vorer Lijkamer Andliger og Einglunum jafner verda, og vorar Saaler eitt med Gude sem verda mun allt i ollu a þvi Gledeñar Lande, þvi nefnest hun og Endurfœding hia Matth. 19. Cap. Pad er Uppreisn allra Hluta, svo sem Petur þad kallar, Act. 3. Visse Drotteñ ad ei munde Nicodemo skiliast þetta eñ nu, þvi seiger hañ hier strax epter, Undrast Ecke Ad Eg Sagda Pier, Ad Ydur Byriade Ad Nyu Ad FÆdast; Og ecke einasta seiger hañ þad, helldur þar ad auke framsetur hañ eitt Omootmœlañlegt Dœme uppa Fœvitsku hūs, og añara Daudligra Maña, sem lœngt eru fra þvi, ad skilia þa Hlute er þeir Daglega umgœngast, aukhelldur ad þeir skynia mune þa himnesku er svo lœngt yfer gœnga Mañlegañ Skilning, Vindureñ Blœs Og Pu Heyrer Hañs Pyt, etc. Drotteñ blies a Lœresveinana og sagde: Medtaked þier Heilagañ Anda. H. Ande kom i sterkum Vinde yfer Postulana a Hvijtasuñudøgum. Svo tekur nu Frelsareñ hier Dœme af þeim Hlut sem Andanum var lijkastur, til ad hiœlpa Fœfrœde þessa einfallda Mañs. Vier heyrum aller Vindeñ þioota, vier fiñum hañs Megn a Lijkamanum, eingeñ sier hañ

hañ þo, eingeñ veit hvar hañ hefur sijn Upptok, Vindureñ blæs a somu stundu i Imsum Stodum af Austre og Vestre, af Nordre og Sudre. Seig mier, hvar hafa þesser Vindar sijn Upptok? Hvort fara þeir? Hvar slotar þeim? Fyrst eingeñ hefur eñ nu fundest svo vijs, ad hañ giete sagt oss þad, hversu munum vier þa skynia þad sem miklu meir yfergeingur vorn Skylning? Eñ Svo Eru Og Aller Þeir Sem Af Andanum Eru Fædder, Þeir fiña Guds Anda Hræringar i Saalu siñe, þegar hañ straffar Syndena, uppvekur Ydranena, lijfgar Trwna, kveiker Elskuna, ebler Þoleñmædena, og verkar adrar Christelegar Dygder. Vier vitum og ad hañ er fraa Gude komeñ, af þvi Ritningeñ hefur sagt oss þad, eñ hverneg hañ er fraa Gude utgeingeñ og i Hiartad komeñ, þad vitum vier ecke, þvi Guds Rijke kiemur svo þad verdur ecke adgiætt, seiger Frelsareñ, Luc. 17. Ecke helldur vitum vier hvert hañ fer, þvi Andeñ fer i burt og kiemur iñ aptur, vier vitum ad hañ færer oss iñ i eilijft Lijf, ef vier slockvum hañ ecke, eñ þad Lijf þeckium vier ecke nema svo sem fyrer Speigel og i Raad-Gaatu, þvi þad er Osynelegt eñ nu hvad vier verda munum, og vort Lijf er foolged i Gude, Col. 3. Þar fyrer sa sem fiñur Verkaner H. Anda i Saalu siñe, og vill þo ecke Endurfædinguñe trwa, þad er eins og vilde hañ neita þvi ad Vindureñ bliese, eñ giæte þo ecke sialfur a Jordeñe staded fyrer Ofvidre. Ef vier þvi neydunst til Natturuñar Verkan ad trwa, þott ei skilium vier heñar Orsok eda Upptok; Þvi skylldum vier ecke giefa vora Skilningu faungna under Hlijdne Trwareñar i Andlegum Efnum, sem svo miklu eru Oskilianlegre.

Ecke ber Nicodemus aa moote þessum Vijsdoomsfulla Sañleika, er DRotteñ taladе, eñ þo vill hañ frædast gior hier uñ, og þvi seiger hañ: Hverneg Maa Þetta Skie? Þar fyrer tekur Lausnareñ til þess sem sterkast var, þad var hañs eigeñ Vitnisburdur, sem er i Fodursins Skaute: Sañlega, Sañlega Seige eg Þier, Vier Vitum Hvad Vier Seigium, Og Vitnum Hvad Vier Sied Hofum. Eingeñ Rok edur Vitnisburdur inga, eru svo sterk sem þetta, Gud hefur þad talad: Þvi sagde JEsus Fordum vid Gydinga, Joh. 8. Þoott eg bere Vitne af sialfum mier, þa er þo mitt Vitne stodugt, eñ þetta visse Nicodemus eñ þa ecke; Hañ sagde ad soñu i Ondverdu Samtalenu: Meistare, Vier Vitum Þu Ert Eiñ Lære-Fader Af Gude, Þvi eingeñ Kañ Ad Giora Þau Verk Sem Þu Giorer, Nema Gud Sie Med Honum. Hefde hañ sagt i honum þa hefde hañ riett talad; Eñ svo var hañ eñ þa ecke upplijstur, þo byriade honum ad trwa Christo, þar hañ jaatade, ad hañ være af Gude, og giorde svo mykel Kraptaverk, eñ DRotteñ liet hañ ecke leinge vada i Villu þessare, helldur skijrer honum berlega fraa, hver hañ sie, seigiande: Eingeñ Mun Uppfara Til Himens, Nema Hañ Sem Ofañ Stie Af Himne, Mañsins Sonur, Hver Ad Er A Himne. Þetta Ord, Ad Uppstijga Til Himens, merker i Ritninguñe, ad Rañsaka Guds Leyndar-Raad, svo seiger Agur uñ Ethiel og Ucal, Prov. 30. Þad er uñ hañ sem heiter Gud Med Oss og sañ Maattuge, þad er Christur; Hver mun uppfara i Himeneñ, og ofañ þadañ? Þad er, hver mun Guds Leyndardooma Rañsaka, þar uñ talar svo Moyses, Devt. 30. Þad Bodord er eg bijd þier i Dag, þad er ecke huled fyrer þier, edur laangt i burtu,

tu, þad er ecke i Himnenum, svo þu seigia þurfer: Hver mun fara fyrer oss upp i Himneñ? Pau Ord wtleggur St. Paall, Rom. 10. þegar hañ hefur aadur talad um Leyndardoom Mañsins Riettlætingar fyrer Gude, Cap. 9. Þu skallt ecke seigia i Hiarta þijnu; Hver mun fara fyrer oss upp i Himeneñ? Þad er ad toga Christum ofañ wr Hædunum: Hvar fyrer? Þvi hañ var Einusiñe ofañ til vor komeñ, og færde oss þessa Himnesku Speke wr Skaute Fodursins, þvi þurfte eingeñ upp aptur ad fara i Himeneñ, til ad Rañsaka Guds Vilia um Mañsins Saaluhiaalp, þad er hid sama sem DRotteñ seiger hier Nicodemo. Eg sem ad vid þig tala i Lijkingu syndugs Hollds, ad Hegdan fundeñ sem Madur, og er ofañkomeñ af Himne af mijns Fodurs Skaute; Eg veit hvad eg seige, og vitna hvad eg sied hefe, eingeñ añar mun uppfara i Himneñ til ad Rañsaka Guds Vegu, nema eg sem nu er aa Himne, þoott eg hier vid þig tale, þvi byriar þier mijnum Ordum ad trwa, ef þu villt hoolpeñ verda. Þesse er Efalaust Meining Frelsarans, þvi eingeñ hefur um Alldur Gud sienañ, sa Eingietne Sonur Fodursins, sem er i hañs Skaute, hañ hefur oss þad opeñberad, seiger Joh. Cap. 1. Eñ Lijka Sem Moyses Upphoof Hoggormeñ aa Eydemorku, Svo Byriar Mañsins Syne Upp Ad Hefiast, seiger Frelsareñ. Einhver mætte ad-spyria; Hvad kiemur þesse Fyrermyndan hier vid; Eingeñ er betre, Christeñ Madur, i ollum Fiaarsioodum Ritningareñar, eingeñ sem betur hlijde uppaa þad Efne, sem hier var umtalad, þvi valde Frelsareñ hana til ad Sañfæra Nicodemum med, hver hañ visse ad var uppfrædur i Logmaalenu. Paulus seiger Hebr. 9. er hañ þijder gamla Testamentesens Foorner uppaa Christum, sialfur Gydingur fyrer odrum Gydingum: Hversu myklu framar mun þa Blooded Christi (seiger hañ) sem fyrer hiñ eilijfa Anda hefur Fornfært sialfañ sig Oflekkadañ Gude, hreinsa Samvitsku vora af daudlegum Verkum, til ad þioona Gude lifanda. Seiged mier; Hvar verda vorar Samvitskur fyrst hreinsadar? J Skijrneñe, þar fyrer kallar Petur hana Saattmaala goodrar Samvitsku; Fyrer hvad verda þær hreinsadar? Fyrer JEsu Blood, sem vitañlegt er af Postulans Ordum, er strax voru leseñ; Hvar gaf Frelsareñ þad wt? i Grasgardenum, i Þijng-Hwse Pilati, eñ allra hellst a Krossens Gaalga, þvi þar blædde sialfu Lijfenu til Oliifes, og Daude hañs var Fullkomnan vorrar Hreinsunar; Þvi sagde hañ under Andlaated; Þad er Fullkomnad. Hver Fyrermyndan gamla Testamentesens hlijder nu best uppa Krossfestingu Drottens? Eingeñ betur eñ þesse, nær Moyses epter Guds Bode Upphoof Eyrormeñ a Eydemorku, Moyses heingde Ormeñ uppa Tried, svo er og Jesus a Gaalgañ uppheingdur, uppa Tried bar hañ vorar Synder, og feste þar Handskriftena þa sem moote oss var, Col. 2. J þeim Orme var eckert Eytur, þott hañ være hinum odrum lijkur. Guds Sonur er ad allre Hegdan fundeñ sem Madur, þo aan Syndar; Hañ er fyrer oss synduga Orma Madkur og ecke Madur vordeñ, jafnvel þoott hañ være hreiñ og Heilagur, og fraaskileñ Syndurunum; Jaa, þoott hañ ecke visse af Synd, þa giorde Gud hañ ad Synd, svo vier yrdum Guds Riettlæte i honum, 2. Cor. 5. Aller þeir ed litu þañ Eyrorm, sem Moyses uppfeste, þeir urdu læknader af

af Eytur Orma Bitenu. Pu miñ Herra JEsu ert a Tried upphafeñ, svo ad aller þeir ed þig lijta Trwareñar Augum, þeir verde læknader af þvi Bite, er hiñ slæge Hoggormur Diøfulleñ beit vora fyrstu Moodur med, og oss siidañ Daglega bijtur; Pvi seiger hier og i Gudspiallenu: Svo Byriar Mañsens Syne Upp ad Hefiast, svo ad aller þeir sem a hañ trwa Fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf. Pu hefur sagt, Drotteñ miñ; Ef eg upphafeñ verd, mun eg draga alla til mijn, Joh. 12. Pad er ecke Gydinga einasta helldur alla þa af øllum Pioodum, sem þiñ Fader hefur þier giefed. Svo drag oss þa, Herra JEsu, sem bwum i þessu Fatæka Lande, hveria þu eins vel leyst hefur med þijnu dijrmæta Bloode og adrar Piooder; Drag oss sege eg under þiñ Kross, ef þier svo lijkar, jaa, uppa Krosseñ med þier, ef þad maa til þiñar Dijrdar gagna og vorrar Saaluhiaalpar. Pad er oss fyrer miñstu þijnum miñstu Besælingum; Vier vitum þu sagder vid Gydinga, þegar þier hafed Mañsens Son upphafed, þa munud þier þeckia ad Eg em hañ, Joh. 8. Pvi trwum vier ad þu ert, Drotteñ miñ, ad sigrudum Dauda, Diofle og Helvijte, yfer alla Himna hafeñ i þijna Dijrd, til ad bwa oss þar Vist i þijns Fodurs Hwse. Drag oss þaangad med þier, O! Herra JEsu, svo ad hvar sem þu ert, þar meige og þijner Pienarar vera; Pier med Fodur og Heiløgum Anda, sie Valld, Heidur, Dijrd og Kraptur, þu Haaleita Guddoomsins Preñing um Allder Allda, AMEN.

# Fyrsta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 16. Cap.

Pañ Tijma. JEsus sagde til Phariseaña: Par var eirn Rijkur Mañ, sem klæddest Perle og Purpura, og lifde hvørn Dag i Vellistingum Practuglega; Og þar var eirn Purfa-Madur Lazarus ad Nafne, hver ed wte laa fyrer hañs Dyrum, fullur Kauna, hañ gyrntest ad sedia sig af þeim Molum, sem fiellu af Borde hiñs Rijka. Pa komu Hundar og sleiktu hañs Saar. Eñ so skiede, ad hiñ Volade andadest, og vard boreñ af Einglunum i Fadm Abrahams; Eñ hiñ Rijke andadest lijka, og var greftradur. Eñ sem hañ var i Helvijte og Kvølunum, hoof hañ upp sijn Augu, leit Abraham aaleingdar, og Lazarum i Fadme hañs; Pvi kallade hañ og sagde: O! Fader Abraham Myskuna þu mier, og send Lazarum hijngad, ad hañ drepe hinu fremsta sijns Fijngurs i Vatn, og kiæle Twngu mijna, þvi eg kvelst i þessum Loga. Og Abraham sagde til hañs: Sonur, Hugleid þu, ad þu medtookst hid Gooda i Lijfe þijnu, og Lazarus lijka hid Vonda, þvi hlijtur hañ nu ad huggast, eñ þu ad kveliast. Frañ yfer allt þetta, er a millum vor og ydar, myked Diwp stadfest, so ad

þeir sem hiedan̄ vilia fara til ydar, gieta þad ei, og eige þeir helldur þadan̄ fra ydur, upp til vor komest. Og han̄ sagde þa: Eg bid þig Fader, ad þu sender han̄ i mijns Fodurs Hws, þviad eg hefe fim̄ Brædur, þad han̄ skijre þeim fra, so ad eige kome þeir i þen̄an̄ Kvala-Stad. Og Abraham sagde til han̄s: Þeir hafa Moysen og Spamen̄ena, heyre þeir þeim. En̄ han̄ sagde: Nei Fader Abraham, helldur ef nockur Fram̄liden̄a fære til þeirra, þa mundu þeir Ydran giora. En̄ han̄ svarade hønum: Ef ad þeir heyra ecke Moysi og Spamøn̄unum, þa munu þeir ecke helldur trwa, þo ad nockur Fram̄liden̄ upprijse.

## Exordium.

VIlie ydur Audur til, þa heinged ecke Hiartad þar vid, seiger David, Psalm. 61. Ecke fordæmer han̄ Auden̄ i siaalfum sier, helldur ofmikla Elsku a hønum. Rijkdoomuren̄ er goodur þeim er riett kan̄ ad brwka han̄. Audur er Abl þeirra Hluta sem giøra skal, seiger Cicero. Orlaatur Madur Felaus, han̄ er eins og eirn Kappe Vopnlaus. Eckian̄ sw er lagde ein̄ Pening i Guds Kystuna, hun lagde ad søn̄u meira en̄ aller hiner Rijku, þvi hun gaf af Faatækt sin̄e; En̄ hefdu þeir eins miked giefed af sin̄e Audlegd, epter þvi sem Tala ran̄ til, þa munde þad og af DRottne ecke sydur vel hafa þeiged vered. Være Rijkdoomuren̄ ecke Guds Blessan, þa munde han̄ ecke hafa heited hønum til Launa sijnum Elskendum, er vardveita han̄s Bodord, og ecke sæmt Astvine sijna þar med. Abraham, Isaac, Jacob, Joseph, Barzelai, hin Sunamiska, Joseph af Arimathia, og adrer miklu fleire voru Rijkis-Men̄ og þo Guds Viner kallader, eru þvi Audæfen̄ stoor Ast-Gis DRottens, þvi seiger Salomon, Prov. 10. Ad Blessan DRottens giøre Rijka, og Hørmungen̄ mune ei naalgast þa, þau eru Riettvijsum Man̄e til mikils Heidurs, þvi seiger han̄ en̄ þa aptur, Prov. 14. Audæfe hin̄s Vijsa eru han̄s Corona, med þeim kun̄um vier Løndum og Lijdum ad hiaalpa, med þeim faaum vier sett Børn vor og Naaunga til Menta og Man̄kosta, med þeim kun̄um vier ad biarga Naunganum i sin̄e Angist, med þeim gietum vier ablad oss Fie-Siooda a Himnum, ef vier stundum epter ad vera Rijker i goodum Verkum, 1. Tim. 6. svo þeir medtake oss i Eilijfar Tialldbwder, ef vier giørum Gott þar af i san̄re Trw, og i Guds Nafne, hvar fyrer ad sa ed Faatækum giefur, han̄ laanar DRottne, og hafa Men̄ alldrei betur vared Fe sijnu. Svo eru nu Audæfen̄ stoort Guds Laan og han̄s Elsku Merke, nær þau Riettfeingen̄ eru og riett brwkud, en̄ svo sem þau eru hinum Froomu og Riettvijsu til mikils Heidurs, svo eru þau hinum Ogudlega og Agiarna nærsta Oþørf og Skadsamleg, þvi seiger DRotten̄, ad Naanglætesins Fie-Siooder sien Elldur i Hwsenu, Jaa, þoott ein̄ sie vel komen̄ ad Aud sijnum, en̄ brwkar han̄ þo Gude til Stygdar, til Ohoofs og Metnadar, til ad Underþryckia hin̄ Vesæla og Lijtelmagnan̄, og helldur hønum til Okurs, og in̄e fyrer Verka-Man̄enum, og hinum Faatæka, sem Gud hefur skipad ad ala, þa er han̄ Bølvanen̄e Undervorpen̄, þess gieter hin̄ Vijse med þessum Ordum: Sa ed prettar hina Riettlaatu a vondum Veige, han̄ mun i sin̄e Gløtun hrapa, og hiner Einfølldu munu eignast han̄s Gootz. Jaa, svoddan̄ Audlegd er hveriu Volæde argare, svo þad er Kongdoomur ad fara a Vonar-Vol alla Æfe sijna hiaa svoddan̄ Rijkdoome. I þessa Dags Evangelio verda oss fyrer Siooner setter Tveir Men̄, Ein̄ Rijkur, An̄ar Faatækur. Vier vilium i Guds Nafne skoda. 1. Dæme hin̄s Rijka, og svo han̄s Afdrif. 2. Hin̄s Faatæka, og svo han̄s Endalok.

Þu Goode Gud, sem alleina Rijkur ert, Hiaalpa oss med Rijkdoome Naadar þin̄ar, ad giøra þetta Verk i þijnum Otta, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingen̄.

Þar

ÞAR Var Eiñ Rijkur Madur, seiger Texteñ. Rijkdoomureñ kañ eingum af sialfum sier ad baña iñ i Himnarijke, svo sem i Jñgangenum sagt er, þvi siaum vier og i Gudspiallenu hiñ fatæka Lazarum i Skaute hins rijka Abrahams. Tokum Vanbrwkunena i burt, og mun Audureñ ecke skada, giorunst rijker i goodum Verkum, og mun þad nockud til Himnarijkis gagna, eñ þad vantade þeña rijka Mañ. Hañ klæddest Pelle og Purpura, seiger Texteñ. Pell var eiñ Vefnadur Forkuñar væñ og Gullvægur hallden, hañ er nu ecke ad faa i Heimenum; Sama er um Purpurañ ad seigia, þad var eiñ Litur forkostulegur, tilbweñ wr Skiel-Fiskiar Bloode, og er nu ecke ad fiña i Verolldeñe. Hverttveggia þetta var Konunga Bwnadur og añara Hofdingia, og leifdest ei Mwgamoñum ad bera, Pañeg var Aaronis Bwnadur, og Hofud-Presta Gydinga, Exod.28. Svo var Joseph klæddur, Gen.41. Þetta Skart bar Daniel, Dan. 5. Pañeg var Mardochæus bweñ, Est.8. Eñ um þeña rijka Mañ stendur ecke i Gudspiallenu, ad hañ hafe nockur þess Hattar Madur vered, þad er og ecke lijklegt, þvi Frelsareñ munde ei hafa til þess teked, ad hañ hefde svo vered i Skart bweñ, hefde hañ vered Hofdinge nockur, þeim er soomt hefde ad bera svo dijrmæt Klæde, og var i þessu ecke lijtill Ofmetnadur, satt er þad, ad Klædeñ giora eingañ vondañ nie goodañ af sialfum sier, eñ Fatnadureñ er Mañenum giefeñ til ad skijla Blygdan siñe, og vardveita Lijkamañ fraa Kulldanum, þvi mætte þad sijnast, ad sa sem kieppest vid ad bwa sig Tiguligar helldur eñ Virdingu hañs soomer, ad hañ giore þad añadhvert fyrer Lauslætes edur Metnadar Saker, og er hverttveggia stoor Synd i Guds Auglite, fyrer þvi mun þad ei Syndlaust vera, er Meñ brwka til þess ad ebla þessa Leste med, Mismunur i Klædnadenum aa ad vera, og var fordum til ad adgreina Virdingar Maña, og svo er Raad fyrer þessu giort i Lands-Logum vorum, hvad sem þar fram yfer er, þad er Osidseme og Raanglæte, þvi þad er ad taka siñ Riett fraa þeim sem Ædre eru ad svo myklu Leite sem þessum Hiegooma nemur. Eg vil seigia, hvert sem ad eiñ er Kostum bweñ edur ei, þa syndgar hañ, ef hañ klæder sig betur eñ hañs Stande soomer, sie hañ vel ad sier um marga Hlute framar odrum, þa spiller hañ miog svo Agiæte sijnu, ef hañ meinar þad verde agiætara fyrer Bwningsens Skulld, þvi Salomon i allre siñe Dijrd var ecke svo skrijddur sem eitt af Akursens Liliu-Grosum, og vier vitum þo, ad Gud hefur meira virdt hiñ aumasta og heimskasta Vesæling aa medal vor eñ þau; Eñ vier eigum ad bera somu Virdingu fyrer Hlutunum og hañ sem þa skapad hefur; Eñ sie nockur ei nema Almeñelega Kostum bweñ, og vill þo leita sier Fordilldar af Klædnadenum, þa er mykel Faavitska i þvi. Eg veit ad eiñ Asne verdur þo alldrei Hestur, þo Meñ setie Gull-Sodul aa hañ, og so verdur eiñ Daare alldrei vijs, hverneg sem hañ maalar sig utañ. Þesse Osidur fer miog so i Voxt i Lande voru smaamsamañ nu nockur Aar. Ambatteñ vill eins klædd vera og Hwss-Moodureñ, Þienareñ eins og Herrañ, Sonureñ betur eñ hañs gamle Fader. Formeguneñ, Mañskapureñ og Vijsdoomureñ eru i burtu wr Landenu, Eñ Bwningur og Klæda-Snid eblest Daglega; Eiñ Skoola-Dreingur kostar ollu til þess ad faa væñañ Kiool, eñ ad kaupa sier

eina Book, hvar af hañ nockud gott meige læra, þar hyrder hañ ecke uñ. Og um alla Hlute fram, þa skulu vor Klæde skoreñ vera epter framande Piooda Snide, giætande lijted ad þvi sem DRotteñ seiger ske skule a sijnum Slætrunar-Deige, ad hañ vilie straffa alla þa sem bwast Utlendskum Bwnade, Zoph. 1. Hvad vill hier af verda um sijder? Eg ætla DRotteñ þurfe ecke ad leggia Hondena a oss, Vær erum vorer eigeñ Bødlar i slijku, svo ad lijkast er, ef þessu skal leinge fram fara, ad þad mune gaanga oss eins og þad gieck Judum, er þeir tooku upp Sidu Grickia, ad þeir urdu þeim ad Braud, hverra Sidum þeir breyttu epter, 2. Macc. 4.

Framveiges stendur hier um þeña Munadar-Kropp, ad hañ hafe Eted Daglega Skijnande Kræser. Epter Textans Ordum er þad so, hañ hiellt sig Forkostulega Gladværañ Daglega. Þetta maa skilia, ad hafe vered i Mat og Dryck og ødru Ohoofe, sem heyrer til Lijkamlegs Munadar, Nu er þad hier ad seigia, ad DRotteñ hefur ecke bañad ad hafa Iñdæle af sijnum Skiepnum i riettañ Tijma og med Hoofe og Sidseme. Siaalfur var Frelsareñ ad Heimbode Maña a sijnum Hiervistar-Døgum i Cana i Galilæa, hiaa Simone Phariseara, hiaa Zachæo, og optar, hvar fyrer, þott hañ være hid fegursta Sparneytneñar og Hoofsemeñar Dæme, sem nockurn Tijma hefur skined i Verolldeñe, þa var hañ þo af Illgiornum Phariseis Ofneytslu-Madur og Vijnsvelgur kalladur. Jaa, hañ liet sitt blessada Hofud smyria med dijrmætu Salve, og þott hañ være allra Hluta DRotteñ, bæde a Himne og Jordu, þa munde hañ þad ecke giort hafa, nema slijkt være Leyfelegt nær þad er i Hoofe, og med goodre Skickan brwkad. DRotteñ baud siaalfur i sijnu Logmaale um Laufskaala Haatijdena, Levit. 23. Þier skulud vera glader fyrer DRottne Gude ydar i Sio Daga, hvert Logmaal ad Moyses Itrekar, Devt. 12. Þier skulud eta fyrer Drottne Gude ydar og glader vera, þier og ydar Hyske, af øllu þvi sem þier riettted ydar Hønd til, af hveriu DRotteñ Gud hefur blessad þig. Og framveiges i hinu Atianda Verse seiger hañ, ad þeir skule ecke eta iñañ siña Porta a Laufskaala Haatijdeñe sijnar Korn-Tijunder, eda Tijunder af Musteñe edur Oliuñe. Eñ hañ seiger: Þier skulud eta þad þar i þeim Stad, sem DRotteñ Gud wtvelur, þu og þiñ Sonur og þijn Dotter, Þræll þiñ og Ambaatt þijn, og Leviteñ, sem er iñañ þiña Porta, svo skallt þu gledia þig fyrer DRottne Gude þijnum, hvert Logmaal Nehemias og Hezras Kieñemadur aptur iñleiddu epter Herleidinguna, Nehem. 8. er þeir budu Foolkenu a Laufskaala Haatijdeñe, Eted hid feita og drecked sætañ Dryck, og sended þeim eiñ Part, sem eckert tilbwed hafa; Af þessu er audsært, ad hiñ goode Gud hefur ei bañad ad gledia sig i Hoofe, þo svo, ad Meñ dyrke hañ med Virdingu, og gledie sig med Otta, sem David bijdur, Ps. 2. Vijn og Vister eru fyrer Mañeñ skapadar, ecke forgiefens, helldur honum til Unadsemdar og skickañlegrar Brwkunar, eñ Vanbrwkuneñ kiemur af Holldenu og af Fiandanum. Vid þetta Guds Epterlæte a nu Metnadur og Ohoof ens rijka Sælgiætings eckert skylldt. Hier stendur, ad hañ hafe hallded sig forkostulega Gladværañ Daglega, þad er ad skilia, hañ var allur sockeñ i Munad Veralldar þessarar, hyrdte

hyrdte eckert um̃ Gud, eckert um̃ sijnar Synder, eckert um̃ hid komanda Lijf edur sin̄ Dauda, helldur hafde han̄ Magan̄ fyrer sin̄ Gud, svo sem Postulen̄ ad Orde kiemst, Philipp. 3. Ja, riett eins og Esajas seiger i 56. Cap. Komum, latum oss fylla oss af sterku Vijne, og Morgun-Daguren̄ skal þessum lijkur verda, og en̄ þa kostulegre, og vantar oss ecke þa i Lande voru, er hid sama giora mundu, hefdu þeir Raad eins og þesse. Eckert hyrda þeir um̃ sitt Embætte, eckert um̃ sitt Framferde, eckert um̃ Landsins Gagn, eckert um̃ sijna Saaluhiaalp, eckert um̃ sijna Burtfør af Heimenum, svo sem hefdu þeir Feste-Bref af Andskotanum, ad þetta skule Æfenlega vara, ja, um̃ eingan̄ Hlut nema um̃ Mun̄ og Maga, og þad sem þeir kun̄e ad hafa til ad þioona þeim med, jafnvel þott þad skule verda hripsad wt af Mun̄e Naungans med Ofbellde og Raangindum. Nu voru þesser Lester hin̄s Rijka Sælkiera, svo vonder og fordæman̄leger, sem alla reidu er nockud um̃talad, en̄ þad iook ofmiklu a, ad hin̄ Vesæle Lazarus, fullur Saara og Kauna, la Hungradur fyrer han̄s Dyrum, og er Lijklegt, ad han̄ hafe nærsta Klædfaar vered, þvi sa sem eckert hafde til ad sedia med sin̄ hungrada Maga, han̄ mun ecke hafa miked haft til ad klæda hin̄ saara lijkama. O! Hvilijk skielfeleg Hardydge var þetta? Eckert þurfte þesse Gudlause Kroppur ad missa af sijnu Borde, til ad sedia þen̄a Vesæling med, þvi han̄ gyrnteist ad sediast af Molum þeim, er fiellu þar af; Eckert af sijnu Pelle og Purpura, þott han̄ hefde kastad ein̄e Flijk a han̄ (sem han̄s Prælar villdu ecke bera) til ad hylia sijn Kaun med, en̄ þvi var ei svo vared, Hundarner voru Myskunsamare helldur en̄ han̄, sem Gud hafde giefed Vit og Skin, og þar ad auke Fullsælu Fiar, þvi þeir komu og sleiktu Kaun han̄s, og mætte lijklega seigast, ad þeir mundu fyrr in̄gaanga i þa himnesku Jerusalem, Apoc. 22. hefdu þeir þar til skapader vered, helldur en̄ þetta Villu-Dijr.

O! Gud giæfe, ad þeir sem han̄ hefur blessad med Audlegd Veralldar þessarar, þeir villdu þo, seige eg, einhvern Tijma hugleida, hvad myked þeir eru Guds Voludum Limum skylldugir. Seig mier, þu sem vellter þier i Maurunum, og varla veist hvad þu skallt af þeim giora: Þegar þier var kastad in̄ i Heimen̄ under eins og Fatækis Barnenu, Hvad hafder þu til meira un̄ed af Gude helldur en̄ þad? Vorud þid ecke bader eins i Synden̄e gietner? Varst þu nockud meira med þier in̄ i Verollden helldur en̄ han̄? Edur muntu meira i burtu bera? Hvar fyrer var Gud þa skylldugur til, ad giora þig rijkan̄, en̄ han̄ fatækan̄? Ecke til þess, ad þu skuler kappala þin̄ syndugan̄ Buk eins og þesse Daare; Ecke til ad bua þig i Skart eins og han̄; Ecke til þess ad upphefia þitt Hiarta edur festa þad vid Auden̄, en̄ gleima þijnum Broodur sem ad Naudstaddur er, helldur til ad dyrka sig þar med, og leggia svo miked af vid han̄ sem krefur, þvi han̄ er Husbonden̄, en̄ han̄ krefur svo mikels, sem hinum Volada ma verda hoolped med, og þu kant vel ad missa, og þad jafnan̄ nær þu sier edur heyrer Ein̄ Naudstaddan̄, og nær þu þad sier edur heyrer, þa vit, ad þar er komen̄ ein̄ Skulldamadur fra Gude til ad beidast þess er han̄ laanad hefur, og þu hefur Ofmyked, en̄ han̄ ma vel biargast vid. Þegar þu krefur Skulldar þin̄ar hia Aumingia nockrum, og

han̄

hañ hefur þad ecke til sem hañ skal giallda, edur hañ maa þad ei missa, aan sijns stoors Baga, þa krefur hañ þig under eins i Guds Umbode þeirrar Skulldar, er þu aatt hon- um ad lwka, eñ hañ hefur Vesælingnum giefed; Laater þu hana ecke til, þa verdur þu Skullda-Priootur Guds, Jaa, Pioofur i hañs Auglite, þar þu stelur wr sialfs þijns Hende, og hiñ straange Hwsboonde mun krefia þig Avaxtar Fiaar sijns i Tollbwde eñe hiaa þeim Rijka Mañe, nær þu uppvaknar i Helvijte og Kvølunum eins og hañ, nema þu brwker Raad Danielis, er hañ gaf Nebuchadnezar Konunge, Dan. 4. og afplaaner Raanglæte þitt med Ølmusugiørdum vid Faatæka; Heyr þvi Salomonis Ord, er hañ seiger, Prov. 3. Gleym ecke ad giora þeim gott sem byriar, nær þijn Hønd hefur Efne þar aa; Seig ecke til þijns Naunga, gack burt og kom aptur, aa Morgun vil eg giefa þier, og þu hefur þad þo, Og laat þier þad sagt vera, ad hiñ Volade hefur myklu meire Riett til þess, er þu eignar þier, helldur eñ sialfur þu til ad brwka Guds Laan til Ohoofs og Metnadar, hvert hañ margfalldlega bañad hefur. DRotteñ seger fyrer Muñ Hoseæ, um̃ Gydingaña Samkundu, Hos. 2. Hun veit ecke ad eg er þad sem gief heñe Korned og Mustena og Oliuna, og fæ heñe aanægianliga Silfred og Gulled, er hun giører Baal af; Petta aa miøg svo vel heima hiaa þeim, sem Gud hefur feinged i Hendur alls Nægter Fiaar, eñ þeir draga þad af hañs faaraadum Limum, i hverium hañ skipad hefur ad dyrka sig, eñ brwka þad til ad ala siñ Lauslaatañ Kropp, til Nidur-Dreps honum sem Raanginden lijdur, til ad hefna aa Ovinum sijnum. Pesser giora Baal wr þeim Hlutum sem gooder eru i sialfum sier, og setia hañ i Guds Kyrkiu, sem vera aatte Hiarta þeirra, þad er hina orgustu Svijvirdingu Foreydsluñar i þañ Stad sem ætte ad vera hiñ allra Helgaste. O! Gud betre vorar Tijder, Satan hefur Kaupmeñ sijna i Guds Kyrkiu medal vor, þad er i Mañaña Hiørtum, hveria hañ giørt hefur ad Ræningia Bæle, ei sijdur eñ Gydingar fordum Mustered; Eñ hvad selia þeir þa og kaupa? Peir selia hiñ Riettlaata fyrer Peninga, og hiñ Volada fyrer eina Skoo, þeir troda Hofud Faatækra i Saureñ, og um̃turna Vegum þeirra Hæglaatu, Amos. 2. Eñ um̃ sijder selia þeir sijnar eigeñ Saaler. Pess gietur Syrach i 10. Cap. med þessum Ordum: Eckert er Raanglaatara Fiegiørnum Mañe, seiger hañ, þvi hañ lætur fala Saalu sijna; Par fyrer seiger Frelsareñ, ad lijted gagne þad Mañenum, ad hañ eigneſt allañ Heimeñ, og lijde Topun aa Saalu siñe, hvar um̃ þesse Rijke Madur maa øllum þeim liooſt Dæme vera, er elska Kroppeñ meir eñ Saalena. Ecke stendur hier i Gudspiallenu, ad hañ hafe vered illa komeñ ad Aud sijnum. Pad var hañs Fordæmingar Sok, ad hañ brwkade hañ til Ohoofs, eñ gleymde hinum Naudstadda og Faaraada. Nu ef hañ fieck svo skielfelegañ Doom, hvad vilia þeir þaa seigia aa medal vor, sem ecke einasta stijnga wr sier Augun nær þeir siaa eiñ þurfamañ, edur añañ, sem viñur Bake brotnu fyrer þvi er þeir brwka til Munadar sier, helldur og ryna Guds volada Saude, og eta sitt Braud i þeirra Andlitis Sveita? Hvad munu þeir seigia vilia? Hvers munu þeir vænta sier nær þeir eiga ad skilia vid allt þad er þeir med Raangindum hafa samañdreged? DRotteñ seger vid Konungeñ af Tyro, Ezech. 28. Pu

seger;

seger; Eg em sterkur Gud, Eg by i einu Guddoomligu Herberge, eñ skom̃u sijdar verdur honum sagt: Muntu nockud seigia vid þiñ Veganda; Eg em sterkur Gud? Laangtum eru þeir miñe Maattar eñ Konungureñ af Tyro hiaa oss, er sig giøra nærre þvi ad Gudum, þegar þeir upphefia sig yfer Guds Ord og Konungsens Løg, þegar þeir fella hiñ Saklausa, eñ hefia Skaalkiñ, og þyker svo sem þad stande i sijnu Vallde ad raada fyrer hvers Mañs Giæfu og Ogiæfu, eñ þegar Daudeñ kiemur svo sem ein Volldug Hetia og kastar þeim i Bana Sængena, þegar Samvitskañ tekur til ad bijta, þegar Miñing Glæpaña tekur ad Ofbiooda þeim, þegar Satan sem hefur fleckad þa til allskonar Odaada, þegar hañ reider Svipuna til, og sijner þeim Helvijtis Loga, hvar hiñ rijke kvelst og kveliast mun um̃ Allder Allda, eñ Guds Reidar-Þruma slær af Himnum ofañ, mun þaa vesæl Mañeskia seigia; Eg em sterkur Gud? Heyred þetta; O! þier sem wtsiwged Hws Ekna og Fødurlausra, og leited DRotteñs aa medañ hañ er ad fiña. Hiner aagiørnu og Ofrijkismeñerner eru med tveñu Moote, sumer færa Foorner Nete sijnu, og breña Reykelse fyrer sijnum Veidarfærum, þvi ad fyrer þau er þeirra Hlutur feitur vordeñ, og þeirra Matur hiñ beste, svo sem Habacuk ad Orde kiemst i 1. Cap. Þetta eru þeir sem reikna þad til siñe goodre Forsioon (riettara ad seigia, Raangsleitne siñe og Underhyggiu) ad þeir eru rijker vordner, og feiter af añara Braude. Adrer eru þeir ed seigia, blessadur siert þu DRotteñ, þad eg em rijkur vordeñ, eñ drepa þo Slaatur-Saudena med Ofbellde, og eingeñ er saa sem ad fæde þaa edur brwke Medaumkun med þeim, eins og þesse same Spaamadur ad Orde kiemst. Þetta eru þeir sem af Gude og enu hærsta Vallde eru yfer adra setter, til þess ad þeim lijde vel, eñ giøra þo eckert þad sem Gud og Konungureñ boded hafa, helldur eta i krijngum sig eins og Ulfar og Byrner, og sijna þeim einga Myskun er under þeirra Vallde stynia, helldur kalla, ber hijngad, ber hijngad, og nær þeir hafa svo drucked Blood Vesælingaña, þacka þeir Gude svo sem fyrer Riettfeingeñ Søfn. Hverier af þessum verre sieu, er eige svo audvellt ad seigia, nema þad, ad Hræsneñ giører hina sijdare andstyggelegre i Guds Auglite, þvi af tveñu illu þa er skaarra ad eigna Hreckvijse siñe Klækena helldur eñ Gude. Hitt veit eg, ad hañ seiger um̃ þessa hverutveggiu, Hab. 2. Vei þeim er safnar þvi sem ecke er hañs (hvar skal þad lenda) og þeim ed samañdraga hiñ þietta Leyr. Vei þeim sem er giefeñ fyrer Raangfeingnum Abata fyrer Hws sitt, ad hañ bwe Hreidur sitt i Hædunum, ad hañ verde frelsadur af Vallde hiñs vonda, þu hefur eitt skamarlegt Raad teked fyrer þitt Hws, og upprætt margt Fooïk og hefur syndgad aa moote siaalfum þier, þvi Steiñeñ i Vegnum hroopar þad, og Kvistureñ i Trienu vitnar þar um̃: Eg veit þar er margur er seger, eg safna ecke til þess ad giøra eins og þesse rijke Madur, eg helld mig sparlega, eg er ecke Eydslusamur, þad er goott ef þu safnar rietteliga, og giører gott hinum Volada, eñ ef þu safnar einasta fyrer Erfingia þijna, og þad med riettu og raungu, þaa maa aalijka gyllda hvert ad Moab liggur aa Dreggium sijnum, edur og ad hañ fagnar i siñe Spyu, og verdur til Athlaaturs, Jer. 48. Þvi skyllda eg steypa mier til Helvijtis fyrer miñ Erfingia, i þeirre Von, ad hañ skule lifa vel epter

mig daudañ, og eg veit þo ecke hvert af þvi verdur edur ei, þvi kañske mijn Ogudleg Bw-sorg giøre hañ verre i þvi, ad hañ misbrwke þad til Ohoofs er eg med Raangindum saf-nade, og eg kyñe þar med ad leida hañ til Helvijtis med mier, þott þad verde ecke um sa-ma Veg og eg foor, og hverneg sem þvi er vared, þa plagar Guds Straff ad fylgia svoddañ Raangfeingnum Aud, þar eru Þusund Meler i hveriu Alnar-Virde sem ecke verda i burtu tekner, nema Erfingeñ giøre sier Vine af þessum Raanglætis Mamm-ona, og vil eg þa helldur giora þad sialfur medañ eg life, svo þeir medtake mig i eilijfar Tialldbwder, helldur eñ eiga þad under honum, sem þo gietur ecke leyst Saalu mijna wr Helvijte, med ollu þvi sem eg honum epterliet. Þad seigest um hiñ rijka Purpura Gyck, ad hañ hafe Pelle klæddur vered, þad verdur ecke svo Greinelega sagt aa vora Twngu, hvad þad Ord þijde, er i Textanum stendur; Eñ um vidlijkan Vefnad skrif-ar Plinius, ad hañ breñe ecke i Elldenum, þvi voru Lijk Konungaña sveipud þar i, aa hiñe gomlu Breñe-Olld, ad ei blandadest þeirra Aska med Vidar-Oskuñe. Meige eg skiemta um hiñ Oskiemtelegasta Hlut, þa villde eg seigia, ad þesse Daare hefde giort vijslega, hefde hañ teked nockud af þessum dijra Vefnade med sier til Helvijtis, hefde þad maatt hlijfa honum fyrer Loganum sem hañ kvaldest i; Eñ Einglarner voru fwsare til ad bera Lazari Saal i Abrahams Skaut, helldur eñ Dioflarner til ad færa hañs Pell og Purpura og allt añad Oflæte med honum. Lazarus skilde siñ Armood epter vid Dyr hiñs Rijka, eñ hiñ Rijke sijna Fe-Dingiu i sijnum kostulega Garde, og hrapade so Fwll og Felaus i þad Dijked sem rijkur af Ellde og Breñesteine, svo nunu og aller þe-ir giora er laata hañs Laatum i þessum Heime, eñ forsmaa hiñ Naudstadda og Oreigañ, og laata hañ jafnvel i Hwngre wt af deya, aa medañ þeir ala siñ giaalijfañ Kropp til ad verda Helvijtis Ellds-Matur og Breñe-Foorn Andskotans, og er svo þañeg wttalad um hiñ Rijka.

Nu epterfylger ad tala med faam Ordum um hiñ Volada Lazarum. Gudspialled miñest hañs aa þeña Haatt: Þar Var Eiñ Purfa-Madur, Ad Nafne Lazarus, Hv-er Ed Ute Laa Fyrer Hañs Dyrum, Fullur Kauna. Allt þad Volæde sem eiñe Mañ-eskiu kañ til ad falla, hefur aa þessum Mañe leiged: Hañ var faatækur, þad var myk-il Vesolld, þad er þad sem flester af oss veria sig hvad mest fyrer, og nockrer selia sijna Arfleyfd i Himnenum til þess, ad vera ecke faatæker i Heimenum, svoddañ eiñ Horm-ung þyker Orbyrgdeñ Maña aa medal, þvi seiger Salomon, Prov. 15. Aller Dag-ar hins Faatæka eru iller. Texteñ seiger: Ad honum hafe vered kastad nidur hiaa Dyrum hins Rijka, eins og odru Hræe, sem eingeñ hyrdte um, meir eñ þo daudum Hunde være wtkastad. Svo breyta Meñ vid Guds Mynd, þegar hun bijr i liootu Hwse, og virda Hwsboondañ epter Herbergenu. Þesse Forsmaan hefur og maatt auka myklu ofan aa Volæde þessa faaraada Mañs, og hefur þad geinged hier eins og Salomon seiger, Prov. 19. Brædur hins Faatæka hata hañ, og Vinerner vijkia i burt fraa honum; Eñ þad took yfer alla hañs Eymd, ad hañ var fullur Kauna, og svo Aumur, ad Hundar sleiktu hañs Saar. Mageñ hefur kañ skie vered Heilbrigdur, og þvi

þvi hefur hañ gyrnst ad sediast af Molum þeim, er duttu af Borde hiñs Rijka. Eñ aller adrer Lijkamans Limer svo plagader, ad hañ gat einga Biorg sier veitt, og hefur Magans Heilbrygde ecke añad giort, eñ ad abla honum þess meire Pijslar med Hwngrenu og Matar-Lysteñe, þar hañ fieck eckert ad sedia sig af. Sa sem heilbrygdur er, hañ gietur uñed sier Mat, þo hañ sie Fatækur. Forsmaan Veralldareñar, er ecke svo þwngt ad lijda, þeim er hægt ad forsmaa Heimeñ, sem Heimureñ forsmaaer, og er þad þa Kaup Kaups, sem Meñ plaga ad seigia. Þvi vottar og Paall uñ sig, Gal. 6. ad hañ sie Krossfestur Heimenum og Heimureñ sier, þad er, ad hver forsmaae añañ: Eñ þad er hverium Mootgange meira, þegar Gud tekur svo Heilsuna af nockrum, ad hañ gietur ecke bored edur raaded sialfum sier, þad geingur nærst þvi, ad vanta Hugsvolun Guds Anda, og fiña ei til heñar, nær Mañ laangar þar epter, þvi svoddañ er Helvijtis Pijslum lijkast. Þessu gat Satan nærre Fordum Daga, er hañ sagde vid Gud uñ Job, Job. 2. Snert þu hañs Bein og hañs Kiot, og sia hvert hañ bolvar þier ecke under Augun. Skule Meñ og satt seigia, þa fieckst þesse Guds Madur ecke svo miog þar uñ, þott hañ miste Fiaar-Hlute sijna, Syne og Dætur sijnar, edur þott þeir af Saba og Chaldæa veittu honum Yfergang; Eñ þegar Gud leid Andskotanum ad slaa hañ med hinum verstu Kaunum, fraa Hvirfle og allt til Ilia, þa took þesse DRottens Vinur, helldur eñ ecke, ad laata sier Hug fallast. Svo var nu Lazarus aumur, sem sagt er, og oll hin þijngstu Mootlæte Veralldareñar laau a honum, Orbyrgd, Klædleyse, Hwngur, Forsmaan, og Lijkamans Vanheilsa. Eñ þu syndugur Madur, sem ert heill og hraustur, hefur noog til ad klæda og fæda Lijkamañ med, og ert af eingum Ovirdtur i neinu, munt þu ecke hafa Orsok til ad þacka hinum lifanda Gude? Þegar þu aalijtur þetta Vesæla Hræ, nidurkastad fyrer Dyrum hins Rijka, og eckert Auga mysekunade honum, ad hañ svo vel giorer til þijn, ad þig vantar eckert af þvi, sem hañ allt vantade; Munt þu nockud vera heilagre helldur eñ hañ? Eg veit ecke hvilijkur hañ vered hefur, þad sie eg, ad hañ hefur Guds Vinur vered, añars hefde ecke Saal hañs vered boreñ af Einglum i Abrahams Skaut, eñ hitt veit eg, ad ecke ert þu heilagre eñ Job, hver ed hefur Guds Vitne uñ þad, ad hañ ecke hefde siñ Lijka i Landenu, Job. 2. Hveriu mun þa vera ad þacka, ad þu ert ecke eins plaagadur sem Job og Lazarus, nema Gude Orañsakañlegre Giæsku og myklu Þoleñmæde, sem med Rijkdoome siñar Laangtundar, dregur þig til Ydranar? Seig þvi ecke eins og Ephraim, Eg em rijkur vordeñ, allt mitt Erfide næger mier ecke, þeir ed syndga, bera Straff Syndareñar, Hos. 12. Myklu helldur nær þu stijgur a þijn hraustu Bein, þa hugsa til þess, ad Gud hefur ecke Velþocknan a þeirra Styrkleika, helldur a þeim, sem hañ Ottast. Nær þu tekur Fe þitt, edur skodar þiñ dijra Klædnad, þa Hugleid, ad Lazarus a af þvi svo myked, sem hañ vid þarf, og ef þu hefur Tveñ Klæde, þa heyra hinum Nakta oñur til; Ef þu villt vera Johañis Baptistæ Læresveiñ, Luc. 3. Þegar þu hefur hid mesta Gaman af Skilningar-Vitunum, sem Gud hefur giefed þier til Naudsynlegrar Brwkunar, þegar Tungañ, Augun, Eyrun og adrer þijner Limer, eru þier til hiñar mestu Skiemtunar, þa

læt jafnvel þessa Guds Skapnadar Misbrwkan miña þig aa Lazarum, þar hañ ligg-
ur nidurkastadur eins og añad Daudible fyrer Dyrum hins Rijka, og hefur einga
Værd fyrer Saarum og Verkium. Þecktu hañ medañ hañ er hiaa þier, ad ecke þurfer
þu ad kañast vid hañ fyrst, nær þu uppvaknar i Helvijte og Kvolunum, sem þu ecke þeck-
ia villder aa medañ þu liekst þier ad allre Full-Sælu i Heimenum, Jaa, medañ þu hfe-
ur hina mestu Skiemtan af Syndsamlegre Glede þessarar Veralldar, þa læt þier i
Hug koma, hversu ad hun sie eckert hiaa Sælu Lazari, þar hañ badar nu i Abrahams-
Skaute, þvi hañ sem best þecker þa eilijfu Dijrdar-Vist, hver og hefur keypt oss hana
til Handa med sijnu dijra Bloode, hañ bijdur oss, ad vier allañ þeña Hiegooma skulum
affnijda, svo vier kuñum ad eignast hana: Jaa, hugsa til þess, ad Sællijfe þessa Heims
maa ei leinge vara, og þoott þu yrder allra Kalla ellstur, þa skal þad þrioota, og þad er
ecke laangvint, sem einhvern Tijma Enda tekur, seiger Augustinus, eñ Lazari Giesta-
bod tekur eingañ Enda. Vijslega hefur hiñ stoore Konungur þvi tilskickad, svo sem
ollu odru i sijnu Rijke, ad hañ liet Pijsler Fordæmdra verda eilijfar, þvi være þar End-
urlausn wr Helvijte, þa Efast eg ecke uñ, ad margur Gudlaus Daare munde viña þad
til Stundlegs Munadar, ad fremia alla þa Ohæfu, er honum i Hug kiemur, þoott ha-
ñs Hreinsunar Elldur ætte ad vara uñ allañ Heimis Alldur, og svo sem hañ hefur i þvi
Vijslega giort, svo hefur hañ aa hina Sijduna Vægdarsamlega breytt vid þa, sem ha-
ñs Ok bera hier aa Jorduñe, og halldner eru Afrak Veralldar, og svo sem nockurskon-
ar Hreinsunar-Foorn, epter Pauls Ordum, þar hañ ecke einasta lofad hefur, ad þur-
ka oll Taareñ af þeirra Augum, og ad Daudeñ skule ecke framar vera til, og ecke Sorg-
eñ og ecke Hrooped, og Mædañ skule ecke vera framar, þviad þad Um̃lidna sie i burtu,
so sem Johañes ad Orde kiemst, i hañs Openberununm, i 21. Cap. helldur þar ad auke
skule þesse Arfur ecke skiemast kuña, ecke saurgast og ecke rotna, svo sem Von er aa, þvi
Christi Rijke mun eingañ Enda taka, Luc. 1. Eñ vier munum med Christo lifa og rijk-
ia, og med DRottne aavallt vera, svo sem Guds Ande hefur oss heited fyrer St.
Pauls Muñ, 1. Tess. 4. Þvi hefdum vier ecke þesse Guds Fyrerheit, þa mundu þeir
braadlega yfergiefa sig, sem eru Guds Born, eñ Hiaa-Born Veralldareñar. Ta-
ked ydur þad til Huggunar, DRotteñs Viner, sem erud Stallbrædur Lazari, þier
erud faatæker eins og hañ, vardar miked uñ þad, nær þier erud i Trwñe rijker? Hvad
gyllder ydur Audlegd Veralldareñar, nær þier hafed hañ eignast, sem Gud hefur gief-
ed oll Endemork Veralldareñar til Arfleifdar? Er eg þier ecke betre eñ tiju Syner? sag-
de Elkana vid Konu sijna, Moodur Samuelis: Þegar þier hafed Christum i ydar
Hiortum gieted, mun ydur þa nockud vanta? Mun hañ ei verda ydur betre eñ oll Rij-
ke Veralldareñar og þeirra Dijrd? Lazarus edur Eleazar, sem er hid sama Nafn,
þad merker hañ, sem Gud er til Adstodar. Barn mitt, ef Gud er med þier, hver kañ
þaa ad vera aa moote þier? Mun nockud Jaarned brioota þad Staaled af Nordrenu,
seiger DRotteñ vid Jeremjam, þegar hañ heiter honum Lide sijnu aa moote Jerusal-
ems Ossa, Jer. 15. so vil eg seigia med David, þegar Gud er med þier, hvad vill þier

Madur-

Madureñ giora? Þeir vega aller miña eñ eckert, þeir kasta þier wt af Dyrunum, þeir vilia ecke uña þier Vidtals, hvad þa? Munu þeir kuña ad baña þier ad tala vid Kong Himnaña i Bænum þijnum? Munu þeir kasta þier wt af Dyrum Himnarijkis? A medañ þeir ecke þetta gieta, Barned gott, þa ætla eg þu stander Jafnriettur upp i Guds Augum, þott þu ligger flatur fyrer Dyrum hins Rijka. Hvad er nu framar? Þu ert forsmaadur, lijdur Oriett, eingeñ vill kañast vid þig, þad er ecke nijtt i Heimenum. Salomon sem ecke visse af mikille Ovirdingu ad seigia, hañ giorer Raad fyrer þvi, svo sem hier ad framañ er fyrer skomu sagt. Seg mier, af hveriu verdur þu Ovirdtur? af vondum Moñum, þad er ecke þungt ad vera hæddur af þeim sem jafnvel ad Gude hæda, og under eins þeir forsmaa þig, þaa forsmaa þeir Skapara þiñ og þiñ Endurlausnara, hvers Ok þu ber: Þu verdur af heimskum Moñum Ovirdtur, þvi eingeñ er Faavitska meire eñ sw, ad forsmaa hañ sem Gud hefur virdt med Teikne sijns Sonar, þetta sijnest mier liett ad bera, þvi eg mun ei faast miked þar uñ, þott eiñ Skiptingur hlæe ad mier: Þu verdur af svo mørgum Ovirdtur, eg jaata þad, þviad fleire eru Vonder eñ Gooder, Heimsker helldur eñ Vitrer, eñ þo ecke af øllum, nockrer eru þeir sem giæta Guds og sijns Overdugleika, vitande ad, þeir hafa hid sama verdskulldad, og eins þeirra Doomur aa ad gyllda meira hiaa þier, helldur eñ alls hins skynlausa Mwga, þar eru gooder Meñ i Verølldeñe, er sama hafa til Bruñs ad bera og þu, og gietur þu þa huggad þig med Postulans Ordum, ad þijner Brædur i Heimenum meiga lijda slijkt hid sama. Hversu laangt mun Rykte þessarar Ovirdingar wtberast? Varla leingra eñ uñ þad Land er þu lifer i; Ef Rykte hins stoora Alexandri, og hañs Skoolameistara Aristotelis ecke naade yfer uñ Fialled Caucasum, edur Flooted Gangem hvad lijtell Partur mun þad verda þaa af Heims-Bygdeñe, sem þijn Ovirding gietur floged uñ? Hversu faaer eru þeir ed til heñar vita hiaa hinum Oteliande Skara Heilagra Eingla og Utvaldra Maña, aa medal hverra þu munt Dijrdlegur skijna, ef þu lijdur þessa Stundar Mijnkun þoleñmoodlega. Eñ hvad leinge skal hwn nu vara? allt til Grafareñar, hversu miña er þad eñ eitt Augnablik, ef þad er samañbored vid Eilijfdena? Eg vil ei faa mier til Orda uñ svo margra heilagra Maña og Guds Pijslarvotta Dæme, sem hlootu ad Ovirdingu Veralldar þessarar, eñ þeirra Vegsemd og Heidur uppvaknade svo epter Daudañ, ad Hiaatrw faavijsra Maña hefur þaa nærre þvi ad Gudum giort, hvoria Verølldeñ ecke hiellt verduga til ad þurka sijna Skoo i Lijfenu, og var þo ecke þeirra verd, Hebr. 11. Svo hlæleg er nu Alldar þessarar Virding, edur Ovirding, edur seg mier, hver er nu meir lofadur i Heimenum, Lazarus edur hiñ rijke Maganns Þræll? Eg trwe flester hroose Lazaro meir, og jafnvel þeir sem hinum eru hvad lijkaster.

Nu kiem eg til þess sem flestum saarast þyker, sem er Heilsubresturеñ, hañ hefur margañ Kappa yferbugad, eñ þier sem Guds Hetiur erud, og strijded under Frelsarans Merkium, giæted þess, Børn DRottens, af hverium ydur er Siwkdoomureñ uppaalagdur, sem er af ydar Skapara, hañ hefur feinged Saalum vorum Lijkamena, svo sem

añad Herberge til ad bwa i, og aa hañ friaalst ad um̃breita þvi, og jafnvel alldeilis nidurbriota epter Villd siñe. Hvad villt þu kieppa vid soddañ Haatign? Og ecke myklu helldur þoleñmoodlega lijda hvad hellst hañ aaleggur, kañ skie þu hafer og siaalfur vered Orsøk i þiñe Vanheilsu med giaalijfum og Ovørum Lifnade, og seig mier þa, hvad hefur þu ad klaga? Mun þa ei Raadlegast ad þu ydrest Synda þiña, og lijder þad med Christeligu Um̃burdar-Lynde, er þu fyrer þeirra Skulld lijda maatt, og laater þañeg, jafnvel Syndena gagna þier til Saaluhiaalpar, eñ ef ødruvijse er, þa vit þo ad Gud leggur eckert aa neiñ fyrer Sakleyse. Siert þu þvi ecke Orsøk i þiñe Vanheilsu med Ovarligum Lifnade i Mat edur Dryck, edur añare Haattseme, er plagar ad kreinkia Heilsuna, þa hefur þu forþienad Siwkdoomeñ med ødrum Syndum, þvi ef ad jafnvel hin minsta Synd viñur til Helvijtis, vilie Gud hana tilreikna, þvi mun hun þa ecke viña til Lijkamligra Meinlæta, sem vara svo skam̃a Stund? Eñ Tilgaangur DRottens er allur añar aa Stundum, kañ skie Saal þijn sie vanheil, og hañ plaage Lijkamañ heñe til Heilsubootar, og þvi skyllda eg þa reidast Læknernum, þoott hañ skiere þad Saar upp sem fwed er? Heilsañ er alltijd good, eñ þo er hun dijrust þegar hana vantar, og þyker mest til heñar koma, nær hun er aptur feingeñ, þvi tekur Gud hana i burt aa Stundum, til ad vekia vor dofeñ og sofande Hiørtu til Packlætis og Lofgiørdar vid sig, og tijdt leggur hañ Krosseñ aa þa sem eru hvad Saklausaster, ødrum til Epterdæmis, ad sijna þeim hvad þeir forþienad hafe, og hvad mykla Orsøk þeir hafe til ad lofa Gud, sem þyrmer þeim sem meira hafa syndgad fyrer þvilijkum Orkumslum. Skam̃ast þijn ecke þar fyrer ad vera settur ødrum til Poleñmædeñar Epterdæmis med Job, og vert gladur af þvi ad lijkiast Christo, sem og hefur oss til Epterdæmes lided, 1. Pet. 2. Og fyrst þu skallt þad þo lijda, þa hugleid hvad myklu betra er ad lijda eins og Guds Barn og hreppa eilijfa Sælu og Fognud til Launa, helldur eñ ad brioota Oked i sundur med Moglan og Oþoleñmæde, og ecke einasta sleppa af Laununum, helldur ad hrapa wr hiñe Tijmañligu Eymd i þa Eilijfu, sem alldrei mun Enda taka. Eg vil ei hier tala um̃ þad sem Cicero skrifar, ad eingeñ Mootgaangur sie sa, ad Tijmaleingdeñ ecke line hañ, þvi vier høfum eina ædre Huggun, ad vor Lijkame er alldrei svo veikur, ad Guds Kraptur ecke sie i vorum Breiskleika maattugre, þvi hañ er Trwr, og freistar einkis yfer Megn fram̃; Og um̃ alla Hlute fram̃, þa hugga þig vid þa Sælu-Von og Dijrdar Auglijsingu Guds Barna, hverrar ecke verd eru þessa Heims Mootlæte, svo nær Verkerner stijnga þig, og þu stynur af Ofraun, þa hugsa hvad fagur ad sie Einglaña Saungur: Nær þu sier þiñ Lijkama afmyndadañ af Saarum og Kaunum, þa hugleid þad, ad hañ skal aa sijdañ verda Einglunum jafn, Jaa, samlijkur JEsu Christi Dijrdlegum Lijkama: Nær þier eingeñ Hlutur er til Skiemtunar i Heimenum, þa laat þier i Hug koma, hvad fagur ad sie Abrahams Fadmur, Jaa, hin himneska Jerusalem, hverrar Sool og Tungl ad Gud er, og hañs Dijrd upplioomar hana; Paangad ad komast, og þar ad bwa um̃ eilijfar Allder, uñe oss hin Heilaga Guddoomsens Preñing, Fader, Sonur og H. Ande, Haa-Blessud um̃ Allder Allda, Amen.

# Añañ Suñudag epter Trinitatis.

Gudſpialled, Luc. 14. Cap.

J Þañ Tijma. JEſus ſagde til eins af Phariſæunum, þeſſa Epterlijking. Nockur Madur var ſa, ſem giørde mikla Kvølld-Maaltijd, og kallade marga þar til, og ſende wt ſiñ Þioon uñ Kvølldmaals Tijmañ, ad hañ ſegde þeim ſem bodner voru, Komed, þviad nu eru aller Hluter til Reidu. Og þeir tooku aller til i einu Hlioode ad afſaka ſig. Hiñ fyrſte ſagde til hañs: Akur keypta eg, og hlijt eg ad fara wt ad ſkoda hañ, eg bid þig, afſaka mig. Og hiñ añar ſagde: Fiñ Pør Akneita keypta eg, og fer nu wt ad reyna þau, eg bid þig, afſaka mig. Og eñ añar ſagde: Konu hefe eg mier feſta, og fyrer þvi maa eg ecke koma. Og ſa Þioonuſtumadur kom, kuñgiørde þetta ſijnum Herra. Þa vard Hwsbondeñ reidur, og ſagde til ſijns Þioonuſtu-Mañs: Far þu ſnarlega wt a Stræte og Gøtur Borgareñar, og leid Volada, Vanada, Blinda og Hallta hier iñ. Og Þiooneñ ſagde: HErra, þad er giørt hvad þu ſkipader, og þo er eñ meira Rwm. Og HErrañ ſagde til Þioonſins: Far þu wt a Þioodbrauter og Twngarda, og naudga þeim hier iñ ad ganga, ſo ad mitt Hws verde fullt. Þvi eg ſeige ydur þad, ad eingeñ þeirra Mañа ſem kallader voru, munu ſmacka mijna Kvølldmaaltijd.

## Exordium.

DNſókeñ til þeſſarar dijrmætu Epterlijkingar, ſem JEſus framſetur i þeſſu Heilaga Evangelio, var ſw, ad þegar hañ var ad Heimbode med einum af Phariſæaña Høfdingium Brauds ad neyta a Þvott-Deige, þa var þar eiñ af Bord-Gieſtunum, er ſagde: SÆll Er Sa Madur, Sem Etur BRaud i GUds Rijke: Og er i heñe ſierdeilis Tveñt athugande, ſem er, hvad meint ſie med þeſſare Kvølld-Maaltijd, og i añañ Maata, hvørier þeir ſieu, ſem bodner voru. Fyrer Maaltijdena kuña vel ad ſkiliaſt aller þeir Andleger Velgiørningar, ſem oſſ veitter eru i JEſu Chriſto, hvern Gud i Heimeñ ſende a Kvøllde Veralldar þeſſarar, og liet hønum ſlatra a Kroſſens Altare, og ſteikia i Brwna ſiñar Heiptar Reide, i hønum hefur hañ allre Verølldu alla Hlute tilreidt, ſem duga til þeirrar eilijfu Veitſlu i Himnenum, ſem fyrſt verdur þeigeñ hier i Naadeñe, eñ ſijdar mun fullkomnaſt i Dijrdeñe. Hañ er Lijfſins Braud, ſem af Himnum er ofañkomed, Joh. 6. Hañs Holld er ſañarleg Fæda, og hañs Blood er ſañarlegur Dryckur, hvert vier ecke einaſta medtøkum med Trwareñar Muñe Daglega, helldur og Lijkamans i Heiløgu Altareſins Sacramento: Eñ fyrer þvi, ad DRotteñ ſvarade þeſſum Gyding uppa ſitt Tal med þeſſare Epterlijkingu, þa er Lijklegt, ad hañ hier i Lage meint hafe þad Himneſka Bordhalld med Abraham, Iſaac og Jacob, og lender þo allt i ſama Stad, þvi eiñ og hiñ ſame er Chriſtur, hvern vier ſmøckum hier i Naadeñe, eñ munum hañs algiørlega þar i hañs Dijrdar Rijke niootande verda. Sømu eru Viſternar, þad ſkilur alleina, ad þær eru ecke med ſama Moote framreiddar. Hier ſiaum vier fyrer Speigel og i Raadgaatu, þar munum vier ſiaa Auglite til Auglitis, hier gaungum vier i Trwñe, 2. Cor. 5. Eñ þar munum vier ganga i

Sioon-

Siooneñe. Trweñ er Vera þeirra Hluta, sem vier vonum epter, hver ed sijner þad sem ecke sied verdur i þessu Lijfe, eñ i hinu ødru munum vier þeckia svo sem vier þeckter verdum, og svo sem Foorner Gamla Testamentesins voru ei nema Skugge epterkomande Giæda, svo er og Forsmeckur Himnarijkis i Hiørtum Guds Barna i þessum Heime, ecke nema ein Skuggsiaa þeirrar Eilijfu Dijrdar, sem vid oss mun opeñber verda. Fyrer þa mørgu, sem ad i Gudspiallenu seiger, ad kallader sieu, eiga aller Meñ ad skiliast, þvi svo seiger Endurlausnareñ, Matth. 20. Ad Mañsins Sonur sie til þess komeñ, ad wtgiefa Saalu sijna til Lausnar-Gialld fyrer marga, hvad Paulus svo wtleggur, 1. Tim. 2. Ad Christur hafe giefed sig til Endurlausnar fyrer alla, þo er Lijkast, ad hid fyrsta Bod sie þad sem kom til Gydingaña, sem voru Rijkesins Syner, jaa, kañ skie til þeirra Høfdingia Pharisæaña og Skrift-Lærdra, þvi DRotteñ hefur aan Efa bendt þeim hier med, er til Bordsins saatu, og þad er auglioost, ad Stoor-Meñe hefur þar vered samañkomed, þvi añars munde hañ ecke hafa talad fyrer þeim skømu aadur i sama Siñ, ad nær þeir giørdu Giestabod, skylldu þeir kalla Faatæka, Veika, Hallta og Blinda, Luc. 14. Eñ hina Sijdare meina eg ad vera Faavijsañ Almwga Gydinga, sem raafudu a Strætum og Gøtum Borgareñar, hveria sialfer Høfdingiarner kølludu Bølvadañ Lijd, sem ecke visse af Løgmaalenu, Joh. 7. Eñ hid Sijdarsta kalla eg ad heyre oss til Børnum Heidingiaña, er saatu a Þioodbrautum og Twngørdum, Fiarlæger Israels Borgar-Riette, og aan Guds i Heimenum, svo sem Paulus talar: Ad þessu svo fyrermæltu, vil eg giefa mig til ad Hugleida Textañ nockud giør, og af hønum Tveñt yfervega, sem er. 1. Hvad oss allra mest hindre fraa ad þiggia þetta Heimbod. 2. Hvad oss eige mest ad leida til ad þiggia þad.

Stijr þu Maale mijnu, DRotteñ miñ, og Hiørtum Barna þiña, til Lofs og Dijrdar þier, eñ oss til Saalar Nota, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

HJaa Matth. i 13. Cap. Upptelur DRotteñ sierdeilis Þrent sem bæge Mañenum fraa ad heyra Guds Ord med Avexte. Þad er Sorg Veralldareñar, Audæfe, og Gyrnder heñar, og þetta Þrent seiger sa Læresveirn sem hañ elskade, ad Heimureñ sie fullur af, sem er Drambsamt Lijferne, Fijsn Augnaña, og Gyrnd Holldsens, 1. Joh. 2. Allt þetta er ad siaa hiaa þessum faavijsum Moñum, er ecke villdu þiggia Maaltijd þessa er i Gudspiallenu talar um̃. Hiñ Fyrste seiger: Bwgard Hef Eg Mier Keyptañ, Og Hlijt Eg Ad Fara Ut Ad Skoda Hañ. Þad kalla eg sama og Sorg Veralldareñar, sem Lausnareñ nefner hiaa Matthæum, eñ Johañes Drambsamt Lijferne, þvi til hvers kaupa Meñ stoora Garda edur byggia þa, nema ad þeir vilia sijnast ødrum meire, og auglijsa þar med, ad svo sem þeirra Hiarta er stærra eñ añara, svo skulu og þeirra Hybijle vera. Nebuchadnezar Konungur stærde sig af hiñe miklu Babylon, er hañ hafde byggia laated til Heidurs vid siñ Herradom, eñ þar fyrer vard hañ ad Villu-Dijre og aat Gras med þeim. Svo verda og aller þeir er stæra sig af Yferlæte Veralldar þessarar, þegar þeir vilia vera meire eñ Meñ, þaa verda þeir Hestum og Mwlum argare, og þeckia ecke Gud Himnaña, hveriu eingeñ er Faasiña meire.

Þegar Meñerner uppreistu Babel, til ad giora sier Nafn aa Jørduñe, svo sem þar ad kvedur, Gen. 11. þa voru þeir straffader af Gude, svo Eiñ braut þad er Añar bygde, þeir villdu byggia hañ upp til Himna, svo sem þar seiger, eñ Himnaña DRotteñ sloo þa med Raadleysu, svo þeir og þeirra Afkvæme skridu wt um̃ alla Verølldena, þvi mun þad ei Vegureñ vera til Himnarijkis, ad bwa sier fasta Boolfestu hier i Heime.

Þet-

Þetta seige eg ecke þess vegna, ad allur Metnadur sie þar i foolgeñ, ad eignast Gots og Garda, ei helldur, ad þad ecke Leyfelegt sie, nær Meñ eru vel ad þvi komner, helldur tekur Lausnareñ til þessa, svo sem ens hellsta, er Meñ plaga ad stæra sig af, jafnvel þeir ed ødrum þykiast Hugprwdare, þvi þeim þyker ecke til þess koma, ad stæra sig af Hiegoomanum, svo sem af fogrum Bwninge, af Hreyste Lijkamans, af Alite, af gøfugu Forelldre, þvi þad sie einum nærst, sem hañ sialfur er, eñ þeir ed miked Gotz og Garda eiga, þeir hafa optast Maña Forraad, og þyker i þvi Rijke nockud, eñ marger af þessum hiaa oss, eru svo Lynder, ad þeir vilia ad aller þeir, sem Lond þeirra byggia, skule vera svo sem þeirra Eignar Prælar, aan hverra þeir være þo ecke meira eñ eiñ af þeim, þvi þeir eru þad sem ala Dramb þeirra aa Sveita sijnum, og skylldu hiner missa þad, þaa mundu þeir snart brioota Odd af Oflæte sijnu, þvi fæster af þessum Veralldar Sonum hafa nockurn Tijma dreped Hende siñe i kallt Vatn, mundu þvi koma til ad bidia, þar þeir ei duga til ad grafa, hvar uppa Meñ hafa og nockur Dæme, ef vel er leitad, eñ hverneg sem þvi er nu vared, þaa er varla nockur Syndare fiær Himnarijke, eñ eiñ Dramblaatur. Mykelaatur Madur kañ ecke ad þeckia Synd sijna, þvi hañ þykest allt riett giora, og aa medañ Syndeñ er ecke þeckt, þaa er ecke Von aa Himnarijke, Drotteñ mootstendur Dramblaatum, Jac. 4. Eñ hverneg vill saa iñgaanga i Himnarijke, sem Gud fyrer Ovin hefur, hver alleina aa þess Valld, eñ eingeñ aña r. Hafe Andskoteñ vered rekeñ wt wr Himnenum vegna Drambsemeñar, þaa er Lijklegt, ad saa mune þar ecke iñkoma, sem honum vill i þessum skamarlega Glæp lijkur vera. Salomon seiger, Prov. 16. ad saa sem er stoor i Hiarta sijnu, sie Andstygd fyrer Gude, og þo hañ slaae Hond i Hond (þad er, þo hañ take aña ñ med sier, og alldrei svo marga) þaa mune hañ þo ecke Ohegndur verda, og til hvers skal þaa saa Pootteñ, sem ei giorer nema abla Mañenum Hegningar af Gude, fraa hverium Omøgulegt er ad flya. Nema þier verded eins og þetta Ung-Barn, þaa kuñed þier ecke iñ ad gaanga i Guds Rijke, seiger Frelsareñ, Matth. 18. Nu vitum vier ad Smaa-Børneñ eru ecke Dramblaat, eins leikur Kongs Sonureñ sier vid faatækis Barnid, sem vid siñ Lijka, ef hañ maa raada. O! hversu laangt er þaa eiñ Dramblaatur Asue fraa Himnarijke, þegar honum þyker eingeñ standa Jafnfætis sier, hafe hañ edur hañs Forfedur svælt nockud wt af odrum. Sæler eru Hoogværer, þvi þeir munu Landed erfa, seger Frelsareñ, Matth. 5. Ad vijsu er þad i fyrstu meint um Lijkamliga Farfelld, svo sem siaa maa af hinum 37. Davids Psalme, hvadañ Ordeñ tekeñ eru, þvi þeir sem hæglaater eru, og ecke aaleitner vid adra, þeir hafa optast sitt i Kyrdum, jafnvel þott misjafnt bere til um þad, nær Gud lijdur Fiandanum ad vada upp i Dramblæte Oflaatungaña, eñ verde þeir Arfe sijnum rænter hier, og lijda þad þo med Hoogværd, þaa eiga þeir hañ vijsañ aa Lande lifande Maña, sem alldrei mun skiemast, 1. Pet. 1. Sigre hiner til, ad þott þeir blaase sig upp, eins og Nadrañ, af þvi sem þeir hafa stoled fraa Aumingianum, hvert þeir munu naa til ad verda Samarfar Christi, sem var hoogvær og af Hiarta lijtelaatur, Matth. 11. Pad Port er þraungt sem til Lijfsens liggur, og Vegureñ er tæpur sem

þaangad leider, hverneg meiga þeir gaanga þar um̃, hverium ecke duger allt Landed til ad bwa i þott ei sieu þeir ad Lijkamans Haattum Fyrerferdar meire eñ adrer Meñ? eñ Hiartad er vaxed upp wr Skyunum, kiemst þo alldrei i Himnarijke, nema þad lijte Svip siñ i Mollduñe, aadur eñ þeir ad Molldu verda. Hier um̃ talar DRotteñ merkelega hiaa Esaj. Cap. 5. Vei þeim er samañdraga eitt Hws til añars, og leggia eiñ Akur vid añañ, þaangad til ad þar er ecke meira Rwm, svo ad þier bwed einsamler i Landenu, þad sama er fyrer Eyrum DRottens Zebaoth, seiger hañ.

Fim̃ Por Akneyta Keypta Eg, Og Fer Eg Nu Ut Ad Reyna Pau, Eg Bid Pig Afsaka Mig, seiger hiñ Añar: Med þessare Grein af Epterlijkinguñe vill DRotteñ teiknad hafa hina skadligu Bwsorg og Oleifelegu Aura-Elsku, og ber hañ sialfur liooſast Vitne um̃ þad, hvad mykeñ Farartaalma Audureñ giore þeim, er hafa fest Hiarta sitt vid hañ aa Reysuñe til Himnarijkis, er hañ sagde vid Læresveinana um̃ hiñ Rijka Yngis-Mañ, ad hægra være Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur eñ rijkum Mañe iñ i Himnarijke, Matth. 19. Og er þesse same Ynglingur Eitt lioost Dæme þar uppaa, hversu ad Fiegyrneñ og Elskañ til Jardneskra Muna, bañа Mañenum ad epterfylgia Christo iñ i Guds Rijke: Hañ villde frædast af DRottne hvad hañ giora skyllde, ad hañ mætte eignast eilijft Lijf: Frelsareñ neitade ecke þvi, ad hañ hefde Bodordeñ hallded allt i fraa Barnæsku siñe; Eñ er hañ heyrde, ad hañ skyllde selia allt þad hañ ætte, giefa þad Faatækum og fylgia sier epter, þa vard hañ hryggur og gieck i burt. O! hvad goodu Bode hafnade þesse faavijse Madur, lijkur var hañ miog svo þessum Veralldar-Sonum, er hier talar um̃ i Gudspiallenu; Hvad leinge aatte hañ Aude sijnum ad fagna? Kañ skie ecke til Morguns, og þo yfergaf hañ hid gooda Hlutskipted, og liet þeña Veralldar Saur draga sig fraa Himnarijke i Satans Valld. Marcus skrifar, ad Lausnareñ hafe start aa þeña rijka Mañ og elskad hañ, Marc. 10. hvad nockrer wtleggia, ad hañ hafe teked vel aa moote honum, og hafa þeir nockud til sijns Maals, eñ hvert sem var, DRotteñ miñ, þa sie eg hier þijna Foodurliga Giæsku i þvi, ad leita allra Bragda vid Mañeskiuna. Svo elskader þu Saul, miñ HErra, aa medañ hañ gieck aa þijnum Vege; Svo varst þu med Jehu, allt svo leinge ad hañ rak þitt Eyrende; Svo myskunader þu Achab, er hañ klæddest i Seck, eñ ecke er ad furda, Born mijn, þoott DRotteñ hrygdest i Anda og talade svo skoreñordt til Læresveinaña hier um̃, er hañ saa þeña Vesæling adkomeñ Himnarijkis Dyrum, falla þadañ aptur i Satans Net, og hefur hañ hier fært Soñur aa Maal sitt er hañ aadur talad hafde, ad Omoguligt være under eins Gude ad þioona og Mamona, Matth. 6. Mamon er eiñ vesæll Gud, og þeir honum þioona, eiga aumañ Hwsboonda, hañ gietur ecke hallded sialfum sier kyrrum, þvi hversu opt siaaum vier ad stoorar Fe-Dyngiur hrapa i einu, svo Eiganden veit eckert af, svo er hañ wtfws þegar til vill, ad Prælar hañs gieta ecke hallded honum, og ei þoott þeir giore vid hañ eins og þeir i Tyro giordu vid siñ Afgud Herculem, er þeim barst i Drauma, ad hañ villde fraa þeim hlaupa i Herbwder ens stoora Alexandri, ad þeir bundu hañ med Hleckium. Pad er eins

og

og Jeremjas seiger um̃ Skwrgoden̄, Cap. 10. Þeir giora þau fogur med Sylfre og Gulle, þeir festa þau med Noglum og Hamre ad þeir miss̃e þau ecke, en̄ Gud giæfe Men̄ villdu hugleida, hvad lijted þeir hafa mist, þegar þeir hafa tapad ollu þessu, ef Gud vill svo vera læta, þvi þa hafa þeir feinged Orsok til ad varpa allre sin̄e Ahyggiu uppa Gud, sem er alleina Rijkur, og vill ala þa er han̄ elska, jafnvel sofande. Þa munde Laban ecke ren̄a epter Jacob, þo han̄ vantade sijna Afgude. Eg hefe talad nockud um̃ þetta Efne fyrer skomu, og þvi vil eg enda med St. Pauls Ordum, er han̄ seiger, 1. Tim. 6. Þeir ed rijker verda vilia, falla i Freistingar og Snorur og margar Gyrnder heimskulegar og skadvænar: Hvad langt eru þeir þa fra Himnarijke, sem alla Reidu faster eru i þessu Satans Nete, og er hier af audsært, hversu miog ad Fe-Gyrnden̄ og Of-myked Aura-Safn bæge þeim fra Guds Rijke, er nælægt eckert an̄ad stunda.

Konu Hef Eg Mier Festa, Og Fyrer Þvi Ma Eg Ecke Koma, sagde hin̄ Þridie. Han̄ villde ecke hafa sig undan̄ þeigen̄, þvi han̄ þootest Lógliga afsakadur: Han̄ sem Bwgarden̄ hafde keypt, gat læted bijda til Morguns ad skoda han̄, og hin̄ ad reyna Akneyten̄, en̄ fyrer þvi ad hier ma skiliast, ad Brwdkaups-Daguren̄ hafe vered tilsettur, þa vill þesse Brwdgume ecke eyda morgum Ordum til ad afsaka sig, þar han̄ hafde til an̄ars Giestabods ad ganga, sem honum være hvad kiærast, og han̄ mætte ecke forsooma. Lijklega lijtur þetta wt fyrer Man̄ligum Doome, þvi DRotten̄ hefur boded, ad Maduren̄ skyllde jafnvel yfergiefa Fodur og Moodur, en̄ santeingiast sin̄e Egta-Kvin̄u, en̄ þo mun þesse eins sekur vered hafa i Guds Auglite og hiner. Hier stendur i Textanum, epter þvi sem eg han̄ skil: Ad þeir afsokudu sig aller med sama Giede. Þad er, ad hver þeirra villde hafa sijna Sysslan meir metna en̄ þessa Kvolldmaaltijd. Nu villde þo Hwsboonden̄ einga af þeim gyllda taka, og þvi vard su Alyktunen̄ ad Sijdurstun̄e: Eingen̄ Þeirra Man̄a Sem Bodner Voru, Skulu Smacka Mijna Kvolld-Maaltijd. Sw er þa Meiningen̄, ad eingen̄ Hlutur skule oss svo kiær vera, ecke Virdingar vorar, ecke vor Audur, ecke Fader nie Mooder, ecke Systur nie Brædur, ecke vorar eigen̄ Konur, sem oss ættu hvad kiærastar ad vera; Ja, ecke vort eiged Lijf, ad þad hindre oss fra þeirre stooru Kvolldmaaltijd, sem hin̄ Alvallde Hwss-Fader hefur oss tilreidt i sijnum Syne, þad vottar Frelsaren̄ sialfur skomu sijdar i þessum sama Capitula, seigiande: Ef nockur kiemur til mijn, og ecke hatar Fodur sin̄ og Moodur, og Konu og Born, og Brædur, og Systur, og jafnvel sijna eigen̄ Saal, han̄ kan̄ ecke min̄ Læresvein̄ ad vera. Hvad er þetta Born M. han̄ kan̄ ecke min̄ Læresvein̄ ad vera? Þad er, han̄ skal ecke i mitt Rijke koma. Gud gaf Man̄enum Konuna i Fyrstun̄e honum til Epterlætis, og til ad fiolga Kyne sijnu, en̄ ecke til þess ad han̄ skyllde leyfa hen̄e ad draga sig af Guds Vege, edur briota a moote Bode sijnu, þvi seiger han̄ og Devt. 13. Ef þin̄ Brooder, Sonur Moodur þin̄ar, eda þin̄ Sonur eda þijn Dotter, eda þijn Kona er þu fadmar, vill koma þier til ad dyrka an̄arlega Gude, þa skal þijn Hond vera hin fyrsta ad þu deyder hana. En̄ skodum nu oss, Brædur mijner, mun oss ecke verda vidlijkt og Fodur vorum Adam, ad bera Skulldena uppa Konuna, þo þad sie med

odru Moote. Seged mier, þegar hiñ Volade bidur um̃ Hiælp, og hiñ Naudstadde, þeinkium vier ecke? Pad mæ eg ecke fyrer Konu miñe og Bornum, ad leggia miked af vid hañ, añars munu þau kañske fara æ Vonarvøl. Pegar Guds Eyrende æ ad giora og briootast nockud i moote Satan og hañs Offiñum, lætum vier þæ ecke Hugfallast? jafnvel þeir sem Hugprwdare vera þykiast, og seigium med siælfum oss: Giøre eg þetta, munu þeir siidañ Konu miñe og Bornum allt Illt giora, eins og Skælkureñ sie ecke i Drottens Hende, og hañ kuñe ei ad vernda sijna, þæ er setia allt sitt Traust æ hañ. Pegar vier nu þetta giorum, þæ erum vier eingu betre eñ hañ er sagde: Konu Hefe Eg Mier Festa Og Fyrer Pvi Mæ Eg Ecke Koma. Eg vil ecke fæ mier til Orda um̃ þeirra Hioonaband, sem locka añad til Lasta og Synda, til Agyrne, Hofmoods, Osunndar, Hardydge, og eru samlynd i þvi, eñ giæta eckert þeirrar Elsku sem þau eiga æ Gude og Naunganum ad hafa, ei helldur þeirra Hættalag, sem ad i Egtaskapnum bwa samañ eins og Hundar og Kietter, edur hiña sem ad søñu eru samañvijgd til Hioonabands, eñ lifa þar iñe riettum Skiækiu Lifnade. Længt er fræ ad soddañ Mañeskiur hlijde Postulans Bode, i þvi ad hallda Egtaskapeñ heidarligañ, og Hioona-Sængena Osleckada, Hebr. 13. Og munu þeir þo hafa þykiast fulla Orsøk ad ei kome þeir til Drottens Kvolldmæltijdar, þvi þeir hafe Konur sier festar; Og kañ eg ecke añad ad seigia, eñ ad þesse Afbotun er gylld, þviad Diofulleñ helldur med þeim Sæng og Sess, eñ Paulus seiger, 1. Cor. 10. Ad vier kuñum ecke under eins ad drecka Drottens Kaleik og Dioflaña, og ecke under eins ad vera hañs Bords Hluttakande og þeirra. Take eingeñ svo Mæl mitt, ad eg laste þessa heilogu Stiett, hun er af Gude i Fyrstu Iñstiptud, Frelsareñ hefur prijdt hana med siñe Nælægd, med heñe hefur hañ teiknad þæ Guddoomligu Ast, er hañ hefur æ siñe Elskulegre Brwde Christneñe; Eñ þad lasta eg, ad Meñ gleyma Gude fyrer Lijkamans Munad, og lifa þar iñe þvert æ moote hañs Bode, giorande Hioonabanded ad Frillulifnade margur hver. Frelsareñ vill og ecke Hioonabanded lastad hafa, þoott hañ sege um̃ hina Gudlausu Verolld fyrer Flooded ad þeir hafe Gypt sig og gypta læted, helldur hitt, ad þeir voru svo druckner i Munudum sijnum, ad þeir ei hlijddu Predikun hiñs Riettlæta Noe. Og er nu svo wttalad um̃ hid fyrra er eg hiet æ ad miñast.

Eñ hvad hinu siidara vidvijkur, þæ er þad margt er oss ætte ad leida til ad taka þessu vegsamlega Heimbode. Hver er sæ, ef Konungureñ biidur honum til Bords, ad hañ þigge þad ecke Allshugar feigeñ, og munde Osviñur þykia, ef hañ dræpe Hendeñe æ moote slijkre Sæmd, eñ hier er ecke nockur Jardneskur Herra, ecke Assverus, ecke Baltazar, ecke Alexander hiñ stoore, hverra Veitingar urdu æ stundum Giestunum ad Hefndar Giof; Eñ hier er hiñ Nædduge Konungur Himens og Jardar, sæ ed hefur Konungaña Hiortu i Hende sier, hañ ed sedur allar lifande Skiepnur med siñe Blessan, og allt hvad Jardnesker Hofdingiar veita sijnum Giestum, þad meiga þeir af hañs Orlæte þyggia, añars væru þeir ecke Megnuger um̃ ad fæda siælfa sig, auk helldur Fiolmeñe svo miked. Ecke sedia Veralldar Hofdingiar nema Likamañ alleina, hvers

Fylle

Fylle a stundum verdur ad Saalar Hwngre, eñ DRotteñ mettar Saaler vorar med svo goodre og heilnæmre Fædu, ad sa ed heñar nytur, hañ þeinker lijted um̃ Veralldlegar Kræsingar, þvi hañ hefur þañ Mat og Dryck, sem adrer sia ecke, Joh. 4. Þeir kuña ad hallda eitt Giestabod i heila Viku edur leingur, sijdañ hwngrar þa og þyrster, er bodner voru; Eñ hver sem etur og dreckur af þessum Vistum, hañ skal ecke hwngra nie þyrsta ad Eilijfu: Pad skiedur i Hofdingiaña Giestabodum, ad þeir sem ad Veitslunum eru, verda Mætte sijnum firnare þegar kallad er hvad best veitt, svo þegar Vijned er roked wr Hofdenu, villdu Meñ þar alldrei vered hafa, og ecke betala þurfa þad sem til Gooda var giort med þvi Jlla sem a epter fylger. Eñ i þessu Heimbode munu Meñ alldrei ofmiked eta nie drecka, þess meir þeir drecka, þess vijsare verda þeir; Eingañ skal hier Dryckiañ hvessa til Bræde, ecke hreifa hañ til Oþarfrar Mælge, ecke hvetia hañ til Lauslætis edur nockurrar Fiblslegrar Haattsemenie Gantaskapar, sem alltijd er, þvi verr, i sumra Maña Giestabodum, eñ hier er Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, sa Fridur, sa Fognudur, sem yfergnæfer allañ Skilning.

Eg hefe nockrum Siñum adur bored mig ad tala i þessare Book um̃ þa Dijrdlegu Vist Heilagra, med Gude og hañs Einglum, og maa eg medkieña, ad þar verdur ecke um̃talad af mier a nockurn Veg, svo sem verdt er, og ecke af nockurre syndugre Tungu, þvi ef Madureñ kañ ecke ad sia Gud og hallda Lijfenu, svo sem DRotteñ sagde vid Moysen, Exod. 33. þa munu Meñ el helldur kuña ad wtskijra hvad Vegsamlegt þad sie, ad sia hañ svo sem hañ er, og þeckia hañ svo sem vier erum af honum þeckter. J einu Orde ad seigia; Þar um̃ verdur ecke añad sagt, eñ þad sem Esajas i 64. Cap. og Paulus, 1. Cor. 2. hafa lagt oss i Muñ, ad þad hafe ecke Auga sied, og ecke Eyra heyrt, sem Gud hafe tilbwed þeim, er hañ elska, og var þo Paall uppnumeñ i hiñ Þridia Himen, svo ad lijkast er, ad eingeñ lifande Maña hafe gior sied þa Himnesku Vistarveru, þo maatte hañ ecke med Ordum wtskijra hvilijk hun var, þvi hañ seigest hafa heyrt þar þau Ord, sem eingeñ fær wttalad, 2. Cor. 12. Hvad seiged þier nu, Brædur mijner? Fiñed þier nockra þa Assokun i Heimenum, er ydur gylld þyke til ad hafna þessu Giestabode? Stoorer Hofdingiar laata bera Visternar og Dryckeñ fram̃ i Gull og Silfur Kierum, þeir hafa marga Riette, og Jmisleg añ Tilbwning, epter þvi sem Steikarans Kuñaatta gietur hræsnad fyrer þeirra Goom, sem bodner eru; Eñ hier er ecke nema eiñ Riettur, þad saklausa Lamb Guds, hvert ed slatrad er i fraa Heimsins Upphafe, hañ er steiktur a Krossens Altare i Guds Reide-Ellde, a þeim Kolunum, sem bruñed hefur af, sijdañ Adam braut, þad eru Synder vorar, sem erum Nydiar hañs; Hañ er Lækning þeim Siwku, Huggun þeim Angraadu, Rijkdoomur þeim Voludu, Uppreisn þeim, sem Verollldeñ hefur nidurdreped, Sadning þeim, sem Hwngra og Þyrsta epter Riettlætenu. Hvar saaud þier svoddañ i einu Giestabode, Christner Meñ? Jaa, hañ er eins og Esajas um̃ hañ spaaer: Syn þeim Blindu, Fætur þeim Holltu, Hreinsun hinum Lijkþraau, Heyrn þeim Daufu, Upprisa hiña Framlidnu, og þad sem yfertekur, Naadar-Bodskapur hinum Fatæku, hvern Spaadoom hañ þijder

uppa sialfan sig, hia Matth. 11. Heyred þier nu nu, sem bwed i Lande þessu, erud þier marger Vitrer? Erud þier marger Forsialer? Erud þier marger Gofuger Ef eg ma spyria ydur med St. Pals Ordum, þier munud seigia Ney, ef þier taked Hende i ydar eigen Barm, og þo hefur hin Guddoomlega Elska lated oss Fatækum Guds spiollen boda, en hver giegner vorre Raust? Hver tekur þessu Bode? Hin Vijse hroose sier ecke af Skynseme sine; Hin Volduge ecke af Vallde sijnu, og hin Rijke stære sig ecke af Aude sijnum, en sa sem vill hroosa sier, han hroose sier af þvi, ad han þecke mig og skilie, ad eg sie Jehova, sa ed giore Goodgirne, Rietten og Riettvijsena a Jordu, þvi þad lijkar mier, seiger DRotten, Jer. 9. O! sied nu hier, þier sem hroked ydur upp af þvi, sem eckert er i spuned, en forsmaed þessa mykla Kvolldmaltijd, ad þar ma ecke stæra sig i Guds Auglite af hinum mestu Hlutum, Vite, Magt og Audæfum. En hvad skulu Men seigia vid hina Dramblatu Hwsgangs-Herra vor a medal, þegar Vitfirringuren hroosar sier af Danielis Speke, þegar han sem gietur nidurdreped þeim, sem er vesælle honum, þa ætlar han sig Konung vera, og þorer þo ecke ad geispa a moote þeim, sem honum mattkare er; Ef han sem einhvern Tijma la vid Hwsgange, ef han, seige eg, med folskum Kaup-Eyre, med Prælslegre Hondlan, Ja, med allra Handa Svikum og Prettum, hefur dreiged under sig Gootz Naunga sijns, og sellt honum a Stundum, annadhvert sijna eigen Porf edur Favitsku, þa stærer han sig af þeirre Audlegd er hans Framsyne hafe ablad honum. Petta er svo Alment og Openbert, ad ei þarf epter ad grafast, svo sem DRotten seiger fyrer Mun Jeremiæ, og þetta giorum vier, sem þo erum af odrum Pioodum lijtils virdter, um hveria med ollum Riette ma seigia þau St. Pauls Ord, er eg fyrer skomu las, ad vier erum ecke marger Vijser, ecke marger Forsialer, ecke marger Gofuger, og þo tiggiunst vier og tonlunst Innbyrdis, Ja, bijtunst um þetta Volæde, er vier mille Handa hofum eins og Gaddhestar um illt Foodur, en þad er allra aumast, ad þad sem verst er a hinum farsælu Pioodunum, er lifa i þeim goodu Londunum, og þad sem Guds Bræde hvad mest uppæser, sem er, ad þær hyrda lijtt um Gud, og fa sier ei Stunder fyrer Vellystarennar Saker, ad dyrka han sem byriar, þad seige eg, skilur ecke helldur vid Eymder vorar, sem þo ættu ad neyda oss inn ad ganga til þessa Giestabods; Og svo sem ad Nægternar og allra Handa Tijmanlegt Epterlæte, ætte ad draga adrar Piooder til ad elska og prijsa Skaparans Giæsku; Svo ætte og vor Porf og Orbyrgd ad reka oss til ad daust ad hans Millde, ad han i ollu þessu hefur unt oss þeirrar Sælu, ef vier hana riett brwkudum, sem allar Piooder mættu ofunda oss af og alla svo miog epterlangar, sem er Fridur og Rooseme; En Gud giæfe ad hier vantade ecke allt ofmyked a, og ad þeir sem hia oss eru odrum Fæte fremre, þeir ecke hæddu ad Guds Orde, forsmadu og Ofsæktu hans Pienara, svo langt er fra þvi, ad þeir leite DRottens, edur kome þegar þeir bodner eru. Pa Vard Hwssboonden Reidur, seiger Textenn, Og Sagde Til Ploonustu Mansens: Far Pu Snarlega Ut A Stræte Og Gotur Borgarennar, Og Leid Volada, Vanada, Blinda Og Hallta Hier Inn. Pesser munu vera Almwga Men Gydinga,

þeir ed skipudust vid Christi Lærdoom, þvi færster voru þeir af hinum sem geingu honum til Handa, þad er bert af Phariſæarañа Ordum, er þeir ſogdu: Trwer nockur af Hoſdingiunum a hañ edur af Phariſæis, eñ þeſſe Almwge sem ecke veit Logmaaled er bolvadur, Joh. 7. Gydingum byriade og fyrſt ad Predika Guds Ord, ſvo ſem Paulus og Barnabas vottudu fyrer þeim i Antiochia, Act. 13. Eñ nær þeir raaku þad fraa ſier, og hielldu ſig Guds Rijkis Omakliga, þaa hafa þeir ſnued ſier til Heideña Piooda, ſvo ſem þar ſtendur, þvi ſeiger og hier i Gudſpiallenu, ad nær Piooneñ ſagde ad þar være eñ meira Rwm, þaa hafe Hwſſboondeñ ſagt: Far Pu Ut A Pioodbrauter, Og Twngarda Og Naudga Peim Hier Jñ Ad Gaanga. Hverier munu þeſſer vera B. M? Nema vier Heideña Maña Born, hverra Fedur voru aan Guds i Heimenum, Jaa, ecke vier ſijdſt ſem bwum hier under hinu yſta Heims Skaute. A oſs er ad fullu rættur Spaadoomur Guds, er hañ ſeiger vid Soneñ, Eſ. 49. Pad er oflijted ad þu ſiert miñ Pienare til ad upprietta Jacobs Kyn, og aptur ad ſækia þad tapada af Iſrael, helldur hefe eg giort þig til Liooſs Heideña Piooda, ſvo ad þu ſiert mitt Hiaalpræde til Veralldareñar Endemarka. Siaaed þvi og, hier Chriſtner Meñ, hvilijkañ Kiærleika ad Fadereñ hefur oſs giefed, þad vier Guds Born kallader verdum, eingu ſijdur eñ Rijkeſins Syner. Peſſe er JEſus Chriſtur Sonur Guds lifanda, hañ ſem er vor Fridur og giorer eitt af baadum, og Gyrdingu Mid-Veggiarens hefur broted, ſvo ſem Paulus ad Orde kiemſt, Eph. 2. Hvad er oſs þaa til Hindrunar, Born Mijn, ad framgaanga til Naadar-Stoolſens? Par vier hofum frijañ Tilgaang fyrer hañ, ſeiger Poſtuleñ til Hebræos. Trwed mier, ad þad er ecke lijtill Velgiorningur ſem vier þeiged hofum i Chriſtne-Bodenu; Eg vil ei tala um þau gledelegu Umſkipte, ad vera leyſter undañ Satans Vallde, eñ ſetter i Guds Sonar Rijke; Eñ hitt ætte oſs alldrei wr Miñe ad lijda, ad hiner Natturligu Kviſterner eru afbrotner, eñ vier iñplantader, Rijkeſens Syner eru wtrekner i hin yſtu Myrkur, eñ vier eigum Koſt aa ad ſitia til Bords med Abraham, Iſaac og Jacob.

O! Born mijn; Eg Graatbæne ydur fyrer JEſu ſaaru Kvol og Bloodugar Under, Jaa, fyrer ydar eylijfrar Velferdar Saker, taked Vara aa þeſſare ydar Kallan, og lijkeſt ecke hinum i þvi, ad giora ydur Guds Rijkis Overduga. Pad er Daaſamlegt ad horfa aa hina Alvitru Guds Raadſtofun i ſijnu Naadar-Rijke; Fyrſt ſette hañ Peckingu ſijns Nafns ſvo ad ſeigia midt i Verolldena, þegar þeir raaku hana fraa ſier, þa hefur hun færſt ſmaamſamañ Nordur epter þeſſare Heimſins Alfu, ſvo ad hun eiñig er komeñ til vor hiña yſtu Heims Bwa, og varla er hina ſoñu Guds Dyrkun ad fiña nu i Heimenum, nema i þeſſum Norduſtu Londum. Seiged mier nu, Chriſtner Meñ, ef vier nu forſmaaum þeſſa Guds Giof, og ei þeckia vilium vorn Vitiunar Tijma, hvert aa Gud þa ad fara? Eda fyrer hverium aa hañ ſitt Ord ad Predika laata? A hañ ad fara wt wr Heimenum? Edur Predika laata fyrer Joklunum, Biarndijrunum, og Refunum i Grænlande? Litlu munar virdeſt mier hiaa morgum hverium medal vor, þar Hiarta Maññana er ſvo freded, ſvo Js-kallt vorded, ad þad braadnar ecke vid Guds

ſtraun-

straungu Hootaner, ecke vid hans Nadar Bodskap, og ecke vid Minning hins sijdarsta Dooms, nær Hofud-Skiepnurnar munu af Hita brædna, Kiærleikuren og Trwskapuren eru burtu wr Landenu, en Agyrne og Fe-Drættur taka Yferhond; Peir sem meiga sier nockud, eta i krijngum sig eins og Byrner og Leon, þegar þad tekur sijna Bræd, og hiner Einfølldu dansa epter þeirra Pijpu, og stockva yfer hvern Proskulld, til ad uppfylla Hws Drottna sina, med Raane. Og þoott vier meigum jæta oss hverre Piood heimskare, þa erum vier þo noogu vitrer i Slægdenne, Jæ, falsker eins og Refar. Ein med hinum stærstu Syndum, hvar fyrer Gud rak sitt Foolk wt i Herleidinguna, var Flaræde og Otrwskapur; Heyred Jeremjam þar um talande, Cap. 9. Eingen trwe Vin sijnum, og eingen trwe nockrum Broodur, þvi sier hver Brooder er einn Svikare, og sier hver Vinur umgeingst falsklegana, og tala ecke Sannleikann, þeir kienna Twngu sinne ad tala Lygd, og þeir erfida sig þreitta i þvi ad hondla Sviksamlega. Seiged mier, ef Jeremjas mætte lifna upp aptur, munde hann kunna betur ad wtmaala vora Olld, en med þessum Ordum? Og hvad erum vier þess, ad vier skylldum vænta oss betra af Gude nær vier uppfyllum þeirra Mæling? Nema vier ydrunst af Hiarta, og leggium af Klæke þessa. O! hversu myked hefur oss hnignad, ecke einasta i ollum Mannskap og Hyggendum, helldur og i Sakleysenu og Raadvendnenne: Hvar er hin forna Trwfeste, Stodugleike, Rokseme, Vijsdoomur i Raadslogunum, Hugprijde i Utriettingunum, Sannsogle i Ordunum, Riettvijse i Doomunum, sem a Dogum Forfedra vorra var svo miog lofud og elskud. Petta hofum vier i Utlegd reked og forum Dagvesnande, svo ad þeir sem ecke eiga morg Ar til Baka ad telia, þeir þeckia ei Landed edur Stioornena hiaa þvi sem hun var, hvert ed sijnast mætte ad vera eitt vijst Teikn til Undergaangs og Eydeleggingar. Guds Polenmæde vardveite oss fraa Jeremjæ og Ezechielis Tijmum, hvorier ed bæder saau Ofarer Gydinga Lands, og bæder miog svo hormulega klaga um þessa og þvilijka Stoorglæpe skomu fyrer Herleidinguna, og meigum vier kannast þar vid, ad Gud hefur bendt Forfedrum vorum med vidlijku Moote, sem eg þo voga ad seigia, ad voru miklu betre en vær.

Utlegd hefur jafnan hallden vered hid mesta Volæde, en eg veit ei hvad eg seigia skal, betra er hvervetna wtlægur ad vera medal Christenna Manna, en ad lifa i þvi Lande, hvar Dygden er fyrer Skomm hallden, en Klækerner i Forsvar tekner, Jafnvel af þeim sem hvad mest ættu ad afstijra vondu Framferde. Nær eg hugleide þetta, þa get eg ei bundest ad taka under med Jeremja, er hann seiger i Guds Orda Stad i 16. Cap. Tak þier ei Konu til Egta, og al ecke Syne nie Dætur i þessum Stad. Par fyrer, O! Guds Born, taked Vara a Velferd ydar, langt er sijdan þier Bodskapenn heyrdud, og en nu er Nadar-Tijmenn, en eingen veit hvert þetta Bod stendur leingur en til Morguns; Legged þvi af alla Illsku og Prettvijse og allann Ohreinleik, en Iklædest svo sem utvalder Guds Heilager og Elskuleger Hiartgrooenne Myskunseme, Goodgyrnene, Lijtelætenu, Hoogværdene og Polenmædene. En hinn Naaduge Gud virdest ad vardveita sijn Born i Solle þessarar Ogudlegu Alldar, svo þau Ostraffanlig finnast mættu af þeim

þeim Tilkomu-Deige JEsu Christi; Bænheyre þad goodur Gud fyrer sijns Sonar wthellt Blood og saaru Pijsler, Amen, J JEsu Nafne; Amen.

# Pridia Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 15. Cap.

J Þañ Tijma. Eñ aller Tollheimtarar og Bersynduger nalægdu sig til hañs, so ad þeir heyrdu hönum. Og hiner Skriptlærdu og Phariseæi mögludu og sögdu: Þesse medtekur Bersynduga Meñ, og etur med þeim. Eñ hañ sagde til þeirra þessa Epterlijking, so seigiande: Hvør sa Madur af ydur sem hefur Hundrad Saude, og ef hañ glatar einum af þeim, yfergiefur hañ ecke þa niju og nijutijger a Eydemørku, og fer epter þeim sem glatadest, þaangad til hañ fiñur hañ? Og þa hañ hefur funded hañ, leggur hañ þañ sama (med Fögnude) sier a Herdar, kiemur heim, og kallar samañ Vine og Naabua, og seiger til þeirra: Samglediest med mier, þviad eg hefe miñ Saud aptur funded, þañ sem glatadur var. Eg seige ydur, ad lijka so mun Fögnudur vera a Himnum, yfer einum Syndugum sem Yodran giorer, meir eñ yfer þeim niju og nijutijger Riettlaatum, sem eige þurfa Yferbootar vid. Eda, hvør er sw Kona, sem hefur tiju Peninga, ef hun tijner einum, er eige so, ad hun kveiker Lioos, og soopar Hwsed, og leitar Vandlega, þaangad til ad hun fiñur hañ? Og þa hun hefur hañ funded, samañ kallar hun Vinkonur sijnar og Grañ-Konur, seigiande: Samglediest med mier, þviad eg hefe miñ Pening aptur funded, hvørium eg tijnda. Lijka so og seige eg ydur, þad Fögnudur mun vera fyrer Einglum Guds yfer einum Syndugum, þeim ed Yferboot giörer.

## Exordium.

EG Em Auglijstur þeim sem ecke spurdu epter mier. Eg em fundeñ af þeim, sem ecke leitudu ad mier. Eg sagde: Siaaed mig, siaaed mig, vid Foolk þad, sem ecke nefnest epter mijnn Nafne, seiger DRotteñ, Esa. 65. Þesse Spaadoomur aa ad skiliast uñ Heidnar Þiooder, þad Foolk, sem sat i Myrkrunum, og var aan Christs, fraaskilder Jsraels Borgar-Riette, Framande i Saattmaalum Fyrerheitesins, hafande einga Von, og Gudlauser i Heimenum, svo sem Paulus vottar, Eph. 2. Hvar Postuleñ meinar alleina þan Fyrerheit, sem Gydingum voru sier i Lage giefeñ, svo sem ad þar skyllde upprëña eiñ Kvistur af Root Jesse, og adrer þvilijker Spaadoomar, sem höndla þar uñ, ad Messias skyllde fædast af Gydingum, eñ ecke hin Almeñelegu, sem öllum giefeñ vöru, svo sem þegar Gud hiet Abraham, ad i hañs Sæde skylldu blessast allar Þiooder, Gen. 22. Hvad lioost er ecke einasta af hinum mikla Framgaange Evangelij, strax epter Himnaför DRottens, er hañ ad sigrudum Dauda, Diöfle og Helvijte, took Einvallds Stioorn i siñe Kyrkiu uñ allañ Heimeñ, helldur og spaaer Gud þar uñ fyrer Muñ

E Hoseæ.

Hoseæ, 2. Cap. seigiande: Ad Tala Israelis skule verda svo sem Siaafar Sandur, hvern eingeñ giete mælt nie taled: Eñ svo sem a Døgum Hoseæ var Israel svo laangt nidursockeñ i Gudleysesins Afgruñ, ad hañ villde þeim ecke framar myskuna, þad þeir ecke smaamsamañ Herleidder yrdu; Svo og er ad Ottast fyrer a þessum verstu og sijdustu Døgum, ad Christneñ, hveria Guds Sonur hefur med sijnu Bløode afrekad, hun meige verda køllud Lornchama edur Naadarlaus, og ad marger heñar sijneleger Limer mune verda Konunge Myrkraña ad Braad, nema Meñ bæte siñ Christeñdoom og take sier añad Haattalag, helldur eñ Almeñelega tijdkast. Snema hoof Bruñur Myskunareñar ad auglijsa þad, ad eckert Mañgreinar Alit være hiaa sier, þegar hañ took vid Bersyndugum og Tollheimtu-Møñum, hverier ed voru af Pharisæis, bølvadar Mañeskiur halldner, og eingeñ villde med þeim Sess nie Samneyte eiga, Eñ ecke skiede þad þess vegna, ad þeir voru Bersynduger og Tollheimtu-Meñ, þvi alltijd er Gud samur vid sig i þvi, ad ei lijkar hønum Ogudlegt Athæfe, helldur hiñs, ad þeim laa hvad mest a, og þegar aller høfdu Fordæmt þa, villde hañ ecke Fordæma, sem alleina hafde Valld til, ad Riettlæta. Svo skulum vier og ecke meina, ad vier edur Fedur vorer hafe Myskun hloted af þvi, ad þeir voru Heidingiar, þvi Heidingia og Tollheimtu-Meñ leggur DRotteñ ad Jøfnu, Matth. 18. helldur epter mikille Myskuñseme siñe, hefur hañ oss Hoolpna giørt, svo sem Paulus vottar, Tit. 3. Pad giører JEsus bert i þessu Gudspialle med Epterlijkinguñe um hiñ tapada Saud og tijnda Pening. Eñ ef vier afrækium þessa Naad, er oss svo leinge hefur framboden vered, suñum Forgiefens, kañ skie (hvad Gud naade og betre) þa dyliunst ecke vid, ad vor Doomur mune þess þijngre verda, helldur eñ hiña Naatturlegu Kvisiaña, sem ad þeim helldur tilheyrdu Fyrerheiteñ, eñ oss. Eg vil wt af Gudspiallenu alleina Hugleida i þetta Siñ. 1. Hversu Naadugur ad Gud sie i þvi, ad leita epter oss. 2. Hversu treger vier sieum i þvi, ad laata oss fiña. Styrk oss hier til Giæskurijke Fader, med Krapte þijns Anda, fyrer JEsu Christi Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

MEiningeñ i þessum føgru Epterlijkingum hlijder sier i Lage uppa þaa, sem Stoor-Synder hafa drygt, eru fallner fraa Guds Vinaattu i hañs Oblijdu, og þañeg forbroted Guds Barna Riett og hañs Faderne, sem siaa maa af Epterlijkinguñe um hiñ Fortapada Son, er i þessum sama Capitula strax aa epter fylger. Nu ef vier rañsokum vora Lijfernis Haattu, Christner Meñ, þaa mun eingeñ vera saa af oss, ad ecke fiñe hañ i Samvitsku siñe, ad hañ hafe Guds Naad þraafallega af sier broted, og ad hañ þar fyrer sie Daudans sekur. Ecke er þad noog, ad vier ei drygium þaa Glæpe sem viña til Utsetningar af Kyrkiuñe; Pad er betra ad vera wtrekeñ af Samkunduñe, helldur eñ fraa Guds Naadar Stoole. Margur mun saa inst i Kyrkiu, sem ei munde iñ fyrer Himnarijkis Dyr koma, ef hañ dæe i sama Haattalage. Hvad vardar um þad, þo eingeñ vite, ef þijn Samvitska veit? Lijted gagnar ad dyliast fyrer Moñum, þar allt er þo oped fyrer Guds Auga, Vilier þu þar fyrer siaa Guds Giæsku i þvi ad leita ad þier, og kalla þig Synduguñ til Ydranar, þaa skoda hvar fraa þu falleñ ert, Apoc. 2. Drotteñ samlijker svoddañ tijndre Mañeskiu glotudum Saud, og er þad nærsta vel tilfunded, þvi hañ er saa goode Hyrder, Joh. 10. Eñ vier foorum aller villt sem Sauder, seiger Esajas Cap. 53 og førum Daglegana. Saudunum erum vier lijker i Einfelldneñe og Faafrædenu, eñ ecke i Meinleysenu, Børn i Vitskuñe, eñ ecke i Hreckvijsseñe, þvert aa moote þvi, sem Postuleñ bijdur, 1. Cor. 14. Hier maa siaa i Gudspiallenu, ad Madureñ hefur hallded Hiørd siñe aa Beit i Eydemørku, og hvad mun eiñ Voladur Saud-

ar

ur Guds vera i Eydemorku Veralldar þessarar, ef hañ villest fraa hinum gooda Hyrd-
er, hver ed geingur undañ sijnum Saudum. Þegar DRotteñ var reidur Jsrael ford-
um, og hiet ad wthella yfer hañ Bræde siñe, þaa seger hañ hiaa Hoseam i 4. Cap. Ad
hañ vilie fæda Jsrael, svo sem eitt Lamb aa Vijdlendenu, eñ hvad er eitt Lamb i svodd-
añ Plaatze, eckert añad eñ Braad Vargaña, og þo er þeim midur fared, sem med,
Syndum og Glæpum hefur giort sig vidskila hiñ Osijnelega Drottens Sauda Flock,
hvorier ad þeckia siñ Hyrder, og af hõnum þeckter verda, Joh. 10. Pad er hin saña Gu-
ds Christne og Sofnudur hañs Riett-trwadra Barna. O! hvilijk er þaa Giæska hi-
ñs blessada Hyrders, ad hañ virdest til ad leita ad svoddañ tijndum Saud. Naakvæm-
liga wtmaalar DRotteñ sitt Fodurlegt Hiartalag i þessare Epterlijkingu. Ecke yfer
giefur Gud hina Riettlaatu, ei þarf hañ helldur ad yfergiefa þaa, til ad leita ad þeim
sem tapadur er; Eñ uppa þad ad þu vita meiger, syndugur Madur, hversu giarna ad
hañ vill ad hiñ Ogudlege snwe sier og life, þaa jafnar hañ siñe breñande Elsku samañ vid
þañ Mañ sem lætur sier hvad saarast vera til þess sem villt hefur fared, Jaa, saarara til
eins af þeim, helldur eñ til allra hiña sem vijser eru. Þessa Guds Fodurlega Giæsku
ættum vier ad laata smellta Hiarta vort, þegar hañ leitar ad oss Daglega i sijnu heila-
ga Orde, oss sem ad Daglega syndgunst og ei viñum nema til Hegningar. Nær gio-
rer hañ þetta? Pad giorer hañ nær hañ sijner oss i Logmaalenu, hversu miog vier hof-
um viked af hañs Vege, þegar hañ lætur siña Bodorda, siña straungu Hootana Pru-
mu lemia um̃ Eyru Syndarans, nær hañ Daufheyrest vid hiñe blijdu Raust þess gooda
Hyrders, og ecke vill laata sig med Guds Naadar Fyrerheitum leida aa hiñ rietta Veg,
þad giorer hañ nær Syndaranum vid þetta Reidar-Slag Ofbiooda sijner Glæper,
og hañ seger med David: Þar er eckert heillt aa mijnu Hollde fyrer þiñe Ognan, þar
er eingeñ Fridur i mijnum Beinum fyrer mijnum Syndum; Mijn Saar lykta illa og
fliioota af Greptre fyrer miñar Heimsku Saker. Þegar hin fraavillta Saudar-Kynd
ecke rædur sier bañeg fyrer Ofbode Helvijtis Pijsla, þaa mun Guds Hiarta bresta i hõ-
num svo hañ hlijtur hõnum Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Pa mun Christi Ande
bidia fyrer heñe med Oum̃rædelegum Andvorpunum, Rom. 8. Þaa mun hun og br-
autt heyra; Þoott ad þijnar Synder sieu raudar sem Blood, þaa skal eg þær Sniochvij-
tar giora; Og þott þær sieu sem Purpure raudar, skulu þær Ullhvijtar verda, Esaj. 1.
Og þañeg fer nu hiñ goode Hyrder ad leita epter hinum tijnda Saud. O! hvilijk Fod-
urlig Giæska. O! hvilijk breñande Elska: O! þad Oransakanliga Afgruñ Drot-
tens Myskunar Ydra: Komed hijngad aller þier sem Erfide dryged, og þwnga erud
hlader, hañ vill Endurnæra ydur, Matth. 11.

Þar Mun Verda Meire Glede J Himnenum Yfer Einum Syndara, Sem Yd-
ran Giorer, Helldur Eñ Yfer Niju Og Nijutiju Riettlaatum, seiger DRotteñ: Hiaa
hverium mun su Glede vera? Hiaa Gude og hañs blessudum Einglum; Þar munu
gled'ast Einglar Fridarens, Esa. 33. ad þeir siaa sitt Ervide hefur ecke forgiefens ver-
ed; Þar munu fagna vorer Vardhallds-Einglar, sem eru Þioonustusamer Andar,

wtsender þeim, er Sæluhiaalpena erfa skulu, Heb. 1. nær þeir merkia, ad þeirra Verk fæer svo goodan Avoxt, ad þeir faa aptur bættan þan Skada, er Satan van þeim, nær han droo Pridiung Stiarnana, þad er Einglana þeirra Stallbrædra i Afgrunn Myrkrana med sier, þa han fiell af Himne, ad þeir faa han bættan, seige eg, med Fyllingu Utvalldra Guds Barna, sem Yðran giora; Par gledst Eingell hins mykla Raads, nær hans dijra Blood hrijn aa einum fáraadum Syndara, sem Yðran giorer, han reiknar ecke þau Bonden, þau Hoggen, þa Hraakana, þa Hwdstrokuna, þan Pyrne Kransen, þan Hrakningen, þa bitru Pijsl og Helvijtis Kvaler, er han Saklaus leid fyrer þverbroten Syndara, nær han ydrast af Hiarta, og lætur af Glæpunum, svo Gleden yfergnæfer, ad han hefur Saud sin aptur funded þan er glatadur var, Jaa, oll Guddoomsins Prenning fagnar yfer Apturhvarfe Syndarans, Faderen, þvi han elskar oss i sijnum Elskulega Syne, Sonuren, af þvi han hefur oss Verde keypta, Heilagur Ande, af þvi han er Pantur Arfleifdar vorrar, þvi seiger og DRotten, Hos. 6. A Myskunseme hefe eg Pocknan og ecke aa Offre, til hvers Lyknar-Ords DRotten vijsade Phariseunum, er þeir mogludu um þad, ad han æte med Tollheimtu-Monum, Matth. 9. Fared þier, sagde han, og læred hvad þad er, Myskun vil eg, og ecke Offur, þvi ei kom eg ad kalla Riettlaata, helldur Synduga til Yðranar; Og hvad er þad sem auglijse meir Guds Guddoomliga Ast til Syndarans, helldur en þad sem hier stendur i Gudspiallenu? Og Pa Han Hefur Han Funded, Leggur Han Pan Sama Med Fognude A Herdar Sier. Han slær han ecke nie lemur, ei rekur han med hardre Hende undan sier, helldur leggur han aa Herdar sier, þar til han nær til Hiardarenar, ad han ecke aptur tijnest. Svo er og Gud vid Syndaran Naadugur, han gleimer ollu þvi sem undan er fared, han skilur ecke hin villta Saud epter i Raadleysu og Hugar-Vijle, helldur sijner honum med Vitnisburde Heilags Anda, ad hans Syndum sie kastad i Haffsens Diwp, svo þeirra Minning ei skule uppkoma ad eilijfu. Pessa Grunlausu Ast wtmaalar DRotten merkelega, Esa. 46. seigiande: Heyred þier mier af Hwse Jacobs, og aller hiner sem epter eru af Hwse Israels, þier, hveria eg ber i mijnu Lijfe, og med hveria eg geing, Jaa, Eg mun bera ydur allt til Elle-Daga, og þaangad til þier graaer af Hærum verded, eg vil upphefia, bera, og frelsa. Hvad opt lesum vier i heilagre Ritningu, ad Gud hafe ydrad þess Jlla sem han ætlade ad leggia edur hafde lagt aa Mankyned (svo wtmaalar han sijn brenande Myskunar-Yður epter Manlegum Plagsid) en sialldnar skulum vier lesa, ad han hafe ydrad þess Gooda sem han hafde giort, þvi svo myklu yfergnæfer Naaden Reidena og Myskunsemen Riettlæted, þar fyrer seiger han og fyrer Munn Hoseæ i 13. Cap. Um þa Naad er han hugde syndugu Mankyne ad veita i Christo: Yðranen er huld fyrer mijnu Auglite, þad er, eg skal þess alldrei ydrast. O! hversu er Gud oss syndugum Monum þa Olijkur, honum leidest alldrei gott ad giora, en oss alldrei ad fremia hid Jlla. Han seiger hiaa Joel, Cap. 2. er han wteys sijnum diwpu Myskunar-Yðrum yfer Syndaran: Eg em Naadugur og Myskunsamur, mykellrar Goodgyrne, og saa ed ydrar þess Jlla, hvar hid Jlla merker

er Guds riettferduga Hefnd yfer Glæpum Mañaña, eñ Mañeskiañ lætur sig svo lijtt ydra þeirra swlu Skaña, er hun reiter hañ til Reide med. O! hvilijk er þa Giæska DRottens, ecke einasta i þvi, ad hañ hefur Polenmæde med Illgiordum vorum, helldur og leitar epter oss aa allar Lunder, og tekur aa moote einum Syndugum sem Ydran giorer med allskonar Blijdu. Mykel var Ydran Jonæ Spaamañs, og þo ecke miñe hañs Trw, ad hañ epter þad hañ hafde jaatad Misgiord sijna, vogade þo ad laata kasta sier wt i hid brwsanda Haf; Eñ þo var eñ stærre Guds Fodurlig Giæska, er hañ sættest svo braadt vid hañ og svo algiorliga, ad hañ tilbioo honum Vist i Hvalfiskiarens Kvide. Þesse Guds undrunarlega Hiarta-Giæska ætte ecke einasta ad leida oss til ad sættast vid hañ svo opt sem vier honum aa moote briootum, helldur er þetta ein Obrygdul Huggun fyrer þa sem under sitt Andlaat ydrast. Storlega hafde þesse Guds Madur syndgast, þar ed hañ þeckte Guds Maatt, og talade vid hañ eins og Madur vid Mañ talar, Jon.4. Og sette sig þo upp aa moote hañs Bode; Eñ hañ er svo braadlega tilgaf honum þessa hrooplegu Synd, mun hañ ei bæde kuña og vilia forlaata þier þijnar Illgiorder, ef þu ydrast þeirra af Hiarta? þoott ei hafer þu laangañ Frest til Ydranar, varla mun nockur Syndare vera meire Haaska vidkomeñ eñ hañ var þa, og þo vogade hañ svo aa Guds Myskun, ad hañ sagde, Cap. 2. Eg em wtkastadur fraa þijnu Auglite, eñ þo skal eg ecke laata af ad horfa aa Mustere þijns Helgedooms, hvert var þad Mustered? Þad var Guds Myskunar Hiarta, hvar var þad? Þad var jafnvel i Fiskiarens Kvide; Laat þier þvi sagt vera, ad þu ert alldrei i þeim Stad staddur, hverke aa Sioo nie Lande, hverke i Vatne nie Ellds-Voda, ad ei sie hañ þier Naadugur, nær þu af Hiarta Fridmælest vid hañ, og i einu Orde ad seigia, þar er Mustere hañs Guddooms sem þu aakallar hañ i Anda og Sañleika, eñ þessa Guds Naad aatt þu ecke ad brwka til ad draga sialfañ þig aa Taalar, svo sem þu villder hafa þad fyrer Lijfs Atkiere Saaluhiaalpar þiñar, ad Gud hefur epter sumum leitad alla Æfe þeirra, eñ funded þa kañ skie ecke fyrr eñ aa Dauda-Stunduñe, og lagt þa svo sier aa Herdar, og bored iñ aa Land lifande Maña: Ertu þar fyrer Naaungeygdur þoott hañ sie Goodgiarn? Þoott hañ hafe svo vid nockra giort sem nu er mællt, þeirra Orsaka vegna sem hañ sialfur veit; Er hañ þar fyrer skylldugur ad giora eins vid þig, sem forsmaaer Rijkdoom hañs Laanglundar i Ostrauste hañs Naadar, af þvi þu veitst hañ er Myskunsamur? Spaamadureñ er eg strax umgat, hañ var Guds Madur, hañ þeckte bæde Guds Giæsku og hañs Riettlæte, og þo honum yrde þad aa ad syndga svo stoorliga, þa vard honum þad og fyrer ad ydrast strax sem Gud liet hañ þeckia Synd sijna, eñ þier mun baagara uñ ad giora svo fliootta Ydran sem alldrei þeinkter nema uñ Glæpena, og hverneg þu kyñer þeim sem best i Verk ad koma; Þad hender Guds Born, ad þau falla i stoorar Synder, añadhvert af Gaalēyse eins og Moyses, af Braadræde eins og David, af Otta eins og Petur; Þetta skiedur þegar Vilieñ rædur fyrer Skynseminna, Andeñ lætur sigrast af Holldenu, eñ þau ydrast aptur af Hiarta, þau væta sijna Sæng i Taarum med David, og graata beisklega med Petre; Eñ saa Gudlause hefur

einga Hvijlð, hañ þeinker ei añad eñ hverneg hañ meige hinu Illa framkoma, og eyder øllum Saalar og Lijfs-Kroptum til ad fylla Gyrnd sijns illfwsa Hiarta. Þoott nu ad Guds Foduelig Ast til Mañkynsens sie jafnaň bweñ til ad taka vid Syndaranum, nær hañ snijr sier til Yferbootar, þa kañ eg ecke ad seigia, ad þess Hattar Mañeskium mune vera liett um Apturhvarf, þvi Guds Raust er miøg svo hardtolud æ moote þeim, er hañ seiger: Mich. 2. Vei þeim sem hugsa Rææglæted, og þeim sem stunda uppa hid Illa i Svefn-Hwsum sinum, ad þeir vilie framkvæma þad þegar byrter, nær sem þad er i Vallde þeirra. Siæe nu þeir til sem æsetia ad temia sier þvilijkt Hugarfar allt fram i Daudañ, hvert þeir mune eiga Hlut i þessare Guds Giæsku, um hveria eg læt nu ad svo stoddu wttalad vera, jafnvel þoott hun alldrei wttolud verde, edur noogliga prijsud um alla Eilijfd; Og vil svo koma til hins Sijdara er eg hiet um ad Ræda.

Svo er nu Gud Naadugur til ad leita epter oss, sem eg hefe sagt; Eñ hversu erum vier nu audvellder til ad læta oss fiña? Gud hroopade æ Adam, er hañ hafde syndgast, og sagde: Hvar ert þu? Og eñ nu hroopar hañ æ oss Daglega i sijnu H. Orde, nær vier ad Dæme þessa vors Fodur briootum hañs Skipaner, þad fæum vier ad fiña i hañs Tiju Laga Bodordum, sem vier aller læra eigum, strax æ unga Alldre. Adam og Eva foldu sig, er þau merktu Guds Raust i Alldengardenum, eñ strax sem hañ kallade Mañeñ vid Nafn, þa ansade hañ og jætade Synd sijna. Svo er þad eñ nu fyrer oss, ad æ Ungmeñis-Arum vorum heyrum vier ad soñu Raust DRottens i hañs Logmæle, vidlijkt og Adam Piteñ af hañs Ferd um Alldeñgardeñ, eñ þæ verdur oss þad fyrer, ad skijla oss æ medal Eikaña, þad er i Fævitsku Barndoomsins, og meinum ad vier kuñum ad dyliast fyrer Gude; Ef vier gietum dulest fyrer þeim, sem oss er til trwad, og vid oss eiga um ad vanda, svo er nu Spilling Næátturuñar fræbær i þvi, ad læta sig ecke fiña af Gude, þoott epter Mañenum sie leitad, eñ þess være Oskande, ad þegar vier erum komner til Vits og Ara, og Gud kallar oss med Nafne, ad vier þæ ecke Ætthlerar værum, helldur breittum epter Fodur vorum i þvi, ad dylia ecke leinger med oss Synd vora. Þu munt ad spyria hvad þad sie, ad Gud kalle eiñ med Nafne, þad kalla eg ad vera, nær hañ i sijnu Orde straffar þær Syndernar, sem þu ert sekur i, eñ þu villt ecke vid þær kañast, añad hvert af þvi, ad þu kallar þad litla edur einga Synd, er þu vel mætt þeckia Synd ad vera, edur og ad þu ert svo Forherdtur i þeim stoorn Syndunum, sem aller Glæpe kalla, ad þu ecke Ydrast þeirra, Vaneñ er vordeñ svo rijkur i þiñe spilltre Næátturu, ad þu ei þecker Armood þiñ og Fætækt i Guds Auglite, edur ad Gud er svo smær i þijnum Augum, ad þu ætlar hañ mune ecke forsmæ þañ sem hañ Vanvirder, 1. Sam. 2. Þegar Meñ hafna nu Grein af einhveriu þessu, erum vier þæ ecke nærsta torvellder til ad læta oss fiña? Þegar vorer fyrstu Forelldrar, af Gyrndeñe til ad þeckia hid Illa, neyttu þess Avaxtar, er þeim bañadur var, þæ hlutu þau Osk sijna, eñ þad fyrsta Illt er þau þecktu, voru siælf þau og þeirra Fatleyse. Af þessare fyrstu Gyrnd hiñs fyrsta Mañs, er iñsmogeñ til allra Maña nockurskonar Þorste til ad vita þad sem Illt er, hvadañ flestar Odygder og Lester spretta, eñ þess være Oskande,

ande, ad fyrst vier einusiñe hofum ratad i þetta Spillingareñar Haattalag, þa oss þaa yrde hid sama fyrer, eins og vorum fyrstu Forelldrum, ad vor Augu lykiust upp, svo vier þecktum sialfa oss og vora Blygdan, vorn Veikleika og vora Orbyrgd, og ad vi-er stadfaster værum i Hugleidingu þessarar vorrar Omyndar, þa munde hiñ goode Hyr-der ecke einasta fiña oss tijnda Saude, helldur mundum vier leita hañs Andlitis strax sem hañ kallar, hañ munde breita vid oss eins og þau, og klæda oss, ecke med Skiñ-Klæd-um eins og Forelldra vora, helldur med þeim Riettlætis Kyrtlenum, er hañ wtvegade oss þegar hañ Hwdflettur var: Eñ fyrer þvi ad vier erum svo Toomlaater i slijku, þaa fylger þad aa epter, ad vier sneydum Himeneñ þeirre Glede, sem hañ hefur af einum Syndara, sem Ydran giorer, og siaalfa oss þeirra Samneyte sem i honum bwa, þar vier kioosum helldur ad eta Drafed af Svijna Triglenum, jaa, ad hverfa aptur eins og þau til Leyrvelltuñar, helldur eñ ad leita til Hijbijla vors Fodur, mettader verda med Abraham, Isaac og Jacob af Nægtum Guds Hwss Eilijflegana.

Þegar eiñ Syndare ydrast af Hiarta, og lætur af Glæpunum, þa kallar DRott-eñ ad hañ hafe Saud siñ funded; Eñ hversu tregkomed ad sie til þess morgum Mañe, þad er audsied af Glæpunum, sem Heimureñ er fullur af. DRotteñ seiger fyrer Muñ Zophoniæ Cap. 3. er hañ talar uñ þa Naad, er hañ heiter ad veita oss i JEsu Christo. Eg vil umbreyta Vorum Foolksins, ad þær sieu hreinar, og skomu þar epter seiger hañ: Epterleifar Israelis skulu ei Raanglæted fremia, og þeir skulu einga Lijge mæla, og i þeirra Muñe skal ei folsk Tunga fiñast. Þesse dijru Spaadooms Ord, heyra og vor-um Tijdum til, og mun ei þrioota þar til Verolld þrijtur, þvi svo leinge hefur Frelsareñ lofad, ad vera hiaa oss. Eñ hlusted til hverneg DRotteñ i þessum Ordum, wtmaalar hiñ Andlega Israel, Christner Meñ. Munu þeir vera af þvi Sauda-Hwse, sem la-sta Gud med Orde og Verke, þeir sem eckert Lof syngia honum med Muñe sijnum, þeir ed falska Eyda viña vid hañs hrædelega-Nafn, Liwga, Baktala, Rægia og brugga Svik med Tungu siñe sijnum Brodur sem med Guds Sonar Bloode er Endurkeypt-ur? Laangt er fraa þvi, þeir eru eingu sijdur aan Guds i Heimenum, og fiarlæger Isra-els Borgar-Riette, helldur eñ hiner verstu Heidingiar, uñ hveria Paulus talar, Rom. 1. Giored þvi Ydran i JEsu Nafne, O! þier hin fraasnwnu Borneñ, og leited DRottens aa medañ hañ er ad fiña, svo þier af honum fundner verded. Eckert er þad sem meir hindrar Gudrækne vora, helldur eñ Undañdraattur Ydranareñar, hverneg kañ Guds Ast i honum ad bwa, sem ei Daglega lætur sig þad aangra, ad hañ hafe svo Naadugañ Gud styggdañ, hver ed i svo morg Ar hefur leitad aa allar Lunder epter ha-ñs Velferd, og viliad leida hañ med Giæsku siñe og Rijkdoome siñar Poleñmæde til Apturhvarfs. Vier þeckium ad soñu Glæpe vora, vors Guds Fodurlegt Hiarta koñunst vier og vid, i þvi, ad lijda þa. Vier jaatum og vitum, ad ei verdur þeirra Sekt burtteken, nema þeir verde med beiskum Taarum afþvegner, eñ hversu faaer eru þeir ed giora svoddañ Ydran, sem þeim ad nockru Leite meige sambiooda. Vær erum nærre þvi eins Lynder og Guds Foolk, epter þad Gud hafde leidt þa aptur wr Herleidinguñe,

uñ

um̃ hveria ſkrifad ſtendur, Hag. 1. Þetta Foolk ſeiger: Þar er ei komeñ Tijme til ad
byggia Hws DRottens, eñ hañ ſeiger: Er þar Tijme til ad þier ſkulud bwa i þiliudum
Hwſum, og þetta Hws ſkal ſvo ſtanda i Eyde? Oſs hefur hiñ goode Gud af Omæl=
añligre Giæſku ſiñe frelſad fꜳ Dioſulſins Hertekningu i Endurgietningar Laugeñe,
eñ hverſu treger erum vier og hiſkner i þvi, ad uppbyggia hañs Kyrkiu, ſem er vort Hiar=
ta, med Endurnijung vors iñra Mañs, eñ fyrer voru Jardneſku Hwſe berum vier noo=
ga Um̃hyggiu, eg meina Kroppeñ, þañ Ham Sꜳlareñar, þar hun ſem er Hwſsbond=
eñ fer þo i ollu Reidelenyſe. Eñ hvad ſeiger DRotteñ um̃ ſitt Folk ſkom̃u ſijdar i ſama
Capitula: Þier ſꜳed miked og ſafned litlu iñ; Þier eted, eñ eingañ Veigeñ til Sad=
ninge; Þier drecked og verded ecke druckner; Þier klædeſt og verded þo ecke varmer,
og ſꜳ ed Laun tekur, hañ leggur þau i rifeñ Siood; Sama hender þꜳ Hꜳlf=Chriſt=
nꜳ ꜳ medal vor, þꜳ Volgu, um̃ hveria Guds Ande talar i Openberingar Bookeñe,
Cap. 3. Þeir vilia ad ſoñu Guds Born heita, eñ þo forgiefens, nema þeir brioote nid=
ur þꜳ Satans Capellu; J hverre hiñ gamle Adam þioonar honum, og er hañs Preſt=
ur þar iñe; Eñ bygge Gude eitt nijtt Muſtere i ſijnum Limum med ſañre Trw, lifande
Trw, Sꜳluhiꜳlplegre Trw, hver ed verke fyrer Kiærleikañ. Þeir ſꜳ miked; Þe=
ir leſa Guds Ord, heyra þad, eñ þo med hꜳngande Hende, þvi ſafna þeir litlu iñ, ſvo
varla nockud þar af verdur geimt i Korn=Hlodu Hiartans, þeim til Nota nær ꜳ þarf
ad hallda. Þeir eta og drecka Holld og Blood Drottens, eñ ecke til Sadningar, mik=
lu helldur til Fordæmingar. Chriſto hafa þeir ad ſoñu Jklædſt, eñ affært ſig honum
aptur med Gudlauſu Athæfe og þverbrotnu Hiarta=Lage. Þeirra Chriſteñdoomur
er froſeñ og hefur eingañ Nꜳtturlegañ Varma, og þau Laun er þeir meina ſig ad hafa
fyrer Lijking ſiña goodra Verka, hver þeir giora ſiꜳlfum ſier til Hrooſunar, eñ ecke
Gude til Dijrdar, þeim hella þeir i rifeñ Siood, þvi hin ſaña Audmykt Hiartans er
lꜳngt þar frꜳ, og ſvo Trweñ, ꜳn hverrar Omogulegt er Gude ad þocknaſt.

Breytum ei þañeg, Chriſtner Meñ, breytum ei þañeg, helldur lꜳtum oſſ ydra þeſſ ſem
Undañfared er, Sundurkremium vor Hiortu med Angre og Trega ꜳn Hræſnes,
og ecke um̃ Stundarſaker, helldur Alvarlega, Jduglega og Daglega, þvi Daglega
Syndgunſt vier, og viñum ꜳvallt til Hegningar, añars mun Chriſtendoomſins Nafn
ad eingu gagna oſſ, eckert Heyrn Ordſins, og eckert vor Kyrkiu=Gꜳngur, vorar Ol=
muſur, nie oñur Goodverk, helldur mun þad verda eins og DRotteñ ſeiger fyrer Muñ
Haggæi, Cap. 2. Spyried Preſtana ad ef nockur ber helgad Kiot i ſijnu Kꜳpu=
Skaute, mun hañ heilagur verda? Hverium Preſtarner ſvorudu Ney, Og eñ aptur
ſagde hañ, Ef nockur ſa ſem Ohreiñ er af Daudyſle, ſnerter eitthvad þvilijkt, hverium
þeir ſvorudu: Þad mun Ohreint verda. Sama mun framkoma vid þa ſem ei ydraſt
af Hiarta, og eru ſvo volger og toomlꜳter i Verke Sꜳlar ſiñar, þad Orded er þeir
heyra, Guds Lijkama og Blood er þeir medtaka, Bænernar er þeir flapra wt af Muñ=
enum, Kyrkiañ i hverre þeir byrtaſt fyrer Guds Augum, munu ecke helga þa, myklu
helldur þar þeir eru ſiꜳlfer Ohreiner, og ecke þvegner med Laug ſañrar Ydranar, þa
munu

munu þeir vanhelga þessa helgu Dooma til Fordæmingar sier og eilijfrar Glotunar, nema þeir betur vande Ydran sijna og Apturhvarff fraa Syndunum ; Eñ vid þessu Daufheyrast Meñ Almeñeliga, jafnvel þoott þad sie Guds eigeñ Raust i allre Ritninguñe ; Svo tregt veiter Heilogum Anda ad koma oss i Leitena, þegar hiñ goode Hyrder ad oss leitar. O! hversu liett giora Meñ sier Ydranar Verked? Vier meinum ad Lygar, Stuldur, Hoordoomar, Gudlastaner, Meinsære, og hiner verstu Klæker og Skamer sem Diofulleñ fær tilbyred i Vantrwareñar Bornum, verde med einu Tare afþvegnar, og jafnvel þott ei sie þad svo miog af Gruñe Hiartans; Eñ Ninive Borgar Meñ grietu Synder sijnar i heila 40. Daga. David sem var hiñ kiæraste Guds Vinur, hañ griet þo beisklega i Seck og Osku. Nebuchadnezar maatte afþvo sitt Raanglæte med sio Ara Ydran. Eñ hvad meinar þu þier byrie ad giora, sem ert þier svo margra Synda medvitande? og þo eru þær fleyre sem þu ecke veist, ecke manst, og ecke athugad hefur, og sumar kañ skie hallded fyrer litla edur einga Synd, eñ ert þo ecke viss um, ad þu hafer svo laangañ Frest til Ydranar, sem ad Fiollda Glæpaña sambiode. Mun þier ei Þorf aa ad laata þig fiña af honum, sem ollum Stoorsyndurum Tollheimtumoñum og Þrwtum hefur til sijn boded? Reid þig ecke uppa Olmusur Phariseaña, jafnvel þoott Olmusur sieu af Gude skipadar, þad heiter ad vilia kaupa Saattmaalans Blood. Med Ydran og sañre Trw aa hiñ Krossfesta verdur þad feinged, eñ ecke med Femunum, þvi oll Verollden med allre siñe Dijrd er liettare eñ Fis hiaa einum Dropa Guds Sonar Bloods, og duger eckert til ad Endurkaupa Saal Mañsens, svo sem Frelsareñ vottar, Marc. 8. Laat þier þar fyrer allra mest hier umhugad vera, þaa munu hin wtvortis Verkeñ siaalfkrafa aa epter fylgia. Ydraneñ og Trweñ eru þær tvær Hendur, er þu aatt ad breida aa moote þijnum Lausnara, nær hañ fiñur þig Villuraafande aa Eydemorku, gior svo, þaa munt þu Leidetamur verda til allra goodra Verka, þvi saa sem hefur Plaagad Hiarta sitt med Miñingu siña Illgiorda, hañ mun skirrast vid, ad viña þad til hiñar raudu Vellingar, Gen. 25. er hiñ slæge Bragda-Refur Diofulleñ vill kaupa hañs Frumgietningu med, ad standa wt ad nyu slijka Plaagu, er Syndeñ hafde ablad honum, edur ad pijnast eilijflega i Helvijte ad odrum Koste, og hañ sem trwer aa Guds Son, og er viss um, ad honum eru svo margar Synder uppgiefnar, hañ elskar meir eñ svo, ad hañ laate sier fiñast hañs Bodord þung, er hañ svo heitt elskade, ad hañ bar alla Guds Reide, þaa hañ var Saklaus kvaleñ fyrer hañs Synder. Veit eg ad hverugt þetta stendur i voru Vallde: Eingeñ kañ til Jesum ad komast nema hañs Fader drage hañ, Joh. 6. Og hier stendur i Gudspiallenu, ad Madureñ hafe leitad epter þessum tijnda Saud. Svo leitar Jesus ad þier, þad munde hañ ei giora, nema honum være Alvara ad hiaalpa þier; Hañ leitar ecke Forgiefens ad neinum, nema þeim sem ecke vill laata sig fiña, eins og Phariseer og Skriftlærder, þar fyrer leitade hañ ad Tollheimtumoñum og Bersyndugum, sem voru tapader Sauder, þvi hañ var komeñ til ad frelsa þad sem tapad var. Hañ leitade ecke leinge ad Matthæo, aadur eñ hañ liet sig fiña, ecke ad Zachæo, ecke ad hiñe Bersyndugu, ecke ad Hoorkonuñe, er

han afleyste i Musterenu. Eingum af þessum bægdu Syndernar fraa ad laata sig finna, enn Phariseei mootstoodu H. Anda, Act. 7. Þvi geingu og Tollheimtumenn og Þwtur inn i Guds Rijke þar sem þeir voru wtrekner. Madurenn took þenna Saud aa Herdar sier, hvar fyrer? Þvi ad hann hafde svo leinge raafad i Villunne, ad hann hefur ei sialfur gaanga kunnad. Svo giorer og Gud vid Syndarann, af þvi vier megnum eckert Gott af sialfum oss ad hugleida, auk helldur ad framkvæma, þaa ber hann oss aa Hondum sier, eins og einn Madur ber sinn Son, sagde Moyses um Guds Foolk i Eydemorkunne. Nu þar vier hofum svo Naadugann Gud, ad hvar sem Syndenn yfergnæfer, þar yfergnæfer þo Naadenn miklu framar, og svo milldann, ad hann vill sialfur giefa oss Krapt ad þocknast sier, þaa laat alldrei Synd þijna svo vaxa þier i Augum, ad þu efest um hanns Myskun, nie vantreyst svo þijnu Maattleyse, ad þu ei strax fylger honum epter, þvi hanns Kraptur er i breiskum Maattugur. Satt er þad, ad Drottne misslijkar Vondskann svo miog, ad eingenn Hlutur er odrum svo gagnstædur, Vatned er Elldsins Vinur, og Ulfurenn Saudanna, hiaa þvi Hatre, sem Gud hefur aa þvi Illa, annars munde hann ecke hafa unned þad til ad forlijka Heimenn vid sialfann sig, ad ofurselia sinn Eingieten Son i svo bitrar Kvaler, þetta lætur hann oss skilia er hann seger: Þo ad Moyses og Samuel stædu framme fyrer mier, þaa være ecke mitt Sinne til þessa Foolks, Jer. 15. Enn hier er ecke Moyses nie Samuel, Drottenn minn, hier er einn faaraadur Syndare, ein ormædd Saal; Einn Harmþrungenn Ande; Einn tijndur Saudur, er þinn Sonur hefur þo aptur funded, hver ad er meire enn Moyses og Samuel, munt þu burtkasta honum, Drottenn, nær hann framber þad dyra Gialld, er hanns Frelsare lauk fyrer hann aa Trienu? Fiærre sie þad þier, Brunnur Giæskunnar, sem ecke villt Syndarans Dauda, þad sie laangt fraa þier, Konungur alls Landsins, ad þu straffer hinn gooda med þeim Vonda, sagde Abraham: Enn eg em goodur vorden, þegar Sonar þijns Blood er wtrunned i mitt Taara-Flood; þad er laangt fraa þier, sem eingann villt burtureka þann ed til þijn kiemur, ad þu laater mig ecke nioota hanns Bæna, sem þu burtu rakst þegar hann kvaldest fyrer mijnar Synder, eda munt þu taka Giolld af baadum ockur? Og þvi skyllda eg þaa ei laata mig finna, nær minn Hyrder leitar ad mier, þoott Synder mijnar væru stærre enn Sodomæ og Gomorræ Synder, þvi mun eg vantreista mier ad betra minn Lifnad, til ad fylgia honum epter, þar eg megna alla Hlute med Paulo, fyrer hann sem mig Maattugann giorer Christum, Phil. 4. Og er viss um, ad hvers eg bid Fodurenn i hanns Nafne þad mun hann veita mier, Joh. 15. Þegar eg kiem fyrer Mangarans Bord, þaa em eg þo ecke viss um, ad eg fare þad mig gyrner; Jafnvel þoott eg hafe noog fyrer ad giallda, stundum skorter hann Voruna, stundum verda Menn ecke Kaupsaatter, og þad ber til, ad annar bijdur meira enn eg, vid þvi sem eg fala, enn þegar eg kiem fyrer þijnar Naadar Dyr, Herra minn, þa er ecke hætt vid þvi, ad eg fare Eyrendeslaus. Þesser eru ecke Dæme, ad þær Bæner sem eru i Himenenn sendar, hafe toomar aptur komed, eg kaupe þar med Skortenum, nær eg hefe eckert af sialfum mier fram ad leggia, þaa fæ eg alla Hlute fyrer alls eckert, þar brestur ecke þad hver gyrnest, þvi þar eru Nægter Guds Hwss, þar skal eingenn hlaupa i

Kaup vid mig, þvi þar er noog fyrer alla, eins fyrer Manaßsen, svo sem fyrer David, eins fyrer Ræningiañ a Krossenum, svo sem fyrer Guds Moodur under Krossenum, eins fyrer þañ sem ecke hefur Erfidad nema eina Stund; Svo sem hiñ er bored hefur Hita og Þwnga Dagsens, nær Meñ biooda þad med sundurknosudum Anda og Trwudu Hiarta, sem alleina fyrer Gude gyllder, þad er hañs Sonar Forþienusta; J hverium honum vel þocknast. Honum med Fodur og Heilogum Anda sie Lof, Prijs, Rijke, og Magt, Styrkleike og Dijrd, Fra þvi nu er og ad Eilijfu, A M E N.

# A Jons Messu Baptistæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

OG þa ed sa Tijme var komeñ, þad Elizabeth skyllde fæda, og hun fædde Son. Og er Nagrañar heñar og Frændur heyrdu þad, ad DRotteñ hafde miklad Myskun sijna vid hana, samglødduſt þeir heñe. Og þad skiede, ad þeir komu a hinum aattunda Deige, ad umskiera Sveineñ, og nefndu hañ sijns Fodurs Nafne Zacharias. Eñ Mooder hañs svarade, og sagde: Aungvañveigeñ, helldur skal hañ Johañes heita. Og þeir sogdu til heñar: Þar er þo eingeñ i þiñe Ætt, sem ad heiter þessu Nafne. Eñ þeir bendtu Fodur hañs, hvad hañ villde ad hañ hiete. Eñ hañ beiddest Knefa-Spiallds, skrifade og sagde: Johañes er hañs Heite. Og þeir undrudust aller. Eñ jafnsnart laukst hañs Muñur upp, og Tunga hañs leidriettist, og hañ talade lofande Gud. Og Otte kom yfer alla þeirra Naagraña, og um allar Fiallbygder i Judæa vijdfrægdust øll þesse Ord. Og aller þeir ed þad heyrdu, settu þad sier i Hiarta, og sogdu: Hvør grunar þig ad þesse Sveirn verde? Þviad Hønd DRottens var med honum. Og Zacharias Fader hañs fylltest af Heilogum Anda, spaade og sagde: Blessadur sie DRotteñ Gud Jsraels, þviad hañ vitjade og giørde Frelsan sijnu Foolke. Og hañ uppreiste oss eitt Hiaalpar Horn, i Hwse Davids Þioons sijns. So sem hañ hefur talad fyrer Muñ sijña Heilagra Spaamaña, fra Alldødle. Hañ frelsade oss fra Ovinum vorum, og af Hende allra þeirra sem oss hata. Hañ giørde og Myskunsemd vid Fedur vora, og miñtest a siñ Heilaga Saattmaala. Og a þad Sære er hañ soor Fødur vorum Abraham, ad hañ gæfe oss þad. Ad vier leyster af Hende Ovina vorra, þioonudum honum aan Otta, J Heilagleika og Riettlæte fyrer honum sialfum, alla vora

Lijf-Daga. Og þu Sveirn munt kallast Spaamadur hiñs Hædsta, þviad þu munt fyrer reña Auglite DRottens, ad tilbwa hañs Vegu. Ad giefa hañs Foolke Skilning Saaluhiaalpareñar, i Fyrergiefningu Synda þeirra. Fyrer Myskunar Ydur Guds vors, i hvorium hañ vitiade vor Upprune af Hædum. Ad lijsa þeim sem i Myrkrum og Daudans Skugga sitia, til ad greida Fætur vorar fram̄ a Veg Fridarens.

## Exordium.

SJaa, Eg mun senda miñ Eingel fyrer mier, sa er tilreide Veigeñ undañ mier, seiger DRotteñ hiaa Malach. 3. Cap. Ad þesse Spaadoomur hlijde uppaa hiñ fyrsta Nya Testamentesins Spaamañ, Johañem Skijrara, hvers Miñing vier i Dag hølldum; Þad er Audvitad af Vitnisburde siaalfs Frelsarans, er ritadur stendur hiaa Matth. Cap. 11. hvar hañ berlega þijder hiñ sama uppaa hañ, þad er og lioost, ad eins og Morgun-Stiarnan geingur undañ Sooluñe, svo rañ þesse Guds Vinur undañ sijnum HErra, Lausnara Heimsins. Hañ var aadur gieteñ i Moodur-Kvide, og aadur i Heimeñ fæddur, þvi lijser Eingelleñ, er hañ bodade Moodur DRottens Gietnadeñ, Luc. 1. med þessum Ordum: Siaa þu ad Elizabeth Frændkona þijn hefur og Barn gieted i Elle siñe, og þesse er siøtte Maanudur heñar, sem kølllud var Obyria. DRotteñ var i Heimeñ fæddur af Hreiñe og Offleckadre Meyiu, og þoott þad være hid mesta Furduverk, sem Gud hefur nockurn Tijma giørt i øllu Naattwruñar Rijke, þa var og þad miøg svo Undarlegt, ad Johañes var aleñ med þeirre Konu, er svo miøg var til Ara komeñ. Johañes skijrde med Vatne til ad bwa Christo Veg, sem eptera kom og skijrde med H. Anda og Ellde, Matth. 3. Johañes hoof siñ Lærdoom med Ydranar Predikun, og Fyrergiefningar Syndaña, þar hañ sagde: Giøred Ydran, þvi Guds Rijke er naalægt; Þetta var og Jñtaked i øllum Christi Lærdoome, er sijdañ aa epter fylgde, og svo mun þad verda allt til Enda Veralldareñar; Þvi sagde hañ Fordum vid Læresveinana: Luc. 24. Svo er þad skrifad, og svo byriade Christo ad lijda, og upp aptur rijsa a Þridia Deige, og predikast laata i sijnu Nafne Ydran og Syndaña Fyrergiefning hiaa øllum Þioodum, hver Naadar Bodskapur ad eirnig er til vor komeñ. Nu giefur Frelsareñ þessum sijnum Forgaungu-Mañe þañ Vitnisburd hiaa Matth. Cap. 11. Ad hañ sie meire eñ nockur Spaamadur. Og mætte þad sijnast, ad DRottens Alvijsa Forsiaa hafe sett þetta stoora Lioos i øndverda Christs Kyrkiu, þad er i Fordyre Nya Testamentesins, til ad sijna øllum þeim, sem þar iñe eru, edur iñgaanga vilia, hversu Veglegt ad sie Embætte Forlijkunareñar, sem Guds Þienurum er tiltrwad. Vil eg þvi a þessare Blessudu Haatijd taka mier fyrer Hendur ad yfervega. 1. Hversu Vyrdugleg ad þeirra Þioonusta eige af øllum halldeñ ad vera. 2. Hversu miøg þeir eige siaalfa sig ad vanda.

Hiaalpa oss hier til goode Gud, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

OG Þu Sveiñ Munt Kallast Spaamadur Hiñs Hærsta: Þetta Embætte var miøg svo Veglegt a Døgum Gamla Testamentesins, svo þad fylgde Kongdoominum a stundum. Moyses var Spaamadur, og þo Hofdinge yfer Guds Foolke, David var Konungur yfer øllum Israel, og þo Spaamadur, sem lioost er af hañs Psalmum, Þeir voru og miøg svo Tignader af Gudhræddum Konungum, svo var Nathan i Haavegum hiaa David, Hazaria hiaa Aza Konunge, og Esajas hiaa Ezechia. Nu eru þad Guds Kieñemeñ i Nya Testamentenu, sem aadur voru Spaameñerner, þvi

þetta

þetta Ord ad Spaa, merker ecke alltijd ad seigia fyrer Okomna Hlute, svo sem giordu þeir aa Gamla Testamentesins Dogum, helldur i þvi, ad flytia Guds Eyrende og vijdfrægia hans Nafn. Hver mun giefa mier, ad allt þetta Folk kyñe ad spaa? sagde Moyses, Num. 11. Syner ydar og Dætur munu spaa, sagde Joel, Cap. 2. Pad er, Gud dyrka, lofa og vegsama. Johañes Baptista verdur hier nefndur Spaamadur ens Hæsta, og þo gietur ecke um̃ þad, ad hañ hafe fyrersagt Ovorna Hlute, DRotteñ seiger, Ad Hañ Sie Meire Eñ Nockur Spaamadur, án Efa medal añara þess vegna, ad aller Spaameñ spaadu til Christum, eñ Johañes bente til hañs med Fijngrenum, og sijnde Moñum Guds Son Holldenu Jklæddañ. Hañs Epterkomendur eru vorer Kieñe-Fedur, þeir boda oss JEsum Christum dæeñ fyrer vorar Synder, og uppriseñ oss til Riettlætis, þeir sijna oss hañ i Ritningunum fyrer Augunum afmaaladañ med ollum hañs Astgiøfum og Velgiørningum. Hver er su Foorn Gamla Testamentesins, er jafnast meige vid hañs dijrmæta Holld og Blood, sem hañs Pienarar wtdeila i Heilogu Alltaresins Sacramento, hvert er Valld svo myked aa Jordu, svo sem ad leysa Syndena hiaa þeim Ydrande, og ad binda hana hiaa þeim, sem ecke vill ydrast nie af heñe laata? Joh. 20. Siaed þa, Brædur mijner, hversu Veglegt ad er þetta Embætte, sem þo af morgum Daara verdur lijtels meted. Ecke took Spaamañs Embætted svo mykla Virdingu af Valldstioorneñe, þoott eg fyrer skom̃u segde, ad Gud hefde sæmt hana med þvi, nær hønum svo lijkade. Hverutveggiu eru hañs Umbodsmeñ aa Jorduñe, og eiga hønum þar iñe ad þioona, epter þvi sem hañ hefur hverium boded, Par voru og flester af Gamla Testamentesins Spaamoñum, sem eingeñ Mykelmeñe voru fyrer Heimenum. Elisæus var fraa Ploognum tekeñ, Jeremias var Unglijngur, þa hañ var kalladur, Amos seiger i siñar Bookar Cap. 7. Ei var eg Spaamadur og ecke Spaamañs Sonur, helldur var eg Nauta-Hyrder, og leitade epter Morberium, þvi tekur þetta Veglega Embætte eingañ Myndugleika af nockurs Mañs Persoonu, Ætt, Atgiorfe, Rijkdoome nie odrum Veralldar Hlutum, þvi þar i er oll Sæmdeñ foolgeñ, ad þeir eru DRottens Pienarar; Allur Rijkdoomureñ, ad hañ vill vera þeirra Arfur, Num. 18. Allur Myndugleikeñ i þvi, ad þeir eru Raadsmeñ hañs Leyndardooma: Og er þad ecke lijted, Born mijn; Hver sem aalijtur þad Okomna meir eñ þad Nærveranda. Eg þykest vita, ad þar er eingeñ af ydur saa er ei hallde Guds Son alls Heidurs verdugañ. Eñ hvad seiger Christur vid Postulana? Hver hañ forsmaaer ydur, hañ forsmaaer mig. Ad vijsu er þad satt, ad vorer Kieñe-Fedur naa ei Taanum þaangad, sem þeir høfdu Hælana, svo sem vier plogum ad seigia. Myked skorter oss aa vid þeirra Hugprijde, Polenmæde, Kiærleika, Bindinde, Rokseme, og adrar Kieñemañlegar Dygder, þo eru þeir samt Christi Pienarar, og þeir ed vaka yfer Saalum ydrum, nær þeir giora sitt Embætte, epter þeirre Raad, sem þeim veitt er, med Kostgiæfne: Mun þvi Christur ecke hallda hañ Saklausañ, sem vanvirder hañs aumasta og veikasta Pienara, þvi hañ stendur og fellur sijnum Herra. Eg vil nu i þetta Siñ ecke faa mier til Orda, hversu vier eigum þa ad elska og virda fyrer

þeirra eigeñ Persoonu, þvi eg hefe einhveriu Siñe ꜳdur uñ þad talad, þeim er þad og fyrer miñstu, ad þeir af ydur dæmder verde, edur af Mañlegum Deige, DRotteñ er sꜳ sem dæmer þa, 1. Cor. 4. Þeirra Ovirding hiꜳ Moñunum er þeim Heidur hiꜳ Gude, þad Hatur, sem Verolldeñ leggur ꜳ þa, ablar þeim Elsku i Himnenum. Sꜳ Afdrꜳttur, er þeim skier i sijnum Tekium, hañ verdur Rijkdoomur i Guds Fiehyrdslu, eiñ Peningur, sem þa vantar hier, ablar Hundrad Peninga þar, eñ uñ hitt vil eg nu tala, ad þier ecke forsmꜳed þeirra Þioonustu, þoott þeir sieu lijtilmootleger i ydar Augum sumra hverra, þad er Kieñingarnar og Ordsens Predikun, þvi ef þier svo giøred, þa forsmꜳed þier ecke þa, helldur hañ sem þa sende; Og ef þier hated þa fyrer Sañleikañ, þa hated þier Sꜳler ydar, og stofned þeim i hiñ mesta Voda. Eg bid ydur Brædur, seiger Paulus, 1. Tess. 5. Ad þier þecked þa sem erfida ꜳ medal ydar, og standa fyrer ydar Auglite og kieña ydur, ad þier hafed þa Yfermꜳta kiæra fyrer þeirra Verks Saker. Hvert er þad Verked, Christner Meñ? Þad seiger oss Zacharias hier i Gudspiallenu, Ad Tilbwa Hañs Vegu, hvers þa? Hiñs Allra Hæsta, Þess Drottnarans, nær hañ kiemur til sijns Musteris, sem er þitt Hiarta, þad er, nær hañ krefur þess, og hin Heilaga Guddoomsins Preñing vill þar iñgꜳnga og Vistarveru hiꜳ þier giora. Til þess eru Guds Þienarar setter; Seig mier, eru þeir þa Ills verder, fyrer sitt Verk, nær þeir giora þad trwlega, og vilia sꜳ þier soddañ Gieste til Hysingar? Eñ þetta skilst ecke hiñe vantrwudu Kynslood, hun er eins og Skiækiañ, sem Terrentius getur uñ i Skrokssoguñe, eins og hun sagde uñ hiñ Dramblꜳta Strijdsmañ, ad ei hefde leyfst vid hañ ad tala, nema þad sem hañ hefde ꜳdur fyrermællt. O! jꜳ, taled þad sem oss er þocknanlegt, epter þvi sem Eyrun klæa. Er ecke þad hid sama sem DRotteñ seiger hiꜳ Amos, Cap. 2. Þier hafed fyrerboded Spꜳmoñunum, seigiande: Þier skulud ei spꜳ: Þesse Guds Madur mꜳtte og af þvi seigia, Amos 7. Þegar Amatzia Jeroboams Prestur i Bethel sagde vid hañ: Þu Siꜳande, far burt i Gydinga Land og et þar Braud, og spꜳ þar, eñ halltt ecke ꜳfram ad spꜳ i Bethel, þvi þad er Kongsens Helgedoomur, og hañs Hws. O! þier Villudijr, þegar Leoned Øskrar, hver mun ecke skielfast? Og þegar DRotteñ skipar, hver mun ecke Predika, Amos. 3. Eñ hañ skipar svo opt sem ad hañs Þienarar sieꜳ, ad ydar Glæper og Ogudlegar Athafner taka Yferhond, Eñ hver af hañs Trwlyndum Þienurum mun skielfast fyrer ydar Oþocka edur Reide-Svip, nær Meñ eru visser uñ hañs Vinꜳttu, J hvers Hende þier erud, eins og hid fwna Spꜳmañsins Vellte, sem þo alldrei hafde i Vott komed. Eg skal giora mijn Ord i þijnum Muñe svo sem Elld, eñ þetta Foolk svo sem Tre, þau er hañ eyder, seiger DRotteñ fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 5. Eñ þad Orded, sem Gudshrædder DRottens Þienarar hafa i Muñenum, þad er og hañs Ord. Eñ svo sem þad ad Jerusalem ecke strax uppbrañ vid Spꜳmañsins Ord, samt var Baal-Elldureñ ecke lꜳngt i burtu. Svo vite hiñ Gudlause Heimur, sem ecke vill leyfa þessum Ellde Jñgꜳng i Hiarta sitt, til ad breña þar upp Sorp og Endeme Holldlegra Gyrnda, vite hañ, seige eg, ad hiñs eilijfa Loga mun skamt ad bijda, sem uñ Allder mun breña þa,

nema

nema þeir ydrest af Hiarta. Aller laatunst vier til Kyrkiuñar koma, aller heyrum vier
Orded, og Brwkum Sacramenteñ, og svo sem ein Herme=Kraaka giorum oss Læte i
Christendoomenum, Eñ nær vier þetta hvad mest giorum, þa giæfe Gud, ad ecke ætte
heima hiaa sumum af oss þad sem DRotteñ seiger uñ Juda fyrer Muñ Jeremjæ, Cap.
5. Þar byrtast Raangsnwner Meñ aa medal mijns Foolks, þeir sem liggia til Lægis,
og setia Snorur fyrer Foolked ad veida þad, svo sem þad Fuglareñ giorer med sijnum
Veide=Brellum, og þeirra Hws eru af Prettum full, eins og eitt Fugla=Bwr er fullt
af Taal=Fuglum, þar wt af verda þeir Megtuger og Rijker, Feiter og Friaalsleger, þeir
fara med Illsku=Þor, þeir hallda eingeñ Riettinde, þeir framkvæma ecke Maalefne hi=
ñs Fodurlausa, og þad luckast þeim. Og Almwgeñ er aa Stundum ecke betre ad sijnu
Leite. Þad er ad soñu Graatlegt til ad vita, ad heiler Safnader heyra svo margar
Predikaner, svo margar Amiñingar af Guds Orde, eñ þegar Meñ krefia ad þeir giore
Grein aa Trw siñe, þa er varla Tijunde hver, sem kuñe ad giora þad svo sem Christnum
Mañe byriar, þad er eins og eiñ Okuñugur Hlutur fyrer þeim, og eins og Draumur
Nebuchadnezars, Dan. 2. er hañ sagde: Ad Orded være horfed sier. O! hversu
lijted er þetta ad virda Embætte Forlijkunareñar? Þu seiger, ad Orded sie horfed
þier, þu gieter þvi ecke i Miñe hallded, med þessu dæmer þu siaalfañ þig, Barn mitt, eing=
eñ er svo Miñissloor, ad hañ af svo morgum Predikunum, svo morgum Fortolum,
hvar hid sama verdur optsiñis Jtrekad, ad hañ ei giete svo nyked miñst, ef hañ vantar
ecke Eptertektena, sem ad duga meige honum til Saaluhiaalpar, helldur vallda þvi Um=
svif Veralldareñar, og Holldleger Þaankar, ad Meñ ecke Jtreka med siaalfum sier, ed=
ur brijna fyrer sijnum Bornum og Hiwum þad sem sagt hefur vered; Þvi kiemur
Diofulleñ og stelur Ordenu wr Hiartanu, svo under eins og þu flijgur wt wr Kyrk=
iuñe, svo flijgur þad wr Huga þier. Nær mun Tunglkomu Haatijdeñ lijda, ad vier
kuñum ad selia Fædsluna? sogdu Gydingar fordum, Amos. 8. Eñ þess være Oskan=
de, ad nockrer Gaarungar segdu ecke i Hiarta sijnu, nær þeir under Guds Orda Hey=
rn sitia, nær mun þesse Ord=Snaapur hætta, svo vier meigum fara ad skiemta oss med
vorum Lijkum? Hversu vel verdur Predikunar Embætted virdt af svoddañ Vitstola
Mañeskium? Giæted þess, Christner Meñ, ad þau Dijreñ voru i Gamla Testamen=
tenu einasta hrein kollud, sem ad joortrudu, siaa þu og til, ad þu helger Hvijldardageñ,
eñ hverneg verdur hañ helgadur? Ecke er eiñ Dagur af siaalfum sier odrum helgare,
helldur verda þeir svo epter Guds og Yfervalldsens Bode, eñ þu helgar hañ, ef þu helg=
ar siaalfañ þig, ecke einasta med þvi, ad heyra Guds Ord, helldur og hinu, ad Jtreka
þad med siaalfum þier, er þu heyrt hefur, og vellter þvi fyrer þier eins og Dijreñ Food=
renu i Maganum og Muñenum, og vilier þu til fulls hallda þvi og alldrei sleppa, þa breit
epter þvi i Lifnadenum. Laat þad vera hiaa þier svo sem eitt Moot, hvar i Giorder þijn=
ar jafnañ steyptar sieu, þa mun þad vera svo sem Stafur sa sem aa Bookfell er ritadur,
og þijnar Giorder munu hroosa þier, svo sem eitt Bijlæte wr Gulle steypt, og nær þu svo
giorer, þa kalla eg, ad þu af Alvoru virder og elsker þetta heilaga Forlijkunareñar Em=
bætte;

bætte; Og hvad stodar þad Mañeñ, ad hañ Orded heyre, nema hañ olldungis legge þad uppa Hiartad, og life þar epter, edur mun þetta heilaga Embætte vera Jñstiptad fyrer Sida-Saker? edur eiga Guds Þienarar ad vera ydur eins og Born, þau a Strætum satu og kolludu til hiña: Vier hofum fyrer ydur i Pijpur blased, og þier hafed ecke dansad, vier þuldum ydur Harma vora, og þier hafed ecke grated? Luc. 7. Þeir Guds Ord heyra Athugalaust, og ecke hyrda uñ ad færa Avoxt þar af, þeir draga sialfa sig Magnlega a Talar, ecke einasta i þvi, ad þad mun rijsa upp i Doomenum a moote þeim a sijdasta Dege, Joh. 12. hvad þo er hid skielfelegasta, og vill giora þeirra Fordæming miklu hrædelegre eñ Sodoma og Gomorræ, helldur eru þeir Darlliger i þvi, ad þeir lia Eyru sijn til ad heyra hañ Hlut sem þeim er hiñ meste Leide a, allleina til ad hræsna fyrer Moñum, og hafa þess þo eingeñ Not i þessum Heime, sem er þeirra Himnarijke, eñ eilijf Giolld añars Heims, svo sem eg fyrer skomu sagde.

Giæted ad hvad þad er, sem Zacharjas seiger framveiges uñ þeña unga Svein: Og Til Ad Giefa Hañs Foolke Skilning Saaluhialpareñar Til Fyrergiefningar Synda Þeirra. Til þess hins sama eru ydur og Kieñendurner setter, Br. M. ecke þad, ad þeir giefe ydur Skilningeñ helldur eñ Johañes. Hañ skijrde med Vatne alleina, svo giora og þeir, Paall ma planta svo sem hañ vill, og Apollo vokva, 1. Cor. 3. Eñ þad er þo forgiefens nema ad Gud Avoxteñ giefe, eñ samt fæda þeir Saaler ydar a þvi heilnæma Lijfsins Orde, sem ad er Kraptur Guds til Saaluhialpar ollum þeim sem trwa, og þegar Guds Ande samteingest þvi i Riett-trwudu Hiarta, þa kañ Mañeskiañ ecke ad fara a Mis vid þad, ad vaxa epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 4. Og þyker mier svo sem ad hañ ecke miog elske Saalu sijña, sem ecke vill þad viña til ad heñe hoolped verde, ad þyggia Naudsynlega Uppfræding af Pr[illegible]te sinum, og heyra hañ i Guds Stad talande med hiñe mestu Athygle: Ecke liggia Syndernar miog þungt a honum, sem ad ecke med allre Saalar og Lijfs Audmykt og Christelegum Underbwninge framkiemur fyrer Gud i Skriptar-Stoolen, til ad þiggia af honum Kvittun Synda siña fyrer Medalgaungu hañs Þienara; Eñ Gud Narde, ad þar er varla nockur Hlutur sa, ed sumer Meñ hafe a þvilijkañ Vidbiood svo sem a þessare Heilsusamlegu Þioonustu, svo nær ed añadhvert Hræsneñ edur Otteñ dregur þa under Guds Orda Heyrn, þa er þad svo sem þeir ættu ad gaanga til Pijslar, adgiætande þad lijted, ad þeir eiga þar ad fiña Saalum sijnum Foodur, so þeir meige umflya eilijfar Helvijtis Pijsler. Eñ seged mier þo, ef Cain, Achitophel, Judas og hiñ rijke Sælgiætingur mættu eiga Kost a ad hverfa wr Kvolunum, og sitia under eiñe Predikun, mundu þeir ecke kalla þad hiñ stærsta Velgiorning? og Oska ad sw Predikun alldrei þrite, hvilijkur Daraskapur er þa ad frafælast þad medañ Naadar-Tijmeñ er? fyrer hvert Madur gietur kvittur vorded vid þær Oumrædelegu Hormungar, er þeir nu pijnast i. Hlijded þvi Raustu Hroopandans i Eydemorku, giored Ydvar veg, þvi ad Guds Rijke er Nalægt, þockum Gude, ad hañ hefur ecke sendt oss Eingla af Himne til ad fræda oss, hverra Nalægd vier mundum ei standast, helldur syndugu Meñ

Meñ vora Lijka, þar fyrer sa sem elskar Saalu sijna, hañ elske siñ Saalusorgara, og þigge hañs Pioonustu med allre Hoogværd og Undergiefne, og er þad nu svo uñ hid fyrra wttalad.

Af Johañe hafa aller Christi Pienarar þad fyrst ad læra, ad forsmaa Heimeñ med ollu þvi sem i hønum er, og fierdeilis Aud og Mañvirdingar. Johañes var noogu Ættstoor, Burder hañs voru til þess, ad hañ kuñe ad verda rijkur Hofdinge medal sijns Foolks: Fader hañs var eiñ Kieñemadur, Jaa, ecke eiñ almeñelegur Kieñemadur, helldur af Rod Abiæ (svo sem Lucas hier uñ skrifar, Cap. 1.) hver ed var hiñ Attunde medal Nidia Eleazars Aarons Sonar Hofud-Prests, svo sem þar uñ maa lesa 1. Cronicu Bookareñar. 24. Hañs Mooder Elizabeth var og af Aarons Dætrum, svo sem Lucas eiñig vottar, hverium Ættlid ad Kieñemañs-Skapureñ fylgde, sem var ein stoor Tign medal Gydingaña. Nu þoott hañ være svo Ættgøfugur, sem sagt er, þa wtvalde hañ helldur ad þioona Gude i Eydemørku, helldur eñ ad bera Tign Fedra siña. Ad vijsu er þad satt, Brædur mijner, ad eingeñ er skylldugur til þess, ad hafna ollum Tijmaulegum Munum, eins og Johañes, þvi hañ var sier i Lage kalladur til þessa Embættis. Gud hefur breitt Vægdarsamlega vid oss, og leift oss ad bwa i Landenu medal Brædra vorra, og hafa þess Not, er hañ og Konungureñ hafa oss wthlutad, eñ þo ecke ad seilast þar fram yfer. Johañes yfergaf alla Hlute fyrer Chrjsti Saker, þad sama giørdu og hañs Postular, svo sem Petur vottar, Matth. 19. Eñ þess være ad Oska, ad ei fyndust þeir aa medal vor, sem yfergiefa Christum fyrer Veralldlega Hlute; Þessu vil eg til þeirra viked hafa, er lijted edur eckert hyrda uñ sitt Embætte, eñ eru aller sockner ofañ i Fiaar-Ploog og Aura-Safn, brwkande jafnvel sijns Embættis Myndugleika til sijns eigeñ Abata, eñ ecke Christs Kyrkiu til Eblingar, svo hætt er vid, ad þar fiñest eins marger Judæ Lijkar, þeir ed selie siñ Herra fyrer faaeina Peninga, svo sem Petri Stallbrædur, þeir ed yfergiefe alla Hlute hañs vegna, og ad þad meige vid nockra segia, er DRotteñ talar hiaa Micheam Cap. 3. nær þeir hafa ad tiggia med Toñunum, þaa hroopa þeir Frideñ, eñ þeim sem ecke lætur upp i Muñ þeirra, boda þeir Strijd. Þeir eta Synder mijns Foolks, seger DRotteñ fyrer Muñ Hoseæ Cap. 4. og þeir reisa Hug siñ vid þeirra Raanglæte. Med sama moote talar DRotteñ uñ þessa Leigulida og uñ Daglaunaraň, Devt. 24. er hañ seger þeir reise Hug siñ vid Launeñ, og er þad nærsta vel sagt, þvi eiñ Hyrdulaus Kieñemadur, nær hañ hefur þad hañ eta skal, þaa skeiter hañ lijted uñ Foolksins Synder, þvi reiser hañ Hug siñ alleina aa mootte Laununum, eñ leggur ad litlu hañs Umboot edur Framfor, sem hañ þiggur Launeñ af, og fagnar jafnvel af vondu Athæfe, ef Syndareñ vill þad leysa med nockru Prestsens Gagne, giørande svo Bethel ad Bethaven, þad er Guds Hws ad Hiegooma Hwse. Eingeñ brwke þad fyrer Assokun, ad hañ neydest til þvilijkt ad giøra fyrer Van-Esna og Fatæktar Saker; Hver er sa af ydur, ad hañ laate aptur Dyrnar, fyrer eckert, edur kveike aa mijnu Altare fyrer eckert? seger DRotteñ vid Kieñemeñena, Mal. 1. Svo maa og uñ oss segia; Eingeñ er sa ed þioone Christo Okeypis, þoott ei sieu marg-

ra Laun svo riifleg, svo sem Kyrkiu Pienaraña i Gamlá Testamentenu, og vante-hier nockud, mun þad þusundfalldt apturgialldast i Upprisu Riettlꜳtra, edur hvad mun verda af þeim Launun um, er þier ætled ydur af Christo fyrer ydar Starf, ef þier taked þau fram fyrer Hendur ꜳ honum i þessu Lijfe? Trwed mier til, ad þad mun ecke verda audvelldt, ad vera Judas hier, eñ Petur þar, og er þꜳ betra hier lijted ad hafa, og þar fullrijkur ad vera, ef añadhvert vera skal, Fyrer þvi lꜳtum oss þad sagt vera, er Johañes sagde Strijdsmoñunum þeim, er komu til hañs Skijrnar, og þad þess helldur, sem vier erum Christi Strijdsmeñ; Giored eingum Ofrijke, og pretted eingañ, helldur vered ꜳnægder med ydar Mꜳla, Luc. 3.

2. Pad Añad sem Guds Kieñemeñ eiga ad nema af Johañe, er hañs skynsamlegt Vandlæte i hañs Embætte, þar komu til hañs Skijrnar Tollheimtumeñ, Luc. 3. sem halldner voru hid versta Foolk, þeim sagde hañ med Hæglæte, ad þeir skylldu eckert giøra fram yfer þad sem boded være: Par komu til hañs Strijdsmeñ, þeim sagde hañ og med Spekt þad sama, er eg fyrer skomu umgat: Eñ þar komu og til hañs Skijrnar Pharisæi, sem halldner voru hiner Vijsustu, hiner Heiloguстu, og Saducæi, hiner Riettlꜳtustu, þesser voru einger Smælingiar, þvi allt Foolked hnie ad þessum tveñum Flockum, voru og marger Hofdingiar Gydinga af þeim; Eñ af þvi ad þeir voru Hræsnarar, þa vogade þesse Guds Madur ad seigia vid þa: Pier Nodru-Kyn, hver hefur kient ydur ad umflyia tilkomande Reide? Giored þvi verduga Avoxtu Ydraneñe, og seiged ei med sialfum ydur, Abraham hofum vier fyrer Fodur: Hañ vogade ad seigia hinum Gudlausa Herodi Konunge, Pier byriar ecke ad hafa þijns Broodurs Egta-Kviñu. Teliande munu þeir nu vera medal vor, Brædur mijner, sem svo alvarlega tale til þeirra, er sig kalla Hofdingia ꜳ medal vor; Jafnvel þott ad Missinijden sieu svo morg i Fare sumra þeirra, ad ecke þurfe Sioonhagañ Mañ til ad þeckia þau. O! Gud vere oss Lijknsamur, og giæfe ad Meñ villdu til þess hugsa, hversu Landed er fullt af Svivirding: Agyrnd, Rꜳnglæte, Gripdeillder, Foroktun Guds, Forsmꜳn hañs Orda, Lauslæte, Hatur til Nꜳungans, Lygar og Roogur gꜳnga Skyunum hærra og hroopa i Himeneñ, svo ad nærre þvi sijnest liggia, ad hiñ Almꜳttuge mune ytreka þau Ord fyrer Eyrum vorum, er hañ i Fyrstu talade vid Ezechielem, Cap. 7. Haf Snoruna til Reidu, þvi Landed er fullt af Hofud-Giorningum, og sialf Borgeñ af Ofrijke, og þetta verdur þo añadhvert ecke, edur med hꜳngande Hende straffad, af þeim, sem þo eiga ad giora Reikning hinum Alvallda Doomara fyrer Sꜳl hins Ogudlega ꜳ sijdarsta Deige, allra sijdst hiꜳ þeim, sem Megtuger eru, jafnvel þott þeir añadhvert sieu fremster i Flocke, bæde ad æsa þvilijkt, edur og ad forsvara þꜳ ed þad giora. Pier seged, þad gyllder ecke, ei ad sijdur heyra þeir oss eins og Dvergmꜳl Fiallaña. Eñ hvad vited þier af þvi, Brædur mijner? Hafed þier til þess reynt? Hafe þier hlijdt Bode Pꜳls i þvi, ad kalla i Akafa og vægia ecke, ad straffa, Ogna og ꜳminna i Tijma og Otijma, med allre Poleñmæde? 2. Tim. 4. Nema þier svo giored, þꜳ vited þier ecke hvad Gud kañ fyrer ydar Pioonustu ad wtrietta. Ætled ei til ad þad sie

noog ad leggia Hondena a Ploogeñ, eñ lijta svo aptur til þess, sem til Baka er, þeir ed svo giora, eru ei hæfer til ad leida sialfa sig nie adra til Himnarijkis. Gud vill ecke lata hætta vid sitt Verk þoott lijted aorkest. Skodum, Dæme Eliæ, skodum Jonæ Dæme, Gud vill lata sitt Ord Vondum og Goodum Predika; svo þad añadhvert frelse edur fordæme. Heyred hvad hañ seger vid Ezechielem, Cap. 2. Eg mun senda þig til þeirra, og ad þu seger þeim: Svo seger DRotteñ, hvert helldur þeir heyra þad, edur þeir Mootstodu veita, þvi þeir eru eitt þverbroted Hws; Ottast ecke, þoott þeir sieu mootviliuger, og Þirnum vaxner, og ad þu bwer a millum Hoggorma. Eñ Gud giæfe, ad Otteñ edur Fiegyrneñ hiellde ecke Sverde Andans i Skeidunum hia oss a Stundum, svo Meñ ecke Vanhelgudu Gud fyrer eiñ Hnefa Bygg-Miols, og eiñ Bita Brauds, og saumudu svo Kodda under hvern Armlegg, eins og hinar folsku Spaa-Konur giordu under Jerusalems Eydeleggingu, Exech. 13. til ad teikna þar med Frid, hvar þo eingeñ Fridur var. O! Brædur mijner, þvi skylldum vier þo hrædast þaa riukande Elldebranda? Og ecke miklu framar hiñ lifanda Gud, Hvers Umbod vier a Hende hofum? latum oss heyra þad hañ seger vid Jeremjam, Cap. 1. Vert ecke Ottasleğeñ fyrer þeirra Augum, ad eg ei sundurmerie þig i þeirra Auglite: Hvert er þaa nu betra, ad sia Skalkeñ ygla sig, og hañ faze þo eingu til Vegar komed, ellegar ad mæta Guds Oblijdu, og ad hañ sundurmerie oss ad þeim asiaendum? Gud kañ ad troda Andskotañ under Fætur hiñs miñsta Væsælings, sem honum treister, og giorer Verk siñar Kallanar i hañs Otta, auk helldur þaa sinaa Pwkana, sem vier hofum ad beriast vid, upphefium þvi vorar Radder sem adrar Basiwnur, segium Israel til siña Synda, og Jacob til siña Misgiorda, svo ei verde þeirra Bloods af oss krafest a hinum mikla Deige alls Hollds, nær hver eiñ mun hafa noog med sijnar Synder, þoott ei giore hañ sig Hluttakande i añarligum.

3. J Pridia Malta hefur Johañes med sijnu Dæme kient oss, ad vier skulum vera Arvakrer og Kostgiæfner i Lærdoomenum, hañs Kyrkia var Eydemorkeñ, þvi Jerusalems Mustere hofdu þeir giort ad Ræningia-Bæle, hañ foor i krijngum allt þad Land er la vid Jordan, og predikade Skijrn Jdranareñar til Fyrergiefningar Syndaña, Luc. 1. Ut þangad foor til hañs Jerusalem og allt Gydinga-Land, svo sem Mattheus vottar, Cap. 3. Petta var stoor Sookn, Brædur mijner, fyrer eiñ Mañ, og skulum vier ecke meina, ad hañs Verk hafe einasta vered ad skijra, þvi Lucas seiger, svo sem eg strax amiñtest, ad hañ hafe predikad Ydranar Skijrnena, þad skilst mier ad sie, ad hañ hafe wtlagt og wtlistad fyrer þeim er komu til hañs Skijrnar, hvilijkur ad være sa Lærdoomur, uppa hvern þeir skijrdust, og hverneg epter honum ætte ad lifa, þad sijna þesse Ord af hañs Predikun: Giored Ydran, þviad Guds Rijke er nalægt, Item, Giored verduga Avoxtu Ydraneñe, svo er eg viss uñ, ad hañ eingañ hefur til siñar Skijrnar teked, af þeim sem hafa vered komner til Vits og Ara, sem ecke hefur vered fullnuma i þessum Lærdoome; Nærsta Olijkur þeim af oss, sem setia vid Bord DRottens i heilagre Kvolldmaaltijd ecke einasta Unglinga, helldur og Afgamla a

Stundum, sem ecke kuña ad reyna og proofa sialfa sig, nie giora Skil æ Lijkama DRottens og añare Fædu. Stoor var þesse Sookn Johañis, Brædur M. og gaf hañ þo ollum i riettañ Tijma hvad þeim byriade, añars munde DRotteñ ecke sagt hafa, ad fra hañs Dogum hefde Himnarijke lided Ofrijke, Matth. 11. Vorar Soknner eru læangtum miñe, þo vantar þær æ Stundum hvad þær Naudsynlega vidþurfa, þier seiged, hvad vantar þær? Eg vil hier til svara, ecke ollum, eñ þo morgum, þær vantar sialldnast Sacramenteñ, þo vita Meñ, ad af þvi ber æ Stundum hiæ sumum hverium, eñ þa vantar Kostgiæfna Undervijsun, bæde um Sacramenten og um adrar Trwareñar Greiner, sem eru Omissande til Sæluhiælpar. Zacharjas spæer um siñ Son, ad hañ mune giefa Guds Foolke Skilning Sæluhiælpareñar til Fyrergiefningar Synda þeirra, svo eigum vier ad giora, añars er Verked Onijtt. Hvad gagnar þeim Skijrneñ, sem vier hofum veitt hana, nema vier Grandgiæfelega wtskijrum fyrer þeim heñar Krapt, nær þeir dragast æ Legg; Miñum þæ æ hvad þeir hafa þar Gude lofad, kieñum þeim ad endurnya hañ Giæskurijka Naadareñar Sættmæla Daglega med sijfelldre Ydran og Endurnyung Lijferneseñs. Hvad stodar þeim Hold og Blod Drotteñs, nema vier fyrer hañs Adstod Jklædum þæ einu Brwdkaups Klæde, ædur eñ þeir framkoma fyrer svo skielfelega Hætign, kieñum þeim ad ydrast Syndaña; Ad vita hvad þeir þar medtaka; Ad trwa þvi, og ad brioota ecke framar Endurnyung sijns Skijrnar Sættmæla Vijsvitande. Þetta og añad þvilijkt, er ad giefa Guds Foolke Skilning Sæluhiælpareñar, og nema vier þetta giorum, þæ vanhelgum vier þesa dijru Dooma, svo ad þeir verda til Fordæmingar, bæde þeim, sem þæ handtiera, og hinum, sem vidtaka. Þu villt kañskie seigia: Eg em ecke fæddur med H. Anda eins og Johañes, þvi er ei Von, ad eg svo miklu af Stad kome, eg jæta þad, þar heimtest og ecke svo miked af nockrum einum af oss, svo sem af honum, vier mundum og skamt komast med ad afkasta svo miklu, samt hofum vier aller Heilagañ Anda medteked, og aller hofum vier Vit og Skin þeiged af Gude, oss hafa Forelldrar vorer til Menta sett, svo vier kyñum odrum ad kieña. Hefde Gud fyrersied, ad til Mañaña Sæluhiælpar þyrfte sier i Lage Andans Gæfur, eins og Johañes og Postularner hofdu, þæ hefde sw Andans Gæfa jafnañ Samfara vorded Christneñe; Eñ heñar Meistare, sem best veit hvad þessare Byggingu hægar, hañ vill nu læta sijna Þioona nægiast med almeñelegar Naatturuñar Gæfur, hveriar hañ þo jafnañ styrker med Krapte sijns Anda, þar sem Astundan og Arvekne er fyrer. Seged mier, hver er sæ af oss, ef hañ hefur einhvern kostgiæfeñ Eyrendes Reka, ad ecke legge hañ honum allt i Hendurnar, til ad framkvæma þad Eyrende? Vilium vier þæ ætla, ad Bruñur Giæskuñar, sem svo miog elskade Sæluhiælp Mañaña, ad hañ gaf siñ Son i Daudañ fyrer oss, hañ mune læta sijna Þienara vanta sijna Adstod, nær hañ sier þeirra Kostgiæfne, eñ þad er Grætlegt til ad vita, hversu Toomlæter ad sumer Meñ eru i þessare Ydiu, og læta sier um allt añad meira giefed vera, eñ giora Guds Verk ad Hiatverke. Jæ, þad er aumkunarverdur Hlutur, svo Almugeñ, sem ad ecke veit Guds

Riettinde,

Riettinde, hañ fær þau ecke ad heyra sumstadar af Faavijsum edur Hyrdulausum Ords sins Pienurum, fare þeir villt, þeir verda ei Leidrietter, Syndge þeir, þar verdur ei ad funded; Forherdest þeir i Syndunum, þaa verdur þo ecke þeirra forstockad Hiarta sundurmared med Guds Orde, hvert ad er eiñ Elldur og eiñ Hamar, seger hañ fyrer Muñ Spaamañsens, sem ad Kletteñ i sundurmolar, Jerem. 23. Dygdeñ verdur aa stundum høtud, Løstunum hroosad, edur þeir verda assakader, sierdeilis sieu þeir giorder oss i Vil. Mun þad ei vera hid sama og DRotteñ seger, Ezech. 13. Foolked bygger upp eiñ Vegg af Leyr, og þeir klijna hañ med Onijtu Kalke; Vei þeim heimsku Spaamoñum, seiger DRotteñ, er gaanga epter sijnum Anda, þijner Spaameñ eru lijker Refum aa Eydemorku; O! Israel, seger hañ. Gud giæfe, ad þesse Pestilentia ecke dræpe sier nidur hiaa oss, þad maa kalla, ad þeir fylge sijnum eigeñ Anda, er tala hvad þeim i Hug kiemur, þad þeir alldrei i Ritninguñe saau, edur jusu upp af Israels Bruñe, helldur þeirra eigeñ Drauma, og þo skamast þeir sijn ecke ad segia, DRotteñ hefur sagt þad, þo DRotteñ hafe þad alldrei talad, seger Ezechiel Spaamadur, Cap. 22. Svo kalla og þesser Guds Ord, hvad sem þeir rugla, ef Muñureñ alleina freider, eins og aa Skeidmæddum Heste.

Refarner eru solltner i Eydemorkuñe, svo raafa og nockrer Kieñendur um̃ þurra Stade, og fiña ecke hvar med þeir kuñe sitt edur añara Lijf ad næra, þeir snijkia wt wr Ohørfum og Faavijsum Bookum, þad sem eingum er til Nota, Skrok-Sogur, heimskulegar Samlijkingar, og raangar Utleggingar aa stundum, til ad tefia af Tijmañ, svo þad verdur ei vared, ad Meñ meiga heyra þær sumar Predikaner, af hveriym eingeñ er nockru nær i sijnu Saaluhiaalpar Verke. O! Guds Meñ, laated ydur þo einhvern Tijma til Hugar koma, ad fostra Hiord DRottens, er hañ afrekad hefur med sijnu eigeñ Bloode, og yfer hveria H. Ande hefur ydur Tilsioonar-Meñ setta, Act. 20. Pharao villde ecke giefa Israels Sonum Haalm edur Mwr-Stein til ad giora þad Verk, er hañ hafde boded þeim, og þo heimte hañ Verked af þeim; Eins virdast mier Lynder þeir Kieñemeñ, er eckert hyrda um̃ Christi Arfleyfd, sem þeim er til Voktunar feingeñ, þeir heimta af Foolkenu, ad þeir life Christelega, og giore Kiærleikans-Verk, eñ ecke kieña þeir þeim Adferd slijkra Hluta, og ecke gaanga þeir undañ ødrum i þvi, sem þeir biooda, Jaa, sumer jafnvel þvijnga af þeim, þad sem þeir kyñe ad giora Verk Kiærleikans med. Er þetta ad vera Christi og hañs Postula Epterbreytare og Epterkomare? af hveriu vier þo stærum oss. Laated ydur þad ecke helldur noog þykia, Brædur mijner, þoott þier hafed þeiged goodar Gaafur, til ad kieña, edur þoott ydar Kieñingu sie hroosad af Moñum, þad er ad soñu stoor Guds Astgiof, og hañs Pienurum miog svo þorf, til ad uppbyggia hañs Kyrkiu, eñ laate Meñ sier þad i Hug koma, er sagde fordum hiñ goode Hyrder vid sijna Læresveina, Fagned ei yfer þvi, ad Dioflarner eru ydur undergiefner, helldur af þvi, ad ydar Nofn eru skrifud aa Himnum, Luc. 10. Svo vil eg og seigia i vidlijkum Hlut, þo ecke olldungis hiñum sama; Fagned ecke yfer þvi, ad Meñ hroosa ydur, þvi ydur kyñe ad henda hid sama og Herodem, hvern Eingilleñ sloo,

 af

af þvi hañ gaf ei Gude Dijrdena, Act. 12. Helldur fagned af þvi, ef Safnader ydar Leidriettast, ef þier med Christelegu Dæme og Rokſamre Kieñingu leided nockurn at Guds Veg, ſo ad þier ſieud viſſer um̃, ad þeir med ydur, og þier med þeim munud Guds Rijke erfa, gledieſt af þeſſu, þvi til þeſs erud þier ſetter, þar i eiga aller ydar Atburder, aller Saalar og Lijkamans Kraptar ad reyna ſig, og ecke til ad wtvegá Hroos Maalſnilleñar hiaa Moñum, þvi eige gagnade þad hinum vondu Phariſæis, þott Christus ſegde, ad Meñ ſkylldu giora epter ollu þvi ſem þeir toludu, og ei ad ſijdur voru þeir blinder, blindra Leidtogarar, Hræſnarar, Eytur-Ormar og Nodru-Kyn, þvi kalla eg ecke þañ ad vera hiñ beſta Preſt, ſem hefur hid meſta Alþijdu-Lof af ſiñe Tals-Gaafu, helldur þañ ſem hefur hina beſtu Tilheyrendur, og beſt til Himnarijkis uppfrædda, ſem elſke Gud og Naungañ, og vardveite ſialfa ſig Flecklauſa fraa Heime þeſſum, hañ les ſitt Feſte-Bref fyrer Himnarijke, ſvo opt ſem hañ ſier, ad hañs Tilheyrendur gaanga aa Guds Veige, og verka ſijna Saaluhiaalp med Ugg og Otta. O! þu mykle Hyrder Saudaña, Bid þu hiñ Himneſka Fodur fyrer oſs, ad bæde Kieñendur og Tilheyrendur, mættu ſvo taka Vara aa Saalu ſiñe hier i Lijfe, ad vier i Lambſins Brwdkaup til ſamans iñleidder verdum; Pad Bænheyre hiñ Naaduge Gud fyrer Sonarens Forþienuſtu, Amen.

# Fioorda Suñudag epter Trinitatis.

Gudſpialled, Luc. 6. Cap.

OG JEſus ſagde til ſiña Læreſveina: Vered Myſkunſamer, lijka ſem ydar Fader er Myſkunſamur. Aungvañ ſkulud þier dæma, ſo ad þier dæmeſt eige; Fordæmed ecke, ſo ad þier Fordæmeſt eige. Fyrergiefed, og þa mun ydur Fyrergiefed verda. Giefed, og þa ſkal ydur giefaſt. Gooda, Samþryckta, Velſkiekna og Yferflootañlega Mæling, munu þeir giefa i ydar Skaut. Pviad med þeirre hiñe ſomu Mælingu hvorre þier mæled wt, mun ydur iñ aptur mælt verda. Og hañ ſagde þeim eina Epterlijking: Hvort kañ nockud Blindur Blindañ ad leida? Falla þeir ecke bader i Grofena? Læreſveirneñ er eige yfer ſijnum Meiſtara, eñ hvor hellſt ſem Fullkomeñ er, hañ mun vera ſem hañs Meiſtare. Hvad ſier þu Ögnena i þijns Broodurs Auga, eñ ad þeim Bialkanum ſem i þijnu Auga er, giæter þu eige? Eda hvorneñ mattu ſeigia Broodur þijnum: Brooder, Leif þu ad eg i burt drage Ögnena wr þijnu Auga, þar ed þu ſier ecke ſialfur Bialkañ i þijnu Auga? Pu Hræſnare, Drag fyrſt wt Bialkañ wr þijnu Auga, og ſiaa þu þa ſo til, ad þu faaer wtdreiged Ögnena ſem er i þijns Broodurs Auga.

Exor-

# Exordium.

DOEmed rietta Dooma, seiger Gud til sijns Foolks hiaa Zachariam Cap. 7. Hverneg seiger þa DRotteñ hier i Gudspiallenu? DOEMed Ei, Svo PJer Ei DOEMDer VERDed, FORdæmed Ei, Svo PJer VERDed Ei FORdæmider. J þessu ber þad ad athuga, ad þegar DRotteñ bijdur sijnu Foolke ad dæma rietta Dooma, þa er Audsied, ad hañ giører Raad fyrer þeim, sem rangter eru, og bañar þa; Svo giører og Frelsareñ hier i Gudspiallenu. Guds er Doomureñ, seiger DRotteñ. Þad hefur jafnañ vered Haattur Andskotans, sijdañ hañ datt wr Heidrenum, ad apa epter Guds Haatign, og svo vill hañ og setia sig a Doom-Stooleñ a stundum, svo sem Gud situr a millum Gudaña i Doomunum, Ps. 82. Svo er ecke trwtt uñ, ad Fiandeñ meige stelast þar-iñ; Eg vil ecke seigia, ad hañ gaange þar Berlega, þoott ei verde hañ sieдur lijtamlegum Augum, samt meiga Meñ þo siaa hañs Verk, þegar svo ber vid, þvi af þeirra Avøxtum skulud þier þeckia þa, seiger Lausnareñ, og þetta tekst hønum epter þvi, sem þeir eru Lynder til, sem Doomana sitia, og ad þvi Leite, sem þeir hafa Gud fyrer Augum sier, og Ottast hiñ Alvallda Himens og Jardar Doomara. Doomurum er Misfared eins og ødrum Møñum, Þar situr Moyses a Doom-Stoole, þar situr og Eli, þar sat Salomon, þar sat og Achab, þar sat Lycurgus, þar sat og Pilatus, og eru þau Dæme Ohrivotande. Gud giæfe Meñ hefdu færre af Eli, Achabs og Pilati Brædrum, eñ hiner væru fleire, þa mundum vier ecke svo Berlega siaa þad Teikn hiñs sijdarsta Allsheriar Dooms, sem Lausnareñ seiger oss fyrer, hiaa Matthæum, Cap. 24. Ad fyrer þvi, ad Ranglæted vex, þa koolne Kiærleike margra, svo sem þad nu siaa maa af øllum þeim, sem ad þvi giæta, eñ fiña hvad mest af þeim, sem fyrer þvi verda. Þar eru og Doomar Ymisleger. 1. Er þar Doomara Embætte, sem tilheyrer Kyrkiuñar Þioonustu-Møñum, hverium alvarlega bañad verdur, ad seigia hid Jlla Gott, Esa. 5. og skipad, ad þeir adgreine hid Laka fraa þvi Dijrmæta, ad ei bode þeir Frid, hvar eingeñ er, til ad villa Saalernar. Þañeg dæmde og fordæmde Lausnareñ Ogudlega Pharisæos. 2. Er þad hiñ Almeñelege Laga-Riettur, hver af Gude er tilsettur, Mañkynenu til Gooda og Vidurhallds. 3. Eru þeir, ed Meñ Almeñelega kalla Dag-Dooma, hveria Frelsareñ sier i Lage bañar hier i Evangelio, uñ hveria eg vil nu i þetta Siñ nockud framar tala, epter þvi, sem Gud giefur Raad til.

Eñ þu; alls Hollds Doomare, HErra JEsu Christe, Styrk þu mig hier til med Raad þijns Anda, fyrer þijna Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞEsser skadligu Dag-Doomar verda med mørgu moote, og margra Orsaka vegna. 1. Fyrst þegar Meñ nidra þvi, sem Naunganum er vel giefed, og meiga ei þola, ad þvi sie aa Lopt halldeд: Þetta Jllgrese sprettur af þeirre fwlu Drambseme og Øfund, er liggur i Bloodenu hiaa oss Adams Sonum, sumum meir, eñ sumum miña; Vel sie þeim, sem gieta dreped þetta Eitur med Þeckingu sijns eigeñ Overdugleika, aadur eñ þad blæs upp Saalena, heñe til eilijfrar Gløtunar, sem vijs er þeim ed hrooka sier upp, og þyker ad eingeñ stande sier jafnfætes, þvi Gud mootstendur Dramblaatum, seiger Ritningeñ, og hvar vill saa Heimvon eiga, sem hefur Konung Himnaña fyrer Ovin, nema med hønum sem DRotteñ steipte af Himne i eilijfar Pijsler, vegna hiñar fyrstu Drambseme. Heyr þu mier, Molld og Aska, þu vesæll Orma-Seckur, er nockud añars Agiæte þijn Nidran? Ef þu ert Kostum bweñ, aa ecke Gud friaalst ad giøra añañ þier jafnañ, edur fremre, ef hañ vill? Þvi hræker þu þaa Gude i Andlited, og smaanar hañs Mynd, sem er Dygdeñ, med þiñe saurugre og Ohlutvandre Twngu? Eñ munt þu

Naa

naa þvi, sem þu epter leitar; Kiære, og ecke helldur tapa Virdingu þiñe med Añars Nidran, hverre þu ella munder halldeð hafa? Ad vijsu. Ef Rafneñ þegde, þaa miste hañ ecke Bráðena aa Stundum. Þegar eg heyre eiñ lasta það sem vel er giort, þaa flijgur mier strax i Hug, hvad, mun þesse Madur vilia lofad hafa, fyrst hañ lastar gooda Hlute; Eg giet ecke añad meint, eñ ad hañ kuñe ecke Grein Ills og Goods, edur ad hañ tale af Hatre, þar hañ ecke añ Naaunga sijnum Sañmælis, edur og i þridia Lage, ad hañ ugger fyrer ad hönum sie hroosad framar sier, og sie eg þa, ad hiñ er fremre, jafnvel ad sialfs hañs Doome, þoott ecke vilie hañ Doomeñ uppsegia. Svo skierder nu hañs Mælge Virdingu hañs ad miñe Hyggiu, aa hveria Lund sem þetta tekeð er, hvern eg ella hefde kañskie fyrer goodañ Mañ halldeð. Eingeñ leite epter þvi sem hañs er, helldur epter þvi sem añars er, seger Paulus, 1. Cor. 10. Laangt eru þeir fraa þvi, er vilia taka Sæmdena fraa ödrum, til ad auka sijna med; Eiñ Þioofur er vidurstyggeligur i Mañaña Augum, og verdur ei moote þvi sagt, ad þetta er nockurskonar Þioofnadur i Guds Auglite, þvi hañ sem nidrar ödrum, hañ stelur Virdinguñe fraa Naaunga sijnum, og er þad svo miklu argare Þioofnadur, sem Heidureñ er Fienu dijrmætare. Hañ sem lastar þad sem vel er giort, hañ er Lygare, þvi hañ seger Hluteñ ödruvijse eñ hañ er; Eñ hvad seger Syrach, Cap.20. Betre er eiñ Þioofur eñ eiñ sijfelldur Lygare, þo munu þeir bæder Oluckuna hreppa. Hafe hver añañ sier i Virdingu Ædra, seger Paulus eñ aptur, vel giora þeir þad, sem verda nærre þvi siwker, ef adrer eru aagiætter jafnframt þeim, þad er vel tilfundeð aa vora Twngu, ad Meñ giefa þvilijku Siwkdooms Nafn, þvi Meñ kalla þañ Öfundsiwkañ, sem plaagadur er af þessum Diofle. Eingu eru þeir betre, sem þegia yfer þvi sem Lofs verdt er, þeir ræna eins Dygdena sijnum Launum, sem er Heidureñ, og være hun ecke sijn eigeñ Verdlaun, þaa munde hun verda eins og Verkamadur saa, er leidest ad viña Okeipis, þad er einslags Lagaleyse og Riettar Neitun, ad vilia ecke hroosa þvi sem Lofs verdt er, og ecke skilur þetta Tvent ödruvijse, eñ þad ad dæma raangt, og ad neyta Riettarens, og er hverttveggia Svijvirding bæde fyrer Gude og Moñum, svo varla maa uppa millum siaa, hver Skomeñ ad hærra situr i Fiandans Rijke.

2. J Audru Lage eru þeir, sem drepa wt hinar minstu Naaungans Avirdingar, og giora Ulfallda wr Mij-Fluguñe, þad er Stoor-Glæpe wr lijtille Yfersioon. Um þessa Naangsinwnu Doma talar Frelsareñ hier i Gudspiallenu, þar hañ seiger: Hvad Sier Þu Ögnena J Þijns Broodurs Auga, Eñ Þañ Bialkañ Sem J Þijnu Auga Er, Adgiæter Þu Ecke. Varla er nockur Lostur tijdare i Heimenum eñ þesse, Meñ eru svo giefner fyrer ad leita upp añarra Misgiorder, svo grandskigner i ad siaa þær, svo Maalsnialler i ad drepa þær wt, þar vier erum þo sialfer Lijtum hladner; Ef vorar Hugsaner, Ord og Giorder ættu ad stikast aa hiñ Riettvijsa Allsheriar Kvarda, edur hver er sa ed seigia kuñe: Mitt Hiarta er hreint? Verda maa ad þu siert ecke svo lageñ aa þañ Lost, er þu svo lastar aa ödrum, eñ elur kañ skie adra verre, og samsiñer þeim, sem eru þijner Stallbrædur i slijku. Þier þyker vænt um þijna eigeñ Klæke, eins og Apiniuñe

um

um̃ Unga sijna, þoott þeir sieu allra Kvikenda liootaster (ef þad maa nockud lioott kalla, sem Drotteñ skapad hefur) og þo ecke sie añad, þa er þetta Glæpur noogu stoor, ad þu giorer þijns Naunga Avirding svo stoora, eñ affsakar þijna eigeñ, sem kañ skie er mykluſtærre. Hiñ Dramblaate lijter hiñ Agiarna, eñ sig kallar hañ Hugprwdañ; Hiñ Agiarne lastar hiñ Eydslusama, sig nefner hañ Forsiaalañ; Hiñ Eydslusame bryxlar hinum Adsiaala, eñ hañ vill Orlaatur heita, og svo þyker hverium af oss siñ Fugl fagur, og ecke einasta þetta, helldur þad sem vier erum siaalfer hvad mest giefner fyrer, þad drepum vier wt aa odrum, (sem er stakt Blygdunarleyse) jafnvel aa goodum Moñum og Heidvirdum, ef þa kañ eitthvad þvilijkt ad henda, sem vier siaalfer hofum giort ad Handverke og Daglegre Idiu, til þess, ad giora þa eins svarta og oss, og ad þeirra Dæme skule bera Skuggañ aa vora Glæpe; Eñ faaer hyrda um̃ ad draga fyrst wt Bialkañ wr sijnu Auga, ad þeir meige sijdañ wtdraga Ognena wr sijns Broodurs Auga. Þad er, ad vanda og temia fyrst siaalfañ sig, ad Madur sijdañ meige aaminña siñ Broodur med þess meira Frelse og Avexte. Hier um̃ talar Paulus Rokſamliga, Rom. 2. Seigiande: J þvi ad þu añañ dæmer, þa fordæmer þu siaalfañ þig, þvi þu giorer hid sama sem þu dæmer; Eñ meinar þu O Madur, sierhver sa er dæmer þa ed þvilijkt giora (seiger hañ) og þu giorer hid sama, ad þu muner um̃flya Guds Doom? Hvert ad er samhlioода þvi sem hier stendur i Gudspiallenu: Dæmed Ecke, Svo Pier Verded Ecke Dæmder; Og er þad merkelegt, sem Postuleñ seiger hier: J þvi ad þu dæmer añañ þa fordæmer þu siaalfañ þig, þad er, med þvi ad þu giorer þig ad Doomara i añars Avirdingu, i hverre þu þo siaalfur sekur ert, þa ablar þu þier Fordæmingar, þvi Gud vill þijnar Synder dæma i Reide siñe, fyrer þessa Hlutseme þijna, þar þu fellur iñ i hañs Embætte, sem Doomureñ alleina tilheyrer, svo sem Jacob vottar, seigiande: Jac. 4. Eiñ er Log-Giafareñ, saa ed kañ ad frelsa og tortijna, eñ hver ert þu, sem añañ dæmer? Og þetta skiedur optast i þeim Hlutum, sem oss aldeilis ecke vidkoma. Eg kañ ecke ad seigia, ad mier ei leifest ad kalla þad illa giort, sem mier er tilgiort, ef þad er illa giort, þa vil eg helldur laata Logeñ dæma mille mijn og mijns Mootstodu-Mañs, helldur eñ leggia siaalfur Doom aa hañs Tilgiord, þvi hverke gillder miñ Doomur nyked, nema ad giora mig sekañ fyrer Guds Doome, svo og tek eg hañ fram̃ fyrer Hendur aa Valldstioorneñe, hver ad er sett goodum til Forsvars, eñ vondum til Hegningar, eñ hvad aa eg med, ad dæma um̃ þad mig ei snerter i enu miñsta? Hvad vardar mig um̃ ad dæma þaa sem fyrer utañ eru? seiger Paulus um̃ heidingiana, 1. Cor. 5. Syndgar nockur, þaa syndgar hañ moote Gude, og moote siaalfum sier, moote odrum, eñ mier ecke. Eg vil dæma hañ ad svo miklu Leite, ad eg varest hañs Dæme, og aaminña hañ, og Leidrietta, ef eg fæ þvi vidkomed, þo svo ad eg drage fyrst wt Bialkañ wr mijnu Auga, eñ ecke vil eg wthroopa Synd hañs, og allra sijst giora hana stærre eñ hwn er; Hvar fraa Gud vardveite mig; Helldur affsaka, ef hwn er þaneg, ad hwn verdur affsokud, og saa odruvijse dæmer siñ Naunga, hañ tekur Guds Riett fraa honum, og giorer sig ad þess Herra sem hañ dæmer, þar hañ er þo ecke nema Samþioon. Merkelega talar Paulus

us hier um̃, seigande: Rom. 14. Hver ert þu sem fordæmer añarlegañ Þioon? Hañ stendur og fellur sijnum Drottne. Jacob seger, Cap. 2. uñ þaa sem fara i Mañvirdingar, ad þeir sieu vordner vondra Hugsana Doomarar, eñ eckert er Mañgreinar Alit verra edur Heimskulegra eñ þad ad kalla sig hoskañ og heilagañ, jafnvel þo vier aller hrøsum i mørgu, eñ nijda sijna Brædur fyrer sømu Lijte, sem vier leikum oss ad, eins og ødru Table, edur kañskie ødrum verre, velldur þad þvi, ad Meñ giøra sier svo añt um ad hnijsa epter Naaungans Giørdum og Ovirdingum, ad Meñ faa ecke Toom til ad rañsaka sijnar eigen, til hvers Drotteñ bender hier i Gudspiallenu, þvi ef Textans Meining er riett athugud, þaa heiter þad svo: Þu Starer aa Kvisteñ, Sem Er i þijns Broodurs Auga; Eñ Þañ Biaalkañ, sem i Þijnu Auga er, Hugleider Þu Ecke. Þad er; Oss verdur svo Starsynt aa þad, sem vier lioott siaaum aa vorum Naunga, og høfum svo miked Omak fyrer ad giøra þad eñ þaa liootara aa stundum, ad oss kiemur ecke i Hug ad eins, ad vier sieum i hinu sama vallder, svo laangt er fraa þvi, ad vier rañsokum vorn Lifnad, edur leitum i Filsnum vors Hiarta epter þvi, sem þar kyñe foolged ad vera, og fyrer þvi vier horfum riett aafram, þaa siaaum vier ecke Skreppuna, sem aa Bakenu haanger (svo sem i hinum Griska Ordshætte seger:) velldur þessu hin bølvada siaalfs Elska, er liggur i voru spilltu Bloode; Og þesse Grein af Dag-Doomunum, er nu þess skadlegre, sem hun er almeñare, og varla fyrer nockra Synd hallden Maña aa medal. Meñ koma samañ til svoddañ Dooma, svo sem til añars Giestabods, og i siaalfum Giestabodunum hygg eg ad þesse Riettureñ smacke hvad best aa stundum; Eñ þad er ad Ottast fyrer, ad Satan hafe tilbued þeim eiñ Riett i Myrkra Salnum, er skiemta sier ad þessu, þad er, ad þeir ete sijnar Tungur wt af Ofraun, Apoc. 16. sem þær brwkad hafa til slijkra raangsnweña Dooma, nema þeir þecke Synd sijna, Ydrest heñar, og laate af heñe, aa medañ eñ þaa er Tijme til ad dæma siaalfañ sig. Hlijdum þvi Raustu Jacobs er hañ seger, Jacob. 4. Taled ecke hver aa moote ødrum; Saa ed talar aa moote sijnum Broodur, og saa ed fordæmer Broodur siñ, hañ talar aa moote Løgmaalenu, og fordæmer Løgmaaled, eñ ef þu fordæmer Løgmaaled, þaa ert þu ecke Løgmaalsens Geymare helldur Doomare.

3. J hiñe Þridiu Rod eru þeir, sem lasta og wthroopa þa Glæpe, sem bæde eru Openberer, og svo Hroopleger, ad þeirra Liootleik gietur ad søñu eingeñ affsakad, og eingeñ Heidvirdur Madur vill þeim hroosa, er slijkt adhafast, eñ þad giøra sumer ecke af þvi, ad þeir hate svoddañ Leste, edur til ad Lagfæra þañ, sem ad þeim funden verdur; edur ødrum til Vidvorunar, helldur þess vegna, ad eitt illt Skap hefur Gaman og Jñdæle af ad lasta, og fagnar hverre Orsøk, er hañ kañ ad faa þar til; Svo laangt er fraa þvi, ad hañ Mañeñ elske edur Leidrietta vilie, edur og i Þridia Lage, ad hañ med þess Fordæmingu, sem illa breiter, vill smijda siaalfum sier nockurskonar Agiætis edur Afbrygdis Mynd i añarra Paunkum, svo hañ giete sagt: Eg em ecke svo sem þesse Tollheimtu-Madur, Luc. 18. Svo laangt er hañ fraa þvi, ad bera myked af þeim, sem hañ dæmer um̃, þvi hañ, sem þarf añarra Saurenda med til ad fegra sig, hañ maa ecke vera

miøg

miøg biartur ſiꜳlfur. Þu Gudlaus Madur, hafer þu Gaman af ad laſta Avirding-
ar þijns Nꜳunga, þo þær ſtoorar ſieu, hverneg ert þu þa betre eñ hañ? Þad hefur og
Andſkoteñ, og er hañ þo verre eñ hiñ argaſte Syndare; Sꜳ ſem drygt hefur eiñ Glæp,
hañ kañ ad ydraſt, þvi mꜳttugur er Gud ad reiſa hañ, ſeiger Paulus, Rom. 14. Þad
ſie eg af Dæme Manasſis, Davids, Peturs, hiñar Berſyndugu, og Hoor-Konuñar,
er DRotteñ afleyſte i Muſterenu. Eñ hverneg villt þu, Satans Eingill, uñflyia Gu-
ds Reide og Fyrerdæminguna, þar þu hefur Skiemtun af añarra Loſtum, þott ei dryg-
er þu ſiꜳlfur þa? Hver verdur ſvo hneixladur, ad eg ſtikne ecke? ſeiger Paulus, þad
ſagde hañ þeſs vegna, ad hañ hatade Leſtena, eñ elſkade Meñena; Eñ hver verdur ſvo
Brotlegur, ad þu fagner ecke, þu elur Flugu Haturſins og Øfundareñar ꜳ Preck añ-
arra, og geingur þañeg i Lid med Flugna-Hofdingianum Beelzebub, og ſver honum
Trwnad, eñ ſkytſt undañ Merke þijns Frelſara, i hvers Hollde Gud fordæmde þijna
Synd, ſem Paulus vottar, Rom. 8. Med þvi ad þu fordæmer þiñ Broodur, hvern
Gud hefur ſkipad þier ad ꜳmiña og Leidrietta, eñ alldrei fieck hañ þier nockurn ſvoddañ
Doom edur Valld yfer honum. Jꜳ, þar eru þeir til, er ſvo rijkt Uñbod hafa teked
af Fiandanum, ad þeir locka Nꜳungañ fyrſt til ad ſyndga, ad þeir ſijdañ hafa meige
þad þeir kuñe ad laſta og dæma uñ: Þeſſe er Dioful ſins Atferd, ſvo giorde hañ i Ønd-
verdu vid vora Moodur Evu, eñ ſijdañ hefur hañ ei lꜳted af ad brixla Guds Her-Flock-
um, og ꜳſaká þa, ſvo klagade hañ Job fyrer Gude, ſvo ſtood hañ til hægre Handar
Joſua hinum Ædſta Preſte, til ad mootſtanda honum, Zach. 3. Og þetta ſparar hañ
ecke eñ nu i Dag, ad wtrietta fyrer ſijna Uñbods-Meñ, Vantrwareñar Born, i hver-
ium hañ kroptugur er, eñ Gud ſtraffe þig Satan, hañ lifer eñ nu, ſem Babylons Kon-
ung vog ꜳ Vigt, Dan. 5. Mꜳttugur er hañ eñ i Dag, ad þrijfa ſijna Branda wt
af heñar Ellde, eins og Joſuam, eñ troda þig under Fætur vorar, Hundureñ þiñ, og ad
ſtockva þijnum Ꝺalldar Flocke: Svo er nu þeſſe rꜳngſnwna Dooma Adferd ein
Satans Idia, og þeir ed ſier temia hana, meiga þar uñ viſſer vera, ad hañ giělldur þeim
i Skileyre, þad er med eilijfum Brixlum og eilijfre Smꜳn, nema þeir gꜳnge wr Þie-
nuſtuñe ꜳ medañ þar ſeigeſt eñ þa I Dag, þvi añad hefur hañ ecke ſijnum Moñum i
Mꜳla ad giefa. Fleire eru ad ſoñu Greiner þeſſara Dag-Dooma, eñ eg vil hier med
kyrt lꜳta i þetta Siñ. Eñ hvad ſkulu Meñ þa hier til ſeigia? Eiga Meñ alla ad joſ-
nu ad leggia, og eckert uñ þad hyrda, hverneg Nꜳungeñ ſkickar ſier? Fiærre ſie þvi.
DRotteñ JEſus giefur oſs hier i Evangelio hin ſkijruſtu Log, epter hverium Nꜳung-
añ ꜳ og mꜳ ad ſaklauſu dæma, ſeigiande: Þu Hræſnare, Drag Fyrſt Ut Biꜳlk-
añ Ur Þijnu Auga, Og Þa Munt Þu Siꜳ Til, Ad Utdraga Kviſteñ Ur Þijns Brod-
urs Auga. Sem villde hañ ſagt hafa: Medañ Kviſtureñ er i þijnu Auga, þa ert þu
ecke ſvo ſkarpſyn, ad þu gieter ſied hvert þad er Biꜳlke edur ei, ſem er i Auga Broodur
þijns. Ecke bañar hañ, jꜳ, hañ bijdur ad Madur ſkule ꜳtelia ſiñ Broodur, þegar
hañ ſyndgar, og aftelia hañ þeim Loſtum, ſem hañ er giarn ꜳ, og kañ ſkie þecker ei ſiꜳlf-
ur, edur hyggur ecke ſvo lioota ad vera, þvi vier fyrergieſum ſiꜳlſum oſs jafnañ meira

eñ ødrum, og þvi er þad Velgiørningur, og Gude þægt Verk, ad vanda um̃ vid siñ Broodur i slijku, eñ þo svo, ad Doomureñ byrie fyrst aa voru eigeñ Hwse, og þvi seiger hañ: Drag Fyrst Ut Biaalkañ Ur Pijnu Auga. Hvad mun eiñ sem veikur er i einhveriu Leidriettast vid þad, þoott eiñ Glæpa-Madur deile aa hañ? Mun hañ ecke laungtum helldur giefa honum Orsøk til, ad brixla sier um̃ sijnar eigeñ Skamer, hiñ Heil-Fætte spotte hiñ skacka, og saa sem hvijtur er, Blaamañeñ, seger hid Latinska Skaalld. Hid sama er ad segia um̃ hañ, sem ødrum vill segia til Glæpa siña, þoott eingeñ af oss sie Heilagur, og þar vante miked aa, þaa skal hañ ad søñu Raadsviñare vera, sem añañ vill aamiña, helldur eñ hiñ, edur ad miñsta Koste ecke i þeim Leste fundeñ, sem hañ aatelur um̃, añars mun hañ braadlega heyra: Lækner, hiaalpa siaalfum þier, og Paulus seger honum beiskañ Sañleika, Rom. 2. Þu kieñer ødrum, seger hañ, þu predikar, ad ei skule stela, og þu stelur, þu seger, ei skule Hoordoom drygia, og þu dryger Hoor, þu hefur Andstygd a Skwr-Godum, eñ stelur helgum Doomum, þu hroosar þier af Løgmaalenu, eñ vanvirder Gud med Løgmaalsins Yfertrodslu. Af þessu siaaum vier, hversu Omissande þad er, ad vanda siaalfañ sig, fyrer þañ sem vid añañ vill um̃vanda, og giører hañ med þvi tvo Hlute gooda, sem er ad hañ vardveiter sig Ostraffañligañ, og aaviñur Gude eina Saal til Himnarijkis, hveriu eingeñ er þægare Foorn honum, og ei þoott eiñ bitade allar sijnar Eigur nidur fyrer Faatæka, 1. Cor. 13. Svo Naudsynleger og Gude þecker eru nu svoddañ Doomar. Og hvad seger Løgmaaled, Levit. 19. Þu skallt ecke vera eiñ Last-Muñur, eda Baktalare medal þijns Foolks, og ei helldur skallt þu hata þiñ Broodur i þijnu Hiarta, helldur skalltu aatelia þiñ Broodur, ad þu berer ecke Skulld hañs vegna. Hier sijnest mier ad heñ, sem rañsakar Nijrun, kalle þad ad hata siñ Broodur i sijnu Hiarta, ad seigia honum ecke til Vama siña, ef Madur sier þa, og ad hver eiñ giøre sig Hluttakande i þeirre Synd, er hañ sier ad strijder a Naungañ, eñ vill þo ecke vara hañ vid. Þessa bid eg þeir giæte sem giøra eiñ nærre þvi ad Gude, medañ hañ heyrer til, eñ tala um̃ hañ allar Skamer, jafnvel liugande, nær hañ snijr vid Bakenu, eñ hverneg sem þvi er vared, þa siaaum vier hversu vel ad þesse Løgmaals Grein kiemur samañ vid hid algiørda Nya Testamentesens Løgmaal, þvi hid fyrra, sem er Lastmælge og Ohroodur, þad bañar DRotteñ hier i Gudspiallenu med þessum Ordum: Fordæmed ecke, Svo Þier Verded Ecke Fordæmder, eñ hid sijdara, þar hañ seger: Drag Sijdañ Kvisteñ Ut Ur Þijns Broodurs Auga. Frelsareñ giefur oss eitt Bodord, Matth. 18. segiande: Ef þiñ Brooder syndgar aa moote þier, þa far og aatel hañ millum þijn og hañs, ef þiñ Brooder heyrer þier, þa hefur þu aauñed þiñ Broodur. Ef nu Drotteñ bijdur ad Meñ skule svo giøra, nær eiñ brijtur ødrum a moote, hvad miklu helldur mun hañ vilia þad skule skie til ad Leidrietta þañ sem fer villur Vega, og oss giører þo eckert a moote i þvi sem hañ syndgar, þad er svo miklu meira Kiærleiks Verk ollum ødrum Kiærleiks Verkum, sem ad Saaleñ med Guds Sonar Bloode Endurkeypt er ollu ødru dijrmætare.

Eina Vareygdarseme hefe eg aa ad miñast, aadur eñ eg skilst vid þetta Maal, sem er, ad

ad hvad hellst sem vier i þessu giorum, þa framkome sioddan Doomar af Elskune til Naungans Velferdar, og ad þeir bere hana epter sier. Dæmum og ecke helldur epter Alþijdu-Roome, edur um̃ þad sem vier ei skynium, helldur um̃ þa Hlute sem oss alþeckter eru, og vier hofum Vitsmune a. Margur fer villt i þessu; Sumer ætelia eiñ, af þvi þeir vilia taka sier til nockurskonar Valld yfer honum, og sijna þar med Stoormeñsku sijna, þad ablar opt Forsmaanar og Athlæturs alleina, nockrer eru beisklundader og hardmællter, jafnvel þoott þeir vilie vel; Eñ þad skilur ecke hiñ, sem vid æ ad taka, Meñ verda ad fara med eiñ villtañ Syndara, þañ sem ecke er forherdtur i Bondskuñe, eins og med hraatt Egg, sierdeilis þa sem Luckañ hossar i Verolldeñe, erte Meñ þeirra illt Skap med Berydrum, þa verda þeir eins og Hws þad er hrynur, ad þad brotnar sialfst, eñ brijtur i sundur allt þad sem under þvi verdur; Þetta vil eg þeim sagt hafa, sem Gud hefur ecke sier i Lage um̃boded ad seigia Jacob til siña Synda, og Israel til siña Misgiorda; Hiner sem Guds Um̃bod er til-trwad, þeir hafa Frelse til ad Straffa, Ogna og Amiña, allra hellst hina Yverbrotnu, og þegar Illskañ og Oguðlegt Athæfe tekur til ad Drottna i Landenu, (og þo vill Paulus ad Guds Vandlæte skule vera med Skynseme,) Rom. 12. þvi þeir giora slijkt i Guds Stad, eñ ecke under siñe Persoonu, og trwe eg ad eingeñ sie svo Darligur, ad hañ þyckest vid Guds Ord, þoott þad være frambored af einum aumasta Vesæling, nema sa, sem villde Eingel fyrer Prest hafa, og giøre eiñ DRottens Madur þad ecke, þa mun hañ brædlega heyra med Jeremia; Þu skallt ecke hræðast fyrer þeirra Auglite, Ella mun eg sundurmeria þig fyrer Augum þeirra, og mun eg ollu helldur kioosa, ad sia Skælkeñ ygla sig, eñ ad Guds Reide tortijne mier ad honum æ siaanda. Edur hvad seiger Paulus? Gal. 1. Hefda eg hijngad til Moñum þocknast, þa være eg ecke Christi Þienare; Eñ hinum ødrum, sem ecke hafa neinu þvilijku ad skipta vid aňañ, þeim vil eg giefa þad sama Raad, er gaf fordum St. Paall þeim i Galatia, Cap. 6. seigiande: Bræður, ef nockur Madur verdur yferstijgeñ af einhverre Hrosun, þier sem Andliger erud, Leidriettid þañ sama med hoogværum Anda, giegne eiñ Veralldar Sonur þvi med Hofmood og Forse, svo sem þeirra er Venia til, og sege eins og hiñ Hebreske vid Moysen, Exod. 2. Hver hefur sett þig Doomara i millum ockar? þa vardar þad litlu, eg hefe samt frelsad Sælu mijna, eñ hañs Blood er yfer hañs Hofde, er ei villde þola Heilsusamlega Amiñing, Ezech. 33. Svo Hugleided nu þetta, Christner Meñ, og læted ydur Maal mitt i Eyrum loda, aller erum vier synduger, og eingeñ sæ ed Gott giøre, og ecke eiñ, lætum þvi Doomeñ byriast fyrst a sialfum oss, og munum vier sijdur adra dæma, sie þad Endurvorrar Idiu a Kvolldum, og stondum upp til þess sama a Morgna, Doomareñ stendur fyrer Dyrunum, hver mun standast fyrer hañs Doome, ef hañ vill i Doom gæñga vid Þræla sijna, eñ hañ vill alla þa dæma i Bræde siñe, er siñ Broodur dæma, þvi seger hañ: Dæmed Ecke Svo Þier Ecke Verded Dæmder, Añadhvert vill Gud dæma þa, er vier tokum oss Dooms Valld yfer, ellegar hañ vill þa ecke dæma; Vilie hañ dæma nockurn, þa gyllder vor Doomur eckert, nema til ad fordæma sialfa oss, þvi ha-

 ñs

ñs er Doomureñ, vilie hañ ecke dæma, þa er þad hrædelegt ad vilia dæma þañ, sem Gud helldur saklausañ, og hønum er þad giorer, er Fordæmingeñ svo vijs, sem hinum er Myskuneñ. Athugum þetta, eñ gleimum þo ecke ad aamiñast iñbyrdis med hoog-værum Anda, til Leidriettingar og Uppbyggingar, og Samvitskum vorum til Frelsu-nar, ad ei giorum vier oss Hluttakara i añarligum Syndum, edur høfum Samfelag med Ofriooffsømum Verkum Myrkraña. Eñ þu Stoore Allsheriar Doomare; Þu sem dæmer Verolldena med Riettvijse, þu sem alleina munt Riettlaatur funden verda, nær þu dæmest; Gief þu ad vier svo dæmum sialfa oss, ad vier ecke verdum af þier For-dæmder, helldur iñgøngum fraa Daudanum til Lijfsins, Bænheyr þad, Myskunsame Gud, fyrer þijns Sonar alls Hollds Doomara Forþienustu, AMEN.

# A Vitiunar Dag Mariæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

A Þeim Døgum, Stood Maria upp, og foor med Flijte til Fiall-Bygda i Borgena Juda, Iñgieck i Hws Zachariæ, og heil-sade Elizabeth. Og þad skiede so, þa er Elizabeth heyrde Heil-sun Mariu, ad Barned spratt upp i heñar Kvide. Og Eliza-beth uppfyllltest af Heiløgum Anda, kallade haarre Røddu, og sagde: Blessud ertu a medal Kveña, og Blessadur er Avøxtur Kvidar þijns. Og hvadañ kiemur mier þetta, ad Mooder DRottens mijns kiemur til mijn? Siaa þu, þa er Rødd þiñar Kvediu kom mier til Eyrna, spratt Barned upp af Føgnude i mijnum Kvide. Sæl er hun sem trwde, þvi ad þad mun fullkomnast hvad heñe var sagt af DRottne. Maria sag-de: Mijn Aund miklar DRotteñ. Og miñ Ande gladdest i Gude, Heilsugiafara mijnum. Þviad hañ leit a Læging Ambaattar siñar. Siaa, af þvi munu mig hiedañ af allar Ætter Sæla kalla. Þviad hañ giørde vid mig mikla Hlute, sa sem Maattugur er, og hañs Nafn er Heilagt. Og hañs Myskunseme varer fraa eirnre Kynslood, til añ-arar, yfer øllum þeim sem hañ Ottast. Hañ framde Magt med sijn-um Arme. Sundurdreifde hañ Dramblaatum i þeirra Hiartans Huxan. Vollduga sette hañ af Stoole, og upphoof Lijtelaata. Hwng-rada fyllte hañ Giædum, og hinum Rijku slepte hañ Orbirgum. Hañ Endurmiñtest Myskunar siñar, og medtook siñ Þioon Israel. So sem hañ talade til Fedra vorra, Abrahams og hañs Afkvæmis ad Eilijfu. Og Maria var hiaa heñe so nær sem um þriaa Maanude, og foor sijd-gñ aptur til sijns Heimkyñis.

Exor-

# Exordium.

ÞAD var Sidur a Døgum Gamla Testamentesins medal Guds Foolks, ad þegar hañ hafde giørt eitthvert merkelegt Daasemdar Verk a medal þeirra, þa prijsudu þeir hañ med Lof-Saungum, til þess, ad Epterkomendurner kyñu med þeim sømu ad tigna hañs Dijrdarfulla Nafn, þegar þeir mintust a svoddañ Guds Stoormerke. Þegar Moyses hafde leidt allañ Israel i giegnum Hafed Rauda, þurrum Footum, eñ dreckt Pharaone og øllu hañs Lide þar i, þa prijsade allur Israel Gud med Nyum Lof-Saung, og Maria Spaakona, Syster Aaronis took sier Bumbu i Hønd, og allar Konurnar geingu wt epter heñe med Bumbum og Hlioodpijpum, og hun saung fyrer þeim: Sijnged Lof DRottne, þvi hañ hefur sioorlega miklad sig, Hestunum og Riddaranum hefur hañ i Siooeñ nidurkastad, Exod. 15. Stoort var þetta Furduverk DRottens, er hañ hier giørde vid Israel, þo er þad miklu meira, sem hin Blessada Mey og Mooder ad Christo Jwngfrw Maria prijsar hier i þessu Heilaga Evangelio, med þeim Dijrdlega Lof-Saung, er vier strax heyrdum i Gudspiallenu. Moyses leidde Israel wt af Egyptalands Prældoome. Guds Sonur hefur oss af Syndareñar og Diøfulsins Prældoome wtleyst. Gud steypte Pharaone og hañs Her-Møñum ofañ i Siooeñ. Eñ JEsus hefur hiñ sterka Hervopnada Diøful afklædt siñe Hardueskiu, og troded hañ under siña Barna Fætur. Siooreñ klaufst i sundur þegar Israel foor af Egypto. Eñ i Holldtekiu Guds Sonar eru Himen og Jørd Samteingd, og øllum Guds Børnum i hønum tilbweñ eiñ nijr og lifande Vegur, ecke iñ i Canaan, helldur til Himnarijkis, a þad Land lifande Maña, hvar ad er Gnoott Fagnadarens og gledelegt Lijferne til Fødursins hægre Handar. Aña Elkanæ Hwss-Frw saung Gude eiñ Packlætis Saung, fyrer þañ Son, er hun hafde feinged med Bæn af Gude. Eñ Guds Mooder prijsar Nafn ens Allra Hæsta, fyrer þañ Son, er hverke hun nie nockur syndugra Maña kuñe uñ ad bidia. Lea Jacobs Hwss-Frw sagde Fordum, er Silpha Ol heñe Asser. Nu munu allar Konur mig sæla kalla; Eñ Maria seiger hier med øllu meira Riette: HJEDañ Af Munn Mig ALLar ÆTTer SÆla Kalla, þvi hun bar Pañ i sijnum Kvide, i hverium allar Ættkvijsler Jardar blessadar eru. Og fyrer þvi, Brædur mijner, ad vier høfum eiñeg af hañs Fyllingu medteked, þa lætum oss nu fagna med Moodur DRottens, og skoda a þessu Stundarkorne hvad ægiætt þad sie, ad mikla hañ, og ad gledia sig i Gude sijnum Heilsugiafara. Hver Ord eg vil nu alleina Hugleida i þetta Siñ. Styrk oss hier til, O! þu Bruñur alls Fridar og Fagnadar, med Naad þiñar Giæsku, i JEsu Nafne, AMEN.

# Utleggingeñ.

DYrdeñ og Vegsemdeñ er svo stoor Hlutur, ad flester gyrnast hana framar ødrum Hlutum; Jafnvel þeir, sem eckert Lofsverdt viña, þeir vilia þo læta Tigna sig, og svo er Mañeskiañ giefeñ fyrer Heidrenum, ad sumer tapa hinum rietta Heidre, til ad wtvega sier fænijtt Hroos, eñ sumer vilia læta sier hroosa, jafnvel af Odygdunum; Svo er þo Ærugyrndeñ rijk i vorre Molld og Østu; Eñ eingeñ af øllum þeim, er epter Vegsemdeñe kieppast, er þo verdur heñar fyrer sialfañ sig, ef Meñ skulu Sañleikañ tala. Pier ber Dijrdeñ og Heidureñ, seger Spaamadureñ under allra Maña Persoonu, ad eingum fraaskildum, eñ oss ber Blygdan vors Andlitis; Pad er ad søñu skylldt, ad hroosa Dygdum og Mañkostum, eñ eingeñ a þo sialfum sier i þvi Vegsemdar ad leita, helldur Fødur Lioosaña, fraa hverium ad kiemur øll good og øll fullkomeñ Giøf, Jac. 1. Eingeñ er meira Lofs verdur, eñ eiñ goodur Konungur, sæ ed Ottast Gud, og vel stioornar sijnum Løndum og Rijkium, eñ allra hellst Guds Kyrkiu, uñ hañ maa eg segia þad, sem Paall sagde fordum uñ þa Olldungana, sem vel forstoodu,

aadur

ædur eñ Guds Søfnuder høfdu Chriſtna Verralldar Høfdingia, ad þeir ſieu twøfall-
ds Heidurs verduger, eñ þo fellſt eg a þad, er ſagde hiñ gamle Tobias: Leynda Doo-
ma Konungſins er gott ad dylia, eñ Guds Verk ad byrta og jæta, er heidarlegt, Tob.
12. Konungaña Raad verdur ad dylia, þvi jafnvel þott þeir ſieu øllum ødrum Moñum
ædre, þa eiga þeir Jafningia adra Konunga ſijna Lijka; Eñ Konungur Konungaña
æ eingañ ſier jafnañ, og þarf þvi ecke ad dylia fyrer neinum hvad hañ ætlar ad giøra,
ſvo hañ vill ſegia til hiñar meſtu Heims Magtar, þad ſem hañ ſagde fordum til ſijns
Foolks: Zach. 1. Pau Ord og Setningar, er eg um̃baud Pienurum mijnum Spæ-
moñuum, hafa þau ecke nææd ydar Forfedrum, ſvo ad þegar þeir aptur ſneru, ſøgdu
þeir, ſvo ſem DRottenn hugſade ad giøra oſs epter vorum Vegum, og epter vorum At-
høfnum, ſvo hefur hañ giørt. Hvern ſkylldum vier þa helldur prijſa eñ hañ, er ſvo
mættugur er og ſvo alvalldur, ad hañ ſitur i Himnenum og giører hvad hañ vill, Pſ.
115. Pvi hrooſar Mooder Drottens hier i Gudſpiallenu, ſegiande: Hañ Giørde vid
Mig Mikla Hlute, ſem Ad Mættugur Er. J hveriu giørde hañ þad? J þvi, Ad Hañ
Leit A Læging Ambættar Siñar. Pad þyker ecke miked, ad giøra miked af miklu: Pad
er ei ad undra, þoott ſæ giete bygt mørg Hws, ſem æ marga Skooga, þo hañ brioote
mørg Lønd under ſig, ſem mørgum hefur æ ad ſkipa, eñ þad mæ Guddoomlegt þykia,
ſvo ſem þad og er, ad giøra allt af eingu, ſvo ſem Gud giørde i Ondverdu Skøpunar,
eñ þott þad ſie eckert lijted, ſem ad hañ giører, þa var þad þo lijted, ſvo ſtoort ſem þad er,
hiæ þvi, ſem Maria prijſar Gud fyrer i þeſſum Loffſaung, þad er, ad Gud vard Mad-
ur, og fyrer þvi ad hinum Alvallda hafde þocknaſt, ad læta þad ſkie i heñar Kvide, ſem
var ein um̃komulaus Stulka, þa prijſar hun Gud med þeſſare Saung-Vijſu: Hañ
Giørde Vid Mig Mikla Hlute, Sem Ad Mættugur Er: Peſs hefur allt ſyndugt
Mañkyn noted: Pad var verra eñ eckert, epter þad Madureñ hrapade i Afgrum̃ For-
dæmingareñar, þvi betra var alldrei fæddur ad vera, eñ Eilijflega ad kveliaſt. Eñ hañ
miñteſt ſiñar miklu Myſkuñſemdar, og i ſijnum diupu Myſkunar Ydrum vitiade hañ
vor, uppruñeñ af Hædum. Peſſu er verdt ad hrooſa fram̃ yfer allar Aſtgiafer Drott-
ens; Jæ, þoott ad allar Eingla og Maña Tungur ſieu ſkylldar ad vegſama þeña O-
mælañliga Velgiørning Drottens, þa er þad oſs þo ſkylldugt framar mørgum ødrum,
hverra Fedur ad voru Myrkur, eñ vier þeirra Syner erum vordner Lioos i Drottne,
Eph. 5. Aller þeir ſem gæænga vilia eins og Liooſſens Børnum hæfer. Jomfrweñ
ſyngur hier i Gudſpiallenu: Hañs Myſkunſeme Varer Fræ Eiñe Kynſlood Til Añ-
arar Yfer Øllum Peim, Sem Hañ Ottaſt. Pad mætte Jſrael jæta, er hañs Gud-
doomlega Trwfeſte reynt hafde a Fedrum ſijnum, allt fræ Heimſins Skøpun, allt til
þeſs Jeſus kalladeſt Jeſus, og ſvo æ ſijdañ, ecke einaſta yfer Abrahams Sonum epter
Holldenu, helldur yfer øllum þeim, ſem nu kallaſt hiñ Andlege Jſrael, hveria Gud hef-
ur Abraham af Steinum uppvaked, þad er, af þeim, ſem dyrkudu Stocka og Stei-
na, og voru þeim ſiælfer lijker, ſem David vottar, Pſ. 115. Oſs, ſem ad ei vorum ha-
ñs Foolk, eñ hañ hefur þa kallad ſvo ſem ſitt, hverier ecke eiga Kyn ſitt ad rekia til Jſ-
raels.

raels. O! hversu meigum vier glader undertaka med hiñe sælu Guds Moodur, þar hañ hefur oß samañsafnad af Austre og Vestre, eñ R'jkesins Syner eru wtrekner i hin ytstu Myrkur', svo ad vier jaata meigum, ad þad hafe a oß sañast, sem David seger um Gud, Ps. 103. Ad hañs Myskunseme vare ecke einasta fra eiñe Kynslood til añarar, svo sem Guds Mooder hier seger; helldur fra eiñe Olld til añarar, yfer ollum þeim sem hañ Ottast. Þyke ydur nu nockud koma til þessara Gledelegu Umskipta, jaa, þyke ydur svo sem Himen og Jord, jaa, allar Eingla og Maña Tungur sieu of-faaar til þess, ad fullþacka Drottne fyrer svo haaleitañ Velgiorning, þa laatum oß þykia þad Gledelegt ad þacka Drottne, og Lof syngia þijnu Nafne, þu hiñ aldra Hæsste, þvi þad er þad einasta, sem hañ af oß krefur, ad vier dyrkum hañs Nafn med Orde og Verke. Veralldleger Konungar skilia sier wr sijnum Londum og Rijkium þa Hlute, sem eru Faagiæter, og nockrar Mætur eru a, er vier kollum Regalia, edur Konungs Giersemar, og er þad ecke uñ Eign þeirra, sem Dag og Noott hafa Umhyggiu fyrer svo margre Saalu, og þar ad auke eru prijdder med nockurskonar Lijkingu Guds Haatignar, eñ Konungur Konungaña hefur sier alleina Dijrdena skiled; Hañs Þegn-Skyllda var eingeñ oñur af Israel, eñ ad þeir skylldu Ottast hañ og Elska, Devt 10. Og svo er hun eñ i Dag af hinum Andliga, þvi med svoddañ moote verdur honum riettelega Dijrdeñ giefeñ. Allt hvad Vegsamlegt er a Himne og Jordu, þad er hañs vegna Veglegt, sem er sialf Dijrdeñ, og eckert utañ Dijrd og Vegsemd: Hiñ Vijse hroose sier ecke af sijnum Vijsdoome, og ecke hiñ Vollduge af sijnu Vallde, og hiñ Rijke hroose sier ecke af sijnum Rijkdoome, helldur hver sem vill hroosa sier, hañ hroose sier af þvi hañ skilie og þecke mig, ad eg sie Jehova, saa ed fremie Goodgyrnena, Rietteñ og Riettvijsena a Jordu, þviad þar i hefe eg Velþocknan, seger Drotteñ, Jer. 9. Hver vill þa eiga Tilkolu til nockurrar Vegsemdar fyrer utañ hañ, fyrst þeir meiga ecke hroosa sier, sem ad eru hvad Vegsamlegaster kallader hier a Jordu. Þessare Vegsemd, þessare Goodgirne, og þessare Riettvijse hins gooda Guds; Hroosar Maria i Lofkvædenu, er hun seger: Dramblaatum Hratt Hañ Af Stoole, Eñ Upphoof Lijtelaata. Skoded hier ydur i Speigle, O! þier Stolltu Giædingar Veralldar þessarar, og hversu faanijter þier erud, nær þier vilied troda Lijtelmagnañ under Footum, þañ sem Gude treister; Vited þier ecke, ad þier fæared Her Drottne a Hendur, biooda ecke Log vor, ad eiñ Fiaarhallds Madur skule veria Sok Omaga sijns, og sækia ef vid þarf? Etled þier ad Guds Fyrerheit mune binda hañ miña helldur eñ Logeñ Skulldbinda ydur, hver þier riufed, nær sem ydur bijdur svo vid ad horfa, fyrer Aviñings edur Haturs Saker; Eñ hversu opt lofar nu Drotteñ i sijnu Orde, ad hañ vilie vera Forsvar hins Munadarlausa? Svo ad aller Underþryckter, aller þeir ed Raangindeñ lijda, þeir eru Omagar Drottens; Er þar nockur Limur a vorum Lijkama, er oß sie vidkvæmare eñ Augun, og þo sagde Gud uñ sijna Vesælinga, sem stundu under Ofrijke Heidingiaña i Babylon, sem er Lijking ydar Foostur-Moodur Veralldareñar; Hver ed snerter ydur, hañ snerter Siaaialldur mijns Auga, Zach. 2. Hugleided nu med ydur, O! þier

hin Skynlausu Børneñ, vid hvern þier eiged ad skipta; Ecke vid hañ, sem þurfte ad setia sig nidur og reikna, hvert hañ med Tiju þusundum giete mætt þeim sem kiemur at moote honum med Tuttugu Pusund, Luc. 14. Pviad allar Sæler eru hañs, helldur vid hañ, vid hvers einasta Bendingu ad Sodoma brañ til Osku, Jericho hrapade, Jerusalem vard ad Stein-Hrugu, Tyrus hrunde i Gruñ nidur; Hver ed dreckte Pharaone med hañs Lide i Hafenu rauda, hver ed droo hañs Epterkomara wt wr sijnu Flioote, med øllum þeim Fiskunum sem loddu i hañs Hreistre, Ezech. 29. Hver ed sette siñ Krook i Senacheribs breñande Naser, hver ed hañs Epterkomara Konunga af Assyria, þeir ed voru eins og eiñ kostulegur Vijn-Vidur, svo ad allar Eykurnar i Gardenum Heden Ofunduðu hañ, hver ed þa, sege eg, upprætte a eiñe Stundu, hver ed sedur Fugla Loptsens og Dijr Merkureñar med Hollde Ovina siña, og uppfyller Dalena og Vatnsfolleñ med þeirra Blood, Ezech. 32. Og þoott þier ætla kuñed, ad þetta ei mune frañ vid ydur koma, þa maa ydur þad alkuñugt vera, ad hañ er saa sem Valld hefur til ad kasta Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld, sem ber svo langt af þeirra Hørmungum, sem þier nidurdreped med Ofrijke ydar, svo sem Guds Barna Sæla, sem þeim er ætlud, ber af allre ydar Fullsælu. O! hversu erud þier þa faavijser, nær þier hefied Orlog a moote slijkum Herra? Vei ydur, þier munud Oskra og Ylfra, þier munud eta ydar Tungur wt af Ofraun, Apoc. 16. Nær hiner munu skijna svo sem Sol i Rijke sijns Fodur, O! hversu gott være ydur þa, ad Lijkamer ydar, hveria þier svo Kappsamlega aled hafed a Bloode hins Volada, ad þeir, sege eg, alldrei uppriise til Doomsins. Eñ nu er þvi ei svo vared, þvi Gud seger fyrer Muñ Ezechielis, Cap. 32. Ad ydar Raanglæte ligge i ydar Beinum epter Daudañ.

Heyred þvi Ord DRottens, þier sem meined ad þier hafed bwed ydur Hreydur i Skyunum, heyred, seige eg, Ord DRottens af Davids Muñe, sem var myklu megtugre eñ þier, og þo myklu lijtelaatare: Giefed DRottne Dijrdena, þier Syner hiña sterku, Giefed DRottne Dijrdena og Prijseñ, Giefed DRottne Dijrdena hañs Nafns, bugted ydur seigiande: DRottne sie Heidur i Prijdeñe sijns Helgedooms, Jaa, giore svo øll Verølldeñ, Haaer og Laager. Hiñ lijtilmootlige Brooder hroose sier i siñe Upphefd, þad er, i þvi, ad Gud hafe hañ þess virdt, ad lijkia hañ Syne sijnum, hver ed giordest Faatækur þar hañ var þo Rijkur, seiger Postuleñ, 2. Cor. 8. Eñ sa hiñ Rijke i Audmykt siñe, þvi eins og Bloomstur Grassens mun hañ forgaanga, seiger Jacob. Og þañeg giefum vier best DRottne Dijrdena, Christner Meñ. Ecke er þad noog ad sijngia honum Lof med Muñenum, eñ afneita honum med Verkunum. Eg elska Retteñ, seiger DRotteñ; Eg hata Raaned, þad sem teingest vid Breñe-Foornena, Esa. 61. Eingeñ af oss, sem vill Hlut siñ vanda, hañ skeiter miøg um þad, ad honum sie hroosad af einhverium Ordvondum, og hvad mun Gud þa dijrkadur verda af Skaalkenum, ef hañ þylur honum eina Saung-Vijsu, kañ skie siaalfum sier til Gamans, og til ad skiemta sier med Raustene, sem eg hygg, þvi verr, ad opt mune henda, jafnvel þa, sem ecke miøg vonder eru, eñ Hiart ad er þo ecke alltijd bwed til Guds Dijrdar.

Lof siing þu Ønd mijn DRottne, og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafne, seiger David: Pad er allt hvad oss fylger, og Gud hefur oss giefed, þad aa ad prijsa Gud. Hiartad med Elskuñe, Muñureñ med Ordunum og Raustteñe, hiner adrer Limerner med wtvortis Utriettingum, svo ad allt hvad vier giorum med Ord og Verk, þad giorum vier i Nafne JEsu Christi, og þockum Fodurnum fyrer hañ. Jafnvel hiner ungu Hrafnarner aakalla DRotteñ, seiger David, Ps. 147. af þvi hañ hefur skapad þa, og munum vier þa ecke vera margra Hrafns-Unga Virde? sem ecke einasta vorum epter Guds Mynd i Fyrstu skapader, og eigum Kost aa ad Endurnyast epter heñe, helldur og med hañs Sonar Dauda fraa Helvijte Endurkeypter. A þessa Skylldu vora miñer oss Paull seigiande: 1. Cor. 6. Pier erud Verde keypter, dyrked þvi Gud i ydrum Lijkama, og i ydrum Anda, hverier ad eru Guds; Nu þar vier erum Guds Eign, bæde epter Riette Skøpunareñar og Endurlausnareñar, þa erum vier hiner mestu Drottens Svikarar, ef vier ecke af fremsta Megne kostgiæfum ad fylla þessa Skylldu vora: Eñ hvad er þa ad dyrka Gud i sijnum Lijkama? Pad seiger hañ oss, Col. 3. Deyded ydar Jardneska Limu, Saurlijfe, Ohreinleika, vonda Gyrnd og Agyrne, sem er Skwrgoda Dyrkan, og i einu Orde ad seigia, ad Meñ stijnge wt þad Augad, og affsniide þa Hond edur Foot, sem hneixlar, þad er ad deyda fyrer Andañ Holldsens Gyrnder. Hvad er ad dyrka Gud i sijnum Anda? Hier meinar Postuleñ Saalena, þvi hun maa fyrst og sijdarst heita Verde keypt, heñar Dijrkun skilur Gud sier hvad mesta, þvi seiger hin heilaga Mey: Mijn Aund Myklar DRotteñ, hun giorde og svo bæde med Orde og Verke, þvi neina svo vered hefde, þa munde ecke hiñ Askigne Gud hafa valed heñar Lijkama Syne sijnum til Bwstadar, Hun seiger; Pvi Hañs Nafn Er Heilagt. Jhugan þessara Orda gagnar oss til Tveggia Hluta, sem baader eru Christnum Mañe Omissande. Pad er vitanligt, ad med þessum Guddoomsins Haatignar Eigenlegleika, Heilagleikanum, wtmaalar Ritningeñ optlega hañs Yferburde yfer allar hañs Skiepnur, þar fyrer kallast hañ sa Heilage i Jsrael: Pess vegna eru aller Hluter, sem honum vidkoma edur eignader eru, Heilager kallader, svo sem er hañs Ord, hañs Kyrkia, hañs Frumburder i Gamla Testamentenu, þad er alltsamañ Heilagt kallad. Guds Dijrdarfullu Herskarar, sem þar uppe eru, þeir hafa eingañ Lofsaung, sem vier af vitum, fegre eñ þeña: Heilagur, Heilagur, Heilagur ert þu DRotteñ Gud, Esa. 6. Nu, þar hañ er svo Heilagur, ad syndugra Maña Skynseme fær þad ei griped, þa aa þesse Jhugan ad gagna oss til ad dyrka hañs Haatign med Blygdan vors Andlitis, og af-þvo Daglega vorn Saurugleika med Taarum Ydrunar vorrar, þar vier Daglega framkoma skulum med vorar Bænar-Foorner fyrer þeña fortæranda Elld, vid hvern eckert Saurugt maa bwa, og i ødru Lage, þar hañ svo Heilagur er, sem aadur er sagt, þa meigum vier kañast vid Skylldu vora, ad oss byriar af fremsta Megne ad burtkasta ollum Ohreinleika, ef vier vilium hañs Pioonar vera, sem svo Yfermaata Hreiñ og Heilagur er, og ad vier lifum hooflamlega, Riettvijslega og Gudrækelega i Heime þessum, Tit. 2. Hañ Endurmiñtest Myskunar Siñar, Og Medtook Siñ Pioon Jsrael, seg-

er Guds Mooder. Pad giorde sa Blessade HErra, þegar hañ sende siñ Son i Heimeñ til ad frelsa þad sem tapad var, til ad giøra hina Blindu heilskigna, til ad lækna hina Hølltu, hreinsa hina Lijkþraau, til ad giefa Daufum Heyrn, og til ad uppreisa hina Daudu, eñ allra hellst til ad predika Faatækum Evangelium. Laatum nu og siaa til, ad vier miñunst vorra Heit-Orda, er vier giørdum i Skijrnar Saattmaalanum, ad trwa aa hina Heiløgu Guddoomsins Preñingu, eñ afneita Dioflenum og øllum hañs Svikum og Vielum. Ef vier nu þetta med allre Kostgiæfne og Alvøru hølldum, ad svo myklu Leite sem vier afkastad faaum fyrer Adstod H. Anda, þa Vegsømum vier DRotteñ riettelega i vorum Lijkama og i vorum Anda, og eigum fulla Von aa med Jomfrw Mariu, ad gledia oss i Gude vorum Heilsugiafara, hvar um̃ nu fram̃veiges er nockud ad tala. Miñ Ande Gledst J Gude Heilsugiafara Mijnum: Petta er Saalareñar Glede, Børn mijn, eñ ecke Lijkamans Sælgiæte, þad er i Gude, seiger hin blessada Mey, hver ad er Bruñur og Uppspretta allrar Sælu, og sialfur alleina sæll, þvi kalla eg þañ alleina fullsælañ, eñ eingañ añañ, sem smackad hefur hvad sætur ad hañ er. Hvad eru vorar Osker i Heimenum? Margar eru þær, og flestallar Heimskulegar, Skadsamar, fullar af Sorg og Armædu, eñ allar lwta þær þaangad, ad Vier bidium uñ þa Hlute, sem oss epterlaangar. Eñ hvad seiger David? Haf þijna Unadsemd i DRottne, og mun hañ giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnest, hvad er þad, Børn mijn? Eckert añad eñ hañ sialfur, þvi svo sem Holldlegar Gyrnder verda alldrei saddar, Fylleñ ablar þeim, er þær elska, æ meira Hwngurs, svo er og Launguneñ epter DRottne þvert aa moote sijn eigeñ Sadning, og þeir ed vellta sier i Holldlegum Munade, þeir gyrnast nu þetta, nu hitt, þegar Sadningeñ ablar þeim Leida aa einum Hlut, svo laangar þa i añañ, eñ sa sem er i Gude gladur, og til fulls hefur smackad Krapt epterkomande Alldar, Heb. 6. Hañ gyrnest ecke añad eñ Gud, hañs Matur og Dryckur er ad giøra hañs Vilia, sem hañ elskar um̃fram̃ alla Hlute, þvi þar er allur sem uner, seiger Ordshaattur gamall. Verølldeñ kallar Aud, Metord, Sælgiæte, og añad þvilijkt hina mestu Sælu, eñ eg hefe aadur nockrum Siñum med Røkum synt, ad i þessu er eingeñ riett køllud Sæla, helldur blondud med Angre, Erfide, Hugsijke, Otta, Prældoome, og jafnvel hiñ mesta Saalar Haaska, vidteingslud. Eñ hvad seiger David? Psalm. 1. Sæll er sa Madur sem hefur sijna Lyst i Løgmaale DRottens, og talar um̃ hañs Vegu Daga og Nætur. Hvar fyrer, Brædur mijner? Pvi hañ sem ad Guds Ord og hañs Riettinde svo miøg Jdkar, og svo miøg kiær hefur, hañ gietur ecke fared a mis vid þad ad elska Gud, hiaa hveriu allur añar Føgnudur og Gladvære er Sorg og Armæda ad reikna, þvi saa er þessu Hlutskipte naad hefur, þeim heiter Lausnareñ, ad hañ og hañs Fader vilie til hañs koma og Vistarveru hiaa hønum giøra, Joh. 14. O! hverneg maa þar vanta alla Gnoogt Fagnadarens, hvar þvilijker Giester eru ad Heimbode, Jafnvel þott einhver være i Daniels Lioona Grøf. Peir Hebresku Sveinar Chananja, Misael og Hazarja, hverier ad Leyfe Stallarans i hinu Babyloniska Hofe neittu alleina Jardar Avaxta, svo ad ecke britu þeir a moote sijns Guds

Løg-

Logmaale, þeir urdu þo Sællegre og fegre Ilits eñ adrer, Dan. 1. Svo eru og þeir sem i Hiarta sijnu lijta Guds Aſioonu, yfer hverra iñra Mañ hun fegur ſkijn, eñ nockur Oreyndur kañ nærre ad gieta, jafnvel þoott þa vante Epterlæte Heims þeſſa, og sijneſt Aumer og Sorgbitner, ſamt bwa þeir vid hiñ meſta Fognud og Rooſeme Hiartans, ſem eingeñ maa af þeim taka. Þegar Drotteñ Gud ſætte Mañkyned vid ſialfañ ſig i añad Siñ, þa til bioo hañ ſiñ Boga i Skyenu, til eins Saattmaals a mille ſijn og Jardareñar, Gen. 9. Þad er allra þeirra, ſem a Jordu bwa. Ezechiel ſeger, Cap. 1. ad Lijking Dijrdar Drottens, er hañ ſaa vid Flooted Cebaris, hafe vered eins og Boge ſaa, ſem verdur i Skyunum þegar rigner. Dijrdleg var þeſſe Openberan, er Spaamadureñ ſaa, eñ miklu er ſu Veglegre, Ædre, og Iñdælle, ſem byrteſt i chriſtens Mañs Hiarta, nær hañ ſier Gud naadugañ, nær hañ gledur ſig i þeim Saattmaalanum, ſem giordur er a millum hañs og Drottens i Guds eingietnum Syne, hvers Buninge Johañes Regnboganum ſamlijker, Apoc. 10. hvor ed giorer hañ þeſſ fulloruggañ, ad hañs Synder ſieu honum fyrergiefnar. Drotteñ ſeger, Gen. 9. ad hañ vilie miñaſt ſijns Saattmaala, þegar Bogeñ ſieſt i Skyenu; Eñ hverſu feigeñ mun Syndareñ verda, Drotteñ miñ, þegar hañs Augu rigna Taarum Ydranareñar, og hiñ Naadar Saattmaale myndaſt i þeſſu Skye fyrer Verkan H. Anda, ſem ber hañs Anda Vitne um̃, ad hañ ſie Guds Barn, ſem kallar Abba, þad er Fader, ſem hroopar, Vert þu Hughrauſtur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. Þegar Guds Meñ ſaau þeſſar Dijrdlegu Siooner, þa urdu þeir Maatt-Prota, ſvo þar var ei Megn i þeim framar; ſvo ſem Daniel um̃ ſig talar i hañs Maala-Bookar 10. Cap. Eñ þegar Guds Naadar-Lioome ſkijn i Ydrande Mañs Hiarta, þa fær hañ nyañ Dug, þad geingur honum eins og þad gieck Ezechiel, er hañ ſaa þeſſa miklu Syn, er eg fyrer ſkomu um̃gat, ad hañ lifnade vid aptur, og ſtood upp a ſijnar Fætur þegar Drotteñ baud honum, eins bregdur Sañ-Ydrande Mañe vid Guds Anda Blijdlætis Avarp, nær hañ telur honum Trw um̃, ad hvar ſem ad Syndeñ yfergnæfer, þar yfergnæfe þo Naadeñ miklu framar. Hiñ nye Madur ſprettur upp af Fagnade i hañs Hiarta, eins og Johañes i Moodur-Kvide, nær honum til Eyrna kiemur þeſſe Kvedia, og kañ eingeñ Jardneſkur Fognudur ad komaſt i nockurn Samjofnud vid þeſſa Himneſku Glede; Eg maa vel kalla hana Himneſka, ecke einaſta þeſs vegna, ad hun fraa Himnum kiemur, helldur og hins, ad meire Glede er i Himnenum yfer einum Syndara ſem Ydran giorer, helldur eñ yfer niju og nijutiju Riettlaatum. Mooder Drottens ſeger hier Orſokena til þeſſa Guddoomlega Fagnadar: Þvi Hañ Leit A LÆging Ambaattar Siñar. Stoora Orſok hafde hun til þeſſa, þvi margar munu hafa gofugre og meirehaattar vered eñ hun, ſem ecke var meir meteñ af Heimenum eñ ſvo, ad hun ei fieck añad Rwm i Gieſta-Herbergenu, helldur eñ eiñ Stall til ad leggia i Himens og Jardar Skapara; Hun maatte ſegia eins og Gedeon Fordum ſagde vid Eingeleñ: Jud. 6. Hverneg ſkal eg frelſa Iſrael, þar mijn Ætt er hin minſta i Manaſſe Kyne, og eg hiñ Minſte i Hwſe mijns Fodur.

Eck; er þad Offsogum sagt um̃ hiñ Mættuga Gud, sem Petur seiger, ad Dramblætum mootstendur hañ, eñ upphefur Lijtelæta. Hversu morg Dæme hofum vier þar uppa, ad hañ hefur wtvaled þad, sem eckert er fyrer Heimenum, svo sem hañ valde Gedeon, til ad frelsa Jsrael af Hende Madianitaña, sem var hiñ miñste medal sijns Foolks, svo kiore hañ og þessa orsnauda og færæda Stwlku til Moodur allrar Veralldareñar Frelsara, og var þvi oll Von, ad hun fagnade slijkre Upphefd, hiaa hverre allrar Veralldareñar Hofdingskapur er Prældoomur ad reikna, eñ hverneg sem þessu er vared, þa hugsa med þier, syndugur Madur, hversu Audvirdeleg ad sie Saala þijn i Guds Auglite, þegar þu giorer hana ad Præl Andskotans med Jdkun verstu Glæpa og Misgiorda, sem upptendra Guds riettferduga Reide. Gud nade, ad hun gietur ei sagt, eins og Maria vid Eingeleñ sagde: Eg Em Ambaatt DRottens, Verde Mier Epter Orde Þijnu, helldur verdur hun ad jaata; Eg hefe vered Fridla Satans, og drygt Hooraner med morgum Elskuga, straffa mig ecke i Reide þiñe, og typta mig ecke i þiñe Bræde. Seig mier, hver er þa svo læg sem Saal þijn, og hver hefur meire Uppreist hloted eñ hun, nær hañ seiger til heñar? Kom þu aptur til mijn, þoott ad Synder þijnar sieu raudar sem Blood, þa skal eg giora þær hvijtar sem Snioo, og þoott þær sieu Purpura raudar, skal eg þær Ull-hvijtar giora, Esa. 1. O! hversu myklu meire Ordsok hefur þu þa til ad glediast i Hiarta þijnu, helldur eñ Guds Mooder, af þvi ad hun var hañs Lijkamleg Mooder, hun var alltijd Guds Barn, þu hefur optlega giort þig ad Diofulsins Barne; Hañ var heñar Holldgieteñ Sonur, eñ hañ biidur þier, ef þu villt læta af Jllu, og læra gott ad giora, ad hañ vilie myndast i þier aptur ad nyu, sem Paulus ad Orde kiemst, Gal. 4. Svo þu verder hañs andleg Mooder, og er þesse Fognudur ædre ollum Skilninge, Ef þu kant vid ad taka og med ad fara svo sem Guds Barn; Þetta vottar hañ sialfur, er hañ sagde fordum vid Konuna, er prijsade Sælu Moodur hañs, Hvad um̃ þad? Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau. Nu svo sem þesse Fognudur i Gude er svo gott Hlutskipte, ad eckert er þvilijkt, þa er þad ecke i hvers Mañs Hiarta ad fiña, þvi Trweñ er ecke allra, seiger Paulus, 2. Tess. 3. Jafnvel þoott þad stande ollum til Boda, sem vilia þad til þess viña, ad hafna Glede Veralldareñar, og ecke selia þessa Sælu fyrer stundlegt Epterlæte Syndareñar. Þad er ecke noog, Christner Meñ, ad vilia naa þessum Fognude, Myked skal til mykels viña, seiger hiñ forne Ordskvidur. Kieppist vid ad gaanga iñ um̃ hid þraungva Hlided, seiger Frelsareñ, Luc. 13. þvi eg seige ydur, marger vilia þar iñgaanga og faa þad ei komest. O! hversu miog syndgum vier, jafnvel i voru Gudrækuis Verke, margur hver. Ef ad Gud veiter oss einhvern Lijkamlegañ Velgiorning, sem hañ Daglega giorer, þa elska þeir hañ kañ skie, og þacka honum þar fyrer, sem Gudhrædder vera vilia, og er þad skylldugt ad soñu; Eñ þau Himnesku Dæsemdarverkeñ, svo sem Utsending hañs Sonar, Astgiafer Heilags Anda, Fyrergiefning Syndaña, þetta allt, seige eg, svo myked sem þad er, sem þo er yfer allañ Mæta myked, þad orkar ecke svo mykils hiaa oss, ad vier fyrer hañs Skulld, er oss allt þetta hefur giefens veitt, vilium forsmaa

alla Veralldar Mune, hvad ætle þier ad hiñ Alſkigne, hvad ætle þier ad Hiartnaña og Nyrnaña Rañſakare mune dæma um̃ ſvoddañ Gudrækne? Eg vil ſeigia þad eg meina, ad hañ vill ſeigia vid þa, ſem alleinaſt ſiñſt til þeſs ſem Kroppnum gagnar, og duger til ad lifa vel og Rijkmañliga i þeſſum Heime, eñ meta lijtels þad ſem þar uppe er, þau Stoormerke Guddomligrar Elſku, ſem ei mætte afreka nema med hañs Sonar Dauda, vid þa vill hañ ſeigia, ſeige eg, eins og vid Phariſæos ædur, Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdum og Phariſæis þier Hræſnarar, þier ed Tijunded Myntu, Anis og Cumen, eñ gleymed þvi ſem meira er i Logmaalenu, Trwñe, Doomnum og Myſkunſemeñe, þetta byriar ad giora, eñ hitt ecke epter ad ſkilia. Svo eigum vier Gude ad þacka, hañ ad elſka og dyrka fyrer Lijkamlega Hlute, og þad af allre Alwd, eñ þo laangtum framar ad mykla hañ, elſka, heidra, og gledia oſs i honum fyrer þau dijru Stoormerke hañs Fodurlegrar Giæſku, fyrer hver hañ hefur þriſed Saaler vorar wt af Andſkotans Vallde. Heyred hvad DRotteñ ſeiger fyrer Muñ Hoſeæ, Cap. 7. Þeir ækalla mig ecke af Hiarta, þegar þeir emia i Svefn-Hwſum ſijnum, fyrer Korned og Muſtena ſamañſafnaſt þeir, eñ eru mier þo Ohlijduger; Hid ſama er ad ſeigia um̃ alla adra Guds Þioonuſtu, er vier laatunſt veita honum, alleina fyrer Tijmañlega Mune, ſvo blanda Meñ ſamañ Guds Þioonuſtu og Mamonæ, Vatne og Vidſmiore, ſem alldrei kuña ad þijdaſt hvert añad. Meñ ſveria vid Nafn DRottens, og þo under eins Malcom, eins og Judar, og dyrkum Gud i hañs Kyrkiu, eñ ſierhver færer Foorner ſijnu Skwrgode æ Hædunum, eins og þeir, þad er ſierhverium þeim Hlut, er hañ metur meir edur jafnt vid Gud. Svoddañ Chriſteñdoomur er lijkur Footunum æ Nebuchadnezars Lijkneſkiu, er ſumpart var af Leyr, og ſumpart af Jaarne. DRotteñ ſagde vid Ezechiel: Cap. 44. Þeſſar Dyr (hañ meinte hins allra Helgaſta) ſkulu læſtar vera, eingeñ gaange iñ um̃ þær, þviad DRotteñ Jſraels Gud hefur þar um̃ iñgeinged. Þu ſkallt og miñaſt þeſs, ſem ert eiñ Andlegur Jſraels Madur, hvad Gud lofad hefur um̃ ſiñar Kyrkiu Vijgſlu, ſem er þitt Hiarta; Eg ſkal giefa ydur nijtt Hiarta, og eiñ nijañ Anda ſkal eg ſetia medal ydar. Þetta ender Gud ad vijſu vid alla þa ſem honum eru helgader i Skijrneñe, og ecke ſaurga aptur hañs Muſtere med Ydrunarlauſu Frañferde; Eñ ſijdañ þu hefur hañs Hæſæte, og Stad hañs Foota, Ezech. 43. Þad er Guds Rijke, iñe hiæ þier, þa lwk þeim Dyrum aptur, hvar hañ iñgieck, og leif eingum þar iñ ad koma til Giſtingar, nema honum og hañs Chriſte, ſem er hiñ æðſte Preſtur, og hañs Um̃bods-Moñum (þvi hinum ypparſta Preſte, og hañs Um̃bods-Mañe, leyfdeſt iñ ad gaanga i þad allra Helgaſta) Laat þar þvi iñkoma Gudrækelegar Amiñingar, og holla Lærdooma, Guds Ords Þienara, og añarra, Gudhræddra Maña: Med þvilijkum Gieſtum maa hañ giarna Seſſ eiga. Þu munt kañſkie ſegia, hverneg maa eg faa þvi vidkomed, ad hugſa eckert añad eñ um̃ Gud, a medañ eg ber epter mier þetta veika Holld? Hallt kyrru um̃ Stund, Barn mitt.

J Jeruſalems Muſtere voru Stader Heidingiunum ætlader, fyrer utañ þañ Mid-Veggeñ, er DRotteñ nidurbraut, þegar hañ kom til ſijns Muſteris, þar var og Stad-

ur fyrer þa, sem Gydingar hofdu giorst, fyrer Foolked, og fyrer Levitana og Kieñemeñ-ena, sem voru af hiñe lægre Rod, eñ hiñ ypparste Prestur, edur og hañs Umbods-Madur, gieck alleina iñ i þad Allra-Helgasta; Par eru og i Guds Mustere, sem er þitt Hiarta, margar Verur, þar kañ ad vera fyrer Hiegooma Veralldareñar, er þu Daglega heyrer; Laat þær alldrei komast iñ fyrer Mid-Veggeñ, helldur hallt þær fyrer eiñ Heidingia, sem ei meige saurga Guds Mustere, þar er og Stadur fyrer Naudsynlega Umhyggiu þessa fallvallta Lijfs, fyrer Naunganum, og fyrer Embættis Utriettingum vorum, eñ hid iñsta af Hiarta þijnu skallt þu DRottne helga, þad skallt þu Daglega hreinsa med sañre Ydran, þad skallt þu uppfylla med Reykelse Bænareñar, þad skallt þu prijda med Skarte Voñareñar, Trwareñar, Kiærleikans; Eñ um̃ alla Hlute fram̃ med Elskuñe til hañs, þa vill hañ til þijn koma, og Vistarveru hia þier giora, þar munt þu siaa hañs Dijrd, svo sem i nockurskonar Skuggsiaa, þar mun hañ laata þig smacka hvad sætur hañ er, og þar mun hañ jafnvel i hinu mesta Volæde kieña þier, ad Mootlætingar þessara Tijma sieu ecke verdar þeirrar Dijrdar, sem vid oss mun fram̃koma i eilijfu Lijfe; Hverrar niootande ad verda, oss uñe og veite hiñ Naaduge Konungur eilijfrar Dijrdar, fyrer JEsum Christum, A M E N.

# Fimta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 5. Cap.

I Pañ Tijma. Og þad skiede, þa ed Foolked flycktest ad hønum til ad heyra Guds Ord, Og hañ sialfur stood vid Siooeñ Genezareth, og hañ leit tvø Skip standa vid Siooeñ; Eñ Fiskarner voru stigner af Skipunum og þvodu Neteñ. Hañ stie þa uppaa añad Skiped, þad sem var Simonar, og bad hañ ad draga nockud fraa Lande. Og hañ sat og kiende Foolkenu af Skipenu. Og sem hañ gaf upp ad kieña, sagde hañ til Simonar: Drag þu wt a Diwped, og leysed upp ydar Net til Fiskedraattar. Simon svarade, og sagde til hañs: Meistare, i alla Noott høfum vier erfidad, og feingum eckert; Eñ i þijnu Orde mun eg Netenu wtkasta, og þa er þeir høfdu þetta giørt, iñelucktu þeir mikla Mergd Fiska, so ad þeirra Net rifnudu. Og þeir bentu sijnum Fieløgum sem voru a hinu ødru Skipenu, þad þeir kiæme þar, og hiaalpudu þeim. Og þeir komu og hloodu bæde Skipeñ full, so ad þau sucku ad mestu. Pa ed Simon Petur saa þetta, fiell hañ til Kniaaña JEsu, og sagde: Gack fraa mier Lavardur, þviad eg em Madur Syndugur, af þvi ad Felmtur var yfer hañ komeñ, og alla þa sem med hønum voru af þeim Fiskedrætte er þeir

feingu

feingu til samans, lijka og eirneñ yfer Jacobum og Johañem, Sonu Zebedæi, sem ad voru Lags-Meñ Simonar. Og JEsus sagde til Simonar: Ottast þu eige, þviad hiedañ i fraa skalltu Meñ veida. Og þeir droou sijn Skip ad Lande, yfergaafu alltsamañ, og fylgdu hønum epter.

## Exordium.

BlEssan DRottens giører Rijkañ fyrer utañ Mædu, seiger Salomon, Prov. 10. Ecke meinte hiñ Vijse Konungur þad, ad ei skylldu Synduger Meñ hafa Omak og Erfide fyrer Næringu siñe, þad var ecke hañs, ad raska þvi Løgmaale, er hiñ Alvallde Konungur sette strax epter Synda-Falled, ad med Erfide skyllde Madureñ sig af Jørdu ñe næra, og i Sveita sijns Andlitis Brauds sijns neyta, Gen. 3. Hitt er hañs Meining, ad hvert sem hiñ goode Gud lætur einum Aud edur Armood tilfalla, þa sie hañ samt Rijkur, ef hañ Ottast DRotteñ, leitar hañs Blessunar, og Næringar siñar i hañs Nafne, Hiñ Rijke ad søñu, þvi þoott hønum Audur hlotnest, þa fester hañ ecke Hiarta sitt þar vid, svo sem David bijdur, Ps. 62. Ef hañ er Guds Barn, helldur stundar epter ad vera Rijkur i goodum Verkum, svo sem Paulus fyrer mæler, 1. Tim. 6. Og etur svo Braud sitt med Glede, og goodre Samvitsku, Hañs Erfide fellur hønum liett, og hañ þiggur Blessan DRottens med Audmykt og Packlæte, af hañs Ørlætes Hende: Svo giørde Abraham, Isaac, og Jacob Forfedur, og marger af þeirra Nidium hafa fetad i þeirra Spor. Eins er hinum Faatæka vared, ef hañ elskar Gud, hañ stundar ad verda i hønum Rijkur, þegar hañ hefur DRotteñ, þa skeiter hañ hverke uñ Himen nie Jørd, hønum þiker sier borged vera, þegar hañ hefur eignast hañ, sem alla Verølldena hefur ad Erfdum teked, Christum, Psalm. 2. Pvi temur hañ sier med Paulo, bæde Haar og Laagur ad vera, bæde Noog ad hafa, og Skort ad lijda: Pañeñ hroosar hiñ Audvirdelege Brooder sier i Upphefd siñe, og hiñ Rijke i siñe Nidurlægingu, Jac. 1. Dæme uppaa svoddañ Rijkdoom og Faatækt høfum vier i þessa Dags H. Evangelio, a St. Petre og hañs Feløgum, þar þeir høfdu alla Noottena Erfidad, og eckert feinged; Eñ sijdañ iñeluncktu þeir mikla Mergd Fiska. Hier wt af vil eg Tvent athuga i þetta Siñ. 1. Ad oss byrie Poleñmoodum ad vera i Ørbyrgdeñe. 2. Packlaatum og Audmiwkum i Velgeingneñe.

Hiaalpa oss til ad Hugleida þetta so sem ber, þu alleina Rijke Konungur, og Skapare Himens og Jardar, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

JAlla Noott Høfum Vier Erfidad, Og Feingum Eckert, seger Petur. Texteñ brwkar hier þad Ord, sem merker ad erfida sig þreittañ, og fyrer þvi hefur Guds Madur hier nockra Afsøkun, og villde svo sem hafa sig undañ-þeigeñ, ad reyna til framar, nema Drotteñ hefde hønum þad boded. Vidlijk Freistne hender jafnvel margañ þañ sem vill Ottast og elska Gud, þegar hañs Erfide og Athafner luckast ecke, hañ þeinker med sier; Eg viñ Bake brotnu Eg bid Gud mier til hiaalpar; Eg slæ eingeñ Vindhogg i mijnum Atburdum, svo eg skyniad fææ, og er fraasneiddur allre Oraadvendne, ad eg vilie taka mijns Naaunga Braud fraa hañs Muñe, edur eta mitt Braud i añara Sveita, þo Luckast ecke mitt Verk; Eñ añarra sem midur bera sig ad, hefur goodañ Frañgaang, og þeim aorkast, þoott þeir yrke ecke, og hiñ Almaattuge hañ elur þa sofande, Gud mun mier aan Efa reidur vera, og hañ setur minar heimuglegar Synder fyrer sitt Auglite. Pvilijkt kañ Moñum i Hug ad fliuga; Jafnvel þoott Guds Viner

fieu, þegar ecke verdur frañgeingt þad þeir hyggia sier til bestu Nota. Eñ læred þad
af Dæme Peturs, christner Meñ, og hañs Verkanauta, ad þier ei læted slijka Paan-
ka koma i ydar Hiortu. J odrum af þessum Fiske-Baatum var Petur og Brooder
hañs Andreas, eñ i odrum þeir Zebedæi Syner Frændur Drottens, Marc. 1. Hver-
su dææt hañ hafe elskad þessa Fiskara, þad gaf sijdar Raun Vitne uñ, og medal añar-
ra, þegar hañ þvode Fætur þeirra, þegar hañ talade fyrer þeim hina Hiartnæmu Pre-
dikun, sem ritud stendur, Joh. 14. 15. 16. Cap. Epter Kvolldmaaltijdena, þegar hañ
leifde þeim ad sofa og hvijlast, þa hañ sveittest Bloodenu under þeirra og allra Maña
Syndum, þegar hañ bad þeim Orlofs, wr Mordingia Hondunum, þegar hañ leitade
ad þeim, upprisen af Dauda, er hañ þo skomu ædur yfergiefed hofdu, og sierdeilis Pet-
re, er mest hafde tiluñed, þo lætur hañ þa hier alla Nottena Forgiefens erfida. Og ef
hañ breitte svo vid þa, þvi meigum vier þa kuña hiñ Alvijsa fyrer þad, ad hañ sijner oss
somu Naad, sem hinum kiærustu Vinum sijnum, hverra Skooþveinge vier erum ei
verduger upp ad leysa, edur ad þurka af Dupt Foota þeirra: Ætle þvi eingeñ, ad sa
mune vera hiñ beste Guds Vinur, sem hañ Laanar mest af Veralldar-Munum, eñ ad
hañ hafe skoted hinum fraa sier, er hañ lætur þa vanta, añars badade Nabal i Guds
Skaute, eñ David, sem nærre þvi foor a Vonar vol med Sveit siñe fyrer Ofrijke Sau-
ls Konungs, hañ være utrekeñ fraa hañs Auglite, Lazarus være burtkastadur, eñ hiñ
rijke Sælkiere iñtekeñ i Guds Vinaattu. Dæmum þvi ecke epter Holldenu, Joh. 8.
Christner Meñ, helldur lærum af þessum Guds Hetium, ad varpa allre vorre Ahyggiu
uppa hañ, þvi hañ mun þvi vel til Vegar koma, Ps. 37. Hvad sem hañ lætur oss til
Handa bera. Þad hiaalpar ecke til ad hlaupa, ad vera skiootur, ecke til Bardaga, ad
vera sterkur, svo hiaalpar þad og ecke til Rijkdooms, ad vera Ahyggiusamur, þvi þad
er satt sem Syrach seger, Cap. 11. ad Lucka og Olucka, Lijf og Daude kome af Drott-
ne, og hañ giefur þad hverium hañ vill. Hver vill segia vid hañ; Hvad giorer þu?
Meistare, J Þijnu Nafne Mun Eg Netenu Utkasta, stendur i Gudspiallenu: Þetta
Ord Meistare, þijder Verkstioora, epter Textanum; edur og Hofdingia, edur For-
raada Mañ: Ef hañ er Herrañ, maa þa baña honum ad skipa mier ad erfida, jafnvel
Forgiefens, ef honum svo lijkar? Eg aa ecke meira af Idiu miñe, helldur eñ hañ mier
skamta vill, svo sem odrum Verk-Præl, eñ eg veit ad hañ er trwr, og freistar einkis yfer
Megn fram, og ecke maa eg svo vid hañ breita, svo sem sumer af vorum Verka Moñum
vid Hwsbændur sijna, nær þeir þykiast þreytter vera, vilia þeir eckert Verk framar vi-
ña: Ecke maa eg helldur svo Raangeygdur vera, ad siaa Offioonum yfer þvi, ad hañ
lienar odrum meire Hamingiu i sijnu Erfide, þvi hañ took þad ecke af mijnu, sem hañ
gaf honum frekar eñ mier, sierdeilis þar eg veit ecke hañs Tilgaang, hañ hefur Tijma
og Hentugleika sett i sijnu Vallde, Act. 1. eñ ecke mijnu; Hver hefur nockurn Tijma
hañs Raadgiafe vered? Rom. 9. Hitt sie eg af Dæmunum, bæde Fornum og Nyum,
ad Gud lienar Audeñ sumum Moñum, til þess, ad hañs Poleñmæde og Giæska drage
þa til Ydranar; Eñ nockrum, þad er þeim Feitingiunum, sem upp hafa fyllt Mæler
Synd-

Syndaña, til Straffs og Hegningar, svo sem Meñ ala eiñ Uxa til Slatrurs. Apt- ur ma þad þeckia, ad Gud svipter siin Born þessum Veralldar Hiegooma, til þess, ad deyda þar med Holldsins Gyrnder, til þess, ad reina Stodugleik Trwar þeirra, eins og Jobs; Ecke fyrer þvi, ad hañ þecke hañ ecke sialfur best, helldur ad þeir sem hañ elskar, lære ad þeckia sialfa sig, og treista ecke ofmiog Mætte siinum i Andlegum Efn- um, og lære ad segia med Paulo: Þa eg em Veikur, þa em eg Mattugur. Þad giorer sa blessade Herra og so til þess, ad venia oss af Brioftum hiñar flaraadu Skiæk- iu Veralldareñar, og ad Meñ þecke, ad allt þad sem i Heimenum er, þad er ecke añad eñ Fysn Holldsens, Lysting Augnaña, og Drambsamt Liiferne, 1. Joh. 2. Og læ- ra ad skynia þad sem þar uppe er, og ad vor Borgar-Riettur er a Himnum, hvadañ vier væntum Frelsarans Jesu Christi, Phil. 3. Hver þoott hañ være riikur, seger Postuleñ, giordest hañ Fatækur, svo ad vier fyrer hañs Fatækt riiker yrdum, 2. Cor. 8. Þvi skyllda eg mogla a moote honum, sem ad veit alla Hlute, aller eru þeir opner og nakter fyrer honum, seger Postuleñ; Eru ecke þetta Guds Sonar Ord hia Matth. 6. Ydar Himneskur Fader veit ad þier hafed alls þessa Þorf? Og ecke einasta veit hañ þad, helldur og skorter hañ ecke Matt til ad hialpa; Er hañs Hond nockud stutt ordeñ, svo hañ ei hialpa kuñe? Esa. 59. Jordeñ er hañs og allt hvad þar i er, Jard- ar-Kriinglañ, og aller þeir ed a heñe bwa, Ps. 24. Nær hañ talar; So skiedur þad, nær hañ biidur verdur þad, Ps. 33. Edur mun hañ Giæskuna bresta til ad vilia hial- pa, hafe hañ skapad Sal og Liif, og furdulega þeim vidhallded allt til þessa Dags, og giefed oss þad besta er hañ atte, siñ Eingieteñ Son, til ad frelsa oss wr Kvolunum, siñ H. Anda til ad helga oss, ad hañ sie Pantur vorrar Arfleyfdar og eiliifs Liifs; Muñ hañ þa ecke giefa oss þad vier vidþurfum til þessa Liifs Næringar, þott hañ late Stund- um misbrest a þvi verda, þeirra Orsaka vegna, er hañ sialfur veit, eñ vier faviisar Mañeskiur skynium ecke: Eda seger ecke Postuleñ berlega: Hañ sem gaf oss Soneñ, muñ hañ ecke giefa oss alla Hlute med honum? Hañ hefur sialfur lated oss bwa vid þañ Kost er hañ vill, er oss skapad, Endurleyst og helgad hefur. Ef hañ nu elur Fuglana under Himnenum, svo ad eiñ Titlingur af þeim fellur ecke a Jordu an hañs Vilia, Ef hañ priider Grased þad i Dag er a Akre, framar eñ Salomon Konung i allre siñe Dijrd, og verdur þo a Morgun i Ofn kastad, Matth. 6. Munde hañs Giæska þa nei- ta oss þess, er vier skulum neyta og klædast med, oss sem fyrer hañs Sonar dijra Blo- od og saru Kvol erum hañs Born ordner? Munde hañ, sege eg, neita oss þessara Hlu- ta, nema ad hañ visse ad oss gagnade a Stundum ad missa þa, og jafnvel þoott hañ tæke Liifed af oss, med hveriu Moote sem honum þocknast, þa verum þess fullorugger, ad hañ giorer þad til þess, ad vier skulum fiña þad eiliiflega, þvi þad skal skie, ad hver hañ trwer a Soneñ, þoott hañ deye, þa skal hañ samt lifa, Joh. 11. Og hofum þad fyrer viist, ad hverke Liif nie Daude, hverke Einglar nie Hofdingia Dæme, hverke hid Nalæga nie hid Epterkomanda, hverke Hæd nie Dypt, nie nockur añar skapadur Hlu- tur mune fa oss skiled vid Kiærleika Guds, sem ad er i Christo JEsu Drottne vorum,

Rom. 8. Hverſu Ovænlega ſem oſs horfa þyker; Eñ þo ad Gude þockneſt ad læta vort Erfide og Aſtundan misfalla, Chriſtner Meñ, þa letiunſt ecke i þvi, ad hvad vier giørum, þad giørum vier i Nafne Jeſu Chriſti, og þockum Fødurnum fyrer hañ.

Þoott Petur hefde ecke fiſkad alla Noottena, nie hañs Felagar, og voru ſvo affſtigner Skipunum, Urkula Vonar um̃ frekare Fiſke-Veidar i þad Siñ; Samt heyrdu þeir Guds Ord, og hina ægiætu DRottens Predikun: Breytum og þañeñ, þo vort Erfide luckeſt ecke æ Stundum, þa gleymum ecke Gude, þvi eitt er Naudſynlegt, Leitum þar fyrer hañs Rijkis, og hañs Riettlætis, þa mun oſſ allt añad tilleggiaſt, Matth. 6. Ef ecke ſvo ſem vier vilium, þa ſvo ſem hañ vill, hvers Vilie ad vier Daglega bidium ad verda ſkule, og giørum Verk vorrar Kallanar i Otta DRottens epter hañs Bode; Svo giørde Petur, J Þijnu Orde, þad er, epter Skipan þiñe, Vil Eg Netenu Utkaſta. Mættugur var JEſus ad læta Fiſkana hlaupa lifande upp i Skiped, ecke ſijdur eñ ad læta Petur fiña Peningeñ i Fiſkiarens Muñe, Matth. 17. Þo ſkipade hañ honum ad draga wt æ Diwped, epter þad hañ hafde hlijdt Guds Orde. Tvent er hier ad læra: Eitt þad ſem eg fyrer ſkomu æminteſt, ad Meñ byrie øll ſijn Verk i Guds Nafne, og ad honum med ſier tilkølludum, ſvo giørde Petur, þvi æ Virkum Deige hefur þetta vered, añars hefdu þeir ecke fared til Fiſke-Veida: Hitt añad, ad Meñ brwke þau Medøl, ſem Gud hefur kient og boded, i Utvegum Næringar ſiñar, eñ griipe ecke til Oleifelegra Hluta, þegar ecke vill ærkaſt. J Þijnu Orde Vil Eg Netenu Utkaſta. Net þijder marga Hlute i H. Ritningu, þad merker Svikræde og Vielar Orædvandra og Gudlauſra Maña, þeir ed Stela, Liwga, Svijkia, Ræna, Kwga, Hræſna og æ Tælar draga Einfalldar Sæler, til Abata ſier: Þeſſer kaſta Netenu wt i Andſkotans Nafne, og þo þad meige Luckaſt um̃ Stund, þa munu þeir um̃ ſijder Oluckuna veida. Um̃ ſuma af þeim talar Salomon, Prov. 29. Sa ſem Hræſnar fyrer Vin ſijnum, hañ breider Net fyrer hañs Gæng. Eñ David ſeiger hver Utføreñ mune verda, Pſ. 9. J þvi Nete er þeir faled hafa, er þo Footur þeirra fængeñ. Þad merker og Ofbellde þeirra, er draga alla Hlute til ſijn, med Vallde og Ofrijke, ſo ſeiger Ritningeñ um̃ Konungeñ af Babilon, Habac. 1. Ad hañ hafe fært Foorner fyrer Nete ſijnu, þad er, hañ hafe þackad Magt ſiñe og Atburdum allañ ſiñ Sigur, og þad Valld er hañ feinged hafde yfer ødrum Konga-Rijkium, hver ed hañ droo til ſijn, ſvo ſem þegar Fiſkar veidder eru. Þeſſer kaſta Netenu wt i ſijnu eigeñ Nafne, og eru hinum fyrre eingu betre, þvi þeir gleima Gude Himnaña, fræ hverium ad Sigureñ kiemur, eñ treyſta æ Mætt ſiñ og Meigeñ. Þetta Ord þijder og Guds bræda Heſnd, yfer hinum ſtolltu Veralldar-Sonum, hver ed yfer þa kiemur æ Stundum, nær þeir miñſt hyggia, ſvo ſem Neted yfer Fiſkeñ, ſvo ſem Jood-Soott yfer Olietta Konn, 1. Teſſ. 5. Þetta Net er vijſt øllum þeim er upphefia ſig æ moote Gude, og ecke gief honum Dijrdena, þeſs gietur hiæ Ezech. 17. Þar ed ſeiger: Eg ſkal wtþenia mitt Net yfer hañ, og hañ ſkal i mijnu Nete fængeñ verda; Þvi vil eg nu i hinum ſijdara Partenum med færſtu Ordum Hugleida, hverſu ad vier eigum i Medlætenu audmiwker og Gudþacklæter ad vera.

Gudspialled seiger: Ad þegar þeir feingu þeña mykla Fiske-Dratt, þa hafe Petur kroped ad Kniaam JEsu. Þetta var Packlætis Merke hañs, añad hafde hañ ecke Guds Syne ad giallda, añars krefur hañ ecke helldur af neinum, þvi hañ er einkis Purfe: Þad sijnde hañ optlega, jafnvel i hañs Lægingar-Stande, þegar hañ villde brwka Valld sitt, og þad ecke sijdst med þessare Dijrdlegu Jardteikn. Svo sem þad Gud seiger fyrer Davids Muñ, Ps. 50. Ad hañ vilie ecke seigia Mañeskiuñe til ef hañ hwngrar; Þviad allt Silfur og Gull sie hañs, og øll Trien æ Morkeñe, og øll Dijreñ æ Skoognum. Svo er af þessu Dæme liooft, ad DRotteñ JEsus hefur, epter Mañdoomenum, þeged af sijnum Fødur Valld yfer øllum Skiepnum Guds, og allt hvad vier medtokum af Guds Hende, þad veitest oss fyrer hañs Skulld, æ honum þar fyrer skylldugar Packer ad giallda, og i hañs Nafne ad bidia um allt þad vier þiggia þurfum af hiñe Almættugu Hende, þar fyrer seiger Paulus, 1. Tess. 5. Bidied Oaflætañlega, og giøred Packer i øllum Hlutum, þvi þad er Vilie Guds fyrer Christum JEsum i øllu vid ydur. Petur var svo þacklæatur vid DRotteñ fyrer eiñ Fiske-Drætt; Eñ hvad marga høfum vier nu þeiged? Satt er þad, ad hiñ Stoore Allsheriar DRotteñ hefur læted Eitt edur Tvo Ar æ stundum vorar Fiske-Veidar misfalla, eins og Peturs i þetta Siñ, um Noottena fyrer þetta mykla Happ, eñ sijdañ hefur hañ yfersliootanlega æ mørgum Arum uppfyllt oss med Blessan siñe af Sioonum, svo ad hefdum vier haft Framsyne Josephs, og safnad æ þeim goodu Tijmunum, þad oss og Nææunganum hefde kuñad ad hiælpa æ þeim vondu, er vier svo køllum, þa hefdu ecke þær hinar møgru Kyrnar uppeted þær feitu: Eñ hvert Packlæte høfum vier nu gollded Gude þar fyrer? Þad fiñur hver eiñ, þegar hañ athugar grandgiæfelega med siælfum sier, hversu lijtt honum hafe vered hugad um, ad Offra DRottne Lofgiørdeñe, þegar hañ hvad mesta Blessan hefur af hañs Hende medteked, Jafnvel þott ad aller Christner Meñ vite, ad þeir sieu skylldugir til ad þacka honum, eins vel fyrer Mootlæte sem Medlæte. Seiged mier, Er hañ nockrum nockud skylldugur? Hver hefur honum giefed? Hver hefur honum læanad ad fyrra Bragde? Og hvad seige eg, ad fyrra Bragde, Hver hefur honum nockud nockurn Tijma giefed? Þvi þad er vier lætunst wtelæta vid þa er hañ skipad hefur, þad tokum vier þo ecke af voru, helldur af hañs, sem bæde æ oss, og allt þad er vier køllum vort: Hvilijk er þa su Fæsiña? Ad vier ecke Daglega skulum ad Guds Kniæam kriwpa, til ad Offra honum Packlætenu, fyrer þær Ometanlegu Velgiørder, er vier æ hverre Stundu þyggium af hañs Ørlætes Hende, ecke einungis Lijkamlegar, er oss þyker mest tilkoma, helldur og Andlegar, sem eru myklu dijrare, ef vier hefdum Rækt edur Vitsmune moote ad taka. Ecke þockte DRottne svo mykils verdt um þeña Fiske-Abla, þvi hiet hañ Petre odru sem var myklu ægiætara, er hañ sagde: Hier Epter Skalltu Meñ Veida. Eg skal giøra yckur ad Maña Fiskurum sagde hañ skomu sijdar vid þa Zebedæi Sonu, þad er, ad þeir skylldu bæde sig og sijna Tilheyrendur hoolpna giøra, svo sem Paulus sagde vid Timotheum, 1. Tim. 1. Þessa høfum vær adnoted, þar Hlioomur þeirra er og oss til Eyrna

komeñ; Vier sem bwum hier a Utskiækle Verallddareñar, Utlæger, svo ad seigia, fraa odrum Londum, og þar fyrer eigum vier hinum gooda Gude hvad mestar Packer ad giallda, og ecke einasta ad heidra hañ fyrer Korned og Mustena, þad er fyrer Mat og Dryck, epter hveriu ad leita heidnar Þiooder, Matth. 6. Helldur fyrer þad Lijfsins Braud, sem er af Himnum ofañkomed, og fyrer þad Vatn, epter hvert ad eingañ mun þyrsta, þañ sem af þvi dreckur, Joh. 4. Pad er sialfur JEsus, sem Gaafur hefur Moñunum giefed, Uppfareñ i Hæдernar: Eñ þad er ecke noog ad laatast þacka Gude med Muñenum alleina, Hiartad a ad fylgia med, og hin mesta Audmykt, og Undergiefne Andans. Pegar þeir Petur hofdu feinged þeña mykla Fiske-Draatt, þa stendur i Gudspiallenu, ad hañ hafe sagt vid JEsum: Vijk Fraa Mier Laavardur: Munde hañ nockud kvedia honum Bygd svo sem Gadareni, Matth. 8. edur yfergiefa hañ svo sem Capernaums Borgar-Meñ, Joh. 6. edur wthijsa honum svo sem hiner Samarisku, er hañ ferdadest til Jerusalem giegnum Bygd þeirra: Fiærre er þvi: Hin mesta Hiartans Audmykt og Pecking sijns Overdugleika hefur þrijst honum til ad tala þesse Ord, þad er audsært af Orsokeñe, er hañ færer hier til; Pvi Ad Eg Em Madur Syndugur. Svo er nu Mañleg Naattura veik, ad hun stendst ecke Guddoomsens Naalægd: Hun aalijtur helldur i fyrstu siñ Overdugleika, helldur eñ Lausnarans Forþienustu. J heillt Ar hafde Petur þeckt JEsum, og heyrt hañs Kieñingar, þegar þesse dijra Jardteikn var gior, og þo var hier svo sem hañ mistreyste i Fyrstuñe hañs Naad, er honum þo skomu aadur hafde svo Naadugur vered. Pu ert iñgeingeñ til mijn Guds Madur, sagde Eckiañ i Sarepta, til ad miñast Raanglætinga miña, og deyda Son miñ, 1. Reg. 17. Hvar fyrer? Pviad hun talde sig Overduga, vegna Synda siña, og þookte st ecke svo lifad hafa, sem hæfde Guds Sendeboda. Manoah sagde vid Hwsfreiu sijna, Jud. 13. Vid munum vissulega deya, þvi vid hofum sied DRotteñ. Hvad velldur þessu? Pviad Samvitskañ, nær hun er skielfd og aangrud vegna Syndaña, þa gleimer hun Forþienustu Medalgaangarans, eñ hugleider Gud alleina, svo sem straangañ Doomara og Hegnara Raanglæteсins: Svo meinte og Petur i þetta Siñ, ad Riettlaater einer mættu bwa med Christo, hinum odrum være hañ eirn fortærande Elldur, jafnvel þoott hañ være i Heimeñ komeñ til ad kalla Synduga, og ecke Riettlaata til Ydranar. Petta verkar nu Umþeinking Syndaña og Riettlætesins i Fyrstuñe hiaa Guds Bornum, og þoott ad i slijku sie Veikleike nockur, þa þienar hañ, svo sem allt añad, þeim til Gooda sem Ottast Gud. Fyrer þvi, nær þu framkiemur i þiñ Bæna-Stad, til ad þacka Gude fyrer Velgiorder sijnar, edur ad bidia nockurs af honum, þa ber samañ hañs Haatign og þitt Volæde, hañs Giædsku, og þijna Vondsku, hañs Riettlæte, og þinar morgu Synder, hañs Poleñmæde, og þijna Pvermoodsku, hañs Almætte og þiñ Vanmaatt, og mun braadlega Felmtur yfer þig koma, ecke sijdur eñ þa Petur, og þitt Hiarta smellta i þier, so sem añad Vax, af Tilfiñingu Guds Reide yfer Syndunum og Helvijtis Kvala, sem þær hafa uñed til, og nær þu þañeg staddur ert millum Vonar og Otta, þa muntu heyra med Petre, af Guds Alsu; Ottast

ast

ast Ecke, Ja, Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. O! vor Gud, Nær hin kallda og bitra Daudans Stund oss ad Hondum ber, og Samvitskañ tekur ad ǽklaga oss, Miñing Syndaña ofbijdur oss, Diofulleñ hreller oss, med þeirra Miñingu, og giorer hvad mest wr þeim, eñ lijted wr þijns Sonar Verdskulldan, sem þo er ollu meire, þa lát þiñ H. Anda mǽla þesse fogru Ord i Hiarta voru, og bera vorum Anda Vitnisburd þar uñ, ad vier sieum Guds Born. Bænheyr þad Himneske Fader fyrer Jesu Blessada Forþienustu, Amen.

# Siøtta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 5. Cap.

J Þañ Tijma. JEsus sagde til siña Lǽresveina: Eg seige ydur, Nema so sie, ad ydvart Riettlǽte yfergnǽfe meir eñ þad hiña Skriftlærdu og Phariseǽaña, þa munud þier eige iñgǽnga i Himnarijke. Þier hafed heyrt hvad sagt er til þeirra gomlu. Ecke skalltu Mañ vega. Eñ hvor hañ vegur Mañ, sa verdur Dooms sekur. Eñ eg seige ydur þad, hvor hañ reidest Broodur sijnum, sa verdur Dooms sekur. Eñ hvor sem ad seiger til Broodur sijns, Raka, hañ verdur Rǽds sekur. Eñ hvor sem seiger, þu Afglape, hañ verdur sekur Helvijtis Ellds. Þar fyrer, nær ed þu Offrar þijna Gǽfu til Altaris, og þier kiemur þar til Hugar, þad þiñ Brooder hafe nockud a moote þier, þa lǽttu þar þijna Gǽfu fyrer Altarenu, og far ǽdur ad sǽtta þig vid Broodur þiñ, og kom þa ad Offra þijna Gǽfu. Vertu snarlega Samþyckur þijnum Mootstodu-Mañe, a medañ þu ert eñ a Veige med honum, so ad eige selie þig þiñ Mootstodu-Madur Doomaranum, Doomareñ selie þig Þienaranum, og verder so i Dyblissu kastadur. Sañlega seige eg þier, ad eige muntu þadañ wt fara, þǽngad til þu hefur borgad hiñ sijdasta Pening.

## Exordium.

ÞJer Villest, þar þier vited ecke Ritningarnar, sagde DRotteñ vid Saducǽos, Matth. 22. Med vidlijku Moote ǽvarpade hañ Phariseǽos, Marc. 7. Þier Ouijted Guds Bodord, svo ad þier hallded Setninga ydar, og þad giorer hañ Satt, bæde i greindum Capitula Marci, og svo hinum 23. Matthǽi. Pad er hveriu Orde sañara, sem Paall skrifar, ad Holldlegur Madur skynie ecke hvad Guds Anda er, og þad sie honum Heimska, 1. Cor. 2. Pad er lioost af Dǽme hiña Skriftlærdu, er kolludu sig ad hafa Likel Vitskuñar, eñ wtlogdu þo Ritninguna epter sijnum eigeñ Pootta. Pad auglijser hiñ stoore Biskup med þa Vellærdu Twngunu i þessa H. Dags Evangelio, þar hañ sialfur wtleggur Logmǽled lǽngtum odruvijs eñ Gydingaña Vitringar hielldu: Hver hañs Utskijring ad mestu Leite er vidtekeñ af flestum þeim ed Christner kallast, þo er þar i ein Grein, sem ecke kiemur ollum samañ uñ, Pad er þesse: VERtu SNARlega SAMþyckur PJJNum MOOTstodu-MAñe, A MEDañ Pu Ert Eñ A VEige Med

Hon.

HOMum, Svo Ad Eige Selie Þig Þiñ MOOTstodu Madur DOOmaranum, Og DOOmareñ SEEkie Þig ÞJENaranum, Og VErder Þu Svo i DYbliſſu KAſtadur. Ut af þeſſum Ordum DRottens hafa Einþycker og Skynhelger Meñ þad ſpuñed, ad ei leifeſt Chriſtnum Moñum ad eigaſt Løg vid fyrer ſijnu Yfervallde, og þvi verr, ad i Lande voru eru þeir, er leggia þad wt a hiñ verſta Veg, ef nockur er Vandlætingarſamur i þvi, ad ſækia Guds og Konungſins Riett, Ad forſvara Virdingu ſijna og Fiaar-Hlute fyrer Aſælne vondra Maña, ad ſtyrkia Mealeſne Eckiuñar, og hiñs Fødurlauſa, og kalla, ad þad kome ecke einum vid, og jafnvel þott ad Løgræninguren ſie hønum Vandabundeñ, og nefna ſlijkt Orvøa og Fridar Spiller. Eñ eg mun med faam Ordum ſijna, ad ei ſie þad Lauſnarans Meining, ad baña Chriſtnum Moñum ad ſækia Riett ſiñ: Og þar hiaa, ad vor Riettargaangur eige ad vera aan alls Haturs og Neidt.

Þu Riettlaate Fridarens Gud, Gief oſſ Naad þijns Anda þar til, ad þetta Eyrende vel Luckaſt meige, Fyrer JEſum Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞOtt ad ecke væru adrar Rokſemder til þeſs, ad Lauſnareñ ei tale hier um Veralldlegañ Riett, helldur um þad Riettlæte, ſem fyrer Gude gyllder, þa er ſu noog, ad hañ ſeiger i Ondverdu Gudſpiallenu: Nema Ad Ydar Riettlæte Yfergnæfe Framar Eñ Hiña Skriftlærdu Og Phariſæaña, Þa Kuñed Þier Ecke Jñ Ad Gaanga J Guds Rijke. Vitañlegt er þad af Gudſpialls-Søgunum, ad ecke høfduſt þeſſer Skynhelgu Meñ þa Hlute ad, ſem Veralldar-Riettur kyñe ad fella þa fyrer, eñ fyrer þvi, ad Guds Doomar eru ecke eins og Mañaña Doomar, þeir dæma epter Gøgnum og Vitnum, eñ hañ ecke epter þvi ſem hañs Auga ſier, edur hañs Eyra heyrer, helldur rañſakar hañ Hiortuñ og Nyruñ, Pſ. 7. Fyrer þvi, ſeige eg, tekur Lauſnareñ til ad wtſkijra hid Fimta Bodord fyrſt, og ſijner, ad ecke einaſta Mañdraap edur wtvortis Misþyrmingar ſieu fyrer Gude Saknæmar, helldur og Reideñ i Hiartanu, og Ovirdingar Ord þau, er framkoma af Muñenum. Ef Meñ nu þetta fyrer ſatt hallda, ſem eg hygg ad aller giøra mune, ſem þeſſa Ritningu vel rañſaka; Hver vill þa ſeigia, ad Frelſareñ meine i þeſſum Capitula fyrr edur ſijdar, Veralldlegañ Riettar-Gaang? Ad þeſſu lijtur þad, er ſijdar ſtendur i Gudſpiallenu: Nær Þu Offrar Þijna Gaafu Fyrer Altarenu, Og Þier Kiemur Þar Til Hugar, Þad Þiñ Brooder Hafe Nockud A Moote Þier, Þa Laattu Þar Þijna Gaafu Fyrer Altarenu, Og Far Adur Ad Sætta Þig Vid Broodur Þiñ, Og Kom Þa Ad Offra Þijna Gaafu. Seiged mier, hver aa ad þiggia Offred, Gud edur Syſlumadureñ? Hvada Doomare mun þa meintur i þeſſum Ordum: Ad Ecke Ofurſelie Hañ Þig Doomaranum? Eg meina Gud, þvi aa Myſkunſeme hefur hañ Þocknan, og ecke aa Offre, Hoſ. 6. Eñ Veralldar Høfdingiar, þvi verr, þeir hafa margur-hver Þocknan aa Offre, eñ ecke a Myſkun, nær þeir taka Fe til ad Riettalæta hiñ Raangláta, eñ fordæma hiñ Saklauſa aan allrar Vægdar og Myſkunar, og ſvo ſem þad Drottne ecke þocknadeſt Offur hiña Heimſku, Eccl. 5. odruvijſe eñ ſvo hañ ſeger, Eſa. 66. Ad hver hañ ſlaatrar Naute, þad er ſem hañ ſlæe i Hel; Hver hañ loogar Saud, þad er ſem hañ Afhøfdade eiñ Hund, hver hañ fører ſoorn, ſo ſem Offrade hañ Svijns-Bloode, ſaa ed Reikelſe breñer, ſo ſem hañ giæfe þad Skwrgode, ſo vill og Frelſareñ ſegia, ad øll Guds Þioonuſta þeſs, ſem er misſaattur

vid

vid siñ Naunga, þañ er hañ hefur afgiört vid, hun sie Andstygd fyrer Gude, ef hañ maa añars Saattum naa, og þvi æalyktar hañ med þessare Grein: Vert Snarlega Sampyckur Þijnum Mootstodumañe, A Medañ þu ert eñ a Veige med honum, Svo ad Eige selte þig þiñ Mootstodumadur Doomaranum, etc. Ad Doomareñ sie Gud, Allsheriar Konungur, þar er eingeñ Efe a, hañ eirn aa Valld aa ad kasta þeim hañ Fordæmer i þad Fangelsed, hvadañ ecke er Endurlausn, sem er Helvijte, og ad þad sie hier meint, vottar Epterlijkingeñ um hiñ vonda Þioon, er ritud stendur, Matth. 18. Hañ aa og alleina Himnarijkes Valld. Fyrer hvers Riettlæte vier iñgaungum i Guds Rijke, er alkuñugt, ecke Phariseaña, ecke vort eiged, edur Heilagra Maña, helldur hañs, sem er Jehova vort Riettlæte, Christus, eñ hañs Riettlæte maa eingeñ naa fyrer utañ þad, ad hañ sie vid siñ Broodur sattur i sijnu Hiarta, ad miñsta Koste, og vilie ofgiort hafa þad afgiört var. Nu er eingeñ heilvita Madur saa, ad ef hañ hefur misgiört vid nockurn, ad hañ ecke helldur leite Saatta til hañs, helldur eñ ad mæta fyrer Doomaranum, hver ed auk Pegnsens Riettar, feller a hañ Konungsins Sok, sierdeilis þar Konungarner hafa epter lated slijkar Saatter, nær Maalum er svo hættad, ad ecke snerter Guds Æru, nie Tign þeirra. Nu hygg eg su sie Meining Drottens i þessare Grein, þad sem Framsyne þyker i Veralldlegum Maalum, þvi skyllde þad ei þykia i Efne Saaluhiaalpar ydar? Fraa Veralldlegum Doome maa komast a einhvern Hatt; Einhver kañ ad gaanga i Borgun fyrer mig, mier kañ Arfur til ad falla, svo eg giete loked Skulld mijna; Viner og Naungar gieta Fridstillt miñ Mootstodumañ; Eñ fraa Guds Doome eingañ vegeñ, nema eg verde sattur vid miñ Mootstodumañ, a medañ eg er eñ þa a Vege med honum, þad er, a medañ eg life, aadur eñ eg kiem fyrer hiñ straanga Allsheriar Doom, og verd i Myrkvastofu kastadur, hvadañ eg mun ecke utfara, þaangad til eg hefe borgad hiñ sijdarsta Pening; Pad er alldrei, þvi ur Helvijte er eingeñ Endurlausn. Par fyrer er einsætt ad sættast vid Naungañ medañ Tijmeñ er, sierdeilis þar eg veit ecke hvad myked er epter Vegarens, Gud rædur mijnum sijdarsta Nætur-Stad, og ecke sialfur eg; Og hier af hygg eg þad audsært, ad ei tale Frelsareñ i þessum Stad um Veralldlegañ Riett. Veit eg ad Drotteñ seger i þessum sama Capitula. Ef nockur vill vid þig Log þreyta, og þijna Yferhofn af þier taka, laat honum og þiñ Kyrtel epter. Eg vil nu ei faa mier þad til Orda, ad marger Lærder Meñ leggia þetta svo ut. Vilie nockur Kieppa vid þig um Yferhofn þijna. Pad er, taka hana af þier med Ofbellde; Eg vil laata hitt standa, samt hefur þo Drotteñ ecke i þessum Ordum Laga-Rietteñ fyrerboded, þad var ecke hañs ad baña Moñum Log og Riett, sem ad er Hofundur Riettar og Laga, hvers ad er Doomureñ, hver og er medal Doomaraña i Doomunum, ad Vitne Josaphats Konungs, 2. Cron. 19. helldur þeirra sem neita Moñum riettra Laga, Tradka Maalum Maña med Flækium og Raangsleitne, Spilla Loglegum Vitnum og Stefnum ad Raunarlausu, hveria Drotteñ vill sijdañ Dæma.

Eñ eg vil aptur taka til hiñs fyrra Maals. Eingum bañar DRotteñ i þessare Grein

in ad beidast Riettar sijns: Pad er alkuñugt, ad Frelsareñ talar i Ordskvidum og Epterlijkingum þrælega i Kieñingum sijnum; Hañ samlijker Christnena Vijngarde, Akre, Brwdkaupe; Þo er Christneñ hverke Vijngardur, Akur nie Brwdkaup. Hañ kallar Herodem Ref, munde hañ þar fyrer Refur vera? Þa Johañem og Jacobum Þrumu-Syne, mundu þeir þa ecke vera Zebedæi Syner? Hañ seiger ad hægra sie Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur eñ rijkum Mañe iñ i Himnarijke, Matth. 19. Nu er þad Omogulegt; Hvar munu þa Abraham, Isaac og Jacob vera? J þessum sama Capitula Matthæi seiger hañ: Ef þijn Hond edur Footur hneixlar þig, þa snijd þau af, og snara þeim fraa þier; Mun hañ þa vilia ad Meñ skule meida sig edur vana eins og Baals Prestar? Og ecke myklu helldur, ad þeir skule Krossfesta sitt Holld, og deyda sijna Jardneska Limu, svo sem Paulus ad Orde kiemst, Col. 3. Hañ seiger og i sama Capitula. Ef nockur slær þig aa þijna hægre Kyñ, þa snw ad honum hiñe añare; Eñ ef hañ slær aa hina vinstre fyrst, þa hefur þu ecke adra vinstre Kyñ ad biooda, seiger Augustinus, og Lucas gietur hverke um hægre nie vinstre Kyñ, þvi meiga Meñ ecke alltijd haanga i Ordum Ritningareñar, helldur leita ad Meininguñe, hver ad i þessum Ordum er eingeñ oñur eñ su, ad Meñ ei skulu hefna sialfer sijn, helldur lijda Oriettiñ med Poleñmæde, og Hatursslaust, þad vil eg satt giora med Frelsarans eigeñ Dæme, hver þegar hañ var Kyñ-Hest sleigeñ, Joh. 18. þa baud hañ ecke hina adra Kyñ, helldur aatalde med Hoogværd þañ er hañ sloo; Ei helldur St. Paull, nær Presta-Hofdingeñ baud ad slaa hañ fyrer Doome, helldur beitte hañ Logum fyrer sig, og sagde: Gud straffe þig þu forfaagade Veggur, þu situr og dæmer mig epter Logunum, og bijdur ad slaa mig aa moote Logmaalenu, Act. 23. Sama vil eg nu seigia um þad, ad laata þeim siñ Kyrtil epter, er vill þraatta vid nockurn um hañs Yferhofn, þeirra Orda er eingeñ Meining oñur eñ su, ad miñe Hyggiu, ad nær Madur lijdur nockurn Oriett, skule hañ ecke hefna sijn sialfur, helldur skule vera svo Skape fareñ, ad hañ sie bweñ til ad þola añañ stærre, Reide og Hatursslaust, ef hañ nær ecke Riette hiaa Valldstioorneñe, þviad af Sialfs-Hefndeñe kiemur Tijdum stærre Olucka. Elldureñ verdur ecke med Ellde slocktur, helldur med Vatne, svo er þad eingeñ Lækning Oriettarens, ad giallda Jllu Jllt, helldur ad leita Valldstiettareñar, hver ia Gud hefur sett hinum Froomu til Forsvars, eñ Raanglaatum til Hegningar, eñ þo Reidelaust, þvi Madur aa ad snwa Vanganum i Hiartanu, og ecke aa Hofdenu: Fyrer þvi bañar Frelsareñ i þessare Grein; Ecke Logleganñ Riettargaang, helldur eñ Paulus þoott hañ seige, 1. Cor. 6. Vogar nockur af ydur, sa ed aa Sok vid einhvern, eiga Doom under Raanglaatum, og ecke under Heilogum, ad sonu er Brestur hiaa ydur, ad þier hafed Dooma medal ydar, þvi lijded þier ecke helldur Oriettiñ, þvi take þier ei helldur Skada? Ecke bañar Paulus hier Riettar-Gaangeñ, helldur ad eiga Sok fyrer Raanglaatum, (svo kallar hañ Heidingia, eñ Heilaga nefner hañ hier Christna Meñ, eins og vijdar) svo vill han þa ecke allañ Riettar-Gaang bañad hafa, helldur ad eiga Maal fyrer Heidingium, hvar fyrer? Svo ad eingum giæfu þeir neina Hneixlan, ad

ad Pioonustugiørdeñ ei løstud yrde, 2. Cor. 6. og þeirra Hoogværd kuñug ollum Moñum, Phil. 4. Eñ Vitne til þess, ad hañ ecke villde hafa Riettar-Gaangeñ afmaadañ, er þad, ad hañ ei bañar, ad eigast Løg vid fyrer Christnum, og sijnest laata þad epter, ef vid þarf, þar hañ seiger: Er eingeñ sa aa medal ydar sem Vited hefur, sa ed kuñe ad dæma millum Bræodra siña: Og fyrer þvi, ad Christner hofdu þa eckert Valld til ad dæma Opeñberlega uñ Veralldar-Maal, þa sijnest, ad hañ vilie ad þeir nefne Meñ af sialfsum sier, til ad dæma Maal sijn, helldur eñ ad bera þau under Vantrwada, edur þola Oriętteñ ella, helldur eñ ad giøra Prætur sijnar Augiioosar þeim, er hotudu Christeñdoomeñ, og logdu þeim allt til Lijta, er þa Trw og Pioonustu teked høfdu, og svo sem Frelsareñ seiger hier i Gudspiallenu: Nema Ydar Riettlæte Yfergnæfe Meir Eñ Hiña Skriptlærdu Og Phariseaña, Pa Kuñed Pier Ecke Iñ Ad Gaanga I Guds Rijke. Svo vill og Paall, ad hiner Christnu skijna skule svo sem Lioos aa mille Raangsnweñar Heidingiaña Kynsloodar. Pesse same Guds Madur seiger i ødrum Stad: Laated ei sigrast af hinu Illa, helldur yferviñed hid Illa med Goodu, Rom. 12. Eñ hver vogar ad kalla Skipan hiñs Almaattuga vonda? Edur er Valldstioorneñ ecke af Gude sett? Er hun nockud svo sem añad Bijlæte iñsett i Christs Kyrkiu, til Prijdes alleina? Laangt er fraa þvi, helldur til ad skipa Riettindum Maña, fyrer þvi kalla eg hañ sigra hid Vonda med Goodu, sem nær Riette sijnum fyrer Løglegum Doome, eñ þoler aan Haturs og Møglunar, þoott af þvi bere. Drotteñ seger i Løgmaalenu, Exod. 21. Auga fyrer Auga, Toñ fyrer Toñ, þar fyrer hefur hañ þo ecke leift þeim er Augad miste, ad stijnga wt Augad a honum er stack, ecke helldur hefur hañ teked Sverded af Doomaranum, þoott hañ bañe þad Pegnenum. Eckert nijtt Løgmaal hefur Christur sett i þessum Greinum, þvi Sialfs Hefndeñ er og boñud i Løgmalenu, saa sem sagde Doomaranum, Devt. 19. Pitt Auga skal ecke þyrma honum, Lijf fyrer Lijf, Auga fyrer Auga, Toñ fyrer Toñ, Hond fyrer Hond, Foot fyrer Foot: Hañ hefur og sagt hverium einum þar fyrer utañ, Lev. 19. Pu skallt ecke sækia epter Hefndeñe, og ecke bera Miñugur Oriettarens. Hañ ed seger i greindum Capitula Devt. Uñ hiñ falska Vott: Pier skulud aldeilis giora honum so sem hañ leitadest vid ad giora sijnum Broodur: Hiñ same hefur talad fyrer Muñ Salomonis, Prov. 20. Pesse Ord, uñ alla þa sem ecke hafa Guds Umbod i Doomara Sæte: Pu skallt ecke segia; Eg skal Endurgiallda Illt, bijd epter Drottne, hañ mun frelsa þig. Pessu er Paall samþyckur er hañ seger, Rom. 12. Pier eiged ecke ad hefna sialfer ydar, þvi skrifad er; Mijn er Hefndeñ, eg vil Endurgiallda: Eñ þegar Valldstietteñ hegner vondra Verka a þeim sem giort hefur a añars Hlut, þa frelsar Gud hiñ Saklausa, þvi hun er hañs Pienare til Hegningar, þeim er Illt ad hafast, Rom. 13. Hvervetna þar sem hiñ stoore Allsheriar Doomare hefur Valldstioorneñe Rietteñ i Hendur feinged, þar hefur hañ med þad sama leift sierhverium, sem vanhalldeñ er, ad sækia Riett siñ fyrer heñe, þvi hun ber ecke Sverded forgiefens, seger Paulus: Og Petur bijdur ad Meñ sieu undergiefner Stioornendunum, svo sem þeim af Konungenum eru sender, til Straffs hinum Glæpafullu,

eñ til Lofs hinum sem Gott adhafast, 1. Pet. 2. Mun nu ecke þessa vid þurfa, Christner Meñ? Edur er Verolldeñ svo Einlit, ad ecke fiñest i heñe bæde Svart og Hvijtt? Svo heilog, ad ei fiñest bæde Vonder og Gooder? Þvi er einsætt fyrer þa sem Rangindeñ þola, ad leita Forsvars hia Valldstietteñe; Edur munde ecke Paulus leita Lids i Logunum, þegar Lysias villde hafa refst honum, Act. 22. Munde hañ ecke skioota sier under Keysarans Doom, þegar hañ Ottadest Ofbellde Gydinga; Eg þore framar ad tala, þad er ecke Gude þægt, og gagnar ecke til hañs Dijrdar? ad Meñ alltijd giefe Riett siñ epter, þvi þad giorer Ohlutvanda Meñ optast þess verre, og ꜳsælnare, so ad þad maa sijnast, ad sa eble Illsku þeirra, sem lætur Hlut siñ fyrer þeim, ef hñ maa naa honum med Logum og Riette; Saa sem vill taka fraa mier Æru mijna og gott Mañord, mun þad Gude a moote, ad eg forsvare mig Loglega fyrer A-austre hañs? Hañ lijgur uppa mig Lijtum og Skomum, sem eg alldeilis ecke er valldur af; Mun mier ei Leifelegt ad bera Hond fyrer Hofud mitt, þar svo ꜳstendur; Einhver ræner mig Fiarhlutum mijnum, Odolum og Arfa-Gotze, edur odru þvi, sem eg er vel adkomeñ, og þad añadhvert med Ofrijke, edur Yfervarpe Laga og Riettinda, svo eg lijd Skort a Forsorgun miñe, og þeirra sem mier eru Vandabundner, Konu, Barna og Hiwa, hefe ecke þad eg meige Faatækum giefa, og biarga Naudstoddum med, eñ hañ brwkar Fe mitt til Ohoofs og Ofmetnadar, þvi svo giora þeir optast, er lꜳta Pienara sijna stock va yfer hvern Proskulld, til ad fylla Hws Drottna siña med Raane og Svikum, Zoph. 1. Mun Gud baña mier ad veria mitt med Logum a moote slijkum Ofstopa? Fiærre sie þvi, añars hefde hañ ecke gyrdt i krijngum Frelse mitt, og Eigur mijnar med Lagaña Mwr: Ecke sie eg ad Ritningeñ legge þad Nabot til Lijta, þott hañ neitade Achab um siñ Vijngard; Eñ sa giorer hid sama, sem ver sitt med riettum Logum. Gud hefur boded mier, ad eg skule elska miñ Naunga sem siꜳlfañ mig, eñ ecke framar. Ofkande være, ad Meñ giætu þad vel hallded, þad heyrer Gude einum til, ad elska hañ framar ollum Hlutum, oa jafnvel Lijfenu, þad a og ad giora vid Brædurnar, seger Johañes, hañs vegna, 1. Joh. 3. Eñ su Elska er i þvi foolgeñ, ad hiꜳlpa honum og forsvara fyrer Omilldum Moñum, eñ ecke i þvi, ad lꜳta Skꜳlkeñ ræna sig og Fefletta, ef eg maa Lagaña nioota, þad er eingu betra, eñ ad forsmaa Guds Gꜳfur, er hañ veiter mier til Uppheldis, eñ eg vil þær ecke nyta: Eg veit og, ad eg er skylldugur ad styrkia Maal Ekkiunnar og hiñs Fodurlausa, mun eg þa ei meiga gꜳnga i Riett fyrer þau, kuñe þeim þar med Hoolped ad vera, ef mier þad Logeñ leifa? Af ollu þessu hygg eg nu audsært vera, ad þad ecke einasta er Leifelegt, helldur og gott Verk a Stundum, ad leita Laga og Riettar a moote Araꜳsum vondra Maña; Eñ þad a ad skie med allre Hoogværd, ꜳn Haturs og Reide, svo sem ꜳdur er sagt, þvi hañ sem Rietteñ sett hefur, hañ hefur og sagt: Elskid Ovine Ydar, Matth. 5. og nær þad ecke sijdur til Rettargꜳngsins, helldur eñ til hvers añars Vidskiptis vors, og Umgeingnis i Heimenum. Saa sem elskar Ovin siñ, hañ elskar siꜳlfañ sig, þvi under eins og hañ fyrergiefur sijnum Broodur hañs Misgiorder, þa auglijser hañ sig þar med ad vera Barn sijns Fodur, sem a Himnumer, hañ

hañ tekur under eins Aflaat og Kvittun af Gude fyrer sijnar eigeñ Synder, ef hañ giører þad af Hiarta, Marc. 11.

DRotteñ hefur ecke bañad sialfañ Hluteñ, helldur raanga Atferd Hlutarens, þad er, ad brwka Rietteñ til ad hefna sijn, eñ ecke til ad naa Riette sijnum, ad bera Fe i Dooma, ad wtvega folsk Vitne, ad brwka Laga-Krooka, og adskilianlega Raangs-Leitne; Ad erta upp illt Skap med Bryxlum og Skwt-Yrdum, jafnvel i riettu Maale, til þess, ad faa meire Hefnd yfer sijnum Mootstodu-Mañe, eñ hañ i fyrstu hafde tiluñed, allt svoddañ er af hinum vonda, þad hefur Gud og alldrei leift i neinum Riettar-Gaange ad brwka, helldur streingelega bañad, eñ allra hellst ad hatast vid siñ Mootstodu-Mañ, og sa þad giører, hañ verdur eins sekur fyrer Gude, svo sem hiñ, þoott alldrei eige hañ svo gott Maal, og hvad hefe eg þa gott af þvi, ad eg spille Myskun Guds yfer mier, til ad hatast vid hañ, er vid mig afgiørde, þvi Gud kañ ad myskuna honum, ef hañ ydrast, eñ eg aa eingrar Vægdar Von, svo leinge sem eg el Hatur til hañs. DRotteñ seiger og ad sønu hier i Gudspiallenu, ad sa sem hefur giort aa añars Hlut, hañ skule sættast vid Brooдur siñ, aadur hañ offrar Gaafu sijna; Eñ um hiñ sem misgiort er vid, seiger hañ med aalijka moote, Marc. 11. Og þegar þier standed bwner til ad bidiast fyrer (þad er ad offra Gude Bæn siñe) þa tilgiefed, ef þier hafed nockud aa moote einhverium, svo ad ydar Fader, sem aa Himnum er, Forlaate ydur ydar Misgiorder; Skyllda eg þa bera Hatur til hañs, sem eg aa Maal-Stad vid, þoott alldrei ætte eg um svo sart ad binda, þad være ærs Mañs Æde, og ecke þess, sem heilvita er i sijnum Christeñdoome, þar eg aa Daglega ad bidia þessa Bæn: Fyrergief Oss Vorar Skullder, Svo Sem Vier Fyrergiefum Vorum Skulldunautum, og veit, ad eg ecke fæ Kvittun Synda miña, aa medañ eg høndla ecke Reidelaust vid miñ Naaunga, hvert þad er i Riettar-Gaange, edur utañ Riettar-Gaangs: Pad er og vijst, ad vor beste Riettur, er eingeñ Riettur fyrer Gude, ef hañ vill dæma epter sijnu Riettlæte, svo seiger Job, Cap. 9. Eg veit vel, ad eingeñ Mañeskia kañ Riettlaat ad standast fyrer Gude, og þvi skyllda eg þa hata Ovin miñ, fyrst hañ hefur skipad mier ad elska hañ, sem aa svo mykil Raad aa mier, ad hañ gietur fordæmt mig, nær hañ vill. Pess er og ad giæta, ad ecke hlaupe Meñ til Doomarans um hvern Hiegooma, þad kieñer Agyrne og Orooa, ad vilia þrætta um Smaamune, og sæmer ecke þeim, sem vill laata sig Hugprwdañ kalla, aukhelldur Riett-Christnum Mañe, hverium ad byriar ad vera liwfum aa ad sættast, jafnvel med nockrum Skada sijnum, helldur eñ ad draga siñ Moot-Part fyrer Doomarañ, honum til meire Skada, og Hneisu þeirrar, er hiñ hefur ecke Gagn af, þoott ei hafe Meñ alltijd halldeñ Hlut, sierdeilis ef ad kieppa er um þa Hlute, sem Lijfs-Næringu ei vidvijkla, hveria Paulus sijnest ei vilia hafa under Doom Heidingiaña, 1. Cor. 6. Einkum þar Frelsareñ hefur bañad oss ad syrgia fyrer heñe, Luc. 21. Og brwkar þad sama Ord i þeim Stad, sem Postuleñ hier, og þvi aamiñer hañ alla Christna Meñ med þessum Ordum, Col. 3. Jklædest svo sem Utvalder Guds Heilager og Elskanleger Hiartgrooeñs Myskunseme, Lijtelætenu, Hoogværdeñe, Poleñmædeñe, umberande hver añañ, og

fyrergiefande hver ødrum; Ef nockur hefur aa moote einhverium Akiæru, svo sem Christur hefur ydur fyrergiefed, svo giøred og þier. Gud giefe øllum sijnum Børnum þetta Hiartalag ad stunda, og þvi fast ad hallda, þar til vier komum fyrer hiñ Stoora Allsheriar-Doom, hvar vorer stærstu Oviner, Synd, Daude, Diøfull og Helvijte skulu oss eckert Mein giøra, aukhelldur nockur Veralldar-Magt, þvi hver vill færa Kiæru-Maal i giegn Utvølldum Guds, þar Gud er sa sem Riettlæter, Christur er sa sem Daaeñ er, Jaa, eñ framar Uppriseñ, hvør og er aa hægre Hønd Gude, hvør og er Medalgaangare fyrer oss, Rom. 8. Þessa Hlutskiptes uñ þu oss ad nioota eylijfe Konungur Dijrdareñar, fyrer hañs Forþienustu, sem er alls Hollds Doomare, JEsus Christus, Amen.

# Siøunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Marc. 8. Cap.

I Þeim Døgum. Þa þar var eñ margt Foolk komed samañ, og hafde ecke til Matar. Kallade JEsus sijna Læresveina til sijn, og sagde til þeirra: Mig aumkar yfer Foolked, þviad i þriaa Daga hafa þeir hiaa mier vered, og eckert til Matar haft. Og ef eg læt þa Fastande heim til sijn fara, þa Vanmegnast þeir a Leideñe; Þviad sumer voru laangt ad komner. Og hañs Læresveinar svørudu hønum: Hvadañ faaum vier þau Braud, hier a Eydemørku, so ad vier faaum þa Mettad? Og hañ spurde þa ad. Hvørsu mørg Braud hafed þier? Þeir søgdu hønum Siø: Og hañ skipade Foolkenu nidur ad setiast a Jørdena. Og took þau Siø Braudeñ, þackade, braut, og fieck sijnum Læresveinum, ad þeir legdu þau fram̃. Og þeir løgdu þau fram̃ fyrer Foolked. Þeir høfdu og faaeina Smaa-Fiska, og þa hina sømu blessade hañ, og baud fram̃ ad leggia. Eñ þeir neyttu, og urdu Metter. Og þeir tooku upp þad yfer var Siø Karfer med Afgaangs Leyfar. Eñ þeir sem neytt høfdu, voru nær Fioorar Þusunder, og hañ liet þa i burt fara.

## Exordium.

MADureñ mun ecke lifa af einusamañ Braude, helldur af sierhveriu Orde, sem fram̃geingur af Guds Muñe, sagde Moyses vid Israel Fordum, Deut. 8. Þessum sømu Ordum kastade Frelsareñ Andskotanum i Naser, þegar hañ freistade hañs, til ad giøra Steina ad Braudum, Matth. 4. Þau eru og søñ, svo sem aller adrer Guds Vitnisburder, þvi þad maa ei Lijf kalla, sem er aan Guds Orda, jafnvel þoott eiñ hafe Holld og Hamsa, og lijte noogu Sællegaat. Christi Ord eru Lijf og Ande, og aan þeirra er Madureñ eins og Paall seiger um̃ Eckiuna, þa i Gyrndum lifer, hañ er Lifande Daudur, þo hefur Gud giefed Mañenum Fædu̇na, svo sem añad Medal, til ad lifa af, þar fyrer stendur hier: Ecke af einusamañ Braude. Vitañlegt er þad, ad Gude er ecke um̃ Megn ad hallda Lijfsmuum vorum vid aan Matar og Dryckiar, þad sijna

sijna oss Dæme Moysis, Dæme Eliæ, Lausnarans, er føstudu i heila 40. Daga, og maa sijnast, ad þeir Moyses og Elias hafe vered DRottens Fyrermyndan i þessu, og þvi skyllde hañ ei kuña ad ala Mañeñ aan Fædsluñar, sem ad i Eydemørku sadde 5000. Mañs med Fiñ Bygg-Braudum og Tveim Fiskum, Joh. 6. Og i þessa Dags H. Evangelio heyrum vier, ad hañs mikla Almættis Hond mettar 4000. med eins litlum Koste. Ut af þvi Fyrsta Kraptaverkenu hefe eg nockud aadur talad i þessare Book, uñ þad, hverneg vier i Guds Otta eigum ad leita Næringar vorrar, hvad eg Oska ad fiñe goodañ Stad i Hiørtum þeirra sem lesa edur heyra. Eñ nu vil eg wt af þessu H. Gudspialle alleina þar uñ tala, hvad oss eige ad styrkia i Trwñe til ad treysta Gude, og varpa allre vorre Ahyggiu uppa hañ, nær oss vantar þessarar Veralldar Mune.

Hiaalpa oss til þessa, DRotteñ miñ, Fyrer þitt Dijra Nafn og Sonarens Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

ÞAD er Graatlegt til ad vita, hversu ad Naattura Mañsins epter Spillinguna er baag til ad treysta Gude, þegar þad er ecke fyrer Augunum sem eta skal. Moyses sloo aa Kletteñ i Horeb, og þar flaut Vatn wt af, svo ad allur Israel drack, Exod. 17. Eñ er Gud baud honum i Eydemørku Zin ad giøra hid sama i añad Siñ, þa efadest hañ, og sloo Tvisvar aa Biarged, Num. 20. Hañ saa Daglega, ad Gud fædde þaa med Manna af Himnum ofañ; Eñ er Foolked møglade, og beidde uñ Kiøt, eñ hañ bar þad fyrer Gud, sem hiet ad giefa þeim Kiøt ad eta allt til Leidenda, þa var þo ecke Trweñ sterkare hiaa sialfum Moyse, eñ svo, ad hañ sagde Num. 11. Þetta Foolk er Sex Hundrud Þusund Mañs, og þu seiger, eg skal giefa þeim Kiøt, svo þeir ete i heilañ Maanud. Læresveinarner høfdu sied þad mykla Kraptaverk, er JEsus hafde giort skomu aadur eñ þesse Jarteikn skiede, nærre þvi i þessum sama Stad, er hañ sadde 5000. Mañs med Fiñ Bygg-Braudum og Tveim Fiskum, Joh. 6. Þa talde Philippus Tormerke aa Spurningu DRottens, og sagde: Braud fyrer 200. Peninga næger þeim ecke; Eñ hier foor ecke betur, nema midur være. Hvadañ Faaum Vier Þau Braud Hier A Eyde-Mørku, Ad Vier Faaum Þa Mettad. Og epter þad þeir høfdu sied bæde þesse Krapta-Verk, og mørg oñur fleire, þa ætludu þeir hañ munde Brauds-Þurfe vera, er hañ took þeim Vara fyrer Swr-Deige Herodis og Pharisæaña aa Skipenu, svo sem lesa maa i þessum sama 8. Cap. Marci. Af hverium og raada maa, ad þad hafe skied strax epter þessa Dijrdlegu Jardteikn. Gud betre, ad þad hender oss aa Stundum Christna Meñ, sem Lausnareñ seger uñ Heidingiana, Matth 6. Hvad eigum vier ad eta? Eda hvad eigum vier ad drecka? Edur hveriu eigum vier ad klædast? Eñ þar til verdur ei betur svarad, eñ sialfur hañ svarad hefur: Er ecke Lijfed meir eñ Fædslañ, og Lijkameñ meir eñ Klædnadureñ? Seig þu mier, Guds Barn, skoop hañ þig ecke Daasamlega i Moodurlijfe? Gaf hañ þier ecke Saal og Lijkama? Endurleyste hañ þig ecke med sijns Sonar dijra Bloode? Hefur hañ ecke Endurgieted þig daudañ i Syndunum? Hefur hañ ecke fooſtrad þig med sijnu H. Orde? Hefur hañ ecke aled þig a sijns Sonar Hollde og Bloode? Helldur hañ ecke øllu þessu vid magt eñ nu daasamlega, og undrunarlega a Stundum? Eg vil taka til þess sem dijrast og daasamlegast er. Hafe hañ giefed oss Soneñ, þvi mun hañ þa ecke giefa oss alla Hlute med honum? Og ef hañ giefur oss alla Hlute, þa giefur hañ oss eiñig Forsorgun Lijkam-

kamanna. Hafe hann aled Onn fyrer oss, bæde i Moodurlijfe, og allt upp þadann, i Andlegann og Lijkamlegann Mata, mun hann þa Onyta sitt eiged Verk? Nema ad Manneskiann giorde Guds Almætte Vanmaattugt a sier med Trwarleysunne, eins og Læresveinarner, er þeir gaatu ecke læknad hinn Tvnglsiwka. Pu seger; Eg finn opt Brest a Atvinnu minne: Hungur og Dyrtijd meiga Menn Stundum þola, hvad velldur þvi? Spyr Ezechiel ad, hann mun svara þier, Ordum DRottens. Ef eitt Land syndgar mig og a moote mier, þa vil eg wtrietta mijna Hond yfer þad sama, og i burt svipta Brauds Nægtunum, og eg vil senda þangad Hallære, og upprickia þar inne bæde Monnum og Fenade, Ezech. 14. Mun þad nockud raska Sannsogle Drottens, þott Menn giore sig hanns Orlætis Overduga; Pegar ad allra Handa Lester og Klæker, Guds Ords Forogtun, Vanbrwkun hanns Hvijldar-Dags, Ranglæte, Meinsære, Lygar, Pioofnadur, Agyrne, Drambseme, Ofbellde, Agg, Reide, Præta, Svik og Underferle, og annad þessu lijkt; Pegar allt þetta geingur Fiollunum hærra i Landenu, er þa ad furda, þoott hann apturlyke sinne milldu Hond a stundum? Eda seger ecke Paulus, ad fyrer þess-hattar Glæpe kome Guds Reide yfer Born Vantrwarennar, Col. 3. Hver vill þa skyllda hann til, ad hann skule Naadugur vera; Leitum þvi Drottens a medann hann er ad finna, kollum a hann a medann hann er nalægur; Sa hinn Ogudlege late af sijnum Veige, og Illvirken af sinne Hugan, og snue sier til Drottens, þa mun hann myskuna honum, og til Guds vors, þviad i hiaa honum er mikel Fyrergiefning, Es. 55. Eg skal endurgiallda ydur þau Arenn, sem Gras-Hoppann, Kaal-Ormurenn, Tre-Madkurenn og Gras-Madkurenn hafa fraa ydur teked, seger Drottenn, Joel 2. O! minn Gud, hver hefur þier nockurn Tijma giefed? Hver hefur þier laanad, þad þu skyllder honum endurgiallda? Pad meigum vier jaata i þessu fataæka Lande, ad hafe Gud einhverin Sinne straffad Synder vorar med Oaaran nockurre, þa hefur hanns Millde oss þad endurgollded med mikelle Ar-Giæsku, bæde til Sioos og Lands. Enn hvad fylger a epter hiaa Spamannenum i sama Capitula? Nær þier eted Oaflaatanlega, og erud metter, þa munud þier lofa Nafn Drottens Guds ydar; Enn siaaum til, hvert Fader Myskunsemdanna mune ecke hafa funded Skort a þessu hiaa morgum af oss, og hvert þad mune ecke miklu helldur eiga heima hiaa sumum, er stendur hiaa Hoseam, Cap. 13. Under eins og þeir metter urdu, þa er Hiarta þeirra upphafed, og hafa gleimt mier.

Einhver vill seigia: Eg finn ecke þessa Glæpe hiaa mier; Eg Ottast Gud og Elska, svo sem mier er mogulegt, og giore honum Packer, samt maa eg og mijner þola Hwngur og Porsta, Kullda og Klædleyse. Heyr mier umm Stund, Barn mitt. Muntu vera sa einaste af Guds Bornum, sem hann leggur þvilijkt uppaa? Maattu ecke þeir Abraham, Isaac og Jacob verda Land-Flootta fyrer Hwngurs-Saker? Gen. 12. 26. og 46. Maatte ecke Elias fasta i 40. Daga? 1. Reg. 19. Hvad margt seigest Paall hafa maatt Illt þola fyrer Evangelium? Enn þetta maattu þeir lijda til þess, ad þeir vissu hvad þeir væru, sem er syndugar Manneskiur, hvar þeir væru, þad er i Heimenum, I Utlegdenne, og ecke i Fodur-Landenu, hverenn þeir vera skylldu, sem er stoduger

i Trwnne,

i Trwñe, Poleñmooder i Hormungeñe, og glader i Voneñe; Sama giorer hañ vid þig, þvi ecke er hiaa honum Mañgreinar-Alit, Act. 10. Þykest þu nu betre eñ svo, ad þier sie fullgott ad hafa iijkañ Kost med þessum Guds Koppum, þvi aangrar sig þa Saala þijn, og þvi er hun Orooleg i þier? Vona þu aa DRotteñ, þvi þu munt eñ nu prijsa hañ, Ps. 42. Edur villtu ecke helldur hafa Þvijngan med Guds Foolke, eins og Moyses, helldur eñ lifa i allskins Sælu med Heimenum, og fyrerfarast med honum? Hversu betra er þier, ad þu gyrnest ad sediast af Molum þeim, er detta af Bordum hiñs Rijka hier i Heimenum, eñ ad þig laange epter einum Vatns-Dropa af Fijngre Lazari i Helvijte og Kvolunum? Og hvad veitstu, hversu leinge DRotteñ vill laata þeña þiñ Skort vara; Hañ er eiñ stoor Konungur, Ecke er hañ leingur Rijkañ eñ Faatækañ ad giora. Jacob foor med eiñ Staf wt af sijns Fodurs-Hwse, Gen. 32. Eñ hvad myken Fiolda Nauta og Sauda, Geita, Asna, Þræla og Ambaatta kom hañ heim aptur med. Dæme þessa Foolks maa furdanlegt þykia nu aa þessare kolldu og Vantrwudu Olld, þeir fylgdu Christo epter aa Eydemorku, til ad heyra Kieñingar hañs, jafnvel Heidingiar af Tyro og Sydon, og eckert tooku þeir med sier ad neyta, svo sem siaa maa af Evangelio: Einhver mun seigia, ad þeir hafe ei bwest vid svo laangre Dvol aa Eydemorkeñe, þo fañst eingeñ sem aptursnere, svo Meñ vite, og ad vijsu voru hier 4000. Mañs, sem neyttu, þad maa sijnast, ad DRottens Ord hafe so vel smackast þeim i Hiartanu, ad þeir hafe ei funded til Hwngursins i Maganum, og valla gietur þad odruvijse vered, eñ ad þeir hafe treyst þvi, ad JEsus munde aa einhvern Haatt siaa þeim Farborda, þar til hefur aan Efa hiaalpad hid fyrra Krapta-Verked, sem eñ þa hefur ollum i fersku Miñe vered; Eñ i þvi gietur Johañes ecke um Tijmaleingdena; Hier af kalla eg þad satt, er David seger, Ps. 32. Augu Drottens lijta til þeirra sem hañ elska og vona a hañs Giæsku, og þo fiñast þeir, æ! þvi verr, a medal Christeña Maña, sem vidlijkt eru lynder og Hofuds-Madureñ i Samaria, er sagde: Þo ad Drotteñ giore Glugga a Himeneñ, þa kañ þetta ecke ad skie, 2. Reg. 7. Añars mundu Meñ bijda epter Drottne, eñ ecke hlaupa til ad Ræna, Stela, Liuga, Svijkia, Hripsa Brauded ut af Naungans Muñe, og bruka adskiliañlega Raangsleitne i Kaupum og Solum, og añare Vidhondlan. Mig Aumkar Yfer Foolked, seger DRotteñ: Þvi i Þria Daga Hafa Þeir Hiaa Mier Vered, Og Ecke Til Matar Haft. Margur fastar skiemur, aadur hañ verdur Ovoleñmoodur. Mig Aumkar Yfer Foolked, seger hin Eilijfa Giæska, hañs Myskunar Ydur komust vid i honum, svo sem i Hofud-Sprokenu stendur, svo hañ hlaut þeim Naadugur ad vera: Þad seger ecke hier, ad þeir hafe kvartad um Hwngur, hañ visse vel, ad þeir hofdu þessa Þorf: Eñ seged mier nu, Born mijn; Mun Ydur hañs Myskunar umbreitt vera? Mun hin rijka Orlætis Hond stutt vordeñ? Fiærre sie þvi, samur er Gud og hañ hefur vered; Eñ ef vier vilium somu Medaumkunar nioota, þa lærum Tvent hier af: Eitt af Foolkenu, Añad af Lausnaranum. Af Foolkenu ad heyra Guds Ord liuflega, meta þad ollu Tijmañlegu framar, og ad treysta Gude, og þacka honum midt i Skortenum og Orbyrgdeñe. Af

Frelsaranum, ad siaa Aumur a hinum Volada og Naudþurftuga; Ad briota Hwng-
rudum vort Braud; Ecke af Fordilld, edur ad wtvega oss Nafn þar med, svo sem
Hræsnarar þeir ed giora Ølmusur sijnar fyrer Monnum, helldur af Trwnne, af Christe-
legre Medaumkan, af Elskunne til Guds og Naungans. Breyte nu nockur þannveg,
ad hann heyrer Guds Ord, og vardveiter þau, treyster Gude i øllum sijnum Vandræd-
um, og leitar Næringar sinnar i Guds Otta, þa vil eg þad segia, ad fyrr munu Einglar-
ner færa honum Braud af Himnum ofann, fyrr munu Hrafnarner bera honum Fæd-
slu, fyrr munu Steinar ad Braudum verda, og Fiskarner flytia honum Gull og Sil-
fur i Munnenum, Jaa, Christur maa fyrr afneita siaalfum sier, hvad Paulus kallar O-
mogulegt, helldur enn ad hann laate Saal hinns Riettlaata Hwngur þola, Prov. 10. Ne-
ma hann vilie reyna hann þar med, og siaae honum þad fyrer einhveriu Goodu verda. Minn
Matur og Dryckur er, ad giora hanns Vilia, er mig sende, sagde Frelsarenn, Joh. 4.
Enn ef þad er hanns Vilie, ad þu lijder umm Hrijd Skort a Næringu þinne, þa vert eins
lyndur og þinn Lausnare var, og ætla þig ecke yfergiefenn, þott þu meger ad Guds Vilia
nockud Jllt lijda, er vier svo køllum; Enn þad er alldrei Jllt, sem Gott af sier giefur.
Ecke verda Vijn-Berenn samannlesenn af Þyrnunum edur Fijkiurnar af Þistlunum, Luc.
6. Giæt ad Dæmum Heilagra. Hversu saarlega klagar Job i sijnum Mann-Raunum,
er hann seger, Job. 30. Þu ert vordenn hardudigur a moote mier, epter Styrkleika
Handar þinnar brwkar þu grimt Hatur i giegn mier. Munde Gud þar fyrer hafa yf-
ergiefed hann? Fiærre var þvi, hinn Fertugaste og Fyrste Capitule sømu Bookar, hann
ber þar umm liioosast Vitne, og siaalfur Guds Madur jaatar Veikleika sinn og Faavit-
sku i þvi, ad þeckia Guds Raad, nær hann Endurvitkadest, og kom til siaalfs sijns aptur,
med þessum Ordum, Job. 42. Eg Auglijse ad eg skyllda þad ecke, þad var furdann-
lega haatt fyrer ofann mig, svo eg gat ecke þeckt þad, þvi ydrar mig i Molld og Øsku. Ei-
ns var David lyndur, þvi seger hann, Ps. 77. Mun Drottenn þa Eilijflega burtkasta,
og einga Naad framar audsyna? Enn nockru þar epter vegsamar hann Gud med Fagn-
ade, segiande: Ps. 103. Hann hefur frelsad mitt Lijf wt af Fordiørfunenne, og mig
med Naad og Myskunseme Coroonad, þvi skyllde einginn Ørvænta umm Guds Vinaat-
tu, þoot ei leike allt i Lynde, þar vier siaaum hier, ad hanns bestu Viner hafa maatt þvi-
lijkt reyna. Edur meined þier, Christner Menn, ad Faderenn hafe minna elskad sinn Son,
þegar hann hroopade a Krossenum: Gud minn, Gud minn, þvi hefur þu yfergiefed mig?
helldur enn þegar Christur stood a Jordanar Bockum, og Roddenn af Himne sagde:
Þesse er minn elskulegur Sonur i hverium mier Velþocknast, Matth. 3. Nei, Brædur
mijner, þa hafde hann i honum hvad mesta Velþocknan sijna, er hann a Gaalganum
hieck, þvi fyrer hanns Dauda erum vier vid Gud forlijkter, seger Paulus, Rom. 5. Fyr-
er hanns saaru Kvøl og bitrann Dauda hefur hann elskad oss i sijnum Elskulega, Eph. 1.
Gud hafde Velþocknan a sijnum Syne fraa Upphafe Vega sinna, og i øllum Christo
fraa hinu fyrsta Augnablike Gietnadarens fyrer Einingu Guddooms og Manndooms.
Enn fyrer Christi Dauda a øllum þeim sem a hanns Nafn trwa, hverium hann hefur og

Magt

Magt giefed Guds Børnum ad verda, seger Joh. Cap. 1. Og fyrst hañ hefur nu hañ-veg yfergiefed hañ um̃ Stundarsaker; Eñ sijdañ aptur med Dijrd og Heidre Coroonad; Vilied þier þa læta ydur þad undra, þott hañ breyte med sama Hætte vid ydur, sem i hønum, og fyrer hañ erud Arfleidder til eilijfs Lijfs? Nei, Christner Meñ, ecke þott ad Mootlæted og Skortureñ ætte ad vara alla Æfe vora: Þvi hun er svo lijted ad reikna hiꝛ Eilijfdeñe, og þad vier lijdum hier ad Guds Vilia, þad verdur oss Endurgollded med Omælañlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, 2. Cor. 4. Mootlætingar þessara Tijma eru ei verdar þeirrar Vegsemdar, sem vid oss mun fram̃koma i eilijfu Lijfe. Þad er vijst, ad hiñ Naaduge Gud speñer alldrei sijn Børn fyrer sijns Sonar Ok, nema til þess, ad þau drage þad a þa Leid, sem til Himnarijkes liggur, þess meiga og øll hañs Børn fullørugg vera, ad añadhvert burttekur hañ Mootlæted, edur linar þvi, edur giefur oss Krapta til ad bera þad, þvi hañ er Trwr og freistar einkis yfer Megn fram̃, 1. Cor. 10. Seged mier; Er hañ þa Amæles verdur fyrer þad, ad hañ snijr eilijfre Fyrerdæmingu i Tijmanlegañ Krossburd, til ad afreka oss Eilijfa Glede? Eiñ Fader sender Son siñ i eitt framande Land; Ein Mooder lætur Barn sitt i Skoola, til ad lijda Illt, svo þad verde ad Mañe; Munu þau þar fyrer hafa gleymt þeim? Kañ nockud Mooodureñ ad gleyma Barne sijnu, Avexte sijns Kvidar? Og þo þær gleyme, þa skal eg samt þier ecke gleyma, seger Afgruñ Myskunareñar, hiꝛ Esajam, Cap. 49. Gull-Smidureñ kastar Maalmenum i Elldeñ, so hañ hreinsadur verde, og giører þar af sijdañ hinar kostulegustu Gersemar; Svo breyter Gud vid sijn Børn, hañ situr og bræder, og Silfred hreinsar, og hrein giører Børn Levi, Mal. 3. Þad er hiñ Andlega Kieñemañskap, so ad Reynsla Trwar vorrar miklu dijrmætare funden verde Gullsens Reinslu, hvert ed forgeingur, og verdur þo med Elldenum reint, til Lofs og Dijrdar og Heidurs, nær Jesus Christus Opeñberast, 1. Pet. 1. Þetta er nu svo talad til Huggunar þeim, er lijda Skort a Atvinu siñe, og meina sig þar fyrer vera af Gude yfergiefna, vegna Synda siña og Overdugleika. Eñ þar eru nockrer sem ecke eru ænægder þar med, ad þeir hafa þad þeir skulu eta og drecka, og þad þeir meiga klædast med, hvad þo Paulus bijdur Christnum Mañe ad hañ skule læta sier nægia, 1. Tim. 6. Vid þessa vil eg faatt eitt talad hafa.

Þad er satt sem hiñ vijse Syrach skrifar i 11. Cap. Ad Audlegd og Faatækt koma af DRottne; Ef þau koma af Gude, hver vill þa seigia vid hañ, hvad giører þu? Seiger nockud Leyr-Kiered til Smidsens, þvi giørder þu mig svo? Rom. 9. Vill nockur efast um̃ Vitsku hañs, ad hañ ei skynie, hvad hañs Børnum er haglegast, edur klaga yfer hañs Riettsyne, þad hañ giøre einum Oriett? Visse Gud þad, ad þier gagnade Rijkdoomureñ betur eñ Faatækteñ, þa munde hañ þig audugañ giort hafa, rañsaka Skap þitt, hvert þu munder hæfare vera til Guds Rijkis, þott þu hefder meira eñ Daaglegt Brand, Gud giørde vel, ad hañ gaf ecke Ægum Uxa-Horn, seiger i Ordshættenum, margur munde brwka Audeñ til Ofmetnadar, Ofrijkis, Ohoofs, til ad hefna sijn, og briota adra under sig, ef hañ rijkur være, sem ad lætur hægt, af þvi hañ er

faatækur. Eñ þoott ad Gud giefe Audeñ vondum Moñum aa stundum, hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu Christo epter, hver þoott hañ rijkur være, giordest hañ faatækur, 2. Cor. 8. Villtu viña þad til Audsins, ad vera svo sem eiñ af þeim? Visse Gud ad þier Audur gagnade, sege eg eñ aptur, munde hañ ecke giefa þier hañ? Sem hefur giefed þier þad sem er laangtum betra. Eiñ Naadugur Gud, good Samvitska, heilvita Saal, Otte DRottens med þvi Hugarfare, sem lætur sier sijna Lucku nægia, er þad ecke noogu stoor Audlegd? Adrer Ottast fyrer þvi, ad þeir kuñe ad missa Fiaar-Hlute sijna, eñ kyñe nockur þessar Guds Gaafur af mier ad taka, þa villda eg fyrst graata, þa villda eg bera mig hormulega, þvi aa medañ eg þad hefe, þa hefe eg allt, og nær eg misse þad, þa misse eg allt, jafnvel i Allsnægtum, þvi seiger David, Ps. 34. Hina Rijku brast, og þeir sulltu, eñ þa sem ad DRottne leita, mun eckert gott vanta. Laate Gud mig ecke eta hvern Dag skijnande Kraaser, þa er eg þo Osollteñ, eg une betur vid Daglega Fædu, helldur eñ Sælkiereñ vid hañs otvolldu Riette. Skortureñ giorer mier aa stundum Mateñ sætañ, eg þarf ecke ad kaupa hañ dijrt; Eñ Fylleñ giorer honum þad leidt, sem hañ kostade til dijrum Doomum. Vefie Gud mig ecke i Pell og Purpura, þa er mier eins heitt i miñe Klæda-Vod, svo sem honum i sijnu Skarlate: Fatæktteñ hefur stoor Fyrerheit i Guds Orde; Er sa ecke noogu rijkur, sem hefur Gud fyrer Fiaarhallds-Mañ? Eñ hvad seiger David, Ps. 9. Hañ er Forsvar hiña Fatæku, Forsvar i Neydeñe, hañ gleymer ecke Hroope hins Fatæka. Hvad seiger hañ eñ þa aptur? Hañ mun frelsa hiñ Fatæka nær hañ kallar, og hiñ Auma, þañ er eingañ Hiaalpar-Mañ hefur, Ps. 72. Og svo seiger sialfur DRotteñ, Ps. 132. Eg vil blessa Fædslu þeirra, og þeirra Fatækum aanægianlegt Braud giefa. Gud giæfe ad Meñ villdu skilia hvad mykill Skattur ad er ein Ærleg Fatækt, þeim sem una vel vid þañ Kost, er DRotteñ lætur þeim hlotnast, hun varnar vid mørgum Syndum, Drambseme, Ohoofe, Sialfhælne, Reide, Ofrijke, og sialfre Agyrndeñe, þvi alldrei verdur hiñ Rijke saddur, sa ed fest hefur Hiarta sitt vid Audeñ, vid Bykforg og Ahyggiu, sem draga Mañeñ fra Gude i Snørur Diøfulsins, og þyngia Hiarta hañs med Ottanum ad missa Eigur sijnar, þvi sa griet alldrei fyrer Gull, sem ecke aatte þad, hun giorer Reikningskapeñ audvelldare fyrer hinum Ædsta og straanga Doomara, þvi jafnvel þoott ad ollum verde hañ noogu Torvelldur, þa ecke þeim þo sijdst, sem hafa gleymt Gude og Naaunganum i Velmagt siñe, eñ sett Gull-Hnøtteñ fyrer sitt Athvarf. O! þu eylijfe Gud, Dijrdareñar Konungur, hiaalpa oss aa þeirre straungu Tijd, laat oss ei þyngia Hiarta vort med Sorgum þessarar Næringar, metta oss med þeim Molum, er detta af þijnu Haa-Borde; Dryckia oss med Sætleik epterkomande Alldar, svo ad ei vanmegnunst vier aa Veigenum til Fodur-Landsens, og nær vier erum ad Protum komner, og tokum hin sijdustu Andvorp, þa dreip þu aa vora Ormæddu Saal med þvi Vatnenu, epter hvert eingañ mun þyrsta ad Eylijfu. Bænheyr þad, Naaduge Fader, fyrer Lausnarans JEsu Christi Skulld, Amen.

Ath-

# Attunda Suñudag epter Trinitatis.

## Gudspialled, Matth. 7. Cap.

Jḱ Pañ Tijma. JEsus sagde til siña Læresveina: Vakted ydur fyrer Fals Spaamoñum, sem koma til ydar i Sauda-Klædum, eñ hid Jñra eru þeir glepsande Vargar. Ut af þeirra Avoxtum meiged þier þeckia þa. Verda nockud Vijn-Bereñ samañleseñ af Þyrnunum, eda Fijkiurnar af Þystlunum? So ber og hvørt gott Trie goodañ Avøxt, eñ hvørt roted Trie vondañ Avøxt. Gott Trie gietur ecke fært vondañ Avøxt, og ei helldur gietur roted Trie fært goodañ Avøxt. Og hvert þad Trie sem ecke giører goodañ Avøxt, skal upphøggvast og i Elld kastast. Þar fyrer meiged þier wt af þeirra Avøxtum þeckia þa. Þeir munu ei aller sem til mijn seigia, DRotteñ, DRotteñ, iñgaanga i Guds Rijke, helldur þeir sem giøra Vilia mijns Fødurs, þess a Himnum er. Marger munu til mijn seigia a þeim Deige, HErra, HErra, høfum vier ecke spaad i þijnu Nafne, høfum vier ecke i þijnu Nafne Diofla wtreked, og giordum i þijnu Nafne mørg Kraptaverk? Og eg mun þa jaata þeim, ad alldrei þeckta eg ydur, Fared fraa mier aller Illgiørda Meñ.

## Exordium.

Spaamadur nefnest i H. Ritningu, ecke einasta sa, sem ad Ovordna Hlute fyrer seiger, helldur og sierhver eirn, sa ed kieñer riettañ Lærdoom: Svo sagde Gud vid Abimelech um Abraham; Hañ skal bidia fyrer þier, þvi hañ er Spaamadur, Gen. 20. Sa er spaaer, hañ talar fyrer Møñunum til Uppbyggingar, til Amiñingar og Huggunar, seiger Paulus, 1. Cor. 14. Þeirra Apar voru Fals-Spaameñerner, hveria Frelsareñ bijdur ad Meñ varast skule hier i Gudspiallenu, þvi þeir kome i Sauda-Klædum, eñ hid Jñra sieu þeir glepsande Vargar, og er eingeñ Efe a þvi, ad Skriftlærder og Pharisæi hafa ad nockru Leite aatt Sneid þessa, eñ þo ecke ad øllu, þvi ecke voru þeir af Christi Sauda-Hwse, helldur meinar og DRotteñ hier med þa, er sijdar uppkomu, og spilltu Kieñingu Guds i Christendoomenum, þa nefner Paulus falska Brædur, 2. Cor. 11. og til Galat. Cap. 2. Talar hañ um Heimuglega iñsmogna falska Brædur, sem ad villdu reyna Frelse þad, er þeir Trwudu høfdu i JEsu Christo, svo ad þeir hneptu þa i Prældoom. Soddañ Illgrese saade Fiandmadureñ nidur medal Hveitesins i Christi Akre fram epter Øldunum, svo sem af Christeñdooms Søgunum lioost er, og saaer eñ nu vijda i Heimenum, eñ þar fyrer faaum vier alldrei Gude fullþackad, ad vier vitum ecke af slijku ad seigia. Eingeñ er sa, ed leitest vid ad spilla riettre Trw i Lande voru, þad er stoor Velgiørningur DRottens, ad hañ hefur unt oss ad verka Saaluhiaalp vora i Einfalldleika vors Hiarta, þvi vil eg ecke hier um framar tala i þetta Siñ, helldur taka mier fyrer Hendur, ad wtskijra þa Grein af Evangelio, sem øllum ætte Hugføst ad vera, sem er þesse: Þeir munu ecke aller, sem til mijn seigia, HErra, HErra, Iñgaanga i Guds Rijke, helldur þeir, sem giøra Vilia mijns Fodur, þess a Himnum er: Og af þeñe Textañ Hugleidaa

1. Hvad þad merke ad kalla HERRA, HERRA. 2. Hvad þad sie ad giora Guds Vilia.
Styrk oss hier til, miñ Gud, fyrer JEsum Christum, med Nad H. Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞAD er ægiætt, sem ad Bernhardus Lærefader seiger i einum Stad. Christner hafa af Christo Nafn feinged: Pad være mykils verdt, ad svo sem þeir eru Erfingiar Nafnsins, svo væru þeir og Heilagleikans. Eingeñ Nafn-Boot er fegre, eingeñ stærre, eñ ad heita Christeñ, ef nockur ber hana riettelega. Christeñ og Heilagur var sama Nafn, a medañ Christeñdoomureñ var eñ þa i Blooma siinum; Heilsed ollum Heilogum, seiger Paulus, þad er ollum Christnum; Eñ ef eingeñ Renta fylger þessu veglega Nafne, þa er sa ecke heilagre sem þad ber, helldur eñ Vijned edur Vidsmiored, edur einhver Matur vard heilagur af þvi i gamla Testamentenu, þoott ad einhver snerte þad, sa ed bar helgad Kiot i Kiool-Lafe siinu, Hagg. 2. Sa sem ecke hefur Christi Anda, seiger Paulus, hañ er ecke hañs, Rom. 8. Hver ed prijder sig med hinu fagra Christeñdooms Nafne, eñ lifer þo ecke Christelegu Lijferne, hañ er lijkur Eyk þeirre, er hefur græn Blod og frijd, eñ Avexte einga, þvi seiger Lausnareñ i Gudspiallenu: Af Peirra Avoxtum Skulud Pier Peckia Pa. Og svo sem DRotteñ formællte Trienu þvi, er eingar voru Fijkiur a, og ecke nema Bloden toom, Matth. 21. Svo vill hañ og til hiña seigia, er Rangleted æfa, a hinum efsta Deige, Alldrei þeckta eg ydur, svo sem hier stendur i Gudspiallenu. Peir Munu Ecke Aller Sem Til Mijn Seigia, HErra, HErra, Jñganga i Guds Rijke, seiger DRotteñ. Pegar ad Ritningeñ Tvijtekur eitt Ord, þa vill hun lata skiliast eitthvert merkelegt þar med, Peir seigia, HErra, HErra; Svo eru þeir akafer i hiñe wtvortis Pioonustu. Ecke vantade Gud nie hañs Christ fagra Titla hia Gydingum, þeir nefndu Fodur hañs siñ Gud, eñ þecktu hañ þo ecke, þeir kolludu DRotteñ Rabbi edur Meistara siñ, eñ sooktu þo epter ad Lijflata hañ, þeir tijdkudu langar Bæner i Samkundunum, og a Gatnamootum, eñ under Hylmingu þeirra wtsugu þeir Hws Eckna og Fodurlausra, Matth. 23. Pad verdur valla med Ordum sagt, hversu ad Hræsneñ giorer alla Guds Pion-kan Onyta i hañs Auglite; Peir fostudu Tvisvar i Viku, og gafu Tijunder af ollu þvi þeir attu, eñ lietu þad þo Ogiort, sem þyngra var i Logmalenu, Doomeñ, Myskunseme og Trwna, Matth. 23. Pad olle þvi, ad svo sem þeir afmyndudu Asianer siinar, nær þeir fostudu, til þess, ad lata sia, ad þeir være Fastande; Svo afmyndade Hræsneñ þeirra bestu Verk fyrer Gude, svo ad Frelsareñ seiger, ad þeir hafe siin Laun i burtu teked, Matth. 6. Pad er, ad þeir Hluter, er i sialfum sier gooder voru, og hofdu Fyrerheit goodra Launa hia Gude, ef þeir af Trwñe giorder være, þeir skylldu til eingra Launa viña Hræsneñar og Yferdrepskaparens vegna, myklu helldur abla þeim Dooms Afellis, er vanvirda þañveg hiñ allskigna Gud, med toomre wtvortis Hegdan og Latæde; Svo sem Von er a, Pviad oll Hræsne er Lijge; Eñ Gud er sialfur Sañleikureñ, kañ honum þvi eckert svo gagnstædt ad vera, Edur hvad seiger DRotteñ um þessa Hræsnara, Matth. 23. Par fyrer munud þier fa þess þyngre Fordamingu,

Nu

Nu høfum vier heyrt Doomeñ yfer Gydingum, Christner Meñ, af alls Hollds Doomara; Eñ ef þvilijkt og skyllde fiñast a medal vor, mun vor Doomur liettare verda eñ þeirra? Fiærre sie þvi, ef Gud þyrmde ecke hinum Natturlegu Kvistunum, mun hañ þa oß þyrma, Rom. 11. Ef vier uppfyllum þeirra Mæling? Eingeñ er Von a þvi, hvad giora þeir þa, ed ganga i Guds Hws, og heyra hañs Ord, forsooma valla nockra Predikun, og hafa þad i Muñe, og tala uñ hañs Vegu, allt þetta er gott i sialfu sier, Eñ hvar eru nu Avexterner, þegar þeirra leitad verdur, hia allmørgum? Þegar hiñ Volade Naud lijdur, byrgia Meñ sitt Andlit fyrer hønum, þegar Meñ sia Eitthvad gyrnelegt, hætta sumer ecke fyrr eñ þeir hafa svælt þad under sig, þegar einhver liooftar upp Ohroodre uñ Naungañ, þa taka Meñ i þañ Streingeñ, sie nockrum af Yferbodurunum, edur Forelldrunum eitthvad boded, hversu møglunarsamer, hversu treger eru Meñ i ad hlijda þvi; Hvad Toomlæter eru Forelldrarner sumer hverier i þvi, ad færa Børneñ til JEsum? Til Kyrkiuñar koma þau ad søñu, þar i er ei svo mykill Brestur; Eñ hversu sumum sie uñgiefed, ad brijna fyrer þeim þad er þau heyrdu i Kyrkiuñe, þar ber Raun Vitne uñ, nær þau eiga ad giora Grein a sijnum Christeñdoome, Oskande være, ad ei finduſt þeir, er valla hafa nockud añad fyrer þeim, eñ skañarleg Ord og fiblslegt Hial, sem sialfer þeir eru vaner til. Eingilleñ sagde vid Abraham, er hañ ætlade ad Offra Syne sijnum, hallt þiñe Hende fra Sveinenum, þvi nu veit eg ad þu Ottaſt Gud, ad þu þyrmder ecke þijnum eigeñ Syne; Eñ Andskoteñ gietur og sagt vid marga hveria, sem ecke þyrma Afkvæme sijnu vid eylijfum Pijslum, helldur laata þad uppalaſt i hañs Skoola; Nu sie eg ad þu elskar mig, þar eg sie ad þu svo uppelur Son þiñ, ad hañ giete orded einhvern Tijma mijn Foorn, hallt þvi ecke Hendeñe fra Sveinenum, þar til hañ verdur fullur og feitur, og hæfur til ad Offra. Meñ bleſſa Gud og laataſt lofa hañ og dijrka, eñ giora þo ecke þad hañ boded hefur, eñ Andskotanum formæla Meñ, og atyrda hañ, eñ giora þo hañs Verk, er ecke þetta ad segia, Herra, Herra, eñ giora þo ecke Fodursins Vilia? Er þad ecke ad kalla Gud siñ Fodur, eñ ræna hañ þo Heidre sijnum? Meñ ganga til Heilags Altaresins Sacramentis Prisvar, Fioorumsiñum a Are hveriu; Þar ætlunſt vier til, ad forlijka oß vid Gud, og taka Saatt af hønum fyrer Afbrot vor, og bioodum hønum i Sektena Guds Sonar Dauda, og hañs Forþienuſtu, eñ þeſſ er vel ad giæta, ad Meñ take ecke þangad med sier Gieſte þa, er hañ ecke ma eiga Seſs med, allra sijſt Hatur til Naungans, eñ ad þad hende þa suma, er aud sied af þvi Hatre og Ulfbwd, er tijdkaſt Maña a medal a ſtundum, ecke Laungu epter þad Meñ hafa miñſt vid Chriſt; Er ecke slijkt ad kalla, Herra, Herra, eñ gleyma hañs Bode, er hañ sagde hia Marcum: Cap. 11. Þegar þier ſtanded bwner til ad bidiaſt fyrer, þa tilgiefed, ef þier hafed nockud a moote einhverium, svo ad ydar Fader, sem a Himnum er forlaate ydur ydar Misgiorder; Er þad ecke, sege eg ad bidia uñ Frid med reiddu Sverde? Er þad ecke ad sijdurſtu, ad segia, Heill vertu Rabbi, eñ hafa Bak vid sig Sverd og Staunger? Mun þad nu noog, Christner Meñ, ad kalla, Herra, Herra, þad er, ad laataſt Gude þiena, eñ fremia þo allt þetta

Vond=

Vondskuñar Athæfe, þar eru eingeñ Ber a þessum Vijn-Vide, eingar Fijkiur a þessu Fijkiu-Trie, jafnvel sialf Bloden eru nidurdotteñ, allt hvad eg legg vid þau, er Forgiefens, seger Drotteñ, Jer. 8. Hvad morg Ar hefur þu komed, Drotteñ miñ, og leitad Avaxtar af oss, og eingañ funded? Hversu kroptuglega hefur Sonur þiñ fyrer oss beded, ad vier mættum eñ þa eitt Ar standa? Fyrer hañs Arnan er þad sked, ad vier ecke med ollu erum upprætter: Þar fyrer, Christner Meñ, taked Vara a ydar Vitiunar Tijma; Giored Ydran medañ Guds Rijke er nalægt, Oxeñ er sett til Rootar Triaña, hvert þad Trie sem ecke ber Avoxt, þad skal upphoggvast, og i Elld kastast, Matth. 3. Vijdum ecke epter Jerusalems Hegningu, um hveria Gud sagde vid Spamañeñ; Þu skallt ecke bidia fyrer þessu Foolke, og ecke upphefia Raust edur Bæn, edur forþijda fyrer þa, þvi eg munde eingañvegeñ Bænheyra þig, Jer. 7. Med mikelle Alvoru og Gaumgiæfne byriar Mañe ad ransaka sialfañ sig, hvert ad hañ hefur Vitnisburd Heilags Anda, ad hañ sie Guds Barn, edur ad hañ leidest af falskre Jñbirlingu, um Arfa-Riett Guds Barna, hvad margañ hendt hefur, sem Gud næde, og er þad audsært, ecke einasta af Dæme Phariseaña, og hiña Skriptlærdu, um hveria sialfur Frelsareñ vitnar, hvad fiarlæger þeir vered hafe Guds Rijke, helldur margra añarra, sem ad eckert efast um Guds Naad, eñ lifa þo hverge nærre svo sem Christnum ber, jafnvel þott ad ei sieu þeir verstu Klækium hladner, hverium eckert er betra Raad, eñ þad sem Paulus giefur, er hañ seger, 2. Cor. 13. Reyned hvert þier erud i Trwñe, hvad ei gietur med betra Moote skied, helldur eñ ef vier rañsokum vora Lijfernis Hattu; Þvi Trweñ er alldrei Avaxtarlaus, helldur verkar hun fyrer Kiærleikañ, allar Christelegar Dygder hefur hun i sier foolgnar, hvar um eg vil nockud framar tala i sijdare Greineñe, eñ lata um hid fyrra wttalad ad svo stoddu.

St. Petur sagde, ad hia Gude være ecke Mañgreinar-Allit, helldur a ollu Foolke, af sierhverre Þiood, sem giorer hañs Vilia, hefde hañ Velþocknan, Act. 10. Nu er þad Omogulegt syndugu Hollde, ad giora Guds Vilia ad fullu, þvi þad er hid sama og ad uppfylla Logmaaled, eñ þad er oss um Megn, sem ad i Syndeñe erum gietner, hverrar Spilling ad Daglega brijtur sig wt um þeña Daudlega Lijkama, svo ad þegar vier vilium giora hid Gooda, þa loder hid Vonda vid oss, þad jatar Paulus um sig, Rom. 7. Med mykille Harma-Klogun, og mun eingum af oss betur vared; Nu heyre eg DRotteñ tala a þa Leid hier i Gudspiallenu, ad sa meige eingeñ iñ i Guds Rijke koma, sem ei giorer Fodursins Vilia; Eñ hver mun þa hoolpeñ verda? Giæt þess nu, Barn mitt, er Paulus seiger, Rom. 8. Hañ same Paulus sem talde Vankvæde sijn a, ad uppfylla Logmaaled, hañ seiger; Þad sem Logmaalenu var Omogulegt, af þvi þad veiktest fyrer Hollded, þad hefur Gud giort, sendande siñ Son i Lijkingu syndugs Hollds, og fyrer Syndena fordæmt Syndena i Holldenu; Til þessarar Riettar-Bootar vijsar DRotteñ oss sialfur hia Johañem, Cap. 6. Þad er Vilie hañs er mig sende, ad hver sa ed sier Soneñ og trwer a hañ, hañ hafe eylijft Lijf, sem er hid sama og ad iñganga i Himnarijke, Guds Vilia er Omogulegt ad giora, svo honum lijke, þott hier giordur

giordud allt þad þier ættud ad giora, seiger Frelsareñ, þa játed samt, Onijter Pioonar erum vier, Luc. 17. Eñ hversu myked oss breste a þad, til þess siña aller þeir, ed rañsaka siñ Lifnad, og bera hañ samañ vid Guds H. Logmaal, jafnvel hiner Riettlaatu, er vier svo kollum. Noe, Abraham, Isaac, Jacob, Elias, Samuel, Job, Daniel, meiga Forlaats bidia, þegar Gud helldur Doomeñ; J hvers Augum þad Himnaña Himnar ecke hreiner eru; Trweñ a Guds Son er þad alleina, sem oss Riettlæter, þvi sagde Petur Fordum, ad þar være eckert añad Nafn under Himnenum Moñunum giefed, i hveriu oss byriade Saaluhoolpnum ad verda. Være ecke aller af-fallner, og allur Heimureñ Sakfalleñ fyrer Gude, Rom. 3. þa være ecke hañs Sonur i Heimeñ komeñ, ad kalla Synduga og ecke Riettlaata til Ydranar; Eñ alla hefur hañ kallad, ollum seigia laated fyrer Johañem; Giored Ydran, þviad Guds Rijke er naalægt, Matth. 3. Ollum hefur hañ i sijnu Nafne predika laated Ydran og Syndaña Fyrergiefning, er þañ Hlioom heyrt hafa, sem wt er geingeñ um alla Heims-Bygdena, ollum hefur hañ boda laated, Giored Ydran, og trwed Evangelio, Marc. 1. Þesse er miñ Elskulegur Sonur i hverium mier Velþocknast, sagde Guds Fodurs Raust af Himnum vid Aana Jordan, Matth. 3. Þar fyrer er sierhver saa velþockadur hiaa honum, sem trwer a Nafn Eingietens Sonar Guds, og hañ kiemur ecke til Doomsens, Joh. 5. Þad er, hañ verdur ecke fordæmdur, þvi hañ hefur elskad oss i hinum Elskulega, og þesse er Logmaalsens Uppfylling: Þesse er sa Guds Vilie, er Frelsareñ talar um i Gudspiallenu, ad trwa a hañ, eñ med hvilijkre Trw, Christner Meñ? Ecke hañs, sem trwer ad Gud er til alleina, þvi trwa og Diosflarner, og skielfast þar af, ecke hañs, sem kallar sig trwa a Gud, eñ nær hañ sier Broodur edur Systur Skort lijda, giefur hañ þeim þo ecke þad sem Lijkamanum gagnar, Jac. 2. Jafnvel þott hañ hafe Audlegd Heims þessa, þvi saa sem segest elska Gud, eñ hatar siñ Broodur, seger Johañes, hañ er Lygare, þvi ef hañ ecke siñ Broodur elskar, þañ er hañ sier, hverneg maa hañ Gud elska, þañ er hañ sier ecke, 1. Joh. 4. Saa dregur sig a Taalar, er hañ meinar sig ad trwa a Gud, eñ syner einga Trwareñar Avexte. Paall seger, ad i Christo gyllde hverke Umskurn nie Yferhwd, helldur Trw su, sem verkar fyrer Kiærleikañ, eñ Kiærleikureñ er Logmaalsens Uppfylling, Rom. 13. Þad er hañ iñebindur i sier allt þad, sem i Logmaalenu boded er, eñ þoot hañ sie Ofullkomeñ hiaa oss, þa verkar Trweñ þad i honum, ad hañ gyllder i hañs Auglite, sem hefur sett Jesum Christum til eins Naadar-Stools i hañs Bloode, til ad auglijsa sitt Riettlæte, ad hañ sialfur sie rettlaatur, og rettlætande þañ, sem er af Trwñe Jesu Christi, Rom. 3. Þad er, sialfur rettlaatur, i þvi ad taka eckert Ofullkomed fyrer gyllt, eñ rettlætande þo Naunglaatañ fyrer Trwna a Christum, og giorande þau Verkeñ gylld, sem af heñe framkoma, og i Gude giord eru; Og maa hier af siaa, hvilijkre þeirre Trw byriar ad vera, sem er epter Guds Vilia; J einu Orde ad segia: Syned mier Lioos fyrer utañ Byrte, Sool fyrer utañ Liooma, og eina Mañeskiu fyrer utañ Saal, og skal eg sijna ydur rietta Trw fyrer utañ Avexte. Tvofallt er Embætte Trwareñar; Eitt er þad, ad trwa þvi, ad

Gud sie Hegnare Vondra Verka; Añad, ad forlaata sig þar uppa, ad Gud mune Syndernar fyrergiefa; Eñ þad er valla mogulegt, ad saa trwe hinu fyrra, sem ad framfer i Glæpunum Ydrunarlaust, þvi seger David, ad hiñ Heimske sege i Hiarta sijnu, þar er eingeñ Gud, Ps. 14. og hañ trwer Forgiefens, ad sier verde Syndernar uppgiefnar, sem liggur i þeim Vijsvitande, hafande einga Vidleitne edur Atburde til ad Krossfesta sitt Holld, med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Ostraust, er þad Guds Naadar, eñ ecke sw Trw, er Mañeñ hoolpeñ giorer. Þu seger: Mijn Trw er veik, þvi velldur Fiollde Synda miña, ad eg er ecke aldeilis Fulltrwa um̃, ad Gud mune sijns Riettlætes vegna gieta fyrergiefed mier þær, eñ eg er ecke einasta Ofullkomeñ, helldur Ostødugur i mijnu Apturhvarfe, og i þvi, ad giora Guds Vilia. Heyr mier Barn; Er Lausnareñ þa komeñ til ad kalla Riettlaata og ecke Synduga til Ydrunar? Þijnar Synder eru Diofulsins Verk; Mun ei Guds Sonur komeñ til ad nidurbrioota þau? 1. Joh. 3. Þetta Mistraust er eitt af þeim, þad mun Guds Sonur fyrer hvorn Mun i burt taka, þvi hañ veit, ad a þvi rijdur Saaluhiaalp þijn, ad trwa a Gud, og þañ er hañ sende JEsum Christum; Mun ecke Naadeñ yfergnæfa þar, sem Syndeñ yfergnæfer? Rom. 5. Hefur ecke Gud alla under Ohlijdneñe iñeluckt, (þad er under Þeckingu Syndareñar) uppa þad hañ myskunade ollum? Rom. 11. Ef þu nu þecker Synd þijna, og villt hana af Hiarta ofgiort hafa, hverneñ kañtu þa ad efast um̃ Guds Myskunseme, edur Fyrergiefningu Syndaña, þar Gud vill ecke, ad nockur Madur tapest, helldur komest til Sañleiksins Vidurkieñingar? 1. Tim. 2. Eñ þo ad Trweñ sie veik, þa er þad þo Trw; Eiñ Neyste er eins vel Elldur, svo sem myked Baal; Eiñ Drope er eins vel Vatn, svo sem allur Siooreñ, svo var og Trw Fødur hiñs Twonglsiwka eins vel Trw, svo sem hiñar Canaanisku, so sem hiñar Bloodfalls-siwku, svo sem Hundrads Hofdingians. Bid med Læresveinunum, Herra, auk þu oss Trwna, Luc. 17. og med Fødur hins Twonglsiwka, er eg strax um̃gat: Eg trwe ad soñu Herra, eñ hiaalpa þu Vantrw miñe, Marc. 9. Eñ þott ei bregde strax vid, sem þu bidur, þa laat þier a medañ nægiast Guds Naad med Paulo, þvi hañs Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum, 2. Cor. 12. og visse Gud, ad þier ecke nægde um̃ Siñ þad lijted, sem þu hafa þykest, þa munde hañ aan Efa, ad Skyndingu vidauka, þvi aan Trwareñar er Omogulegt Gude ad þocknast. Trweñ er Verk H. Anda, eñ ecke þitt, kalla þad alldrei lijted, sem Gud hefur giort, Giæt þess og, Barn mitt, ad hiñ Naaduge Gud heimter þad ecke af syndugum Mañe i Evangelio, sem honum er um̃ Megn. Þar er eingeñ af øllum Adams Nidium, sem ad fullu hefur Guds Vilia giørt, nema hiñ añar Adam, sem er Gud af Himnum, sa ed i Heimeñ er komeñ, ad giøra hañs Vilia, hañ er aanægdur med Gudrækne Hiartans, og alvarlega Vidleitne, til ad lifa epter sijnum Vilia, þvi þeir, sem eru i Christo Jesu, þeir eru ecke under Løgmaalenu, Rom. 6. og ecke er Fordæming i þeim, Rom. 8. Gud høndlar vid þa svo sem Børn, og ei svo sem Præla, þvi hañ veit hvada Verkefne vier erum, og þeinker a þad vier erum Molld, Ps. 103. Sagde ecke Eingilleñ vid Abraham? Eg veit ad þu Ottast Gud, þo hafde hañ sij-

na

na Breste, er hañ Tvisvarsiñum Missagde uñ Konu sijna, ad hun være hañs Syster. Jacob, er hañ a Tœlar droo siñ blinda Fodur, og hversu miog kvartar Paulus uñ þa Synd, sem i honum bioo, Room. 7. Þesse Dæme hefur Ande Drottens upptekna læted til Huggunar þeim, sem af Efasemeñe freistader verda, af þvi þeir siña Skort a þeirre Hroosan, sem fyrer Gude gyllder. Vier høfum i Christo þañ Høfud-Prest, sem kañ ad sampijnast Veikleika vorum, Hebr. 5. Hañ er Bruñur þess Vatns, sem ad uppvellur til eilijfs Lijfs, Joh. 4. Af hañs Fyllingu høfum vier aller medteked Naad fyrer Naad, Joh. 1. J honum fiñur hiñ stræange allsheriar Doomare allt þad hañ brestur hiæ oss. Hañ er oss af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar, og til Endurlausnar. Honum med Fodur og Heiløgum Anda, sie Vellde og Kraptur, Rijke og Mættur, Dijrd og Heidur, fræ eirnre Eilijfd til añarar, A M E N.

# Nijunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 16. Cap.

A Þeim Tijma. JEsus sagde til siña Lærisveina: Nockur Madur Audugur var þar, sa ed hafde eirn Raadsmañ, sa same var Ofrægdur vid hañ, so sem hefde hañ eidt hañs Gotze. Og hañ kallade hañ sama til sijn, og sagde til hañs: Hvad heyre eg þetta af þier? Giør þu Reikningskap af þiñe Raadsmeñsku. Þviad þu mætt eige leingur Raadsmeñsku hafa. Eñ Raadsmadureñ sagde med sialfum sier. Hvad skal eg til giøra, miñ Herra svipter af mier Raadsmeñskuñe? Eg duge ecke til ad grafa, eñ skamast mijn ad bidia. Eg veit hvad eg skal giøra nær ed eg verd settur af Raadsmeñskuñe, so ad þeir medtake mig i sijn Hws. Þar fyrer samañkallade hañ Eirn og Sierhvørn Skullda-Mañ sijns Herra, og sagde til hiñs Fyrsta: Hvørsu miked ertu skylldugur mijnum Herra? Eñ hañ sagde: Hundrad Tuñur Vidsmiørs. Og hañ sagde þa til hañs: Tak þitt Brief og setst nidur, og skrifa snarlega Fimtijger; Epter þad sagde hañ til hiñs Añars: Eñ hvørsu miked ertu skylldugur? Sa sagde: Hundrad Mæle-Kierølld Hveitis. Þa sagde hañ til hañs: Tak þitt Brief og skrifa Attatijge. Og Herrañ lofade þañ Rœnglœta Raadsmañ, þad hañ hafde giørt so Forsiælega; Þvi þessa Heims Børn eru kiænare Sonum Lioossens i þeirra Kynslood. Og eg seige ydur: Giøred ydur Vine af þeim Rœnglætis Mañona, So ad nær ydur þrijtur, ad þeir medtake ydur i Eilijfar Tialldbwder.

# Exordium.

MArta, Marta, þu ert Ahyggiusøm, og mædest i mørgu, eñ eins er Pørf, Maria hefur wtvaled þad Gooda Hlutskipted, sem ecke skal fraa heñe takast, sagde Lausnareñ Fordum, Luc. 10. Pad eru stoor Vanheilende Saalareñar hiaa oss Dauðlegum Møñum, ad hun syrger svo miøg syrer Lijkamanum, eñ lijted fyrer sialfre sier, og verdur þvi ecke a moote sagt, ad hun velltest nærsta miøg wr Tign siñe, þegar svo ber vid, þvi hvad er Kroppureñ hiaa heñe ad reikna, hañ er Molld og Aska, hun er eiñ lifande Ande, hañ skyniar eckert af sialfum sier, hun er full Raads og Skilnings, hañ deyr og rotnar i Grøfeñe, þar liggur hañ til þess hun vitiar hañs aptur epter Guds alvijsn Raadstøfun, og sijdañ skulu þau bæde þess Not edur Giolld hafa, sem hun hefur sied fyrer sialfre sier og hønum a medañ þau voru bæde samañ i Lijfenu. Eñ Frelsareñ seiger hiaa Matth. 16. Cap. Hvad gagnar þad Mañenum, ad hañ eignest allañ Heimeñ, og lijde Tøpun a Saalu siñe. Þetta skilst ecke sumum Møñum, svo eru þeir Ahygginsamer um̃ þad Raalæga, eñ syrgia lijtt fyrer hinu Epterkomanda, og jafn vel fiñst þesse Brestur hiaa þeim, sem Gud vilia Ottast, hveria og Frelsareñ kallar Liossens Børn i þessa Dags Evangelio, af þvi þeir eru i Skijrneñe Gudsbørn vordner, hver ad er Fader Liossaña, Jac. 1. Christi Brædur epter Endurgietninguñe, hver ad er Lioos Heimsins, og upplijser alla Meñ, sem koma i þeña Heim, Joh. 1. og upplijster af H. Anda, sem er Liossens Ande, og ecke Myrkursins, eñ Toomlæte þeirra og Ofram̃sijne straffar DRotteñ hier i Gudspiallenu, med Epterlijkinguñe um̃ hiñ Raanglaata Raads-Mañ, um̃ hveria Margur hefur margt talad, og sært hana heim uppa oss, sem a Stundum erum Otrwer Raads-Meñ yfer þvi Punde, sem Gud hefur oss til Medferdar feinged, og er þad ad søñu vel til funded, eñ Asetningur Frelsarans er, ad kieña Børnum sijnum Gudrækelega Fram̃sijne i þeirra Saaluhiaalpar Efnum, Pad sijna oss þau Ord er sijdarst standa. **Og eg seige ydur, Giøred ydur Vine af þeim Raanglætis Mamona, svo ad nær ydur þrijtur, ad þeir medtake ydur i Eilijfar TJALDbwder.** Þesse Ord vil eg nockud giør yfervega i þetta Siñ. Hvar til hiñ goode Gud virdest ad hiaalpa med Styrk sijns Anda, J JEsu Nafne, AMEN.

# Utleggingeñ.

HJer stendur medal añars i Gudspiallenu, Ad Herrañ Hafe Lofad Hiñ Raanglaata Raadsmañ, Pad Hañ Hafe Svo Forsiaallega Giort. Ecke er þad Meiningeñ, ad Christur hroose þessum Ohlutvanda Mañe, helldur seiger hañ fraa þvi i Epterlijkinguñe, ad hañs Laanar-Drotteñ hafe prijsad, ecke Raangsleitne hañs eda Prettu, þvi eingeñ af oss hroosar slijku aa sijnum Pienara, helldur Slægvitsku hañs i þvi, ad siaa sier Farborda, nær hañ være affettur Raadsmeñskuñe, svo hverke þyrfte hañ ad erfida, nie fara aa Vonar-Vøl, og þetta Dæme brwkar Frelsareñ til ad eggia sijna Pienara aa Christelega Fram̃sijne i sijnu Gudræknis Eyrende, ad lijka svo sem þesse Veralldar Sonur var forsiaall i þvi, ad bwa um̃ Tijmanlega Atviñu sijna, svo skule þeir og vera i þvi, ad siaa sier borged i Andlegum Efnum; Þvi fylger Epterlijkinguñe nockurskonar Um̃kvortun, er svo hlioodar: Þessa Heims Børn Eru Kiænare Sonum Liossens J Þeirra Kynslood, og þar aa epter Bodord Frelsarans, hverneg þeir breita skule, sem vilia eiga Vist med Gude, og øllum Heilogum i eylijfum Tialldbwdum. Giøred Ydur Vine Af Þeim Raanglætis Mam̃ona, seiger Frelsareñ: Svo kallar hañ Audlegd Heims þessa: Pad ber til þess, ad valla er nockurt þad Raanglæte i Heimenum, sem ad Audureñ sie ecke vidrideñ med einhveriu moote; Hvada Raanglæte hafa

Meñ

Meñ ecke vid i þvi, ad abla hañs i Kaupum og Solum, med Yfervarpe Laga og Riettenda, til ad svæla under sig Eigur añara, med Fieburde i Dooma, med Raane og Stulde, med Ofrijke og Asælne, med Lygum og Prettvijse? Eñ svo sem það er ecke miña vert, ad giæta feingens Fiaar eñ abla þess, svo skiedur og ecke miña Raanglæte i Medferd Audsens, helldur eñ i Safnenu; Edur hvad giora þeir ed brwka hañ til Ofmetnadar, stæra sig þar af, þacka sialfum sier fyrer sitt Lucku-Laan, færa Foorner fyrer sijnu eigeñ Nete, brwka Fie sitt til ad nidurdrepa hønum sem Raanginden lijdur, til ad Riettlæta hiñ Raanglaata, eñ fella Raanglaataň Doom yfer hiñ Saklausa, til Ohoofs i Mat og Dryck, og añars Bijlijfes, eñ laata hiñ Fatæka og Nakta Þorsta og Hwngur lijda, inehallda launudu Fie, og svijkia Daglaunaraň, og þañ sem sleiged hefur Lond hins Rijka uñ sitt Verdkaup, svo ad þeirra Hroop er iñgeinged i Eyru DRottens Zebaoth? Jac. 5. Eru það þa Undur, þoott hañ nefnest Raanglætis Mamona? Og þoott ecke æfe aller allt af þessu, þa er hver Partur þar af noogur til ad fordæma hañ ed það fremur, þvi hvert ad eiñ tapar Lijfenu fyrer Lauslæte, eins og hañ er samlagade sig Skiækiuñe af Mooabs Bornum, Num. 25. Edur fyrer Agyrne og Nijdsku, eins og Nabot, edur fyrer Asna-Leitena, eins og Simei, edur Frumgietningu siñe med Laungunne epter hinum sæta Riette, eins og Esau, edur Himnarijke fyrer Myskunarleyse og Hardydge, þa maa einu gyllda; Litlu vardar uñ hvern Veg ad eirn steyper sier til Helvijtis. Nu er svo aastatt uñ Audeñ, sem eg sagt hefe, ecke það, ad hañ sie illur i sialfum sier; Guds Blessan er hañ, og næsta þarfur þeim er vel vita med hañ ad fara og brwka hañ Gude til Dijrdar, og Naunganum til Gagns, og til þess ad vera rijkur i goodum Verkum, añars er hañ skadlegur, Sokum Vanbrwkunareñar, og þvi seiger Paulus, ad þeir ed rijker vera vilia falle i Diofulsens Snorur, þar fyrer sogdu og hiner Gomlu, ad hiñ Rijke være añadhvert Raanglaatur edur Raanglaats Arfe. Nu gietur það ecke ad ollu Leite satt vered, þvi ei veit eg hversu stoor-rijkur ad Abraham var, þegar hañ foor wt af Ur, i Caldæa Lande, aadur eñ hañ kom til Haran, Gen. 11. Ecke var Jacob rijkur, þegar hañ kom med einsamlaň Gaungu-Staf siñ til Labans, og ecke var David Fiolskrwdugur, þegar hñ foor Land-Flootta fyrer Ofrijke Sauls, og mællt est til Matar-Verdar fyrer sig og Foolk sitt af Nabal, 1. Sam. 25. Svo kuña og marger ad vera eñ nu i Dag, sem vel eru komner ad Fie sijnu, svo sem þeir ed audgast af Orlæte Konunga siña, og añarra Hofdingia, ef þeir ei vanbrwka Gunst þeirra odrum til Skada, þeir ed med Bindinde og Sparseme Audlegd safna, svo framt ad hañ sie ecke Ohocke Fiaar sijns, edur neite hinum Þurfanda uñ það, sem Gud hefur hønum boded ad giefa. Margur verdur audugur af Embættis-Launuñum og Kuñaattu siñe, verie hañ þar til Ydiu siñe og aastundan, og take ei framar eñ Gud og Yferr allded boded hefur, þa maa hañ eiga sitt med goodre Samvitsku. Margur græder af Hand-Abla sijnum, og brwkar Natturuna, sem er rijk til Utvega siña, það er saklaus Groode, ef allt er añad riett: Eñ fyrer þvi, ad i ollu þessu er Hoofed vandhitt, svo ad eingeñ er ad fullu viss þar uñ, ad eckert sie Raangfeinged i Bwe hañs, þar Audureñ er fagur, eñ Meñ eru

ecke alltijd adgiætner i slijku og fyrergiefa sialfum sier myked, þa kalla eg þad stoora Naud fyrer alla, ad Meñ eiga Kost a, ad giora sier Vine af þessum Raunglætis Mammona. Tveir liggia Veiger til þess sierdeilis, sa eine er, ad gallda aptur þad sem einhver af odrum Raunglega droo; Añar, ad giefa Olmusur Fatækum, bæda kieñer oss Zachæus Tollheimtu-Madur, er hañ sagde vid DRotteñ, Luc. 19. Helmingeñ af Eigum mijnum gief eg Fatækum, og hafe eg prettad nockurn, gief eg Ferfallt aptur. Gud hiælpe oss vel; Lijtell var þesse Tollheimtu-Madur Verte, eñ morgum stoorum Mañe mun hañ kieña meiga Adferd Christelegs Apturhvarfs, DRotteñ gaf honum þañ Vitnisburd, ad hañ være Abrahams Sonur; Lijkast er ad hañ hafe svo vered ad Burdum, þad sijner Nafned, og marger Gydingar voru Tollheimtu-Meñ Romveria, Eñ hañ hafde tapad Abrahams Barna-Riette med Tollheimtuñe, þvi Heidingia og þa leggur Frelsareñ ad jofnu, Matth. 18. Eñ þvi olle Audmijkt hañs og Avexter Trwareñar, ad DRotteñ kallar hañ Abrahams Son. Eg seige eñ nu, ad þetta Smat-Meñe gietur kieñt morgu Stoor-Meñe sañañ Veg Ydranareñar, hañ dæmde sialfañ sig i Pioofs-Bætur, þvi svo seigia Moysis Log, Exod. 22. Ad Piioofureñ skule gialld Fioora Saude fyrer Eiñ, sem stoleñ er. Nu er þo Straffed herdt af Christnu Yfervallde, epter þvi sem Glæperner vaxed hafa; Eñ þess være Oskande, ad hiner stooru Piioofarner lietu ei heingia þa smaau, eins og Hvalfiskarner gleypa litlu Fiskana; Ef oll þvilijk Varmeñe ætte under Gaalgañ ad draga, þa munde Bodla vanta, þa munde Snorulaust verda, svo ad Gaungu-Madureñ feinge valla þad hañ kyñe ad vefia um Totur sijn; Eñ hier er þo ecke svo miog hætt vid, hiñ Riettlaate Doomare hefur sied þvilijkum Moñum bæde fyrer Bodle og Snoru, þar ed hver heinger añañ a Stundum, Stundum kvelur eiñ giælijfur Sonur, ein lauslaat Dootter sijns Fodurs Hiarta; Stundum plaaga þa opeñberer Piioofar, odrum sender hañ Elld og Vatn, Vind og Ovedur, til ad tugta þa, eñ fyrer þvi, ad þesser Fie-Pwkar ecke taka þvi so sem af Drottens Hende komnu, añadhvert fyrer hañs Lijdun edur Tillhlutan, þa kyrker Bwksorgeñ þa, og Aura-Elskañ, jafnvel midt i Daudanum; Nema þeir adur sieu Afhuga Heiminum, og hafe golldeð þad aptur a einhvern Hatt, er þeir med Raungu fraa odrum tooku, svo fyrerfarast þesser Aumingiar, og verda heingder jafnvel fyrer utañ Bodul og Snoru, og i Sañleika, Christner Meñ, þa er þad einsætt hverium einum ed erfa vill Himnarijke, ad giallda þad aptur, er hañ hefur svælt under sig fraa odrum, þvi jafnvel hiñ miñste Peningur, er hañ veit sig med Oriettu hallda, hañ er Pantur Andskotans uppa hañs Saalu, sem giefur honum Riett til heñar, svo fliott sem hun skreppur wt af Kroppnum, nema hiñ hafe adur bætt fyrer sig, ef hañ maa þvi vidkoma, og fyrer þvi ad eingeñ veit hvad mykel Umsvif ad Daudeñ lætur honum epter, þa er ei Raad nema i Tijma sie teked; Gud hefur alldrei heited þeim Kvittun Syndaña, sem ecke lætur af Illu, og lærer gott ad giora, Esa. 1. Sa ed stoled hefur hañ stele ecke meir seiger Paulus, Eph. 4. Tak ecke svo Ord hañs, ad hañ bañe alleina ad stela framveges, eñ leise ad fela þad sem allareidu stoled er, þvi Gud bijdur ecke alleina ad laata af Illu, helldur og

og ad giora hid Gooda, og ſkyllde þad vera fyrſt af Goodgiørdunum, ef ſvo mꜳ kalla, ad giefa þad aptur, ſem eiñ rꜳnglega iñehelldur, og ſꜳ ſem ecke hefur Leida a Syndeñe, hañ gietur valla ætlad til Fyrergiefningar; Eñ hañ ſem ecke hefur Andſtygd a þvi Fe, er hañ rꜳnglega took, hañ hefur og ecke helldur Leida a hinum rꜳnglꜳta Giørninge: Meñ vilia ſeigia, ad þad ſie Omøgulegt, ad giallda øllum aptur, þad ſem med Oriettu teked var: Hañ er daudur er þu tookſt frꜳ, þa lifa þo kañ ſkie Erfingiar hañs, gialld þeim ſlijkt er þu varſt hønum ſkilldugur, añars ertu eingu betre eñ hañ, ed ſvæler under ſig añars Arf. Vera mꜳ þu viter ei hvar hañ er ad fiña, edur Arfa hañs, þa høfum vier þo Fꜳtæka jafnañ hiꜳ oſs, þeir taka vid Arfenum, þegar eingeñ er Erfingeñ, þu manſt ecke hvad morgum, edur um̃ hvad miked ſierhverium þu hefur Oriett giørt, þetta er Lijklegt, ſierdeilis hafer þu til margra Ara ſamañ ſafnad, þetta er Lijklegt, ſege eg, þvi vier ſkrifum þad ecke ſvo a Miñis-Tøbluna, ſem vier tøkum frꜳ ødrum, eñ þad ſem frꜳ oſs kañ teked ad vera, þvi gleimum vier ecke ſvo brꜳdlega: Eñ ættu þar fyrer ad vera Hyggiulaus hier um̃? Nei, Barn mitt, þeſs meira ſem þu hefur frꜳ ødrum rꜳnglega teked, þeſs fleirum ſem þu hefur Oriett tilgiørt, þeſs meire Hug ſkalltu leggia a Mꜳl þitt, þad er og ecke Omøgulegt ad giora nockurn Jøfnud i ſlijku: Til Dæmis; Þu veitſt hverſu frekt þu hefur bygt Lønd þijn, hvad miked þu hefur dreged af Verkamoñum þijnum, hverſu ofmikeñ Abata þu haft hefur a þvi þu ſellder og keypter, giør ſvo ſmꜳſmuglegañ Reikning vid ſiꜳlfañ þig hier um̃, ſem þu kant, añars vill Gud reiknaſt vid þig, Dæmer þu ecke ſiꜳlfañ þig, þa verdur þu af hønum dæmdur, 1. Cor. 11. Hañ hefur ecke gleymt þo þu gleymer, og nær þu hefur ſvo giørt, þa kaſta nockru framyfer, og þo meira eñ miña, ſvo þu ſiert viſs um̃, ad Satan hafe ecke eina Klauf epter i Bwe þijnu, helldur eñ Jſrael a Ægyptalande; Sie þa nockud ofgollded, þa er þvi ecke ſpillt, þad verdur ad Fieſiood a Himnum, þad verdur ad Ølmuſu, og þad er riett; Ad Giøra Sier Vine Af Hinum Rꜳnglꜳta Mammon. Ecke einaſta gallt Zachæus aptur þad hañ rꜳnglega teked hafde, helldur og gaf hañ Helming Eigu ſiñar Fꜳtækum, þad Giediadeſt Frelſaranum ſvo vel, ad hañ ſagde: A þeſſum Deige er Hwſe þeſſu Heilſa ſkien. Hallt Sꜳl þijna ſvo Dijrmæta, Barn mitt, ad þu ſiꜳer ecke epter nockrum forgeingelegum Alnum, til ad niota ſømu Bleſſunar, þvi jafnvel þott ecke viñe vorar Ølmuſur edur øñur Verk til neins hiꜳ Gude, þar vier giørum eckert fram̃ yfer þad, ſem vier eigum ad giøra, þa eru þær Gude þo hvad kiæraſtar af øllu þvi vier bioodum hønum, nær þær af Trwñe framkoma, og af Kiærleikanum, añars gyllda þær ecke, þvi þoott eg bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Fꜳtæka, og hefde ecke Kiærleikañ, þa være eg eckert, ſeger Paall, 1. Cor. 13. Þar fyrer ſiꜳe Meñ til hverneg Meñ Ølmuſur giefa, ef þeir vilia ad Þeir Take Þa i Eilijfar Tialldbwder, ſem þær þiggia: Ecke til Fordilldar ſier eins og Phariſæi, þad heiter ad lꜳta blꜳſa i Bꜳſwnur fyrer ſier, ad giefa Ølmuſur til ad taka Byrding af Moñum, og ſierdeilis þeir ed wtſiwga Hws Eckna og Fodurlauſra, meinande þo ad afþvo allt ſoddañ med nockrum Ølmuſugiørdum, þoott þad ſie beſt wr Vondu ad rꜳda, ad giefa af þvi, ſem Jlla er feing-

ed,

ed, eins og Zachæus giörde, og laata svo af Raanglætenu eins og hañ, þa ætla ecke ad
þijnar Ölmusur mune gyllda miked, ef þu helldur aafram̃ i Prettunum. Laat þier um̃-
hugad vera, ad þad sie vel feinged, sem þu giefur af: Eg elska Rietteñ og hata Raaned,
þad er samteingest vid Breñefoornena, seger Drotteñ hiaa Esajam, Cap. 61. Hier
af kuña Meñ ad siaa, hvad þær Ölmusur gyllda mune i Auglite Drottens, sem eirn æt-
lar ad betala siaalfum sier aptur med Fe-Raane af Naaunganum, þær eru eingu betre
eñ Hunds-Verd edur Skiækiu, sem Gud villde ecke laata bera iñ i Helgedoomeñ a Tij-
mum Gamla Testamentesins, Devt. 23.

Þar fyrer, nær þu Ölmusu giefur, þa siaa til ad hun sie i Gude giörd. Siertu Rijk-
ur, þa gief Rijkuglega, og giæt þess, af hverium þu Aud þiñ feinged hefur, þo svo, ad þijn
vinstre Hond vite ecke hvad hin hægre gaf. Giæt og þess, ad þu giefer ecke oflijted ef þu
maatt vel; Þad er stoor Synd ad hafa alls Nægter, eñ laata hiñ Volada svo fraa sier
fara, ad hañ hafe valla Magañ fullañ, auk helldur til nærsta Maals. Þier sundur-
merjed Andlit hiña Faatæku, seiger DRotteñ, Es. 3. Þoott þad sie talad i aññare
Meiningu i þessum Stad, þa heiter þad riett, ad sundurmola Andlit hiñs Volada, ad
laata hañ horfa aa Audlegd sijna, eñ skamta hønum svo naumt, ad hañ sie litlu nær; Ecke
giörde þad DRotteñ, er hañ sadde 5000. Mañs i Eydemørku, þvi Gudspiallamadur-
eñ seiger, hañ hafe giefed svo sem hver villde hafa, Joh. 6. Ef þu villt seigia þad Nyd-
kuñe til Um̃bootar, ad hañ hafe haft betre Raad eñ þu, þa vil eg seigia; Gietur þu ecke
trwad hønum, er þad giörde, ad hañ kuñe ad giefa þier Tijufallt aptur, vid þad sem þu
gafst Vesælingnum, siertu Faatækur, þa gief þo af Faatækt þiñe, slijkt er þu af maatt
leggia, og laat þad vera af Snægd Hiarta þijns, þvi Gud aalijtur Hiartad. Lausn-
areñ sagde: Ad Eckiañ sw, er lagde Tvo Smaa-Peninga i Guds-Kistuna, hun hefde
meira lagt eñ aller hiner Rijku, þvi hun gaf af Leifum sijnum alla Lijfs-Næring sijna,
Marc. 12. Vit þvi, ad þad lijted, er þu gafst, þad er Gude eins þægt, og hid mykla,
er hiñ Rijke gaf, þvi baada yckur giörde Gud, eñ hverneg sem þier haattad er, þa gief med
goodu Skape, þvi hijrañ Giafara hefur Gud kiærañ, seiger Salomon, Paulus bijdur
þad skule gioorast, ecke med Naudung, helldur med fwsum Huga, sa sem med illu Giede
wtelætur þad hañ giefur, hañ hefur bæde tapad þvi er hañ gaf, og svo þeim Launum, er
hañ kuñe ad vænta af Gude, gief strax ef þu giefur, þvi hañ sem fliott giefur, hañ giefur
Tvisvar; Seig þu ecke Naaunga þijnum, Far burt og kom aptur, þvi aa Morgun skal
eg giefa þier, ef þu hefur þad, Prov. 3. Þad giörer Vesælingeñ Laangeygdañ epter
Giøfeñe, sierdeilis ef Þorf hañs er braad, og Gud kañ ad laata þig bijda eins leinge ept-
er Hiaalpeñe, nær þier aaliggur, þvi med þeim sama Mæler er þier mæled, mun ydur apt-
ur mællt verda, seiger Frelsareñ, Matth. 7. Ölmusur hafa stoora Raad i Guds Aug-
lite, Bæner þijnar og Ölmusugiørder eru uppstignar fyrer Gud til Miñes, sagde Ein-
gilleñ vid Cornelium, Act. 10. Bæneñ er Offur þad sem vier eigum Daglega Gude
ad færa, þad eru Kaalfar Vara vorra, Hos. 14. sem koma i Stadeñ Foornfæringa
Gamla Testamentesins, Ölmusurnar eiga þeim ad fylgia, ei sijdur nu eñ þa, Ölmusañ
blijd-

blijdkar Gud meir eñ Foorneñ, þvi að Myskunseme hefur hañ Þocknan, eñ ecke að Offre, haf Raad mitt Konungur, sagde Daniel vid Nebuchadnezar; Gior Synder þijnar ad Riettlæte, og Rangläte þitt ad Myskunseme vid hina Aumu, Dan. 4. Lijklegt er ad hañ hafe það giort, og kañ skie ecke apturhorfed wr Vargs-Hammum til Mañlegrar Rænu og Skyckunar ella. Ad Endingu vil eg miñast að það, er hier sijdarst stendur i Gudspiallenu: Svo Ad Nær Ydur Þrijtur, Þa Medtake Þeir Ydur J Eylijfar Tialldbwder. Hverier þa? Guds Volader Sauder: Nær þrijtur oss? Þegar vier forum nakter burt wr Heimenum, eins og vier i hañ komum: Nær medtaka þeir oss? Veigeñ leggia þeir til þess hier i Heime, med Bænum sijnum og Andvorpunum til Guds, ad það meige oss endurgollded verda i Upprisu Riettlaatra, er Meñ gaafu i Guds Nafne. Johañes sa i Openberaneñe eiñ Eingel standa frame fyrer Altarenu, hañ hafde Reykelsis Kier af Gulle i Hende sier, og var giefed Reykelse myked, ad hañ offrade þvi med Bænum Heilagra, Apoc. 8. Eg efast ecke nu, ad hier med eru og teiknadar Bæner Voladra Þurfa-Maña, sem eru rietter Christi Limer, þetta Reykelse skylldu Meñ dijrum Doomum kaupa, þvi það gagnar meir eñ morg Þusund Stycke Gulls og Sylfurs, Nauta og Sauda, eñ um sijder munu Þeir Medtaka Oss J Eylijfar Tialldbwder; Þegar Konungureñ seiger að efsta Doome til þeirra, sem eru a hægra Veg, það sem þier giordud Einum af þessum mijnum miñstu Brædrum, það giordud þier mier. Komed þier hiner Blessudu mijns Fodur, og eignest það Rijke, sem ydur er fyrerbwed fra Upphafe Veralldar; Þess niootande ad verda, uñ þu oss eylijfur Gud og alleina rijkur, fyrer hañ sem vor vegna Fatækur giordest, JEsum Christum vorn Frelsara, Amen.

## Tijunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 19. Cap.

JEsus Þañ Tijma. Og þa ed JEsus kom nær, ad hañ sa Borgena, griet hañ yfer heñe, og sagde: Ef ad þu visser hvad til þijns Fridar heyrde, þa munder þu a þessum þijnum Tijma þar Vaktan a hafa, eñ nu er það huled fyrer þijnum Augum. Þviad þeir Dagar munu koma yfer þig, það þijner Oviner munu byggia Hervirke i krijngum þig, og umkrijngia þig, og a alla Vegu ad þier þreingia, og nidur i Gruñ kollkasta, og þijnum Bornum med þier, og ecke munu þeir i þier laata Stein yfer Steine vera, af þvi þu þeckter ecke þiñ Vitiunar Tijma. Og hañ gieck iñ i Mustered, og took til ad reka wt þa sem selldu og keiptu þar iñe, og sagde til þeirra: Skrifad er, ad mitt Hws sie Bæna Hws, eñ þier hafed giort það sem añad Spillvirkia Jñe. Og hvorn Dag kiende hañ i Musterenu. Eñ Kieñemaña Hofdingiar og Skriftlærder og þeir Ypparstu Lijdsins,

sins, leitudu fast epter, ad fyrerkoma hønum, og gaatu þad ecke fundid, hvad þeir skylldu giora hønum. Þviad allt Foolked hnie ad hønum, og hlijdde hañs Ordum.

## Exordium.

Vel wimaalar H. Paulus þad Skrijmsle Agyrndena, er hañ seiger, 1.Tim. 6. Þeir sem ad Rijker vilia verda, þeir falla i Freistne og Snørur, og i margar Gyrnder Vitlausar og Skadlegar, hveriar ad steipa Mañenum i Tøpun og Fordiørfun: Þetta er Deigenum liooslega, þvi under þeña Skap-Løst þienar svo miked Illþijde añara Lasta, ad valla er nockur sw Dygd, ad ei þurfe hun Lid af ad þiggia, nær hun er møgnud; Eins og eiñ Stoor Herra þarf margra Þienara, svo er og Ovættur þesse, hun teknr heila Sveit af siñe Kynslood i Lid med sier, Lijge, Roogur, Bakmælge, Meinsære, Flaattskapur, Underhyggia, Ofrijke, og jafnvel Mord og Mañdraap eru heñar Førunautar, þad vottar Postuleñ skoñu sijdar i þessum sama Capitula, er hañ seiger: Ad Agyrndeñ sie Root alls Ills, J hveria þegar nockrer fijkst hafa, þa hafe þeir villst fraa Trwñe, og siaalfa sig i giegnum lagt med Harmkvælum mørgum. Hiñ Agiarne hefur Otal Veidebrellur til Utvega siña, eñ ecke hefur Diøfulleñ færre Snørur, til ad veida hañ; Hvad drap Achan? Jos. 7. Hvad rænte Achab Rijke og Fiøre? Hvad saalgade Judæ? Matth. 27. Alltsamañ giørde þetta Fe-Gyrndeñ, og Otal fleira sem ei verdur uppreiknad, og kuñugra er, eñ med mørgum Ordum seigia þurfe. Nu eru þo marger Veiger til ad verda Rijkur, Sumer Leifeleger, Sumer Oleifeleger; Hiner Fyrre eru Blessan DRottens, Astundan i sijnu Embætte, og Christeleg Fyrerhyggia, og añad þvilijkt, sem eg hefe nockud drepid a i næsi fyrerfarande Predikun: Hiner Oleifelegu eru svo marger sem Agyrndeñ fær uppdyktad, Eñ med þeim hættuslu er Oraadvond Kauphondlan, hverrar vegna ad DRotteñ kallar, ad Guds Hws sie orded ad Ræningia-Bæle hier i Gudspiallenu, þvi seiger Syrach Cap. 27. Eiñ Kaup-Madur gietur valla vared sig Oriette, nie eiñ Kramare fyrer Syndeñe. Nu fyrer þvi, ad eg hefe ecke til Forna i Book þessare neitt Merkelegt um þeña Hlut ritad, sem þo er harla Naudsynlegt ad vita nockud uñ, Þa vil eg taka mier Orsøk af Vandlæte DRottens, til ad Hugleida Tveñt hier af, sem er. 1. Hvør ad sie Leifeleg Kaup-Høndlan. 2. Hvør ad sie Oleifeleg. Hiaalpa oss goode Gud til þessa Verks, fyrer JEsum vorn DRotteñ, Amen.

## Utleggingeñ.

ÞAD er vijst, ad ecke gietur Verolld þesse stadest aan Kauphondlunar. Mismun hefur hiñ Alvijse Skapare giort bæde Landaña og Mañaña, eñ eingum hefur hañ giefed allt, þvi hañ ætlade sialfum sier allt, Rijkur og Faatækur mættu hver ødrum, seger Salomon, eñ Gud hefur giort þa baada, Prov. 22. Hañ meinar Rijkañ, Rijkañ, eñ Faatækañ Faatækañ, þvi hverttveggia kiemur af hønum: Hvar fyrer mun nu hiñ Almaattuge svo giort hafa? Gat hañ ecke alla Fullrijka giort, sem aa alla Jørdena, og þad sem þar iñe bygger? Ad visu gat hañ; Hvar fyrer er þad svo skied þa? Eingeñ hefur ad søñu hañs Raadgiafe vered, eñ þo maa þad skilia, ad hañ hefur giort þeñañ Mismun til ad laata dijrka sig af baadum, af þeim sem noog hafa, med Kiærleikans Verkum, af hinum sem Skorteñ lijda, med Poleñmædeñe, eñ þo ecke sijdst til ad laata Daudlega Meñ æfa sig i Riettvijseñe og Kiærleikans Verkum, i allre Hondlan og Vidskiptum, þar eingeñ er sialfum sier Fullnoogur um allt, ad ei sie hañ añars Þurfe i einhveriu: Brwke þvi nockur Kaupmañskap, þa æfer hañ eingañ illañ Hlut, helldur Naudsynlegañ: Gud hefur ecke fyrerboded sialfañ Hluteñ; Helldur Vanbrwkun

brwkun Hlutarens: Vigt og Mæler eru þeir Hluter, sem Kauphondlan maa ecke aan vera, þad hefur Gud ecke bañad, eñ raanga Vigt og Mæler hefur hañ fyrerboded, Lev. 19. Og þetta er ecke siidst ad taka Vara a i Vidskiptum Mañа: Riett er og hverium Mañe ad kaupa þa Hlute, er hañ vid þarf, til þessa Liifs-Næringar, edur skickañlegrar Brwkunar, sem Gud hefur ecke i siinu heilaga Orde fyrerboded; Svo keipte Abraham Landed af Hephron til ad grafa Kviñu siina, Gen. 23. Jacob keypte Land under Bw sitt af Sonum Hemors, Gen. 33. Joseph keipte Fe hiña Egyptsku til Handa Pharao fyrer Atviñu, Gen. 47. Jeremias Akureñ af Chanameele Syne Fodurbroodur siins, og giorde Giorning þar um, Jer. 32. Og Lamuel samliiker forsiaalle Konu og ydiñe vid Kaupskip, þvi ad hun sæke Fædslu siina laangt ad, Prov. 31. Fyrer þvi er þad saklaust ad brwka Kauphondlan uñ þvilijka Hlute. Aller þesser Meñ, er eg strax upptalde; voru Guds Viner, og kuña Meñ ecke añad um þa ad ætla, eñ ad þesse Hegdan þeirra hafe Leifeleg vered; Eñ ef þeim var saklaust ad kaupa, þa var og hinum Syndlaust ad giora þad falt, er þeir selldu, þvi ecke er Kaupande nema Seliande sie. Lydia su er Paulus skiirde i Borg þeirra Thyatirorum, Act. 16. Hun selde Purpura, og heyrest ecke ad Postuleñ hafe bañad heñe Hondlan siina, og var þetta þo ecke svo miog Naudsynlegur Hlutur til Liifs Næringar, sem hun hafde med ad fara. Saa ed selur Handa-Verk siin, hveriu Nafne sem heita; Hañ brwkar saklausañ Kaupmañskap, þvi hañ neiter Brauds siins i Sveita siins Andlitis, Ef hañ ecke falsar Verkefned, edur brwkar i þvi adra Raangsleitne, fyrer þvilijku mun hier epter Raad giort verda i siidara Partenum. Hañ ed selur þad, er hañ missa kañ ur Bwe siinu, þeim ed vid þurfa, hañ giorer goodañ Hlut, sierdeilis ef hañ ecke iñehelldur þvi er hañ maa aan vera, nær hiñ er Naudstaddur: Svo giorde Joseph, þegar Gud sende Hungur i Egyptaland, og þoott ad Herodes Konungur Aschalonita være hiñ verste Madur, þa var þad þo Lofs verdt a honum, sem Joseph Sagna-Meistare skrifar, ad hañ hafe sellt jafnvel Gersemar siinar fyrer Atviñu handa Þegnum siinum. Þeirra Adferd er og saklaus, sem hafa Fe i Hondum, og kaupa Naudsynlega Hlute, a medañ Nægter eru af þeim, til ad selia odrum sem faatækare eru, og ei hofdu Raad til ad kaupa til margra Ara, og þoott þeir Abatest nockud þar af fyrer Omak sitt, þa er þad ecke Synd, nær þad skiedur med Josnude og aan Okurs, og þad hygg eg ad sie hid sama, sem Paulus bijdur, 1. Cor. 7. Ad þeir sem kaupa, sieu so sem ad ecke eige þeir, þad ræd eg af þvi, er hañ seger strax epter, ad Meñ skule brwka so Heimeñ, ad Meñ ecke Vanbrwke hañ, þad skil eg svo, ad Meñ fære sier i Nit þa Hlute, er Gud hefur laanad, þo svo, ad þad ei verde med Asælne vid Naungañ, til ad giora sig riikañ eñ hañ faatækañ, sierdeilis þar hañ i þessum Stad er ad tala um þa stuttu Tijd, er Meñ eiga ad faast vid þetta Tijmanlega. Þeirra Atburder eru og riettviiser, og nærsta þarfer, er færa þa Voru yfer Hafed, sem eitt Land maa ecke aan vera, nær þeir giæta þesser St. Paall bijdur, 1. Tess. 4. Eingeñ yferstiige edur aasælest siñ Broodur i nockurre Hondlan, þvi Gud er Hegnare alls þessa. Eñ nær þeir giora þad til ad hafa þar af sitt Erlegt Upphellde, eñ ecke til

þess alleina ad verda rijker af Þorf annarra, þa er þeirra Verk einganvegen lastande, og mæ um þa segia eins og um hvern annan, sem ver Erfide og Ydiu sine til ad hialpa Naunganum, ad verdur er Verkamaduren Launa sina: Fyrer þvi a ecke Kaupandenn ad sia Offiooninum yfer þvi, þott þeir ꝏbatest, ef þeir giora hann ecke ad Logræninge, fierdeilis þar hann vogar Lijfe og Gootze til ad sia hinum borged, þvi hvertveggia þetta eru dijrmætare Hluter, og Lijfed ad vijsu hin Kostulegaste af Veralldar Munum; Jafnvel ad Vitne Satans, er hann sagde, Job. 2. Hwd fyrer Hwd, og allt hvad Madurenn æ, mun hann giefa fyrer sialfan sig: Þvi a ecke ad misunna þeim nockurs Agooda, er svo miked leggia i Solurnar: Þad kann og til ad bera, ad þesshattar Kaupmadur, giore þeim eingann Oriett, er hann selur Voru sijna frekt, ef hann mæ hana annarstadar kaupa dijrum Doomum, og þad kiemur eitt hvad a mille, sem hindrar Asetning hans, þvi þad er eins og hvert annad Tilfelle i Utriettingum vorum, og er þad margt sem Kaupande kann ecke ad vera so froodur um, ad hann vite hvort hin giorer Oriett edur ei, mæ hann þvi ei strax vijta hin þar fyrer, og þoott hann viss: sier Oriett giordann, þa giorer hann sialfan sig eins sekan, ef hann vill rietta Hluta sin med odrum Oriette, þvi þad heiter ad giallda Jllu Jllt, hvad Gud hefur bannad. Þetta er nu svo sagt um þa Kauphondlan, sem Leifeleg er, epter þvi sem i stuttu Maale sagt verdur, hvert þo betur skiliast mun, af þvi er i hinne sijdare Greinenne talad verdur, um þad sem er Oleifelegt i nockurre Kaupþondlan.

Þier erud eins og Snara i Mizpa og wtþaned Net yfer Tabor, seiger Gud vid Jsrael, Hos. 5. Af þessum DRottens Doome ættu Kiennemennerner ecke hin minsta Hlut, vegna Agyrne sinnar, svo sem ræda mæ af Textanum; Enn ecke voru þeir Nadvandare, þegar sæ Drottnarenn kom til sijns Musteris, sem rak wt þadann Seliendur og Kaupendur, svo sem i Gudspiallenu stendur, þad verdur sannad med Ordum Hieronymi Læresodur, hverra Meiningu eg vil setia hier ad nedan, til Froodleiks þeim er eptertaka vilia, enn ollum til Vidvorunar, þvi sierhver Christenn Madur æ ad vera Guds Kiennemadur i Hiarta sijnu, sem er Mustere Heilags Anda, hann skrifar æ þa Leid i sinne Utskijringu yfer Matthæi 21. Capitula: Kiennemennerner uppþeinktu hvernen þeir giætu ꝏbatast af Almwganum, og selldu allann Fienad þann er þurfte til Foornanna, svo ad þeir selldu þeim er ecke hofdu, og tækiu sialfer aptur þad þeir sellt hofdu: Enn þenna Þrett þeirra hindrade Fatækt margra, sem ecke einasta ei hofdu þad þeir kynnu ad offra, helldur og ecke þad þeir mættu kaupa med, þvi tilsettu þeir þa ed lanudu Peninga. Enn fyrer þvi ad i Logmaalenu var bannad ad taka Rentu, og laanad Fie kunne ecke ad gagna fyrer utann Avoxt, þa uppþeinktu þeir annad Bragd, ad þeir tilsettu þa er i Stadenn fyrer Peninga-Rentu tækiu adskilianlega Avexte, svo ad þad sem ei leifdest ad taka i Peningum, þa tækiu þeir i þeim Hlutum, sem med Peningum keypter eru. Fyrer Rangsleitne þessa og Hreckvijse rak DRottenn wt þa ed med þessu mote selldu og keyptu i Musterenu, af hverium flester voru Þienarar Kiennemannanna, edur þeim æhangande. Hugleided nu, Christner Menn, hvad myklu Gofugre og Dijrdlegre ad er Guds Kyrkia

medal

medal vor, helldur eñ Jerusalems Mustere, þar hun er bygd uppa Grundvoll Spa-
mañaña og Postulaña, hvar sialfur JEsus Christur er Hyrningar-Steirneñ, Eph. 2.
Siaie þvi til hver og eirn, ad ecke verde hañ wtrekeñ wr hiñe søñu og Osynelegu Guds
Kyrkiu, fyrer svoddañ rangsñweñ Kaupmañskap, eñ þvi er æ verr og midur, ad eg hygg
ad margur temie sier þessa Ohlutvendne, sem ætlar sig vel Christeñ: Gydingum vard
þeirra Hws i Eyde lated, fyrer þessa og adra Glæpe; Eñ væru þeir aller wtrekner wr
Guds Kyrkiu, sem þvilijkt adhafast nu i Heimenum, þa ugger mig ad verda munde
þuñskipad þar iñe; Edur hvad er þad, Christner Meñ, þegar eiñ selur sijnum Naun-
ga eiñ Hlut, eñ dylur þa Leste er hañ hefur? Ja, hroosar honum i mesta Mata, þo
liwgande, og a Stundum sver vid Guds skielfelegu Hatign, ad þad sie svo sem hañ
seiger, og hversu marger Klæker eru þa samañkomner, til ad steipa eins Syndara ve-
sælle Saalu i Helvijtis Afgruñ? Hier er Pioofnadur, hier er Lijge, hier er Meinsære
ef til vill, miña næger: Sierhvert af þessu, er noog til ad fordæma Syndarañ, hefur
ei Gud bañad ad Stela, ad Liwga, ad leggia Nafn sitt vid Hiegooma? Pier skulud
olldungis ecke sveria, seiger Lausnareñ, eñ ydar Ræda sie Ja, Ja, Nei, Nei, Matth.
5. Hvad vill þad þa verda? ad leggia þad vid Svik og Prettu, svo þad er nærsta und-
arlegt, ad nockur skule meta Saal sijna svo lijtels, og voga heñe fyrer svo lijteñ Hiegoo-
ma, og nærre þvi fyrer eckert a Stundum. Ad ei tale eg þar um̃, ad hañ sem veit ad
Gud er til, skule svo berlega forsma hañs stooru Hatign fyrer einkis verdañ Hlut.
Eingu betre er hañ sem gyller vonda Voru med einhveriu Taale þvi, jafnvel þoott ecke
liwge hñ sialfur, þa lætur hañ Hluteñ liwga, eñ Pioofnadureñ er allur hiñ same. Þessu
er þad lijkt, ef nockur selur einhverium þad hañ þecker ecke, og hefur ei Vit a ad dæma
um̃, hvert þad er Illt edur Gott, þad eru bañvæn Svik, þvi sa þad giorer, hañ selur od-
rum Heimsku sijna, og veider hañ i Nete Fakiænsku siñar, þetta er altijtt þeim, er leina
þvi sem gagnlegt er fyrer hinum Einfallda, eñ biooda þeim hid Onijta, og af þessum
Prett vaxa Tvær adrar Stoor-Skamer, sem er, ad hañ er þvilijkt æfer, fagnar i Hiar-
ta sijnu, hversu forsiall hañ vered hafe, og þackar Abatañ Sviñu siñe, eñ hins Osviñu
forsmaer hañ, og skamast sijn ecke ad hroosa þessu fyrer sijnum Lijkum, leggur svo
Drambsemeñar, og Sialfhælneñar Synd til Pioofnadarens, og er þa ecke Von a
adru verra, nær Diofulleñ hefur svo blindad eiñ, ad hañ stærer sig af Klækiunum, eins
og Lamech er hañ hroosade sier af Foolskuñe vid Kviñur sijnar, Gen. 4. Med þessum
eiga þeir Sess i Andskotans Rijke, sem brwka falska Vigt og Mæler, um̃ hveria eg hefe
noog sagt, þegar eg seige þad med Salomons Ordum: Ad þvilijkt sie Andstigd fyrer
Gude, sa þad giorer, hañ uppskier hvar hañ ecke saade, og selur einum þad hañ alldrei
fieck. Þeir ed setia Voruna of-dijrt, og mykl hærra eñ ad svarar þeim Abata er þeir
med riettu hafa meiga, fyrer Omak sitt og Umhyggiu fyrer sijnum Kaupmañskap; Þeir
meina ad søñu ad vera Saklauser, og helga sig giarna þar med, ad eingañ bidie þeir ad
kaupa ad sier, og Vara þeirra sie Osvikeñ; Eñ hier i er þo margt athugavert, sie svo
ad eg hafe einhvern Hlut, þañ eg ma ecke missa an mijns Skada, eñ hañ ætlade sier

 mykeñ

mykeñ Hagnad af, er kauper, þa er þad ad ſöñu Riettviiſt, ad eg ſelie hañ nockru dijr-
ara eñ eg keypte; Eñ ef eg hefe þañ ſama Hlut til Sölu og vil hañ falañ lata, þegar
mier lijkar Andvirded, eñ Brooder edur Syſter eru Naudſtodd, ſvo þau gieta ecke an
hañs vered, og eg brwka Neyd þeirra Voru miñe til Gylldes, þa er þad ſtoor Synd,
og eingu betra eñ þad, ſem ædur er upptaled, þvi þad heiter ad ſelia einum Þorf ſijna;
Eñ hverneñ kañ hañ ad giora Hluteñ betre edur dijrmætare, i ſiaalfum ſier, helldur eñ
hañ være þar fyrer utañ? Kañ nockud Hwngur Naungans ad giora þiñ Mat betre,
og ef ecke betre, þa ecke helldur dijrmætare, edur hañs Verleike, þad Fat er þu ſelur hön-
um koſtulegra? Þetta er nockurskonar Hæglætis-Ofrijke, og Ulfur under Saudar-
Giæru, þvi hvert eg ſvijk Fie wt af Einhverium, ſem ecke maa ræna mig þvi ſem hönum
aaliggur, edur og ræne hañ Fie ſijnu, þvi er eg hefe eingañ Riett til, þad er allur hiñ ſa-
me Oriettur i Guds Auglite. J þeſſum Flocke vada þeir ed kaupa upp alla Voru, þa
ſem hiñ Fatæke maa ecke an vera, nær þeir hafa noog i Höndunum, eñ ſelia hana ſo dij-
rt aptur, ſem ſiaalfer vilia þeir, nær Neydeñ þreynger, og þo eru hiner hvad verſter, ſem
hafa a Bodange gyrnelega Hlute, og þo alldeilis Oþarfa, eñ lata þa ſvo dijrt, ſem
Agyrndeñ bijdur, nær Dareñ ſparar ecke fyrer ad giefa, til þeſs ad ſlockva Gyrndena
uñ Stundar Saker, eñ ſvelltur ſijdañ. Þetta er ad ſelia einum Synd ſijna, ſem er
hiñ verſte Kaupmañsſkapur; Þetta er ein Andſkotans Svipa, af morgum Streing-
ium, morgum Syndum fliettud, þvi fyrſt kauper hañ þeſshattar Voru til ad leggia
Tal-Beitu fyrer hiñ Heimſka, ſijdañ fletter hañ Fie ſijnu, og eptera hæder ad hönum,
eñ prijſar ſiaalfañ ſig og Kiænſku ſijna, og þad er ecke ollu betra eñ Bileams Rad, hv-
er ed liet Jſraels Sonu glæpaſt a Moabitaña Konum, Num. 31. Aller Heilvita
Meñ, ſem þetta leſa edur heyra, þeir munu nærre gieta, hvar uñ eg tala, og er allt of-
margt af þeſſu Jllþijde i Lande voru. Þetta er nu ſvo talad uñ hañ ed ſelur, eñ þoott
ad Kaupande og Seliande ſieu nærre þvi hid ſama, þar eingeñ ſelur nema hañ kaupe,
og eingeñ kauper nema hañ ſelie, þa giora Meñ þo Miſmun þañ i Daglegu Maale, ad
ſa heiter Seliande, er hefur Voru til Kaups, eñ hiñ Kaupande, er ad hönum kauper,
og þvi hefur hañ og nockurs ad giæta. Einhver kañ a Stundum ad ſelia þad hañ ecke
veit hvad koſtar, og er þeim þa vant, ſem ad hönum kauper, ad ecke aſæleſt hañ ſiñ Na-
unga i ſiñe Höndlan; Ja, i Sañleika, giefe hañ miña fyrer Hluteñ eñ ad hañ verdur
er, þa er hañ eins ſekur i Guds Auglite, ſvo ſem hiñ, er ſellde þeim ofdijrt nockurn Hlut,
er ei veit hvad hañ kauper. Eirn neydeſt til ad ſelia Eigu ſijna fyrer Hwngurs Sak-
er, edur einhvern Atviñu Breſt, ſvo hañ gietur ecke beded epter þeirre Tijd, ſem hañ ku-
ñe ad faa Lijfs-Næringu med odru moote. Faae hañ ecke Joſnud af þeim er kauper,
þa giorer Kaupmadureñ ſtoora Synd, og er eins ſekur, og hiñ er ſelur odrum Þorf ſij-
na: Bægt er allt þvilijkt upp ad telia i ſtuttu Maale, eñ giæte Meñ þeſs, er DROtteñ
ſagde Fordum: Hvad þier vilied ad Meñerner giore ydur, þad ſama giored þeim eiñ-
eg, Luc. 6. Svo og þeſs Syrach ſkrifar, Cap. 27. Eins og Fleigureñ kleñiſt a mill-
um Mwr-Steina, ſvo þreingeſt Syndeñ a millum Kaups og Sals, fyrer þvi er þeim
eiñ-

einsætt, er giort hafa slijka Høndlan ad Handverke, kañ skie leingur eñ skiemur, sumer hverier, þeim er einsætt, seige eg, ad rañsaka nockud Atferd sijna i þessu, og ef þeir fiña Raanglæte hiaa sier, ad bæta þad med sañre Ydran, eñ hun er alldrei af Alvoru, nema Meñ giefe þad aptur, sem raanglega var teked, hvar um eg hefe nockud talad i nærst fyrfarande Predikun, og vil þad ecke hier aptur Itreka: Alleina vil eg rañsaka Tveñslags Afsakaner, sem Meñ plaga ad giora sialfum sier i þvilijkum Tilfellum. Ein er su, ad nockrer laataft giefa Ølmusur af þessu raangfeingna Gotze, og þurfe þvi ecke aptur ad leggia, eñ giæt þess, ad þad sem Fatæcum er giefed, þad kallast Gude laanad, eñ Gud vill ecke Pioofs-Nautur vera, þad sem honum er giefed maa velfeinged vera, ef þad a honum ad lijka: Pvi er þad riett er Syrach skrifar, Cap. 34. Saa sem færer Foorn af Eigu hins Fatæka, þad er svo sem hañ slaatre Synenum i Augsyn Foðursens: Braud hins Þurftuga er Lijf hins Fatæka: Saa ed svijkur hañ, saa er Bloodgiñgur. Olympias Mooder hins Stoora Alexandri hun helgade Af-Gude sijnum þad Sverd, er Madur heñar Philippus Konungur var drepeñ med. Alexander Phereus giørde hid sama vid Lensuna, med hverre hañ vo Fodur Broodur siñ Polyphronem, og somu Atferd hafde Keysareñ Antonius Caracalla, er hañ Lijfliet Broodur siñ Getam; Aller Meñ kalla þetta illa giort, eñ ecke mun vera svo stoor Muhur a þessum Odaada Verkum i Guds Auglite, og hinu, ad svijkia Naungans Braud wt af hañs Muñe i Kaupum og Sølum, eñ laataft giefa Gude þar af aptur, edur hañs Vesælingum, svo miked sem þeim sialfum lijkar. Pad geingur nærst þvi, ad kasta Bloods Verdenu iñ i Kyrkiuna med Juda; Eñ þo vil eg segia þad sem eg hefe aadur sagt, ad ef Madur fær ecke aptur skilad þeim sama er nockur hefur Oriett tilgiort, þa er ecke añad Raad, eñ ad giefa svo miked Fatæcum, sem eiñ meinar sig epter smaasmuglegt Rañsak Samvitsku siñar, ad hafa med Oriette teked. Dylieft og eingeñ vid þad ad Syndeñ verdur ecke tilgiefeñ, nema aptur sie gollded hid Raangfeingna; Pvi svo seger Drotteñ fyrer Muñ Ezechielis, Cap 33. Ef hiñ Ogudlege giefur Panteñ aptur, og lætur Raaned af Hende, og geingur epter Lijfsens Bodorde, og giører eckert Oriett, vijst, þa skal hañ lifa og ecke deya: Med þessum Skilmaalum hefur Gud Syndarañum Vægdeñe heited, eñ añars ecke: Hier um hefur Augustinus Lærefader vel talad i einum Stad. Ef ad añars Fe (af hveriu Syndeñ kiemur) kañ aptur ad gialldast, eñ verdur þo ecke gollded, þa er þad ecke soñ Ydran, helldur Læte heñar; Syndeñ verdur ecke fyrergiefeñ, ef ei er aptur fært þad burt var teked.

Oñur er þeirra Afsökun er seigia, ad ei meige þeir apturlaata, þad þeir med Raungu teked hafa, Sokum Ovirdingar þeirrar, er af þvi fylger, og ad Fiaar-Hluter sieu miña verder eñ gott Mañ-Ord, eñ þesse er og svo nærsta Ogylld. Fyrst er þad, ad slijkt verdur alldrei af nockrum Ærlegum nie Gudhræddum Mañe misvyrdt, eñ Doom hiña Oraadvøndu maa sa ad litlu hafa, sem ætlar sier Guds Barn ad verda, hañ maa seigia med Paale; Pad er mier fyrer miñstu, ad eg af ydur dæmdur verde, edur af Mañlegum Deige, DRotteñ er sa sem dæmer mig, 1. Cor. 4. Par ad auke, eru svo marger

Veiger

Veiger til ad bæta þeim er Rænginden lided hafa, svo ei verde þad Heyrum kunugt: Og hverneg sem þessu er vared, þa er betra ad missa Virdingu sijna hier i Tijmanum, helldur en Eylijflega. Þegar DRottenn rak wt Seliendur og Kaupendur wr Musterenu i fyrra Sinne, Joh. 2. Þa giorde hann Svipur af Streingium, er hann brwkade til þessa Vandlætis: Hann vantar enn nu ecke Svipur til ad reka wt þa er med svoddan Hætte kaupa og selia i hans Kyrkiu medal vor: Þar er Svipa Logmalsins er seiger: Þu skallt ecke stela, a henne er einn Hnwtur ridenn med þessum Hætte, Bolvadur sie sa ed ecke helldur allt þad i Logmalenu ritad steudur, Devt. 27. Þar er ein Svipa jafnvel i Evangelio, er slær med þessu Hogge, Giored Ydran, þvi Guds Rijke er nalægt, hvert þad Trie sem ecke ber goodann Avoxt, skal uppyhoggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Þar er hin skarpa Svipa hans Hegningar, sem er tilbwenn þeim ed eria a Hrygg hins Vesæla og Naudstadda, og eta Rænglætesins Braud i hans Sveita. Eg seige enn þa aptur, DRottenn rak wt wr Musterenu þa er selldu og keiptu: Þad var Stundlegt Vandlæte, margur af þeim somu mun sijdann hafa a hann trwad sier til Myskunar, enn ad vera wtrekenn wr þeirre Himnesku Jerusalem, þad er eitt Straff ollu þijngra, þad er eylijf Sman, og Obætannlegur Skade; Fra hverium oss og alla Christna Menn vardveite hinn goode Gud fyrer Sonarens Forþienustu, og giefe oss svo ad rækia þetta Jardneska, ad vier ecke afrækium þad Himneska, helldur stundum epter hinu gooda Hlutskiptenu, sem eingenn ma af oss taka; Þess giefe oss niotande ad verda hinn Myskunsame Gud, fyrer JEsum Christum, Amen.

# Ellefta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 18. Cap.

A Þeim Døgum. JEsus sagde til nockra þeirra sem treystu uppa sialfa sig, lijka sem mundu þeir Riettlater vera og forsmadu adra, Þessa Epterlijking. Tveir Menn geingu upp i Mustered ad bidiast fyrer, Eirn var Phariseus, enn Annar Tollheimtu Madur. Pharisearenn stood og badst nu þannenn fyrer med sialfum sier. Gud, eg þacka þier, þad eg em eige so sem adrer Menn, Ræningiar, Oriettvijser, Hoordoomis Menn, eda so sem þesse Tollheimtu-Madur. Eg fasta Tvisvar i Viku, og eg gief Tijunder af ollu þvi eg a. Og Tollheimtu-Madurenn stood langt i burtu fra, og villde ecke upplypta sijnum Augum til Himens, helldur barde hann sier a Briooft, og sagde: Gud, vertu mier Syndugum Lyknsamur. Sannlega, seige eg ydur: Þesse foor Riettlatur framar hinum i sitt Hws. Þviad hvør sa sem sig sialfann Upphefur, hann skal Nidurlægiast. Og hvør sem sig sialfann Nidurlæger, hann mun Upphafenn verda.

Exordi-

# Exordium.

EINGeñ Hlutur er svo Vidurstyggelegur i Guds Auglite, svo, sem Dramblætt Hiarta, og eingeñ svo þægur honum, svo sem Audmiwkur Ande. Dramblætum hratt hañ af Stoole, eñ upphoof Lijtelæta, seiger Guds Mooder i Lofkvædenu, Luc. 1. Gude alleina tilheyrer Tignen, hañ hefur siñ Stool a Himnum settañ, eñ Jørdeñ er hañs Footskør, þar situr hañ uppe, og sier a þad Laaga, Jehova er hañs Heite, og sijna Dijrd vill hañ eingum giefa; Esa. 42. Allt hvad Vyrduglegt er, hvad Gott er, hvad Agiætt er, hvad Prijdelegt er, hvad Heilagt er, þad kiemur allt fraa honum, Eñ vilie nockur tileinka siaalfum sier nockud af þessu, svo sem siaalfum sier, þad er, sem villde hañ ræna Gud sijnu, þad er riett ad stela Helgum Doomum, og þad er Afguda-Dyrkan, þvi valla veit eg hvert þad er meire Synd i Guds Auglite, ad falla fram fyrer Tre-Stobbanum, helldur eñ ad giøra siaalfañ sig ad Gude, og seigia med Pharao: Hvør er Jehova, þad eg skule Ottast hañ? Exod. 5. Edur med hinum Blindu Judum: Gude skeitum vier ecke, og hvad villde oss Konungureñ giøra? Meñ hallda sumer, ad þad hafe vered Svijvirding Foreydsluñar, sem DRotteñ talar um, Matth. 24. Ad Bijlæte hiñs Romverska Keysara hafe sett vered iñ i Jerusalems Mustere, Eñ þad er Svijvirding Foreidsluñar riett kollud, þegar Madureñ setur sitt eiged Bijlæte iñ i Guds Kyrkiu, sem ætte ad vera hañs Hiarta, eins og Pharisæus þesse: Svoddañ Mañe er Gløtuneñ bwen, nema hañ audmyke sig brædlega under vollduga Guds Hønd, þvi Gud mootstendur Dramblætum, og þarf sa ecke ad vænta sier añars verra, sem hefur Kouung Himnaña fyrer Ovin. DRotteñ talade Epterlijkingu þessa, seiger Lucas, til nockurra þeirra, er treystu a siaalfa sig, eñ Forsmaadu adra: Svo sem eckert er Vidurstyggelegra i Guds Auglite, eñ Hofmoodureñ, Svo er honum valla nockurt þægra, eñ audmiwkur Ande, Þad sijna oss Dæme Ephraims, Dæme Manassis, og ecke sijdst Davids Kongungs, allvijda i hañs Psalma Book. Eg jaatade DRottne Synd mijna, og þa fyrergafstu mier þad, seiger hañ, Ps. 32. Og eñ aptur, DRotteñ vardveiter Lijtilmagnana, eg audmykte mig, og þa vard eg frelsadur: Og þad sijner oss Dæme Tollheimtu-Mañsins, hvørn Lausnareñ sijnest framsetia hier i Epterlijkinguñe, øllum Sorgbitnum Afbrota-Mønum til Huggunar. Vilium vier þvi Tvent af Gudspiallenu Hugleida. 1. Eirn Skynhelgañ Hræsnara. 2. Eirn Ydrande Syndara. Styrk oss hier til DRotteñ miñ i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

INNgaangur til þessa Maals hiaa Gudspiallamañenum, er þañveg. Eñ Hañ Talade Til Nockurra, Er Treystu Uppaa Siaalfa Sig, Ad Þeir Væru Riettlaater, Eñ Forsmaadu Adra, þessa Epterlijking. An alls Efa eru hier med Pharisæi meinter, þar fyrer setur Drotteñ eiñ Pharisæum i Epterlijkinguñe, svo sem Dæme eins Siaalfbyrgings, er ei þyrfte myked af Gude ad þyggia; Þess vegna eru þeir i Grein þessare med sijnum eigen Lit afmaalader; Þeir villdu vera fraskilder ødrum Mønum, þad sijner þeirra Nafn, Pharisæus, þad merker Adgreindañ edur Fraaskileñ. I morgu var þetta foolged, sem ecke er Naudsynlegt hier upp ad telia, eñ þo var þad hellsta, ad þeir þottust ødrum Heilagre, þad dylur ecke þesse þeirra Brooder, er hañ seger: Eg Þacka Þier Gud, Ad Eg Em Ecke Eins Og Adrer Meñ, þvi kolludu þeir Almugañ Jardareñar Foolk, eñ siaalfer þottust þeir Himnesker vera, og Borgarmeñ Heilagra, svo sem Paulus nefner christna Meñ. Edur hvad var þad þeir sogdu i Raadenu Fordum, þegar Nicodemus villde hafa mællt Frelsaranum Lids yrde? Joh. 7. Trwer nockur af Høfdingiunum a hañ, edur af Pharisæis? Eñ þetta Foolk, sem ecke veit Løgmaaled, þad er bolvad. Þeir villdu ecke Samneite eiga med Tollheimtumoñum og

Syndurum, þvi løstudu þeir Frelsarañ, ad hañ giorde svo, Matth. 9. Jar, þeir meintu ad þeir saurguduſt, er ſnertu þa. Svo ſagde Hræſnareñ Simon Fordum, þegar hin Berſynduga ſat Graatande vid Fætur Drottens, Luc. 7. Ef þeſſe være Spamadur þa munde hañ vita hver og hvilijk ad þeſſe være, er hañ ſnerter, þvi hun er ſyndug. Um̃ þvilijka Drambſeme, þvilijka Skynhelge talar Eſajas under ſvoddañ Mañа Perſoonu, Cap. 65. Kom ecke nærre mier, og ſnert mig ecke, þvi eg em þier Heilagre. O! miñ JEſu; Er ecke þetta ad giora ſig Gude lijkañ, nærre hverium eckert ſaurugt maa koma. Ecke breytter þu ſvo, Drotteñ miñ, þegar þu aatſt og drackſt med Tollheimtumoñum og Syndugum i Hwſe Matthæi, Matth.9. Þegar þu giorder hañ jafnvel ad þijnum Læreſveine, þegar þu mællteſt ad Fyrrabragde til Dagverdar af Zachæo, þegar aller Tollheimtumeñ og Berſynduger ſlyctuſt ad þier, til ad heyra þig, og þu maatter lijda Brixl Phariſæaña þar fyrer, Luc. 15. Þu varſt Guds Mynd, ſem er eiñ foreyrande Elldur, Devt. 4. Þo hiellſtu þad ei fyrer Raan, ad þu Gude jafn varſt, helldur Lijtelæckader ſialfañ þig, tookſt aa þig Præls Mynd, vordeñ Moñum lijkur, Philipp. 2. Tveir Meñ geingu Upp J Muſtered Ad Bidiaſt Fyrer, Eiñ Var Phariſæus, Eñ Añar Tollheimtumadur. Vier vilium fyrſt Hugleida Phariſæarans Bæn; Af þvi hañ þotteſt vera Madureñ meire, og hvad hañ talde ſier til Gylldes fyrer Gude. Hañ Stood Ut Af Fyrer Sig: Þeſs var og oll Von, ad hañ munde vilia odrum fraaſneiddur vera i þeſſu, ſem ollu odru. Hverneg badſt hañ þa fyrer? Eg Þacka Þier Gud, Ad Eg Em Ecke Eins Og Adrer Meñ. Hvilijkur var hañ þa? Ad vijſu betre morgum odrum i wtvortis Lijfernis Haattum; Eñ hid iñra morgum verre i Guds Auglite. Þad ſaña eg med Ordum Frelſarans, er hañ ſagde: Matth. 21. Tollheimtumeñ og Skiækiur munu fyrr iñgaanga i Guds Rijke eñ þier, þvi Johañes kom til ydar med Veg Riettlæteſins, og þier trwdud honum ecke, Eñ Tollheimtumeñ og Skiækiur trwdu honum. Þetta er Dagſaña, þvi Tollheimtumoñum ſagde Johañes, Luc. 3. Er þeir komu til hañs Skijrnar: Taked eckert framar eñ þad ſem boded er; Eñ vid Phariſæos ſagde hañ: Þier Nodru-Kyn, hver hefur ſijnt ydur ad um̃flya tilkomande Reide? Fyrer þvi, Giored verduga Avoxtu Ydraneñe, Matth. 3. Eñ þad giordu fæſter af þeim, ſvo var Hug-Þootteñ rijkur i Giede þeirra. Hvad er nu framar? Hañ ſegeſt ecke vera eins og Ræningiar: Ecke talar Frelſareñ um̃ eiñ, helldur eñ añañ i þeſſu Maale, helldur er eiñ ſettur til Dæmis fyrer marga, ſvo ſem i hverre añare Epterlijkingu; Munu þvi aller hafa aatt Oſkiled Maal af þeſſum Flocke. Eñ hvad er þad þa, ſem Frelſareñ ſeiger, Matth. 23. Ad þeir wtſiwge Hws Eckna og Fodurlauſra, undir Hylmingu laangra Bæna? Er þad ecke hid verſta Raan? Hvad er þad hañ aptur ſeiger: Ad hid Jñra hiaa þeim ſie allt fullt af Raane og Ohoofe? Verda maa ad ſumer af þeim hafe ei vered ſvo miog ſeker i þeſſu, eñ faaer af þeim munu hafa ſkyrſt vid ad ſegia Naud ſtoddum Forelldrum, þad er Corban, edur Gaafa ſem eg kyñe ad hiaalpa þier med, Marc. 7. Eins og ad honum, ſem eingum vill ſeigia til ef hañ hwngrar hafe þægare vered Gaafa þeirra, helldur eñ Hlijdne hañs Bodords, ad heidra Fodur og Moodur.

ur. Hañ seigest ecke vera eins og Oriettvijser, Pad kañ ad vera; Eñ hversu Riett-vijser voru þeir, þa er þeir fordæmdu Gud Son aller, aflijfudu Hertoga Dijdareñar, þegar þeir grijttu Stephanum i Hel; Act. 7. og villdu Paal hafa af Dogum raaded. Ecke seigest hañ vera eins og Hoordoms-Meñ. Verda maa ad hañ hafe i Verknad-enum Saklaus vered; Eñ mun hañ alldrei hafa lited eina Konu til ad gyrnast hana? Matth. 5. Edur hvad var þad, ad þeir skömmudust sijn, og geingu i burtu, þegar DRotteñ afleyste Hoor-Konuna i Musterenu, og sagde vid þaa: Hver ydar sem er aan Syndar, hañ kaste fyrstur Steine aa hana, Joh. 8. Þesse Oflaatungur sagdest ecke vera svo sem Tollheimtu-Madur þesse, þad er satt, þvi myklu var hañ verre ad Doo-me sialfs Guds Sonar, sem sijdar mun sagt verda: Tollheimtu-Meñ vóru halldner hid versta Foolk medal Gydinga, og ecke munu þeir Raadvander vered hafa, þvi Drott-eñ teknr þa samañ vid Heidingia; Eñ alldrei var þeim um̃ þad kieñt, ad þeir færu i krij-ng Land og Sioo, og giördu eiñ ad Gydinge, eñ sijdañ ad Helvijtis Barne, ei helldur ad þeir böñudu Möñunum iñ i Himnarijke, Matth. 23. Nu þoott ad allt þad hefde satt vered, sem Pharisæus þesse talde til Gilldis sier, þa var þo eiñ Lostureñ, sem spillte öllum Kostunum, þad var Drambsemeñ og Sialfhælneñ i Guds Auglite; Svo hafde hun blindad þeña vijsa Mañ, ad hun hafde giort hañ ad Ovita, og lijkañ Smaa-Born-unum, hver ed plaga ad rijfa þad i sundur er þeim vænt um̃ þyker, þvi vilium vier nu sko-da i hveriu hönum aafaatt vered hafe. Hañ þoottest vera Logspakur, treystande þvi ad hañ være Leidtoge Blindra, og Lioos þeim sem i Myrkrunum eru, Typtunar-Madur Faafroodra, Lære-Meistare Heimskra, hafande Form Skynsemeñar og Sañleikans i Logmaalenu, og kiende svo ödrum, eñ sialfum sier kiende hañ ecke, þvi hañ vantade þad sem mest aa reid i Underbwninge Riettlætingareñar, sem var ad þeckia Gud og sialfañ sig. Ecke þeckte hañ Gud, þvi audsært er, ad hañ ætlad hefur, ad hañ munde aanægd-ur vera med hina wtvortis Helge, Föstur og Tijunda giörder; Eñ þad þeckte hañ ecke ad Gud rañsakar Hiartad, Ps. 7. Ecke helldur þad hañ hefur allt under Ohlijdneñe iñeluckt (þad er under Þeckingu Syndareñar) svo ad hañ Myskunade öllum, Rom. 11. Og ad hañ fiñur jafnvel Brest hiaa Einglum sijnum, Job. 4. Sialfañ sig þeckte hañ ecke, þvi jafnvel þoott hañ være froodur i Ritninguñe, þa hafde hañ gleymt þessum Ordskvid Salomonis, er ritadur stendur i 21. Capitula. Mañenum þykia sijner Veger rietter, eñ Drotteñ vegur Hiartad. Edur þess ed David seger: Ad fyr-er Gude sie eingeñ Maña Riettlaatur, aller sieu þeir af-fallner, þar sie eingeñ saa sem gott giöre, og ecke eiñ, Rom. 3. Mun þesse Hræsnare hafa þockst vera undañskileñ þessum Davids Doome? Hañ var fraaskileñ ödrum Möñum til ad æfa sig i Logmaal-sens Skilninge, og þess Utskijringu; Eñ miög svo vard hönum aa i þvi, ad hañ hlioop yfer þessar Greiner, og adrar miklu fleire i Gamla Testamentesins Bookum, er Sak-fella allañ Heimeñ fyrer Gude, Rom. 3. Og þar ad Auke forsmaade hañ, jaa, hañ fordæmde siñ Naunga. Edur Svo Sem Þesse Tollheimtu Madur, seger Hræsnar-eñ: Herra Gud; Hvad munde hiñ gamle Paall hafa sagt, hefde hañ þetta heyrt, mun-

de hañ ecke hafa brotest wt med þessum Ordum, Rom. 2. Meinar þu, O! Madur, er dæmer þa er þvilijkt giora og giorer þad þo, ad þu muner Guds Doom um̃flija; J þvi þu añañ dæmer, þa fordæmer þu sialfañ þig; Hver ert þu sem añarlegañ Þioon dæmer, hañ stendur og fellur sijnum Herra? Eg Fasta Tvisvar J Viku seger Pharisæus þesse. Ecke hafde Gud boded þad ad soñu: Eiñ Fostudag hafde Gud boded a Are i Logmaalenu, þad var hiñ Tijunde Dagur hins Siounda Maanadar, þo kuña Meñ ecke ad neita þvi, ad þetta var vel giort, hefde þad frañkomed af Trwñe, þvi Fastañ er Gude kiær, og maa miked hiaa honum; Þvi sagde Frelsareñ: Þetta Diosla Kyn verdur ecke wtreked, nema med Fostu og Bænahallde, og hiaa Zachariam, Cap. 8. Er gieted um̃ Fostu a hinum Fioorda, a hinum Fimta, Siounda og Tijunda Maanude, sem Drotteñ spaaer ad skule um̃breytast i Gladværdar Haatijder, eñ þo bijdur hañ þar jafnframt, ad þeir skule Sañleikañ og Frideñ elska; Þvi seger hañ hiaa Esajam, Cap. 58. Hver ad sie su Fastañ sem hañ wtvelur, sem er, ad Meñ wthlute hinum Hungrada Braude sijnu, og leide hina Faatæku, sem wtrekner eru, i Hws sitt, ad Meñ klæde hiñ Nakta, þa Meñ siaa hañ, og byrge sig ecke fyrer Hollde sijnu: Eñ hvert ad Pharisæi edur þeirra Lijkar hafa giætt þessa, þad sijner Vitnisburdur Christi, er hañ seger, ad þeir wtsiwge Hws Eckna og Fodurlausra, Matth. 23. Hañ seger: Eg Gielld Tijunder Af Ollu Þvi Eg A. Ei hafde Drotteñ helldur þetta boded i Logmaalenu; Hañ baud ad giallda Tijunder af Korne, Vijne og Vidsmiore, af Nautum, Saudum, og Eplum, Deut. 12. Eñ ecke af odru þvi ed Ox i Alldengordum; Þetta var þo i sialfu sier vel giort, ad þeir Tijunndudu allt hvad þeir aattu, hefdu þeir ecke viliad reikna til Skulldar hiaa Gude þar fyrer; Eñ þegar fara a betur eñ vel, þa fer verr eñ illa, seger Maaltæked, þvi seger Frelsareñ, Matth. 23. Vei ydur Skriptlærdum og Pharisæis, þier Hræsnarar, sem Tijunded mintu Anis og Cumen, eñ undañfelled þad sem þijngra er i Logmaalenu, Trwna, Doomeñ og Myskunsemena, þetta byriar ad giora, eñ hitt ecke epter ad skilia; Vakte þeir sig, hverra Gudhrædsla ad er alleina þar i foolgeñ, ad gaanga i Kyrkiu, ad tala margt um̃ Gud, og hañs Ord, og Christelegar Dygder, eñ under Skyne þessu fremia þeir a moote Samvitskuñe og Ydrunarlaust marga þa Hlute, sem Gud bañad hefur. Eñ lærum nu af þessum Sialfbyrging, Christner Meñ, ad þegar vier giorum vort Ydrunar Verk, þa berum oss ecke samañ vid adra, sem oss verre þykia, epter vorum Doome, þvi hver eiñ mun sijna Byrde bera, seger Postuleñ: Munu nockud añars Glæper þvo mijna af, edur Raanglæte hañs riettlæta mig, þoott eg ecke være svo morgum Lijtum hladeñ? Fiærre sie þvi, og allra sijdst ef eg forsmaade hañ hiaa mier, þvi Maattugur er Gud ad reisa hañ, þad er eins og ad skoda sig i Ohreinum Speigle, ad vilia siaa Mynd siña Athafna i añara Giordum, Guds Ord og hañs Logmaal eru su Skuggsiaa, er vier eigum ad skoda oss i, þad er Lioos a vorum Vegum, og Lampe Foota vorra. Þess er og ad giæta, Born mijn, ad ef þesse Madur var fordæmdur vegna þess, ad hañ hroosade sier af Goodverkum sijnum, hvad mun þa um̃ hina verda, sem hroosa sier af Klækiunum, og þyker vænt um̃ þa; Ef hiñ Riettlaate verdur

ur naumast Saaluhoolpeñ, hvar mun þa hiñ Ogudlege og Syndareñ byrtast, seger Petur, 1. Pet. 4. Par eru ecke marger, sem gieta stært sig af miklum Fostum og Bindinde, hiner eru fleire, sem gledia sig i Ofaate og Ofdryckiu siñe, edur ad miñsta Koste þyker þad lijtil Synd vera, jafnvel þott Paulus sege, ad þeir ed slijkt adhafast erfe ecke Guds Rijke, 1. Cor. 6. Ecke ætla eg Meñ þurfe ad hroosa sier miog af Tijundargiordum i Lande voru, langtum helldur er þad forullt sumum Moñum, ad svijkia Gud og hañs Volada, og Konungeñ, svo vel sem Guds og hañs Pienara, med rangre Tijund; Og þykest saa goodu bættur, sem hvad mestu gietur undañskoted; Jafnvel þott valla sie meire Bolvan vid nockra Synd lögd i Guds Logmaale, eñ vid þessa; Eg vil ei saa mier til Orda hvad margur Daare ad hroosar sier af þvi, ad hañ hafe Feflett añ, edur uñed Sigur a honum med raungum Doome, Laga-Flækium, og folskum Riettargange, þvilijker Snapar eru fleire eñ telia mege, uñ hveria David sijnest talad hafa, er hañ seger, Ps. 52. Hvad stærer þu þig af Illsku þiñe, sem Megtugur ert i Rangletenu. Ei vil eg helldur margt tala uñ þ. c. Garunga, er stæra sig af Lauslæte sijnu, þad er, hroosa Synd siñe eins og Sodoma, Esa. 3. Og jafnvel liuga a sig Skomunum til ad vanvirda adra, hafe Phariseiñ giort öll sijn Good-Verk Ogylld med Hroosenu, þa vite þesser Gudlausu Meñ, ad þeirra Fordæming er vijs, nema þeir ydrest af Hiarta, og ad Ydraneñ verde þeim svo beisk, sem aadur var þeim Syndeñ skiemteleg. Þykest nu nockur vera sekur i þessu, og vill þad Ofgiort hafa, hañ lære sañañ Veg Ydranareñar af Tollheimtumañenum, og gange hañ, ef hañ vill hoolpeñ verda: Og vil eg svo nockud þar uñ tala i hiñe sijdare Greineñe.

Þesse Tollheimtu-Madur gieck i Musterid, svo sem Texteñ vottar, ecke fyrer Sida-Saker, ecke til ad laata skoda sig edur skoda adra, nie ad sijna þar Fordilld sijna i Klædaburde, svo sem kañ skie nockrer giora medal vor; Ecke er þad alltijd Gude edur Helgeñe til Virdingar giort, ad Meñ bwa sig hvad mest i Skart a þeim Dogum, edur til ad miña oss a þad, ad vier eigum ad klædast einum nyum Mañe. Hvert var hañs Eyrende þa? Til Ad Bidiast Fyrer, seiger Texteñ: Ecke eins og Phariseiñ, til ad hroosa sier i Bæneñe, þad sijna oss Ord hañs og Atvik, sem hier uppteiknud standa: Hañ hefur adgiætt Logmaals-Toblurnar, sem hiengu i Musterenu, og yfervegad þær odruvijse eñ Skriftlærder og Phariseí, sem hiengu i Bookstafnum, og lögdu hañ wt epter eigeñ Potta sijnum, þar fyrer Onijttu þeir Logmaaled fyrer Setninga sijna, svo sem DRotteñ seiger. Spaameñerner voru lesner hvern Sabbatsdag i Musterenu, svo sem Paulus vottar, er hañ flutte Guds Eyrende til þeirra i Antiochia, Act. 13. Par hefur hañ maatt heyra Utskijringu Logmaalsens ad myklu Leite, og er hañ þar af berlega sied hefur, ad Gud fordæmer Okur, Ranginde, Underfedle, Rangsleitne, Gripdeillder, Hardydge og Myskunarleyse, og hañ vise sig i öllu þessu sekañ, þa hefur honum ofboded Stærd Syndaña, og Gudz Heyptar Reide, Ja, honum hefur Ognad hvad mörg volud Saal ad munde hroopa i Himeneñ yfer sier, og Ottast ad þeirra Hroop munde iñgeinged vera i Eyru DRottens Zebaoth, þesse þwnga Byrde hefur a hañs

 Hiarta

Hiarta leiged, sem er Bruñur allrar Illsku og Ogudlegs Athæfes, Matth. 15. Þvi
ber hañ sier a Brioost, svo sem villde hañ þad straffad hafa, sem mest hafde tiluñed, og
mest klagade sijna eigeñ Vondsku, med Sløgum og Bite Samvitskuñar: Illa var
vared þessum Vesæiinge i sialfum sier; Eñ Gud giæfe ad vier sem betre þykiunst, ad
vier, seige eg, geingium med sama Hiartalage i Guds Hws, og sætum under hañs Or-
da Heyrn eins og hañ, þa mundum vier ecke svo kallder vera i voru Ydrunar Verke, svo
sem berlega maa sia ad margur er. Hañ Stood Laangt Fraa, seiger Texteñ: An Efa
þess vegna, ad hañ hefur reiknad sig verre eñ adra Meñ, og Overduganñ ad koma nærre
þessum heilaga Phariseo, hañ hefur skolfed af Kvijda vid Guds Reide, er hañ hugleidde
siñ Overdugleik, og hañs Logmaals straungu Hootaner; Ecke sijdur eñ Israel þegar
ad dunade i Horeb, nær hid sama Logmaal var wtgiefed, Exod. 19. Hvad giora þeir
þa, sem jafnvel i Guds Hwse kieppast epter hinum fremstu Sætum, og wtvelia sier þau,
eñ þoott ei rijde svo miog a þessu wtvortis Haattalage, þa giætum þess, ad i Kyrkiuñe
byrtunst aller vier fyrer Guds Anglite; Þar er sa mestur Madureñ, sem miñstur er i
sijnum Þaanka, sa er best bweñ, sem sundur-riffur Hiarta sitt med Tollheimtu-Mañ-
enum; Eingeñ er svo heilagur, ad ecke skilie hañs Synder mille Guds og hañs, ef hañ
vill þær tilreikna, og hversu eigum vier þa ad audmykia oss under Vollduga Guds
Hond, nær vier iñgaungum i hañs Helgedoom, til ad Fridmælast vid hañs Guddoom-
legu Haatign, fyrer hverre øll Verølldeñ leikur a Reideskialfe? Eñ vier erum Dupt
og Aska, og hvad meira er, aller svo sem hiñ Ohreine, og jafnvel Riettlæte vort svo sem
nidlags Fat; Svo ad allt Hollded er siwkt, allt Høfuded veikt, Fraa Hvirfle, og allt
til Ilia, Er þar ecke nema Saar, Kaun, Beniar og Þrote; Og þessa vora Siwkdoo-
ma hefur Guds Sonur bored; Þessum Ørkumslum hefur hañ a sig hladed, svo ad vi-
er fyrer hañs Beniar Heilbrygder yrdum, Es. 53. Eñ vier høfum laated oss þad lijted
til Hiarta gaanga; Ecke hafa þeir Naglarner er i giegnum groofu hañs Hendur og
Fætur, ecke hafa þeir eñ nu til fulls Krossfest hiñ gamla Adam i oss, og ecke su Lensañ,
er opnade hañs Sijdu, vid Hiarta vort svo miøg snorted, ad vier høfum laated Porteñ
vijdopeñ fyrer Konunge Dijrdareñar, þegar sa Drottnareñ hefur vitiad sijns Muster-
is, myklu helldur hefur optlega vid þvi leiged, ad vier mundum Hertoga Dijrdareñar
ad nyu Krossfesta. Æ! miñ Gud, Æ! miñ Frelsare; Hver af oss er þa svo Hei-
lagur, svo Fullnoogur sialfum sier, ad ei skyllde hañ beria sier a Brioost med Tollheim-
tu-Mañe þessum, og seigia: GUD VERTU MIER SYNDUGUM LIKN-
SAMUR, og med hinum tapada Syne; Fader, Eg hefe syndgast i Himineñ og fyr-
er þier? Nu, þoott ad Vesælingur þesse være svo lijtt staddur, þa orvænter hañ ecke:
Ei grijpur hañ til Knijffsens, eins og Saul til Sverdsens; Ecke til Snoruñar med Ju-
da, og ecke ofbiooda honum svo miøg Syndernar, ad hañ orvænte sier Guds Myskuñ-
ar: Ad vijsu skamadest hañ sijn ad lijta Augum sijnum til Himens, þvi hañ hafde
styggt þañ svo mootþrooanliga, sem i Himnenum bijr, eñ þo rædur hañ þad af, ad leita
Lyknar hia honum, af hvers Giæsku ad øll Jordeñ full er, og meinar sig vesælañ Orm
ecke

ecke fraaskilen̄ vera eins og Phariseæin̄ ødrum Moñum. Giør hid sama, Barn mitt,
nær þier med David ofbiooda Synder þijnar, svo þu hefur ecke Frid i Beinum þijnum
fyrer þeim, þa vit þo þad og treyst þvi, ad Synden̄ kan̄ alldrei ad vera svo stoor i Illsk-
uñe, ad Gud sie ei meire i Giæskuñe, þad vottar Johañes, er han̄ seiger, 1. Joh. 3. Ef
vort Hiarta fordæmer oss, þa er þo Gud meire Hiarta voru, og Paulus hefur oss epter-
laated eina dijrmæta Huggun, dijrmætare en̄ Verøllden̄ er, þar han̄ seger, Rom. 5.
Hvar sem ad Synden̄ yfergnæfer, þar yfergnæfer þo Naaden̄ myklu framar. Christ-
ur er Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder, þvi mun han̄ ecke og svo vera fyrer
þijnar, nema þu siert fyrer utan̄ Verølldena? I hønum hefur Faderen̄ alleina Vel-
þocknan. Ef Paulus þorde ad seigia vid Philemonem um̄ Onesimum, hafe han̄ þier
nockurn Skada giørt, edur sie þier skylldugur, þa reikna mier þad til; Eg Paull hefe
skrifad þad med miñe Hende, eg skal betala. Hvad myklu meire Riett hefur Guds
Sonur til ad tala þañig oss til Fridar vid sin̄ himneska Fødur, Jaa, vid siaalfan̄ sig, ad
hønum skule tilreiknast sa Skaden̄, sem vier høfum giørt: Sw Skullden̄ er vier lwka
aattum, þu min̄ HErra, þu hefur neglt þa Handskriftena aa Krossen̄, sem moote oss
var, Col. 2. Hver vill þa aaklaga Guds Utvalda, þu ert sa sem daaen̄ er, Rom. 8. Þu
hefur eina Kvittan giefed i Um̄bode allrar Gudddoomsins Þreñingar, er svo hlioodar:
Hver sem trwer aa Sonen̄, han̄ kiemur ecke til Doomsins, Joh. 3. Jaa, sendt oss eitt
Aflaat med Þienara þijnum Paulo, skrifad med Guds Fijngre, sem er Heilagur Ande,
ad eingen̄ Fordæming sie hiaa þeim, sem eru i Christo JEsu, Rom. 8. Þu hefur betal-
ad þad þu rænter ecke, Ps. 69. Þvi skyllde þa ein̄ Raans-Madur kvijda fyrer þeim
Betaling, sem þu hefur loked? Þvi mun eg þa mistreysta Gude? Er han̄ ecke Trw-
fastur? Kuña hañs Ord ad forgaanga, þoott Himen og Jord forgaange? Hønum
sie Dijrd og Heidur um̄ Allder, Amen. Nu hafed þier heyrt af Tollheimtu-Mañen-
um hin̄ rietta Veg Apturhvarfsins fraa Vondskuñe, hver sem han̄ geingur, sa mun med
hønum Riettlaatur verda. Eg Seige Ydur, Ad Þesse Foor Riettlaatur Framar
Hinum I Sitt Hws, seiger Frelsaren̄ i Textanum: Hver Ord ecke þañveg skiliast
eiga, svo sem ad Phariseæin̄ hafe ad sønu Riettlaatur heim aptur fared, en̄ Tollheimtu-
Maduren̄ þo Riettlaatare, helldur var sa Munur Riettlætesins, ad Pharisæus þesse
var Riettlaatur i sijnum Þaanka, og fyrer Moñunum, um̄ hvert Riettlæte DRotten̄
seiger, Matth. 5. Nema ydar Riettlæte yfergnæfe meir en̄ hiña Skriftlærdu og Pha-
riseæaña, þa kuñed þier ecke in̄ ad gaanga i Guds Rijke: En̄ Tollheimtu-Maduren̄,
sem jaatade Synder sijnar, og afneitade sijnum Verdugleik, en̄ beidde um̄ Myskun, han̄
vard Riettlaatur fyrer Gude, med þvi Riettlæte, sem Paulus seiger, ad sie af Trwñe, og
þvi var han̄ framar Riettlaatur, ad han̄ hafde þad Riettlæte, sem fyrer Gude gyllde,
en̄ hin̄ fyrer Moñunum. Heim aptur i sitt Hws stendur i Textanum: Nockrer mei-
na ad han̄ hafe yfergiefed Tollheimtuna, þar han̄ foor ecke til Tollbwdareñar, helldur
heim i sitt Hws: En̄ ecke er þad vijst, ad han̄ hafe laated Syslan sijna, þess var og
ecke Þorf, þvi hun var Riettvijs i siaalfre sier, ef þad er Riettvijst fyrer Yfervallded ad

taka

taka Skatta og Tolla, svo sem þad i allañ Maata riett er, þvi Paulus seger, Rom. 13. Giallded øllum hvad þier skylldugir erud, þeim Toll er Tollur heyrer, þa er þad ecke O-riettvijst fyrer Þienara þeirra ad safna Tekiunum: Ecke bañade helldur Johañes þess-um Moñum Tollheimtuna, alleina, ad ei skylldu þeir taka meir eñ boded være, Luc. 3. Giæte þeir þess, er slijkt Starf a Hende hafa, þvi hvad sem þar er fram yfer, þad er af hinum Vonda. Eñ hverneg sem þessu er vared, þa er þad vijst ad Kvittun Syndaña Einusiñe feingeñ, hun er Onijt, nema Syndareñ læte af Illu og lære Gott ad giøra, og hier til heyrer þad, ad bæta þad Oriett var giørt, ef bæta maa: Hvar um eg hefe nockud talad i tveimur nærst fyrerfarande Predikunum, eñ miñest eñ nu a þad hier i þridia siñ, af þvi, ad svo miked rijdur a þessum Hlut, þvi sie þad ecke giørt, þa er Ydraneñ alldeilis O-nijt. Pad er ei noog, ad stijnga a einu Meine, nema hiñ vonde Vesse, sem i þvi er samañ-dreigeñ, hañ verde wtdreigeñ, svo er þad ei helldur noog, ad Moñum svijde Einusiñe af Brodde Logmaalsins, nema þvi Illa sie fraa sier kastad: Drecke nockur Eytur iñ, þa er hønum einsætt ad æla þvi upp aptur, eñ eingeñ Olifian er so banvæn Kroppnum, svo sem raangfeingner Muner Saaluñe, þvi er þad Omissande, ad skilia sig af med þa, æd-ureñ þeir saalga heñe i Daudanum, þegar Meñ skulu þo vid þa skilia, og þeir vid oss hve-rt sem er, eñ eingeñ veit nær hañ ber ad Dyrum, og hvad hefur þu þa þess Madur, er þu hefur med Ahyggiu og Oriette safnad. DRotteñ miñ, kieñ þu oss ad hugsa þad vier hliootum ad deya, laat oss ecke deya med Mañona, helldur med vorn Frelsara i Hiar-tanu, gief oss ad hafa Fiesiood a Himnenum safnad, framar eñ i Heimenum, svo þeg-ar hin Forgeingelega Tialldbwd vors Lijkama i sundur-glidnar, ad vier þa høfum svo fyrer oss giørt i Tijmanum, ad þeir medtake oss i eylijfar Tialldbwder, Bæn-heyr þad DRotteñ miñ og Gud miñ, fyrer JEsu saaru Kvøl og Blessadar Under, Amen.

# Tolfta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Marc. 7. Cap.

OG þa JEsus gieck i burt aptur wr Landsaalfum Tyri og Sidonis, kom hañ til Siaafarens i Galilæa, i midiar Bygd-er þeirra Tiju Stadaña. Og þeir leiddu til hañs þañ Mañ, sem Daufur og Maalhalltur var, og baadu ad hañ legde Hendur yfer hañ. Og hañ veik hønum Afsijdis fraa Foolkenu, liet sij-na Fijngur i hañs Eyru, hrækte wt, og aahrærde hañs Twngu, leit upp til Himens, Andvarpade og sagde til hañs: Hephatha, þad er, opna þig. Og jafnsnart upplukust hañs Eyru, þa uppleistest og eirn-eñ Fiøtur hañs Twngu, so ad hañ talade riett. Og hañ skipade, ad þeir segdu þad eige neinum, Eñ þvi meir sem hañ Fyrerbaud þeim þad, þess meir þa Vijdfrægdu þeir þad wt, og þa sialfa undrade þetta

næsta

næsta miøg, seigiande: Allt giørde hañ vel, þviad Daufa lætur hañ heyra, og Maallausa tala.

## Exordium.

MARGT a vid mørgu, seiger i Fornkvednum Ordshætte: Þoott ad DRottēn hafe straffad Syndena epter Falled med adskilianlegum Siwkdoomum, til ad aga vort giaalijfa Holld, þa hefur þo hañs Giæska lagt þa Lykn med Þrant þessare, ad Naattwrañ er rijk af þeim Hlutum, sem bætt gieta Mein Mañа, þegar þar med er Skynsamlega høndlad, þvi seiger Syrach, Cap. 38. Ad hiñ Hærsie hafe framleidt Læknisdoomeñ af Jørduñe, og uñ Læknereñ seiger hañ i sama Capitula: Heidra þu Læknarañ fyrer Nandþurftareñar Saker, þvi DRottēn er hañs Høfundur, þvi aller Læknisdoomar koma af hinum Hærsta. Nu misfellur þo þetta a stundum, þvi jafnvel þoott Læknereñ kuñe margt og miked ad giøra, og hañs Verk sie gott, þa er þo ecke Heilsa nie Vanheilinde, Lijf edur Daude i hañs Hende, helldur Guds, sem er allra Meina Grædare, og sa DRottēn DRottēn, sem fraa Daudum frelsar. Eñ Guds Sonur, a sijnum Hollds-Vistar Døgum, hañ auglijste þad øllum Heime, ad hañ sañur Gud være, med þvi ad hañ læknade allrahanda Mein og Kraankleika, ecke med Naattwruñar Medølum, þvi hañ var Naattwruñar Herra, helldur med einu Orde a stundum. Kona, mikil er þijn Trwa, sagde hañ vid hina Canaanisku: Vert Hughraust mijn Dootter, þier eru þijnar Synder Fyrergiefnar, Vid hina Bloodfallsiwku: Far þu, Sonur þiñ lifer, Vid Konungs-Mañen: Verde þier epter Trw þiñe, Vid Hundrads Høfdingiañ: Eg vil, vertu hreiñ, Vid hiñ Lijkþraa: Fared og sijned ydur Kieñemøñunum, Vid þa Tiju: Og er þesse Dæme nærsta mørg ad lesa i Gudspialls Søgunum. A stundum brwkade hañ nockurskonar Ceremoniur til ad lækna hina Siwku, svo sem hier i Gudspiallenu verdur fraa sagt, hveriar þo ecke munu Forgiefens uppteiknadar, þvi allt hvad skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Helldur til ad þijda þær uppa vor Andleg Vanheilinde, og þeirra Lækningu: Eñ nu vil eg i þetta Siñ Einungis Hugleida þeña auma Mañ, og svo vort Haattalag i Andlegum Efnum, sem ecke erum betur a oss komner ad þvi Leite, helldur eñ hañ, margur hver. Send oss þijna Naad og Adstod til þessa Eyrendis, vor Gud, fyrer Lausnarans Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

OG Þeir Leiddu Til Hañs Þañ Mañ Sem Daufur Og Maalhalltur Var. Þesse Mañeskia hefur þunglega halldeñ vered. Þegar David wtmaalar Mootgaang siñ, þa segest hañ heyra sijna Mootstødu Meñ, svo sem Daufur, og svo sem eiñ Maalleysingur ecke uppliuka Muñe sijnum, Ps. 38. Eins og hefde hañ valla nockurn lakare Kost vid ad jafna, Jlla er hinum Daufa fared i mørgum Hlutum; Eiñ Daufinge er nærre þvi eins i Verølldeñe, og wtlægur Madur i framande Lande, hvar hañ einkis Maal skilur; Hañ hefur eckert Gagn edur Skiemtun af þvi ed adrer tala, Varer þeirra sier hañ bærast ad søñu, eñ þad maa vera stoor Hugraun ad sia þad, eñ hafa þess þo eingeñ Not sem Gud hefur giørt til ad vidhallda Selskap Mañaña i Heimenum, Gange nockud ad hønum, þa gietur eingeñ huggad hañ, eñ þo tekur þad yfer, ad þeir ei gieta Guds Ord heyrt til Saaluhiaalpar sier, þvi fyrer Heyrn Guds Orda kiemur Trweñ seger Postuleñ, eñ aan heñar er Omøgulegt Gude ad þocknast, Heb. 11. Og hversu er hønum þa illa vared fyrer Mañaña Sioonum, er hefur Brest a þessu Skilningar Vite. Nu eru þeir þo med tveñu Moote er þeña Skort meiga lijda. Sumum fellur þad til nær þeir komner eru til Vits og Aara, þeir meiga þess Not hafa ad Søñu, er þeir

 numdu

numdu a medañ þeir høfdu Hluster heilar, bæde i Daglegre Umgeingne, og hvad mest æriidur i Verke Sæluhiælpar siñar, og satt er þad, ad ei glepur fyrer þeim Bulldran Heimsens, þeir hafa valla ad skiemta sier nema vid Gud siñ, ef þeir erú Lundlagner þar æ, og bera siñ Harm i Hlioode; Og Reyndar þa er betra Daufur ad vera, eñ ad heyra margañ þañ Oþarfa, sem taladur er i Heimenum, sierdeilis skamarleg Ord og fiblsʒlegt Hial, sem Christnum soomer ecke. Adrer eru þeir ed Daufer eru borner, þvi þar a epter fylger Mælleysed, hverneg kañ sæ ad nema Maña Mæl, sem ei gietur heyrt a Tal þeirra, og hafa Meñ þess Dæme nockur hiæ oss, þad mæ og marka ad þesse aume Madur sem hier talar um i Gudspiallenu, hañ hefur æn Efa heyrt einhvern Tijma, þvi jafnvel þoott hañ Mælhalltur være, þa hefur hañ þo nockud talad: Þessara Kostʒur sijnest miklu þijngre ad vera, eñ hiña i fliootu Alite, þvi sæ sem Daufur er eñ hefur þo Mæled, hañ gietur sagt til þesser hañ vardar um, og lofad Gud med Tunguñe, hafe hañ nockud af Guds Orde numed, eñ hiñ ecke, þo er þad hier aptur ad segia, ad eingañ længar til þess sem hañ þecker ecke, svo kañ og ei helldur þeim ad leingiast svo miog epter ad heyra a Tal Maña, sem þad alldrei heyrt hefur. Eñ hvad Sælareñar Efnʒum vidvijkur, þa hygg eg ad eingeñ kuñe ad fordæma þessa Guds Vesælinga, jæ, kañ vera ad þeir sieu miklu nær Guds Rijke eñ hiner sem eingañ Brest hafa a Skilningar Vitunum, eñ brwka þau Fiandanum til Þioonustu, og Næunganum til Ogagns, Gud er Riettlætur, og þo under eins Myskunsamur, þad er ecke lijkt honum, Fodur Giæskuñar, ad hañ mune heimta Reikningsskap af þvi Punde, er hañ ecke feck einum i Hendur, og hver vill efast um Mætt hañs edur Vijsdoom, hañ sem gat læted Johañʒem fagna Tilkomu siñe i Moodur Lijfe, Luc. 1. Mun hañ og ecke gieta verkad undarlega Hlute i þess Hættar Mañeskium? satt er þad, ad æn Trwareñar er Omøgulegt Gude ad þocknast, Heb. 11. Eñ hañ sem gietur iñplantad Trwna i Hiørtum Smæbarnʒaña, mun hañ ecke med Orañsakanlegum Hætte gieta tilbued hana i þessara Hiørtum? Þad sem ecke er af Trwñe þad er Synd; Eñ af Muñe Smæbarnaña og Briioostmylkʒingaña hefur hañ sier Lofed tilreidt, þvi mun hañ og ecke gietá opnad Skilning þessara Skiepna siña, svo þær þecke hañ til Myskunar sier? Er nockurt Ord fyrer honum Oʒmættugt? Luc. 1. Kañ hañ ecke alla Hlute framar ad giøra, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla? Eg vil hier um segia, þad sem Christur sagde vid Læresveinana, er þeir sogdu: Hver mun þa hoolpeñ verda? Þad sem Omøgulegt er fyrer Moñum, þad er møgulegt fyrer Gude, Matth. 19. Nu sokum þess, ad fyrer hinum Daufa verdur ecke talad, Gud verdur siælfur fyrer honum ad predika i hañs Hiarta, og er eingeñ slijkur, þa tala eg þetta til Huggunar þeim sem ængrast þar af, ad Børn þeirra edur kiærustu Næungar hafa slijkañ Brest, og efast kañ skie um Velferd þeirra, og þar ad auke leida sier i Hug, ad þetta kome fram vid þa vegna Synda siña. Til hiñs fyrra hefe eg ad nockru Leite Allareidu svarad, eñ þo vil eg þessu vid auka sem epterfylger. Gud hefur skapad Askvæme þitt i Moodur-Lijfe, Job, 10. edur þijns Næunga: Hver hefʒur Mañenum Muñeñ giefed? Hvør hefur giørt hiñ Mællausa edur Daufa? Edur

hiñ

hin Siaanda, edur Blinda? hefe eg þad ecke siaalfur giort? Seger Drotteñ vid Moysen, Exod. 4. Og fyrst hañ hefur þetta siaalfur giort; Mun þa ecke hañ, sem vill ad aller Meñ verde Saaluhoolpner, mun hañ ecke siaa þeim Farborda til Himnarijkis, sem ecke hafa Skulld i þvi, ad þeir gieta ecke Guds Ord heyrt? Hañ Sem Giorde Allt Vel, Þvi Daufa Liet Hañ Heyra Og Maallausa Tala, A Dogum Holldsvistar siñar, mun honum vera apturfared sijdan hañ sestur er til Kraptarens hægre Handar, hañ er uppfareñ i Hædernar, og hefur Moñum Gaafur giefed, Eph. 4. Mun hañ þa ecke giefed gieta Barne þijnu Heyrn og Maal, nema ad hañ giæfe Saalu þess Heyrn, og giorde þad vel talande fyrer siaalfum sier, med þvi Moote sem ecke skilur þu, eda nockur añar? Barn þitt er i Skijrneñe iñteked i Guds Saattmaala; Hver sem trwer og verdur skijrdur, hañ skal hoolpeñ verda, seger Christur. Hier stendur; Hver sem trwer, eñ ecke hver sem heyrer og talar; Mun hañ þa kalla afbrugded Saattmaalanum fyrer þessa Orsok, er Vesælingeñ siaalfur giorde, og gietur þo Trwna i honum verkad, Gud laate oss alldrei meir afbregda, sem Maal og Heyrn hofum. Seg þvi med David; Eg vil þegia og Muñe mijnum ecke uppliuka, af þvi þu giorder þad, og hallt Barn þitt ad vera eiñ Lim aa Christi Lijkama, Mustere H. Anda, og Erfingia Himnarijkis, ef eckert añad i Vege stendur, eñ þesse Brestur, sem Skapareñ alleina og eingeñ añar læknad gietur: Eñ hvad þvi vidvijkur, ad margur freistast af, ad Vanheilende Barnaña Orsakest af Syndum Forelldraña; Þa verdur þvi ad soñu ecke neitad, ad allt Mootlæte er Verdlaun Syndareñar, Svo sem Daudeñ er, svo er og allur saa Her, sem under hañ þioonar, eñ þad heiter ecke svo Straff, svo sem Reynsla hiaa Guds Bornum, hverre Jacob Postule skipar oss ad taka fegens Hende, Jac. 1. Þvi Orsakast þetta ecke af þvi, ad Forelldrar þessara Vesælinga sieu verre i Guds Auglite eñ adrer Meñ, þar fyrer svarade Endurlausnareñ fordum Læresveinunum, er þeir friettu hañ ad, hvert þesse hefde syndgad edur hañs Fader: Hverke syndgade þesse nie Fader hañs, sagde hañ: Helldur svo, ad Guds Dijrd yrde opeñber, Joh. 9. Og vidlijkt skiedur i þessu: Gud setur oss þesse Dæme fyrer Siooner, oss sem hañ giefed hefur heilbrigda Saal i heilum Lijkama, til ad sijna oss hvada Valld hañ hafe yfer Mañeskiuñe, til þess, ad þacka sier og lofa sig þar fyrer, ad oss og vorum Bornum og Naaungum er betur vared i Lijkamans Hattalage, til ad miña oss þar a, ad ei brwkum vier Skilningu vora til þeirra Hluta, sem Gude til Stygdar eru, miklu helldur til Vegsemdar honum, og Naaunganum til Þarfa. Eñ Gud naade, ad wt af þessu ber nærsta miog a stundum, og þad er nu hin Andlega Deyfa, sem miklu hættare, miklu Skadsamlegre, og þo miklu Almeñare, eñ su sem a Lijkamanum er, yfer hverre ad David klagar, er hañ seger, Ps. 58. Ad þeir tilbyrge Eyru sijn, eins og Hoggormureñ fyrer Raustu Særinga Mañsins: Margfallt er þetta Heyrnarleyse, og i morgu foolged, eñ Rooteñ til alls er þad, ad Meñ Daufheyrast vid Guds Orde, svo þad fær ecke Rwm i þeim, helldur eñ Tal Christi i Phariseis. Aller Meñ laska þa fyrer þetta, sem vert er: Eñ þott ad eingeñ Madur talad hafe, edur eñ nu tale svo sem hañ, jafnvel ad Vitne þeirra, sem voru wtsend-

sendarar hañs Fiandmañа, þa eru þad þo Guds Ord, er hañs Pienarar tala i hañs Umbode, nær þeir byggia Maal sitt a Ordum hañs Spaamaña, og Postula, yfer hvera Grundvoll, ad hañs Christne er bygd, þvi so seger Drotteñ vid Jeremjam, Cap. 1. Eg hefe lagt mijn Ord i þiñ Muñ, og vid Esajam, Cap. 59. Miñ Ande sem i þier er, og mijn Ord, er eg hefe sett i þiñ Muñ, þau skulu ecke wr þijnum Muñe vijkia. Nu þott ad ecke sie Andans Gaafa svo rijk hiaa oss, sem hun var hiaa Spaamoñunum og Postulunum, þa eru þad þo Guds Ord, sem hañs Pienarar tala, nær þad er af þeirra Toga riett spuñed, og þeir tala ecked aan Ritningareñar: Guds Ord elldest ecke, þad blijfur Eilijflega, seger Esajas, Cap. 40. Þvi er þad eins gott i Muñe hiñs vesælasta Jesu Christi Pienara, nær þad er hañs Ord, svo sem i Muñe Peturs, edur Paals, þvi vil eg hier uñ segia þad hid sama, sem Paulus sagde vid þa i Tessalonica, ad þeir hafe medteked þad Guds Ord, er þeir heyrdu af honum, ecke svo sem Ord Mañaña, helldur svo sem þad var, eins og Guds Ord, 1. Tess. 2. Eñ ef þad Guds er, hvern forsmaaed þier þa, þier hiner Dausu Veralldar Syner, nær þier þad ecke heyra vilied af hañs Pienara Muñe, nie laata undervijsa ydur og Bornum ydar i Christeñdoomenum, ecke laata straffa ydar Synder, og ecke lifa epter þvi, er ydur af Guds Alfu boded verdur. Hvern forsmaaed þier þa, sege eg; Gud edur Meñena? Seger hañ ecke, Luc. 10. Hver hañ forsmaaer ydur, hañ forsmaaer mig, hver hañ heyrer ydur, hañ heyrer mier? Svodañ er riett skielfelegt Heyrnarleyse. Munu þesse Frelsarans Ord naa alleinasta til Postulaña, edur þeirra er lifdu a þeim Dogum, og ecke til vor sem nu lifum? Mun hañ ecke hafa lofad ad vera hiaa oss, allt til Veralldareñar Enda? Matth. 28. Hvernig er hañ þa hiaa oss? Med sijnum H. Anda i Ordenu og Sacramentunum.

Nu, ef Meñ vilia nioota Naalægdar hañs, þvi laata Meñ þa svo tregt vid ad heyra hañs Ord? J Ordenu talar Gud vid oss, vid hañ tolum vier i Bænum vorum, eñ sa sem ecke vill heyra hañ Talanda, þañ vill hañ ecke heyra Bidianda, þvi hver sem forsmaaer mig, þañ vil eg forsmaa, seiger hañ, 1. Sam. 2. Eg em gladur af þvi, seiger David, ad til mijn verdur sagt: Vier skulum gaanga i Hws DRottens, Ps. 122. Þetta sagde hañ, sem i Ritninguñe er nefndur Madur epter Guds Hiarta. Eñ margur Gaarungur, margur Sælkiere, margur Fe-Pwke, sem er Madur epter sijnu Hiarta, hañ verdur þeirre Stundu fegnastur, ad hañ þurfe ecke i Guds Hws ad gaanga, edur hañs Ord ad heyra, og þoott þeir gaange edur heyre, þa geingur Ordenu eins og Sædenu þvi, er Frelsareñ talar uñ hiaa Lucam i 8. Cap. Hvert ed fiell utañ hiaa Veigenum, ad þad verdur Footum troded, og Fuglar Himensens aatu þad, Diofulleñ tekur þad i burtu wr Hiortum þeirra, svo þeir ecke trwa skule, og verda hoolpner. Hvar fyrer? Þvi þeir hyrdtu ecke uñ ad taka a sig Guds Alvepne, til ad mootstanda Prettum Andskotans, Eph. 6. Guds Ord skal til þess hafa, ad vardveita Guds Ord, eñ þeir gleymdu Sverde Andans, sem ad er hid sama Ord, ad þeir kyñu ad beita þvi fyrer sig, nær Ovinureñ ad Garde gieck, til ad ræna þa Dijrgrip þessum. Ofkande være, ad ei hugsudu þeir hid sama, er Judar sogdu Fordum vid Jeremjam: Vier skulum ecke hey-

heyra þvi Orde, er þu sagder oss i Nafne DRottens, helldur skulum vier giora epter sierhveriu Orde, er framkiemur af vorum Muñe, Jer. 44. J svoddañ Gyllde er DRottens Ord hiaa sumum Moñum. Munu þeir þa ecke nærsta Pyckheyrder vera? Heyr mier þo um Stund, Barned gott; Pu ert Offiertur aa Hlustum þijnum, og eñ nu ert þu svo i Dag: Par fyrer, J Dag, J Dag, ef þu heyrer Roddu hañs, þa forherd ecke Hiarta þitt, Heb. 3. Seig mier; Hefur þu Brief fraa Gude, ad hañ lijde þijn Skilningar-Vit til Morguns, meir eñ þesse Daufe og Maalhallte Madur. Gud steypte hiñe Vantrwudu Verolld um Koll i einu. J einu dreckte hañ Pharao med ollu hañs Lide. J einu fargade hañ Canaanitum fyrer Hond Josuæ. J einu Augnablike sloo hañ þa med Blindne, er faalmudu epter Hwse Loths, Gen. 19. J einu Augnablike stack hañ Augun wt aa Elimas, sem mootstood Paulo, er hañ foor med Christne-Boded, Act. 13. Mun hañ ei kuña ad giora hid sama vid þig, ef þu mootstendur hañs Pienurum og villt ei heyra þeim, nær þeir tala Guds Eyrende og ecke sitt? Eda hvad villtu giora, nema þu hafer eitthvad þier til Saalar-Gagns numed af Orde DRottens, aa medañ þu hafder Eyrun heil, ef hañ kyñe ad laata þier tilfalla þvilijkañ Brest, eg vil þad i stuttu Maale seigia, þu hefder eckert til ad kieña þier ad þeckia Syndena, eckert til ad faa Boot heñar, og eckert til ad hugga þig i þessu Volæde? Og fyrer þvi, ad þu alldrei hafder smackad hid gooda Guds Ord, svo sem þad er, þa gietur ecke aa þier sañast Maalshaattur sa, ad eingeñ vite hvad hañ aatt hefur fyrr eñ hañ miste. Einhver vill seigia: Eg giet lesed Guds Ord þoott ecke heyre eg þad; Pvi er verr, ad þeir eru svo faaer, sem lesa kuña, Jaa, þoott siaalfer kuñe, þa hyrda sumer ecke um ad kieña þad Børnum sijnum, og er þad Gudlaust Ræktarleyse, eñ hverneg sem þvi er vared, hvad veitstu nema Gud take under eins fraa þier Sioonena og Heyrnena; Og hvar stendur þu þa, ef þu hefur forsmaad Rijkdoom hañs Laanglundargieds, Rom. 2. J þvi, ad vilia ecke hañs Ord heyra þier til Saaluhiaalpar, og þoott Gud spare Eyru þijn allt fram i Daudañ, þa vita Meñ, ad ecke siaa þa Augun leingur, og ecke heyra þa Eyrun leingur, Hiartad verdur þa ad tala vid Gud, og Heilagur Ande ad vera vor Prestur i sijnu Mustere, eñ ef Meñ hafa styggt hañ med Vanrækt Guds Orda, og slockt hañ med Forogtun þeirra, hvar i aa hañ þa ad lifa, ef eckert var numed sem hañ kuñe ad lifa i, og er þetta eitt skadlegt Heyrnarleyse. Margur leggur þad ad litlu, ad gaanga i Guds Hws, og helldur þad fyrer Eintoomes Ceremoniu, þvi er verr, kañ skie þad sie og svo hiaa allmorgum, sem þar byrtast, alleina fyrer Sida Saker, eñ giæte Meñ þess, ad fyrer utañ þad, ad Gud hefur Skulldbunded sig til ad vera midt aa millum Tveggia edur Priggia, sem eru samañsafnader i hañs Nafne, Matth. 18. Pa er þad ei svo miog vijda i Lande voru, ad Almeñingur faae Guds Ord heyrt nema i Kyrkiuñe; O! hvad myklu Goodu fyrrer sa Madur sig, er byrger Eyrun fyrer Guds Orde, þau eru Lijf og Ande, seiger Frelsareñ, Joh. 6. Pvi er hañ Andlega daudur sem aan þeirra er. Vier trwum, ad fyrer Trwna verde Madureñ hoolpeñ aan Verkaña, seiger Paulus: Eñ Trweñ er af Heyrneñe, eñ Heyrneñ af Guds Orde, seiger hañ, Rom. 10. Hvar vill

hañ lenda þa, sem er Trwarlaus, nema i eylijfre Glötun? Utañ hañ betre sig. Mijn er Sauder heyra mijna Raust, seiger Frelsareñ, Joh. 10. Eñ hvers munu þeir vera, sem ei vilia heyra Roddu hañs? Munu þeir ecke setter verda med Hofrunum a vinstre Hlid, og þa um sijder heyra hina skielfelegu Raust alls Hellds Doomara; Fared fraa mier bolvader i eylijfañ Elld, sem fyrerbwen er Dioflenum, og ollum hañs Aarum, Matth. 25. Saa sem er af Gude, hañ heyrer Guds Ord, seiger Lausnareñ, Joh. 10. Eñ þeir sem þad ecke heyra vilia, og þo heyra kuña, af hverium eru þeir? Af Fodur þeirra Andskotanum, svo sem DRotteñ sagde vid Gydinga Fordum. Ut af þessare Deyfu fædest margfalldur Eyrna-Dofe. Hvad giora þeir ed heyra Vein hins Naudstadda og Volada, eñ byrgia sig þo fyrer sijnu eigeñ Hollde? Þad er fyrer þeim sem ad eru somu Natturu og vier, og giefa þeim eckert, jafnvel þoott sumer hafe Audlegd Heims þessa. Eingeñ hefur um Allder sitt eiged Holld hatad, seiger Guds Ande, helldur fooftrar hañ þad og nærer; Og hvad er þad þa, ad eg skule siaa mitt eiged Hold, eiñ Guds Vesæling, miñ Brooder i Christo, ad eg skule siaa hañ friosa edur svellta i Hel, þar eg hefe þo noog, jafnvel til ad kosta uppaa Munade mijna? Þetta er stakt Heyrnar-leyse. Saa sem Ofkunda og Orietteñ lijdur, hañ flijr til Doomarans, og bidur um Adstod, eñ hañ sem af Gude og Konungenum er settur til ad skipa Riettendum Maña, hañ stijngur Fijngrenum i bæde Eyrun, og vill ei heyra Kvein Log-Ræningsens, añad-hvert fyrer Lete, fyrer Vinattu, fyrer Hrædslu edur Agyrnes Saker, svo hiñ fer jafn-nær fraa honum: Verr er honum fared eñ hinum Raanglaata Doomara, er Frelsareñ talar um i Epterlijkinguñe hiaa Luc. 18. Hver þoott hañ Ottadest hverke Gud nie Meñ, þa liet hañ sig þo samt leida af Praabeidne Ekkiuñar, til ad alijta Maal heñar. Eiñ gomul Kona beidde Augustum Keysara eitt Siñ, ad heyra Maal sitt; Eñ hañ kvadst ecke Toom hafa; Hun svarade: Svo legg þa af Stioornena: Vid þesse Sañyrde bra svo þeim vijsa Hofdingia, ad hañ leit strax a Maal heñar, og dæmde þad, Eñ þad være Raadlegt, ad þesse Varmeñe, sem adur er umtalad, ad þeir legdu af sier þetta Starf, þar þeir valla eru hæfare til þess, eñ Asneñ til Horpu-Slaattar. Meñ nema þañ Lim i burtu af Kroppnum, sem er daudur, og lijklegur til ad spille odrum, sæmra være og þeim er svo þyckheyrder eru, sem nu hefe eg sagt, ad Eyru þeirra være afskoreñ, helldur eñ þau stædu þeim til Vanheidurs, eñ eingum til Gagns a Hofdenu. Þar er eingeñ kiendur sem hañ kiemur ecke: Ef þier blinder værud, þa hefdud þier ecke Synd, Eñ nu seiged þier, vier siaum, þar fyrer blijfur Synd ydar, sagde Lausnareñ vid Phariseos, Joh. 9. Svo være og hinum betra, ad Hluster þeirra byrgdar væru, helldur eñ ad hafa Eyru og heyra ecke, eins og oñur Lijkneskia. Margt mætte hier um fleira tala, þo læt eg þetta duga ad svo stoddu: Eñ þad eg hefe ad framañ talad um Heyrnar-Skorteñ, þad sama vil eg um Maalhelltena tala, ad soñu er hun stoor Vanse Lijkamans, margur Oblutvandur forsmaaer þañ, sem er svo Maalefareñ, þeir hæda ad honum, herma epter þeim, og laata mycklu verr optast, eñ hiner sem þeir epter herma: Þetta heiter ad lasta Skaparañ, þvi hañ hefur Mañenum Maaled giefed, og sa ed fremur þvi-

lijkt Gudleyse, hañ er nærsta illa talande i hañs Eyrum, sem allt heyrer, hañ giorer Maalsnille sijna Pusundsiñum argare eñ Brest hins Maalhallta. Ecke helldur bañar Tungu-Hafted nockrum ad gaanga fram fyrer Naadar-Stooleñ, sem Gud hefur sett i hañs Bloode, hañ sem ecke upplauk sijnum Muñe, helldur eñ eitt Lamb til Slaatrunar leidt, hañ gietur vorkient þessum sijnum Vesælingum, er hañ sialfur skapad hefur, giete hañ ecke ødrum kient, giete hañ ecke brwkad Maaled til ad tala Maale Eckiuñar og hins Fodurlausa, þa gietur hañ þo lofad Gud, hañ skilur Maal hañs, sem adgreinde Tungurnar, og allar hefur giort af eiñe, hañ gietur beded Gud sier til Hiaalpar og Myskunar, hañ er noogu sniallur i Guds Eyrum, sem bidur i Anda og Sañleika, Joh. 4. Eins vel aakalla hiner ungu Hrafnarner Gud og Svanureñ, og hverutveggiu þessa fæder hañ, þvi stendur nu eingum þesse Tungu-Brestur fyrer neinu Goodu hiaa honum, sem bæde hefur skapad hiñ Maallausa, og hiñ Vel-talande: Hin er Maalhellteñ meire og skadlegre, þegar Meñ brwka Muñeñ til ad lasta Gud, hañs Nafn, hañs Ord, Raangfæra þad, og ad Haade hafa, til ad skieña Naaungañ, til ad rægia hañ, liwga aa hañ Lijtum og Skoñum þo saklausañ, brixla honum, leggia Haft aa Tungu sijna þegar hañ aa ad forsvara, þegar Sañleikanum aa Vitne ad bera, og færa Hlutena til betre Vegar: Þetta er skielfelegt Maalleyse, þad er ein Hofud-Skoñ i Guds Auglite, þarfara være þeim Mañe, ad hañs Tunga være fraa Rootum uppskoreñ, eñ ad brwka hana til slijkra Odaada, þvi svo seiger Frelsareñ. Betra er ad þu halltur og Handarvane ingaanger til Lijffsens, eñ ad þu hafer Tvær Hendur og Tvo Fætur, og verder i eylijfañ Elld kastadur, Matth. 5. Hver ed vijs er þeim sem temia sier Þogn þessa, og þessa, Maalhellte, og nema þeir ydrest af Hiarta, og laate af slijku Ræde, þa munu þeir eylijflega med honum verda, er vier Rægekall nefnum, og hefur sitt Nafn af þvi, ad hañ aaklagar Guds Utvalda Dag og Noott, þar ellda þeir Saalum eñ eta Tungur, Elldureñ er noogur, Kostureñ er mykill, Blaastur DRottens upptendrar hañ svo sem añad Breñesteins-Flood, Esa. 30. Fraa hverium Ofkopum hiñ goode Gud vardveite alla Christna Meñ; Eñ þu sem Allt Giorder Vel, Þu Sem Liest Daufa Heyra Og Maallausa Tala, Vijk þeim affsijdis fraa Foolkenu, fraa vondre Verolldu þessare, hvera Eyru ad allt ofmiog klæia epter heñar Glaum, hverium eckert Maal lijkar, nema þad sem heñe er þocknanlegt; Rek þa wt af Babylon, DRotteñ miñ, Jafnvel med Svipu þijns Krossburdar, svo ad ecke medtake þeir af Plaagum heñar; Snert Eyru vors Hiarta med Fijngre þijnum, sem er þiñ Ande, svo ad vier høfum vora Lijsting i Logmaale þijnu, og uppleys Fiotur Tungu vorrar, svo ad vier tølum riett, þad sem Gude sie til Lofs og Dijrdar, hañs Kyrkiu medal vor til Uppbyggingar, eñ Andskotans Rijke, og allre hañs Ydne til Nidurdreps. Bænheyr þad vor Lausnare, fyrer þijna Forþienustu; Þier med Fødur, og Heilogum Anda, sie Valld og Kraptur, Rijke og Maattur, Æra og Dijrd, Fraa eiñe Eylijfd til añarar, Amen.

# Þrett..nta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 10. Cap.

OG JEsus hann snere sier til sinna Lærisveina, og sagde þeim Einslega. Sæl eru þau Augu sem siaa þad, hvad þier siaaed, þviad eg seige ydur, þad marger Spaamenn og Kongar villdu hafa sied hvad þier siaaed, og saau þad ecke, og ad heyra hvad þier heyred og heyrdu þad eige. Og siaa, ad nockur Løgvitringur stood upp, freistade hanns og sagde: Meistare, Hvad skal eg giøra, so ad eg eignest Eilijft Lijf? Enn hann sagde til hanns: Hvad er skrifad i Løgmaalenu? Hvørnenn les þu? Hann svarade og sagde: Elska skalltu DRottenn Gud þinn af øllu Hiarta þijnu, og af allre Øndu þinne, og af øllum Mætte þijnum, og af øllu Hugskote þijnu, og þinn Naaunga sem sialfann þig. JEsus sagde til hanns: Þu svarader riett, giør þad og muntu lifa. Enn hann villde riettlæta sialfann sig, og sagde til JEsu: Hvør er þa minn Naaunge? JEsus svarade og sagde: Madur nockur foor fraa Jerusalem, ofann til Jericho, og hrasade a medal Ræningia, hvørier ad ræntu hann Klædum, og lemstrudu hann Saarum, geingu sijdann i burt, og lietu hn þar epter haalfdaudann liggia. Enn so bar til, ad Kiennemadur nockur foor ofann þann sama Veg, og er hann leit hann, gieck hann fraamm hiaa hønum. Slijkt hid sama Levitenn, þa hann kom nærre þeim Stad, og saa hann, gieck hann þar framm hiaa. Enn Samverskur Madur nockur foor umm farenn Veg, kom þar nærre hønum, og sem hann saa hann, þa hrærdest hann af Myskun vid hann, og gieck ad hønum, batt umm Saar hanns, hellte þar i Vidsmiøre og Vijne, og lagde hann uppa sinn Eyk, og flutte til Herbergis, gaf og Giætur ad hønum. Enn annars Dags þar epter þa hann foor i burt, took hann upp tvo Peninga, og fieck Hwsbwandanum, og sagde til hanns: Haf þu Gaat a hønum, og hvad þu leggur meira wt, þad skal eg borga nær ad eg kiem aptur. Hvør þeirra þriggia sijnest þier vera þess Naaunge, sem hrasadur var a medal Ræningia? Enn hann sagde: Sa sem giørde Myskunarverked a hønum. JEsus sagde til hanns: Far þu og giør slijkt hid sama.

## Exordium.

HVijlijk Deining ad vered hafe millum Gydinga og Samariskra Fordum, þad vottar Heiløg Ritning i nockrum Stødum. Hvernig bidur þu mig umm ad drecka, þar þu ert Gydingur,

ingur, sem er ein Samarisk Kona, sagde hun er talade vid Frelsarañ hiaa Jacobs Bruñe, þvi ecke Samneyta Gydingar Samaritanum? Joh. 4. Seigium vier ecke vel, ad þu ert Samverskur, og hefur Diøful, søgdu þeir Gudlastararner Fordum, Joh. 8. Og svo miked Hatur bar ru Gydingar til þeirra, ad eiñ Heidinge mætte Gydingur gioraſt, eñ ecke Samariskur, jafnvel þoott þeir brwkudu marga Gydinga Sidu i Pioonustu siñe, svo sem eirn af þeirra Meistur um skrifar, og sañast hier medal añars, þad er Frelsareñ talade vid Phariſæos, ad þeir bøñudu Møñunum iñ i Himnarijke, eñ siaalfer kiæmu þeir þar ecke, Matth. 23. Af þeſſu Jnbyrdis Hatre, sem i þa Daga var millum Gydinga og Samariskra, tekur Frelsareñ sier Orsøk til ad Sañfæra þeña Logvitring, sem Gudspialled uñgietur, og maa hier rekia Spor hañs Guddoomlegrar Specke, svo vel, sem i øllu hañs Tale. Hefde hañ ecke teked hiñ Samariska til Dæmis uñ Myskunarverked, helldur lated hañ vera þañ, sem hrasadur var medal Ræningia, þa hefde þesse Gydingur sagt, ad hañ ei vered hefde Naunge hiñs, og Gydingureñ þar fyrer ei skylldugur til ad Lidsiña hønum i neinu: Eñ fyrst hañ var Samaritan, sem Myskunsemena framde, eñ hiñ var Jerusalems Madur, þad er Gydingur, og mætte þvi Myskunar verdur þykia, þa gat hiñ ecke fraa þvi geinged, ad hañ være hañs Naunge, sem giørde gott Verk a hønum. Ecke a þeſſe Epterlijking svo ad skiliast, ad sa sie einaste Naunge, sem giører eins og þesse Samaritan, þad giører Frelsareñ bert, er hañ seiger: Hver Laun hafed þier þeſſ, ad þier elsked þa, er ydur elska, Giøra ecke Tollheimtu-Meñ hid sama? Matth. 5. Helldur er þesse Meiningeñ: Fyrst þesse Samaritan giørde þetta vid eiñ Gyding, þa far þu, sem ert Gydingur, og giør slijkt hid sama vid eiñ Samaritan, edur þiñ mesta Ovin, þviad hver ein Mañeskia er þiñ Naunge, nær hønum æliggur. Ut af þeſſu Tale DRottens, vil eg taka mier Orsøk til ad tala uñ Kiærleikañ, og hvad langt hañ eige ad naa.

Vert þu i Verke med oſſ DRotteñ, svo ad þetta vel luckest, AMEN.

## Utleggingeñ.

MArgar Dygder eru bodnar i heilagre Ritningu, og morgum hroosad, þo eingum meir eñ Kiærleikanum. Nu blijfa þeſſe Priu, Trweñ, Voneñ og Kiærleikureñ, eñ Kiærleikureñ er þo mestur af þeſſum, seiger Paulus, 1. Cor. 13. Petta er stoor Vitnisburdur af hønum, er svo var kiært til Ætt-Maña siña Gydingaña, ad hañ æskte sier ad vera wtrekeñ fraa Christo fyrer þeirra Skulld, Rom. 9. Hañ mun meint hafa, ef þad kyñe ad gagna þeim, og þad mogulegt være, þvi sijdarst i hinum 8. Capitula; Seigest hañ vera þess Fullviss, ad eingeñ Hlutur mune gieta skiled sig vid Kiærleika Guds, sem ad er i Christo JEsu: Eñ þvi hroosar hañ nu svo miøg Kiærleikanum fram yfer Trwna, aan hverrar hañ þo seiger, ad Omogulegt sie Gude ad þocknast, Hebr. 1. og ad fyrer hana verde Meñ hoolpner, aan Verka Logmaalsins? Pad velldur þvi, ad Trweñ er daud aan Verkaña, seiger Jacob Postule, Jac. 2. Hañ meinar aan Kiærleikans Verka sem þo af heñe framkoma, þvi Trweñ sijner Abl sitt hvad mest i þeim: Satt er þad, ad eingeñ verdur hoolpeñ aan þess, ad hañ trwe a Gud, og hañs Christ, og treyste þvi, ad hañ Endurkeyptur sie fyrer Guds Sonar Blood, eñ þvi gietur sa ecke trwad, til Saaluhialpar sier, sem er aan Kiærleikans, Paulus bijdur, ad Meñ skule reyna hvert þeir sieu i Trwñe; Eñ hvar med eiga þeir ad reyna þad, nema med Kiærleikanum, aan hvers Trweñ er eingeñ Trw? Svo sem Kiærleikureñ gietur ecke vered aan Trwareñar, svo gietur ei Trweñ aan Kiærleikans vered, þad vottar Paulus, 1. Tim. 1. er hañ seiger: Ender Logmaalsins er Kiærleikureñ af hreinu Hiarta

ta og goodre Samvitsku, og Trw Hræsnislausre. Logmaaled er Omøgulegt upp ad fylla, þad vottar Paall, er hañ seiger: Af Logmaalsins Verkum mun eckert Holld fyrer honum hoolped verda, Rom. 3. Po seiger hañ aptur i sama Pistle; Saa ed elskar añañ, sa hefur Logmaaled uppfyllt, Rom. 13. Hvad ber til þessa, Christner Meñ? Ad vijsu svarade Jesus Logvitringnum, er spurde hañ ad, hvert ed være hid mesta af øllum Bodordunum, Marc. 12. Hañ svarade honum: Hid ædsta allra Bodordaña er: Elska skalltu Drotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu, og af allre Saalu þiñe, og af øllu Hugskote þijnu, og af øllum Mætte þijnum, þetta er hid ædsta Bodord, og añad er þvi lijkt. Elska skalltu Naunga þiñ, sem sialfañ þig; Og i þessum tveimur Bodordum, seger Lausnareñ, ad foolged sie allt Logmaaled og Spaameñerner, Matth. 22. Eñ svo sem oss er Omøgulegt allt Logmaaled upp ad fylla, svo er oss þad og laangt um Megn fram, ad fullnægia þessum tveimur Bodordum, svo sem vera byriar, med vorum Tilverknade. Hvilijkur er þa saa Kiærleikureñ, sem er Logmaalsins Uppfylling? Pad maa eg fyrst og fremst hier til svara, ad þad er hañs Guddoomlegur Kiærleike, sem gaf sitt Lijf i Daudañ fyrer Syndarañ, Rom. 5. Svo hañ mætte lifa, 1. Joh. 4. Su Elskañ, sem vard honum svo sterk sem Daudeñ, og Vandlætingeñ svo hord, sem Helvijted, hin miklu Votneñ kuñu ecke ad utslockva þañ Kiærleika, og ecke Bylgiurnar ad kiesia hañ, seger Brwdureñ i Lofkvædenu, Cap. 8. Pesse Oumrædelege Kiærleike og Brune Elskuñar; Hañ er fyrst og sijdarst Logmaalsens Uppfylling, þad vottar Paulus, er hañ skrifar, Rom. 8. Pad sem ad Logmaalenu var Omøgulegt, af þvi þad veiktest fyrer Hollded, þad hefur Gud giort, sendande siñ Son i Lijkingu syndugs Hollds, og fyrer Syndena fordæmt Syndena i Holldenu; Eñ þott ad Giæska Guds hafe so yfergnæfst til vor i Christo Jesu, þar fyrer vill hañ ecke ad vier skulum Hlutlauser vera af Kiærleikans Verkum Jñbyrdis medal vor, þvi Johañes seger med berum Ordum: J þvi er Kiærleike Guds Auglijstur vid oss, ad hañ hefur giefed Saal sijna ut fyrer oss, Svo eigum og vier ad utgiefa Saalena fyrer Brædurnar, 1. Joh. 4. Elskañ til Naungans er Omissande, og aan heñar er eingeñ Riettnefndur Christeñ: Hver sem segest elska Gud, eñ hatar siñ Broodur hañ er eiñ Lingare, seger Johañes, þvi ef hañ ei elskar siñ Broodur, þañ ed hañ sier, hvernig maa hañ Gud elska, þañ ed hañ sier ecke? Og þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Læresveinar, ad þier elskest Jñbyrdes, seger Drotteñ sialfur, Joh. 13. Hier af vill þad fylgia, ad hañ sem ecke elskar siñ Broodur, hañ er ecke Læresveiñ Christi; Saa sem ecke er hañs Læresveiñ, hañ er ecke Christeñ, og hañ sem ecke er Christeñ, hañ hefur ecke Hlutdeild med honum: Med hverium þa? Med Vantrwudum mun hañ setia hañs Hlutskipte i þvi Dijke, sem vellur af Ellde og Breñesteine, jaa, med Dioflenum og øllum hañs Arum, þeir ed hata bæde Gud og Meñ: J einu Orde ad segia: Par er einkis goods Von a þeim Mañe, i hverium Kiærleikureñ ecke bijr; Jafnvel þott hañ sijnest giora nockud gott, kañskie til ad firra sig Vijtum, til Fordilldar sier, og til ad þyggia Hroos af Moñum, eins og Pharisæi giordu Olmusur sijnar: Par uñ tekur Paulus Tvijmæleñ af, er hañ seger, 1.

1. Cor. 13. Pott eg Bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Fatæka, eñ hefde ecke Kiærleikañ, þa gagnade mier þad ecke; Og hier þvert a moote; Hver sem Kiærleikañ i sier hefur blijfanda, hañ er til allra goodra Verka hæfur. Svo seger Johañes, Gud er Kiærleikureñ, og sa sem blijfur i Kiærleikanum, hañ blijfur i Gude, og Gud i honum, 1. Joh. 4. Þetta hefur sa Guds Madur aan Efa lært af sijnum Meistara, hver hañ elskade, þvi svo seger hañ blessadur hia sama Gudspiallamañe, Cap. 15. Sa sem blijfur i mier fyrer Kiærleikañ, og eg i honum, hañ ber mikeñ Avoxt, þvi aan mijn gieted þier eckert. Siaed hversu Omegulegt er aan Kiærleikans Gude ad þocknast, og hversu ad hañ er Saal allra Dygda og Mañkosta, þvi ef sa blijfur i Gude, sem i Kiærleikanum blijfur, svo sem strax var sagt, þa eru hañs Verk i Gude giord; Þvi seger og Paulus, Col. 3. Um̃ alla Hlute fram̃ þa hafed Kiærleikañ, þvi þad er Band Fullkomlegleikans. An Trwareñar er Omogulegt Gude ad þocknast, sem aadur er sagt, eñ soñ Trw er alldrei aan Kiærleikans, þvi maa eg svo kalla, ad þau sieu eins og Fader og Mooder allra þeirra Athafna, sem nockud eiga fyrer Gude ad gyllda.

Esajas skrifar svo um̃ Gud, ad Elldur hañs sie i Zion, og hañs Ofn i Jerusalem, Esa. 31. Teiknande þar med Guds Þioonustu i þeim heilaga Stad, hvar eñ Allra Hæsste hafde sett Miñing sijns Nafns, eñ su Dijrkan hefur Enda teked, Sool Riettlætesins hefur Skuggañ afmaad, Zion er Eydelogd, Jerusalem er uppbrend, og Gydingum sitt Hws i Eyde laated, Matth. 23. Þvi kalla eg ad nu bwe Guds Elldur, og hañs Ofn i Nya Testamentesins Mustere, sem er Riett-Christens Mañs Hiarta, hvar Gud hvijlest yfer Cherubim, yfer þeim Naadar-Stoolnum er hañ fram̃sett hefur i hañs eigeñ Bloode, Rom. 3. J einum glooande Anda, i eiñe lifande Trw, sem verkar med Kiærleikanum, þvi hun gyllder fyrer Gude i Christo, eñ hverke Um̃skurn nie Yferhwd, Gal. 5. J Elskuñe til Guds og Naungans, þad kalla eg hiñ Ævarande Elld, og sijfellt Offur; Þad nefne eg Guds Ofn i Mañsens Hiarta. Þesse Hofud-Dygd, Kiærleikureñ, er nu i morgu foolgeñ, og alla Um̃geingne vora upptendrar hañ til hiñs Gooda, ecke sijdur eñ Tungañ til hins Jlla, nær hun er upptendrud af Helvijte, svo sem Jacob ad Orde kienist, Jac. 3. Eñ Paulus hefur i stuttu Maale uppteiknad alla hañs Edles-Hattu svo merkelega, ad þad verdur ecke af syndugre Tungu betur giort, svo skrifar hañ, 1. Cor. 13. Kiærleikureñ er Poleñmoodur, seiger hañ: Alla Hlute þola Meñ fyrer þad, sem þeir elska. Hvad viña Meñ ecke fyrer Mune Veralldar þessarar, fyrer Audeñ, fyrer Metordeñ, til þess, ad fa Hefnd yfer Ovinum sijnum? Þad sama giorer Kiærleikureñ vid Gud og Naungañ, Guds vegna. Hañ er Goodgiarn, eckert maa hañ aumt siaa; Hañ er ad sijnu Leite eins lyndur og Gud, af hverium hañ er, 1. Joh. 4. Hañ giorer Gott ef hañ gietur bæde Vinum og Ovinum, Matth. 5. Kiærleikureñ Ofundar ecke, þad er aa moote hañs Natturu, ad siaa Offioonum yfer nockurs Mañs Velgeingne, sem ollum vill vel. Kiærleikureñ giorer ei Jllmañlega, Þad er, med odru Orde ad seigia, hreckvijslega; Hañ geymer eingañ vondañ Mañ, Ei talar hañ añad med Muñenum, eñ hañ hefur foolged i Hiartanu. Hañ þijtur ecke

upp,; Hañ er ecke Drambsamur, þviſa sem elskar eiñ, þañ vyrder hañ, eñ Kiærleikuren elskar alla, svo myked sem elska maa med Riettu. Hañ er ecke Osidsamur, þar er valla fraa ad seigia hvilijks Oþocka og Mañ-Haturs ad Vanskickuneñ ablar i Heimenum, og wtvortes Osider, jafnvel þoott sumum Moñum þyke lijted i Kurteisena spuñed, samt er hun þo optast Dygdaña Forunautur, og hun prijder þær, eins og fagur Bwningur Mañsens Alit, þetta vill ecke Kiærleikureñ sig vanta laata, svo ad eingum giefe hañ neina Hneixlan. Hañ leitar ecke epter þvi sem hañs er, þvi hañ leitar Almeñelegs Gagns hvad mest, og ecke svo miøg sijns eigeñ. Hañ er ecke Pwnglyndur, verde honum þad, ad hañ reidest, þa lætur hañ þo ecke Soolena undergaanga sijna Reide: Hañ þeynker ecke Illt, ecke aa hiaa honum heima þad gamla Ordtæke, Margur ætlar mig sig, og maatulega dyggvañ, nie hitt, ad Illur veit hvar Odyggur situr: Af þvi hañ ætlar eingum Illt, þa dylst hañ vid i fremstu Log, ad Hreckvijseñ mune ætla sier þad.. Hañ ber allt; Allt hvad honum er uppaalagt, þad ber hañ eins og Maattar-Trie i Hwsum, þau bera allt þad sem aa þau er lagt, hvadañ og Maalshaattur þesse dreigeñ er; Svo rijs hañ og under øllu, sem hañ maa umbera, Guds og þeirra vegna, sem hañ er hvad mest skylldugur. Hañ trwer øllu, hañ vill helldur trwa þvi, sem honum er saklaust ad trwa, helldur eñ ad væna eiñ Lijge ad Naudsynialausu, edur Osyrersynju. Hañ vonar allt, hañ Orvænter ecke um neiñ, ad ei kuñe hañ ad betra sig, þoott Ovænlegt meige um hañ þykia; Olijkur þeim sem ecke vilia neina Tilraun giøra vid eiñ, sem af einhverre Hrøsun verdur yferstijgeñ, eins og Gud sie ecke maattugur ad reisa hañ, og þess vegna lijdur hañ allt, hañ sparar eckert Polgiæde til ad bijda epter Betran þeirra, þar fyrer talar Salomon vijslega er hañ seiger, Prov. 10. Hatred uppvekur Þrætur, eñ Kiærleikureñ hylur Misgiørdernar. Hvad er nu lijkara Gude eñ þetta Hiartalag? Og þesser eru nu Kiærleikans Avexter, sem upp eru talder; Eñ sier i Lage vill Frelsareñ hafa kieñt med þessare Epterlijkingu Myskunsemena og Goodgyrnena vid sierhvern þañ sem Naudstaddur er, þvi hañ svarar hinum Skriftlærda uppaa Spurningu sijna; Hver þar være hañs Naaunge? Pad er aadur hier ad framañ sijnt, hversu ad Gydingar og Samarisker hafe hatast aa Iñbyrdis, og hveruger meintu adra sijna Naaunga ad vera; Eñ DRotteñ snart hier nockud biturt vid Kaun hiña Skriftlærdu og Phariseaña, þar ed hañ tekur til Dæmis i Epterlijkinguñe Presteñ og Levitañ; Pesser heiløgu Meñ, sialfer Gydingar, þeir geingu fram hiaa Gydingenum, þar hañ laa svo illa fareñ sem i Gudspiallenu seiger. Eñ Fiandmadur hañs, hverium einkis Gydings-Auga munde myskunad hafa, hañ giørde Myskunar-Verk aa honum. Hañ Saa Aumur A Honum, seiger Texteñ: Fyrst vaknade Kiærleikureñ i Hiartanu, svo eigum vier og lynder ad vera, þvi nema ad Goodgiørder vorar framkome af Gnægd Hiartans, þa eru þær Onijtar, þad er aadur vottad af Paals Ordum, er hañ seiger, 1. Cor. 13. Poott eg bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Faatæka, og hefde ecke Kiærleikañ, þa gagnade mier þad ecke. Og aptur bijdur hañ, ad Meñ skule giøra Gott, ecke af Naudung, helldur af fwsum Huga; Eñ hañ liet Goodgyrne sijna ecke alleina

eina vera foolgna i Medaumkuneñe, helldur brautst hun wt med Verkunum. Hañ Batt Hañs Saar, Hellte Par J Vijne Og Vidsmiore, med ødru fleira sem Textēn upptelur, og ei þarf framar ad uppreikna; Eñ i einu Orde vil eg þad seigia: Eingeñ Mooder hefde kuñad betur ad giora vid Barn sitt: Eingeñ Fader vid siñ einka Son, Eingeñ Brooder vid añañ, helldur eñ þesse Utlendingur giorde vid Ovin siñ i slijku Tilfelle. Far þu nu, Christeñ Madur, og gior slijkt hid sama, sem Heidinge þesse giorde: Elska ecke med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sañleika, 1. Joh. 3. Nær þu sier Broodur edur Systur nakta, og hafa Skort a Daglegre Næringu, þa læt ecke þiñ Kiærleika vera þar i foolgeñ, ad þu seger: Lifed heil, vermed ydur og metted ydur, eñ giefed þeim þo ecke hvad Lijkamans Naudþurft tilheyrer, Jac. 2. Þetta er Hræsne Eintoom, og þad mun eins lijted gagna Saalu þiñe, nær þu kallt fara eins nakeñ i burt ur Heimenum, og þu i hañ komst, svo sem ad þijn Fagurmæle gagnudu hinum Nakta og Hungrada, a medañ þu hafder Audlegd Heimsens: Þad er merkelegt, ad a hinum Efsta Deige, þegar Reikningureñ skal halldast, þa verdur oss þese Poostur sier i Lage fyrerlagdur, hvert Meñ hafa mettad hiñ Hwngrada, giefed hinum Þyrsta ad drecka, hijst hiñ Framanda, klædt hiñ Nakta, vitiad Siwkra, edur þeirra sem voru i Myrkvastofu, svo sem Frelsareñ kieñer oss sialfur hiaa Matth. 25. Cap. Og er þad ecke noog ad vitia þeirra, þad er eins gott og ad segia vid hiñ Nakta, klæd þig, og vid hiñ Hwngrada, mettast, eñ giefa honum þo eckert. Vor Vitinn aa i þvi ad vera foolgeñ, ad Hugsvala þeim, hiaalpa þeim med Raad og Daad, añars eru Meñ ecke betre eñ Prestureñ og Leviteñ; Þeir saau ad soñu hiñ auma Mañ, er hrasadur var medal Ræningia, eñ geingu fram hiaa honum. Jaa; Vier eigum ad hiaalpa þessum Krossberendum, jafnvel med Skada vorum, og þott vier meigum nockurs i þarfnast. Hier stendur i Gudspiallenu, ad Samaritaneñ hafe lagt hiñ saara Mañ uppa siñ Eyk. Lijkast er hañ hafe laated hañ sitia a Dijrenu eñ geinged sialfur; Þvi i Textanum stendur, ad hañ hafe sett hañ uppa siñ eigeñ Eyk, jaa, ef vier ecke berum Kuñaattu edur Vitsmune til ad hiaalpa þeim sialfer, þa eigum vier ecke ad spara til þess Fe-Mune vora, ad þeim meige hoolped verda; Þvi ef Johañes vill ad vier skulum giefa Lijfed wt fyrer Brædurnar, þa er þad vijst, ad hañ ecke vill ad vier þyrma skulum hinum Raanglaata Mammon, er oss mun þo yfergiefa i Daudanum, þvi þad stendur fast, sem Lausnareñ sagde: Ad alltijd er Lijfed meira verdt eñ Fædslañ, og Lijkameñ meir eñ Klædnadureñ, og meira hofum vier ecke af øllu þvi vier eigum, og a þetta ecke ad giora svo naumt, ad þeir sieu litlu nær, sem vid þurfa. Ecke var þesse goode Samaritan aanægdur þar med, ad koma þessum Vesæling til Maña-Bygda, helldur Gaf Hañ Giætur Ad Honum; Og Um Morguneñ Er Hañ Reiste, Feck Hañ Hwsboondanum Tvo Peninga, og Sagde: Haf Þu Gaat a Honum, Og Hvad Þu Leggur Meira Ut, Þad Skal eg Borga, Nær Eg Kiem Aptur. O! hvad morgum, þeim er sig Christeñ nefner, gietur Utlendingur þesse Kiñroda giort a þessum verstu og sijdurstu Tijmum, um hveria Drotteñ hefur talad hina soñu Spaa, ad sokum þess, ad Raanglæted vex, þa mune margra Kiærleike koolna,

Matth. 24. Eñ þessa Goodvilld eigum vier ecke alleina ad audsijna Naungum vorum edur Kuñinglum, þad sie eg berlega af þvi, er Frelsareñ sagde vid hañ, er honum boded ha'de, Luc. 14. Nær þu helldur Middags Verd edur Kvolld Maaltijd, þa biood ei Vinum þijnum, edur Brædrum þijnum, edur Aettmoñum þijnum, edur rijkum Naagroñum, svo ad þeir bioode þier aptur eñhvorn Tijma, og þad verde þier endurgollded; Helldur, nær þu giorer Heimbod, þa biood Faatækum, Vonudum, Holltum og Blindum, og muntu sæll verda, þvi þeir hafa þier ecke aptur ad giefa, þvi þad skal þier aptur gollded verda i Upprisu Riettlaatra, þar fyrer, ef þu Christeñ Madur ert, ef þu villt i þeirre Upprisu Hlutdeilld hafa, þa siaa til, ad þu næer Hlutskipte i hiñe fyrre, svo þu verder sæll, og fel þig ecke fyrer Hollde þijnu, þad er, fyrer þijnum Naunga, hver sem hellst hañ er, og nær þu sier eiñ Naudstaddañ, er þu hiaalpad gietur, þa laat svo sem hid sijdarsta Ludurs Hliood kvede fyrer Eyrum þier, og tak þad fyrer Bod fraa Gude, til ad miña þig a, ad giora Skylldu þijna med Kiærleikans Verke vid hiñ Naudstadda: Laat eingañ vera undañ skileñ, ho þier Opeckur sie; Gleymed ecke Giestrisneñe, seger Paall, þvi fyrer hana hafa sumer Einglana hyst Ovitande, Hebr. 13. Hañ meinar aan Efa Abraham, Gen. 18. Og vard honum þad ad mikille Blessan; Þu veist ecke hvorium Guds Pock er ad giora, eñ þad veistu, ad hañ þacka vill allt þad, sem i hañs Nafne giort og giefed er.

Framande var eg, og þier hystud mig seiger Doomare alls Hollds. Þu skallt ecke giora Ofrijke hinum Framande, þvi þu varst Framande i Aegyptalande, seiger Gud, Exod. 22. Þu skallt og huxa þad, ad þu ert Framande i hiñe vondu Aegypto, Verolldu þessare, J þeirre Leyr-Velltuñe, þvi Prælddooms-Hwsenu: J hiñe eylijfu Canaan er þitt Fodur-Land, þaangad aattu iñ ad gaanga til hañs Hvijlldar, þaangad at þig ad leida, ecke JEsus Sonur Nun, helldur JEsus Sonur Davids; Forsmaa ecke þa, sem hañ hefur med sijnu Bloode Endurleyst, er siaalfur Framande var medal siña Eigeñ, og hvad miñst vyrdtur aa siñe Fooster-Jordu fyrer þijna Skulld, sem varst Utlægur wr Himnarijke, og svo þu viter, ad þad sie ecke noog, ad giora hinum Framanda, edur Naudstadda eckert Mein, þa leggur DRotteñ siaalfur best wt sijn eigeñ Ord, þar hañ seiger, Lev. 19. Svo sem hiñ Jñlende, svo skal Utlendinguren vera, sa ed reiser um hiaa þier; Og eñ framar: Þu skallt ecke upptaka Leifar Korn skieru þiñar: Þu skallt laata þær epter hinum Faatæka, og hinum Utlenda, Levit. 23. Jaa, þier skulud elska hiñ Framanda, þvi þier vorud Framande i Aegyptalande, seiger hiñ Alvalde Konungur, Devt. 10. Ecke eru undañ þessare Skylldu Oviner þijner skilder, Guds Barn, helldur i heñe tilskilder, svo seiger DRotteñ, Exod. 23. Ef þu fiñur Naut Ovinar þijns, edur Asna Villuraafande, þa skalltu endelega færa þad til hañs. Vilie nu Drotteñ ad eiñ skule vera sijnum Ovin Skulldbundeñ i svo litlum Hlut; Hvad þa ecke, ef honum meira aaliggur, og þoott eckert være añad, sem kyñe ad hræra oss til ad giæta þessarar Skylldu vorrar, þa er hid algiorda og alkuñuga Logmaal Christi, er ritad stendur hiaa Matth. Cap. 5. Elsked Ovine ydar; Blessed þa er ydur formæla, og bidied fyrer

er þeim ed smæna ydur og offækia. Til hvers? Svo ad þier sieud Born Fodur ydar, sem a Himnum er, hver ed lætur Sool sijna upprenna yfer Riettlaata og Rangláta, og rigna yfer Vonda og Gooda. JEsus mætte hier diarft um̃ tala, hañ var i Guds Mynd, Phil. 2. Jaa, sialfur Gud, eylijfur Fader og Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Po lijtelæckade hañ sialfañ sig, takande Pioons-Mynd, vordeñ hlijdugur allt til Daudans, Jaa, allt til Krossens Dauda, sijdañ er hañ uppfareñ i Hædernar, og hefur Moñunum Gaafur giefed: Eñ hvilijkar Gaafur? Naad Guds og Vingan, Syndaña Fyrergiefning, H. Anda og eylijft Lijf. Hverium hefur hañ þessar Gaafur sendt? Ovinum sijnum, þeim sem hañ Hæddu, Fiotrudu, Hwdstrycktu, med Pyrnum Kornudu, og a Gaalgañ uppheingdu, ecke einasta þeim, er stoodu ad Verkenu, helldur og ollum odrum, hverra Synder ad Dijrdareñar Hertoga Krossfest hafa, þvi fyrer alla er hañ dæeñ, og ollum er Guds Heilsusamleg Naad framboden: Petta giorde hañ, sem er Lioome Fodursins Dijrdar, þegar allt Mañkyn var statt i hinu herfelegasta Volæde. Skamastu þiin þar fyrer, Syndareñ, nær þu sier Ovin þiñ hwngra, ad giefa honum ecke ad eta, edur þyrsta, og giefa honum ecke ad drecka, og nema þu svo giorer, þa þeink alldrei til þess, ad þu siert kvittur um̃ Synder þijnar fyrer Gude, þvi valla hefur Guds Ande i Nya Testamentenu lagt svo rijkt a vid Meñena um̃ nockurn Hlut, sem þeña. Aller kollum vier Gud vorn HErra, eñ ef hañ er vor HErra, hvar er þa hañs Heidur? Mal. 1. Hvar er Hlijdne su, er vier eigum honum ad audsijna? Pvi kalled þier mig Herra, og giored þo ecke þa Hlute, er eg bijd? Seiger Christur, Luc. 6. Hañs Bodord eru ecke þwng, seiger Johañes, eñ eg vil seigia, ad þetta er eitt af þeim liettustu, af þeim audvelldustu, fyrer þañ sem hugleider hvad lijtel sie Naungans Misgiord vid sig, hia þvi sem hañ sialfur hefur giort Gude i moot, og hversu þad er eckert, sem hañ gietur lidsint Broodur sijnum, hia ollu þvi goodu sem Gud hefur honum giort, og tekur hañ þad þo ecke af sijnu, helldur hañs, sem a allar Eigur. DRottେñ wtslock þu i oss Baal Illskuñar, og Heiptrækneñar, eñ kveik i oss Elskuna til þijn og Naungans; Pier sie Lof Dijrd og Heidur, um̃ Allder, Amen.

# Fioortanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 17. Cap.

I Pañ Tijma. Og þad skiede so þa ed JEsus gieck til Jerusalem, ad hañ ferdadest i giegnum midia Samariam og Galilæam. Eñ sem hañ gieck iñ i nockurt Kauptwn, mættu honum Tiju Lijkþraaer Meñ, Hvorier ad stoodu laangt fraa, Hoofu upp sijnar Radder, og sogdu: JESU goode Meistare, Myskuna þu oss. Eñ sem hañ leit þa, sagde hañ til þeirra: Fared þier og sijned ydur Kieñemoñunum. Og þad skiede so, þa er þeir geingu þadañ, ad þeir urdu

urdu hreiner. Eñ eirn wt af þeim, nær hañ ſaa þad, ad hañ var Heilbrigdur vordeñ, ſnere hañ aptur, lofande Gud med haarre Rauſt, fiell fram̃ a ſijna Aſioonu fyrer Fætur JEſu, giørande hønum Packer, og þeſſe var Samverſkur. Eñ JEſus ſvarade og ſagde: Hvørt veru ecke Tiju hreinſader? Eñ hvar eru hiner Niju? Funduſt aungver þeir apturſnere, ad giefa Gude Dijrdena, nema þeſſe Utlendingur? Og hañ ſagde til hañs: Statt upp og far hiedañ, þviad þijn Trw giørde þig Hiaalplegañ.

## Exordium.

HVerſu ſtoor ad ſie Mismunur Guds og Mañá, þad kañ eingeñ Twnga wt ad ſkijra, og eingeñ Hugur ad ſkilia: Hver Maña veit hvad Mañſins er, nema Mañſins Ande ſem i hønum er? Svo og hvad Guds er, veit eingeñ, nema Guds Ande, ſeiger Paulus, 1. Cor. 2. Eñ þo ad vor Naatturlegur Skilningur næe ſkamt til þeſſ, ad rañſaka Guds Underdiwp, þa kyñum vier þo a þeſſum Mismun nockud ſkijrare Grein ad giøra, ef vier legdum meire Hug a, ad ſamañbera hañs Almætte og vorn Vanmaatt, hañs Riettlæte og vort Ranglæte, hañs Vijsdoom og Faakiænſku vora. Eñ þo allra helſt hañs Poleñmæde og vora Pvermoodſku, hañs Giæſku og vort Opacklæte. Hañs Almætte þeckium vier ecke ſvo ſem þad er. Sitt Riettlæte ſijner hañ oſſ ecke ſvo opt, nema i Giæſkuñe, þvi velldur Nijkdoomur hañs Poleñmædis: Hañs Vijsdoom ſkyníum vier ecke, eñ hañs Langlundar Gied, hañs Giæſku og Myſkunſeme meigum vier hvad beſt þeckia, þvi hun er nij og ferſk yfer oſſ a hverium Morgne, Jørdeñ er full af heñe, a hverre vier ſkrijdum, Synduger Ormar, og meigum Daglega rekia þar hañs Spor, ſem driwpa af Feite. Eg ſkal ecke fullkomna mijna breñande Reide, Eg ſkal ecke tortijna framar Ephraim, þvi eg em Gud og ecke Madur, ſeiger Giæſkañ ſiaalf fyrer Muñ Hoſeæ Spaamañs, Cap. 11. Og þo vill Syndareñ ecke kañaſt vid þeſſa Guddoomlega Elſku, Myſkunſeme og Poleñmæde, jafnvel þoott hañ ſie Madur, þad er, ein Guſa, ein Vatns-Boola, og ecke Gud, og ecke þacka hønum edur kañaſt vid hañs Fødurlega Giæſku, margur hver, Jaa, Gud giæfe ad færre væru eñ fleire. Dæme hier uppaa ſiaaum vier i Textanum, a þeſſum Tiju Lijkþraau Møñum, ſem hreinſader voru, hverra eiñ alleina apturſnere, og gaf Gude Dijrdena, eñ hiner Niju gleymdu þvi ad Bragde er giørt var. Eg vil ſkipta Gudſpiallenu i Tvo Hlute, og Hugleida. 1. Opacklæte hiña Nijn. 2. Packlæte hiñs Eina. JESU Goode Meiſtare, hiaalpa oſſ hier til med Krapte þijns Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

ECke er Trweñ allra, ſeiger Paulus, 2. Teſſ. 3. Øllum er hun þo framboden ſem Orded heyra, þvi Heilſuſamleg Guds Naad er Opeñber vordeñ øllum Møñum, ſeger Poſtuleñ aptur, Tit. 2. Er hañ talar um̃ Chriſtne-Boded, i hveriu ad Trweñ er eitt Hofud-Sticke; Margur trwer um̃ Stundar-Saker, eñ a Freiſtingar-Tijmanum, þa fellur hañ þar fraa, ſvo ſem Lausnareñ kieñer hiaa Lucam, Cap. 8. Ad vijſu er þad ſatt, ad Freiſting merker optlega i Ritninguñe þær Hormungar, er Gud lætur Børnum ſijnum mæta, til ad reyna þau: Ydur hefur ecke hendt nema Mañleg Freiſtne, ſeiger Paulus, þad er Mootlæte þad ſem Møñum er bærelegt: Svo nefner og Jacob Mootlæte Guds Barna, Cap. 1. Eñ Gud Freiſtar Mañſens a Stundum med Epterlæte ſijnu: Pegar Gud liet David allt ad Oſkum gaanga, þa vard hañ ſvo freiſt-

adur, ad hañ talde Foolked, 2. Sam 24. Þegar Ezechias Konungur hafde Lucku i ollu sijnu Verke, þa freistadest hañ til ad sijna Babylons Hofdingia Sendemoñum Fiaar=Sioodu sijna og Gersemar, 2. Cron. 32. Svo ad þad maa allt syndugt Holld jaata, ad ecke er miñe Freistinga Von i Medlætenu eñ i Mootlætenu, svo sem Mootgaangureñ steyper sumum i Orvænting, svo þurfa og sterk Bein til ad þola gooda Daga. Morgum hefur Velgeingneñ komed til Ohoofs, til Osmetnadar, til Oþacklætes vid Gud, og jafnvel til Afgudadijrkunar, Jaa, þeim og sem Gud hafa aadur vel þeckt, og hañ wr Duptenu hafed hefur, eñ sett til mykillrar Tignar, hvar um lioost Vitne bera Jeroboam og Jehu Israels Konungar, sem ecke voru Kongborner, eñ Gud þo upphoof aa Tignar=Stool Drottna siña. Ecke verdur þvi neitad, ad aller þesser Lijkþraau Meñ, þeir hafa i Fyrstuñe trwad aa Christ, þvi upphoofu þeir Radder sijnar, og sogdu: JEsu Meistare Myskuna Þu Oss, Þad hefdu þeir ei giort, nema þeir hefdu heyrt Rikted af DRottne, og treyst þvi, ad med honum være Guddoomlegur Kraptur: Er eg Gud saa ed kuñe ad deyda edur lijfga, sagde Israels Konungur, þegar Konungureñ af Syria sende Naaman hiñ Syrlendska til hañs, þad eg giete hreinsad þeña Mañ af siñe Lijkþraa, 2. Reg. 5. Hvar af audsært er, ad þad hefur vered ad jofnu lagt i þa Daga, ad lækna þessþaattar Siukdoom, og ad uppvekia af Daudum, sem er Guds alleina, svo sem David vottar, og er þvi audvitad, ad þesser veiku Meñ hafe til lagt Frelsaranum nockurskonar Guddoomlegañ Heidur, þott ei hafe þeir vered Sañfroder um hañs Persoonu, samt dugde þesse Trw til Lijkamans Lækningar. Drotteñ læknade þa ecke strax, eins og hiñ Lijkþraa, er gietur um hiaa Matth. 8. Cap. Vid hvern hañ snart og sagde: Eg vil vertu hreirn; Helldur sagde hañ alleina: Fared Og Syned Ydur KJeñemoñunum, og aattu þeir þo laanga Leid til þeirra wr Samaria upp til Jerusalem, eñ a Leideñe hafa þeir hreinsader vorded, þvi Gudspialled seger: Og Þad Skiede Er Þeir Voru A Ferdeñe, Ad Þeir Hreinsuduft. Þetta sijner Trw þeirra, ad þeir efuduft ecke um, ad giora Frelsarans Skipan, helldur i Trauste hañs Orda byriudu Ferd sijna til Kieñemañaña, sem epter Logmaalenn aattu ad dæma um hvert þeir væru hreiner edur ei. Olijker voru þeir i þessu morgum þeim, er ei vilia Gude treista, verde þeir ecke strax Bænheyrder, um þa Hlute er þeir þurfa þykiast. Vantrweñ seger: Þott Gud giorde Glugga a Himeneñ, þa kañ ecke þetta ad skie, hun skijtur sier iñ jafnvel hiaa Guds Bornum, og Predikar; Hvar faaum vier Braud hier i Eydemorku svo ad þesser neyte, Marc. 8. Hvad tijtt hender oss þvillijkt nær oss þyker eitthvad Olijklegt? Og er margur af oss i þessu miog Olijkur þessum Lijkþraau Moñum; Eñ i hinu erum vier þeim nærsta lijker, ad þegar Drottens Almaattuga Hönd hefur wtryckt oss af Neydeñe, þa erum vier þess svo skammiñuger, og hañs Otte er valla leingur hiaa oss eñ Sniooreñ a Steinunum, þegar Regned Ofañ kiemur, svo sem Spaamadureñ seger; Og hvad er tijdara eñ þad, ad nær Angisteñ þreynger ad oss, ad vier þa kollum til Drottens, þa er vort Siñe til hañs, svo sem Esajas ad Orde kiemst: Cap. 26. Hver er sa, nær hañ siukur er, edur af einhverium Lijkamans Meinum plaagadur,

adur, ad ecke sie hañ reidubueñ til ad giefa Gude Handskrift sijna, ef hañ mætte, uppa Betran Lijfernesins, og ad hañ vilie læta af ollum þeim Syndum, er hañ veit og vidkañast, ad hañ hafe hiñ gooda Gud stygdañ med? Petta er ad vijsu Alvara flestra Mañna, þvi eingeñ hygg eg ad vilie gabba Gud, þegar svo æstendur: Asetningureñ er ad sönu goodur, og geingur þad fyrer fullt, ef Gud lætur eiñ burtkallast i Siwkdoomenum; Eñ þa er Efndaña vant, þegar Heited er komed, seger Ordtæked, hverneg þeim sie vared a Stundum, þad siaum vier af þeim morgum sem hætt hafa leiged, eñ Guds Poleñmæde og Giæska hefur aptur a Fætur reist, ad þeir lifa eingu betur sijdañ eñ adur, nema midur sie a Stundum, og læta jafnvel ecke af þeim Lostum, er vered hafa Orsok til Meinlætis þeirra, edur aňars Mootgaangs, og brwka svo Myskun Guds til Eblingar Syndaña, svo laangt er fra þvi, ad þeir læte Rijkdoom hañs Poleñmædes draga sig til Yðrunar, Rom. 2.

Meñ hafa a medal vor eina Skrok-Sogu uñ Barn nockurt, þad er fiell i Pitt, og er þad meinte sier Dauda-Von, beidde þad Gud ad hiælpa sier til Lijfsens, eñ er þad slapp wr Dijkenu upp a Backañ, þa seiger Æfeñtijred, ad Barned hafe sagt: Ecke þarftu, eg gat; Einfalldleg er Saga þesse, eñ þo er hun mæatuleg til þess, og þar til mun hun diktud vera, ad giora þeim Kiñroda, sem eru Born i Skynsemeñe, eñ ecke i Hreckvijseñe, 1. Cor. 14. Og leita Guds alleina nær þeim æliggur; Eñ añadhvert þacka sier, edur gialldа honum litlar Packer, nær þeir sloppner eru wr Vandrædunum; Petta er Almeñara, eñ Vitne þurfe til ad leida, Jafnvel hia þeim, sem hvad best ættu ad vita sijns Herra Vilia, Luc. 12. Og odrum ad vera til Epterdæmis, er þo mættu Ottast fyrer hinum flestu Slogum, nær Mæler Syndaña er uppfylltur. Til eru þeir sem meina, ad Prestarner hafe umsnwed þessum Niju Gydingum, og taled þeim Trw þar uñ, ad JEsus hefde ei giort Jarteikn þessa af Guds Krapte, og þvi hafe þeir ecke aptur horfed. Alls var ad sönu Ills Von af þeim i þa Daga; Sierdeilis þegar Christur ætte Hluteñ ad, og var ecke Olijkt þvi er hañ mætte heyra, ad fyrer Belzeebub ræke hañ wt Dioflana, Luc. 11. Pad gietur og skied, ad þeir hafe talad þetta fyrer Gydingum, Londum sijnum, eñ ecke hyrdt svo miog uñ hiñ wtlenda Mañ: Peim hefur þad i eingu Rwme leiged, þoott hañ snere aptur til hañs, er þeir kolludu Samariskañ og hefde Diofuleñ, Joh. 8. Eñ Gætu þessarar er eingeñ Þorf; Holld og Blood er noogu bañvænt til ad vekia i oss Syndena, og ad letia oss til ad giora Gude Packer fyrer Myskun sijna, er þo Daglega uppreñur yfer oss Rææglæatum æ hverium Morgne. A medañ þesser veiku Meñ lau under Krossenum, þa voru þeir gooder Viner, og aller i einum Flocke, eñ þegar DRotteñ hafde giefed þeim ollum Heilsuna aptur, þa koñudust hiner Niju vid þad, ad þeir voru Gydingar, eñ hiñ Samverskur, þvi ecke villdu þeir verda honum samferda i Apturhvarfenu til Frelsarans; Pañveg er vort Packlæte vid Gud, er hvad mest hefur boded ad dijrka sig med Kiærleikanum, Myskunsemeñe og Eindrægneñe. Pegar Skeinkiare Pharaonis hefur naad aptur sijns Herra Gunst, þa gleymer hañ Joseph, þvi hañ var Utlendur; Pegar Skullda-Prioötureñ, sem ætte

10000

10000. Pund ad giallda, þegar hañ er wtgeingeñ fra Hws-Fodurnum, sem gaf honum upp alla Skulldena, þa griipur hañ fyrer Kverkar siinum Verka-Naut, er honum var myklu miña skylldugur. Svo geingur þad til fyrer morgum af oss; Hafe Gud upphafed eiñ Vesæling til Heidurs, til Riikdooms, til Embættis, þa vill hañ ecke kañast vid Brædur siina, er komu ædur voru hañs Jafningiar, og kañskie hofdu giort vel til hañs. Þegar hiñ Almættuge hefur lagt einhvern under Liima med nockru Mootlæte, añadhvert Heilsu-Breste, Fie-Missu, Ofbellde og Offooknum vondra Maña, er hañ liidur ad sliwga æ suma, sem miñe Mættar eru, til ad typta einhvern, eñ læted hañ þo rata wr þessu, og sett hañ aptur i siñ Stad, þa stiingur hañ bæde Augun wt, og vill ecke myskuna honum, sem hañ þo sier, ad mæ liida hid sama, sem hañ mætte þola, og Gud hafde agad hañ med, til ad þeckia Vanmætt siñ, og Skaparans Giæsku, og þegar hañ sier Ovin siñ, er hañ þykest eiga Heipter ad giallda, þa seiger hañ med siælfum sier: Eg skal giora honum, svo sem hañ mier giorde: Svoddañ er hid mesta Oþacklæte. Voru Ecke Tiju Þeir Ed Hreinsader Voru, Eñ Hvar Eru Þa Hiner Niju? Seiger Endurlausnareñ i Gudspiallenu. Betra hefde þessum Oþacklætu Moñum vered, ad Siwkleike þeirra hefde fylgt þeim iñ til Daudans, eñ ad þeir yrdu heilbrygder æ Liikamanum, eñ fyrer Vanbrwkun DRottens Giæsku, æ Sæluñe Vanheiler. Þeir skildu sig fra þessum wtlenda Mañe i þvi, ad þeir sneru ecke aptur til siins Læknara, og siindu þar med, ad ei væru þeir af hiñe Osiinelegu Guds Kyrkiu, þoott ad þeir væru Limer hiñar Siinelegu; Svo vil eg seigia: Ad þeir, sem eg hier ad frarmañ hefe talad um, er vilia fræskilder vera Christi Limum, og ecke þeckia þa, þeir eru Stallbrædur þessara Oþacklætu Maña, og ecke Limer æ hañs Liikama, sem er Hofud Safnadarens, og ecke einasta gieck kriing, giorde Gott og grædde alla, helldur og leid fyrer Ovine siina, Jafnvel þa, er hañ siælfer kvoldu. Vier vorum til forna wtlender, æn Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Borgar-Riette, svo sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Hvert ad þesser Niju Gydingar hafe nockurn Tiima aptur næd siñe Andlegre Heilbrygde; Þad veit hañ eiñ, sem alleina veit Tolu siña Utvaldra Barna: Eñ stæum vier til, Utlendingaña Syner, ad vier helldur liikinnst þessum Utlending, helldur eñ Abrahams Sonum þessum, epter Holldenu, svo ad Spædoomur Frelsarans mætte rætast a sierhverium af oss, þar hañ sagde. Marger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, eñ Riikesins Syner munu wtrekner verda i hin ytstu Myrkur, Matth. 8. Vier erum ad soñu komner i stadeñ Gydinga. Svo sem ad Drotteñ wtrak Heidingia fyrer þeim, vegna Synda siña og Stoorglæpa, so hefur hañ wtreked þa fyrer oss sokum Hardydgis þeirra og Vantrwar, þeir eru afbrotner, eñ vier iñplantader, svo sem Paulus ad Orde kiemst, Rom. 11. Eñ Gud giefe, ad fleire eñ eiñ Samaritan fiñest a medal tiju Israels Maña, þad er þeirra, sem eiga ad vera, og kalla sig Abrahams Syne epter Trwñe. Diogenes Spekingur var eitt Siñ adspurdur, hver Hlutur ad mest fyrntest a medal Mañaña, eñ hañ svarade; Þad væru Goodgiordernar, þvi mæ ei neyta, ad hañ sagde satt, Dagleg

 Reinsla

Reynsla kieñer þad: Eñ hverneg sem þessu er vared a medal vor Maña Iñbyrdis, þa ætla eg þo, ad Velgiorningar Drottens, og Packlæted fyrer þa, þau eige hiñ skiemsta Alldur hiaa sumumhverium, og eg maa segia, hiaa allmorgum: Par uñ hygg eg þad satt sie, er hiner Spoku segia: Ad sumer vanþacke þess meir, sem þeir meira skylldugar eru, sokum þess, ad vier siaaum hver aña, og þar sem oss er eitt siñ Gott giort, þadañ væntum vier meira, þa laatunst vier þacka Moñunum, ecke svo af Hiarta sumerhverier, svo sem til ad orsa þa til, ad hallda aafram Goodvilldeñe, þad siest a stundum, nær þeir eru i einhverium Prautum stadder, sem hvad best hafa til vor giort; Eñ Fodur Liosaña, fraa hverium ad kiemur oll good Giof, og oll fullkomeñ Giof, Jac. 1 Og allt hvad fraa Moñunum kiemur, þad kiemur i fyrstuñe fraa Gude; Honum þacka Meñ svo lijtt, af þvi vier siaaum hañ ecke, eñ þreifum þo a hañs Giæsku, hañs Velgiorningum og Daasemdum, hvern Dag, hvern Tijma, og hvert Augnablik; Og skal þad nu svo vttalad uñ þad Fyrra.

Nu er sijdañ ad tala uñ Packlæte Utlendingsins, og hvad vier eigum af þvi ad læra. Drottningeñ af Sudre mun upprijsa og fordæma þessa Kynslood, sagde Lausnareñ, Matth. 12. Hun var Framande, og þo daadest hun svo ad Speke Salomonis, ad Lausnareñ hroosar heñe i þessum Ordum: Eñ oll Salomonis Dijrd var lijtel ad reikna hiaa þessu Kraptaverke DRottens, þvi maa eg þad seigia, ad þesse Utlendske Madur mun gieta kieñt morgum Atferd Packlætesins vid Gud, fyrer medtekna Velgiorninga. Hverneg giorer hañ þad? Gudspialled seiger: Hañ Hafe Prijsad Gud Med Haarre Roddu. Lof seig þu Ønd mijn DRottne, og allt hvad i mier er hañs H. Nafne, seiger David, hvar af siaa maa, ad hañ vill ad aller Partar Skapnadar vors skule Gud losa, aa medal hverra ad Rausteñ er ecke hiñ miñste. Alla Hlute hefur Gud giort sier til Dijrdar, og til vorrar Saaluhiaalpar; Oskande være, ad Meñ brwkudu þa þar epter. Hvad opt bijdur David, ad Meñ skule Gude Lof sijngia? Moyses saung Gude nyañ Lofsaung, Maria Syster þeirra Aarons gieck wt og prijsade Gud med Bumbum og Hlioodfærum, þegar Gud hafde giort hina stooru Endurlausn sijnu Folke af Egyptalande, Exod. 15. Svo er þad eñ nu hiaa oss bæde skipad og Veniulegt, ad prijsa Gud med Psalmum og Lofsaungvum, epter Paals Bode, Col. 3. Ecke sege eg, ad þesse Samaritan hafe kveded vid Raust; Eñ þetta, ad hañ Prijsade Gud Med Haarre Roddu, þad miñer mig þar aa, ad vier laatum Lofsaungva vora ecke alleina vera foolgna i Hlioodunum, helldur þar med i Gudrækne Hiartans, þvi hier stendur, ad hañ hafe Prijsad Gud, af hveriu audsært er, ad Hugur hefur Maale fylgt. Ecke verdur DRotteñ med þvi prijsadur, ad naalgast hañ med Vorunum, ecke helldur med Rausteñe alleina, hversu sem hun fogur er, hañ vegur Hiartad, sem er Hiartnaña og Nijrnaña Rañsakare, giæte þeir þess, er fara med Andlegar Vijsur og Psalma, alleina ad Gamne sier, brwka þær fyrer Øl-Vijsur, edur til añars Giaalijfis, hygge Meñ ad, hvert ecke er i þessu nockur Gudlastan: J þetta mun þykia lijted spuñed, þvi þad er Allment, eñ Gud lætur ecke ad sier hæda, þoott Ordeñ sieu good, þoott Dycktureñ fallegur,

ur, þoott Rausteñ sie væn, þa eru soddañ Lofsaungvar ecke añad eñ Nyt fyrer utañ Kiarna, Sky fyrer utañ Regn, og meir til þess ad styggia Gud, eñ ad priisa hañ, Vilie Meñ þvi siingia Gude Lof, edur priisa hañ med Roddu siñe, þa siingie Meñ eins og Paulus og Silas i Fangelsenu, Act. 16. Eins og Guds Mooder, eins og St. Paall um̃ sig seger, 1. Cor. 14. Eg skal siingia med Andanum; Eg skal og siingia med Hugskotenu, þad er, eg skal læta Hug Maale fylgia, æn þessa er Rausteñ Ouijt til ad priisa Gud; Miklu betur lætur Pogn Moysis, er hañ hroopade til Guds, Exod. 14. Eñ ecke gietur um̃, ad nockur hafe sied hañs Varer bærast, miklu betur þeigiande Græatur Auñu Mooder Samuelis, og miklu betur Trw og heimugleg Andvarpan hiñar Bloodfallsiwku i hañs Eyrum, sem Eyrad plantad hefur. Hañ Fiell Til Foota Jesu, seger i Gudspiallenu: Þetta var hid mesta Audmyktar Merke: Ad soñu plogudu Gydingar ad bidiast fyrer standande i Samkunduñe. Tollheimtumadureñ stood og badst fyrer, sama giorde Phariseiñ, þvi seger og Lausnareñ, Marc. 11. Nær þier standed og bidiest fyrer, þa fyrergiefed, ef þier hafed eitthvad æ moote nockrum, svo bijdur og Paulus, 1. Tim. 2. Ad Meñ skule upphefia heilagar Hendur, þo var þad Sidur Gydinga, nær þeir sier i Lage villdu audmijkia sig, ad þeir kostudu sier flotum fram fyrer Gud: Pañeñ giorde Josua, Jos. 7. Svo breytte David, og siælfur Frelsareñ i siñe mestu Angist. Audmijkteñ geingur undañ Vegsemdeñe, seger Salomon, Prov. 15. Eingeñ Hlutur er Gude þægare, eñ eiñ audmiukur Ande. J vorre Audmykt miñtest hañ a oss, seger David, Ps. 136. Jæ, hañ lijtur a Tal hins Audmiuka, og forsmæer ecke hañs Bæn, seger hañ eñ aptur, Ps. 101. Hversu vel þocknadest Gude Audmijkt Abrahams, er hañ sagdest vera Dupt og Aska, Auñu Hwsfrw Elkanæ, Gedeonis, er hañ sagdest vera hiñ Minste i sijns Fodurs Hwse, Jud. 6. Þad stendur fast sem Salomon skrifar; Hinum Dramblæta fylger Nidurdreped a epter, og þañ sem audmiukur er i Anda, muñ Vegsemdeñ upphefia, Prov. 29. Og þvi skyllde Mañeskiañ ecke audmijkia sig fyrer Gude? Eiñ Syndare fyrer hinum Heilaga; Eiñ Ormur fyrer Konunge Himens og Jardar; Eiñ Skullda-Prioottur fyrer þeim er Daglega uppgiefur honum svo morg Tiju Þusund Punda, hvers Giæska ad er hærre eñ Himeneñ, hvers Reide ad breñur allt til nedsta Helvijtis yfer hinum Dramblætu, hver ed Volldugum hrinder af Stoole, eñ lijtelætum giefur hañ Naad; Og hversu eru Meñ ecke audmiuker i añara Maña augsiju, jafnvel a Stundum fyrer eiñ Bita Brauds; O! hvilijk Lotning ber þa honum, sem Daglega upplijkur siñe milldu Hende, og sedur allar lifande Skiepnur? Giorande Honum Packer, seger i Textanum. Þesse framande Madur hafde ædur sijnt Drottne Gudlegañ Heidur, þar hañ fiell til Foota honum, hvad Gude alleina tilheyrer, jafnvel þott sumer Veralldar Hofdingiar hafe læted sig svo Tigna, einkum Persaña Konungur i Fyrndeñe, þvi ecke villde Eingilleñ taka slijku af Johañe; Er hañ sagde: Siæ til ad ei giorer þu þetta, tilbid þu Gud, Apoc. 19. Nu fyrst hañ þeckte hañs Guddoomlegañ Krapt og Valld, þa offrar hañ honum Packargiordeñe. Svo sem eingeñ Hlutur meir stygger Gud eñ O-

þacklæted, hvar um̃ ædur er nockud talad; Svo er og Þacklæted hañs kiæraste Skattur, og snart ad segia, sa einaste, af Moñunum, þvi ad þesse Skyllda a ad sijna sig i öllu þvi, er vier leitunst vid ad giora Gude til þocknunar, þar fyrer seger Paulus: Allt hvad þier giored med Orde og Verke, þad giored i Nafne JEsu Christi, og þacked Gude og Födur fyrer hañ, Col. 3. Þacklætenu er svo vared, nær þad fram̃kiemur af Elskuñe til Guds, og trwudu Hiarta, ad þad ecke einasta gielldur Gude undañfarnar Velgiorder, þvi añad heimter hañ ecke, helldur og bijdur ödrum heim af hañs Myskunar Hende; Ecke þrijtur hiæ hönum, ef oss þrijtur ecke þad sem hañ hefur æ oss skiled, og syndugum Mañe er hægast wte ad læta, sem er audmiukt Þacklæte.

Et eg nockud Kiot hiña sterku Uxaña, edur dreck Blood Hafraña? Seiger Gud fyrer Davids Muñ, Ps. 50. Offra þu DRottne Lofgiordeñe, og gialld hinum Hæsta þijn Heit, og er Mañeskiañ næsta Hyrdu lijtel um̃ sijn eigeñ Efne, ad hun ecke skule leggia allañ Hug æ þetta, þar Gud krefur svo lijtels Hlutar af heñe, i hveriu heñe ecke einasta eru eingeñ Utlæt, helldur er þad i siælfu sier hid mesta Yndæle, þeim sem vordeñ er eiñ Ande med Gude, þad er sa Fögnudur i Heilogum Anda, sem vier eigum ad byria hier fyrst i Guds Nædar-Rijke, eñ sijdañ skal fullkomnast i Dijrdeñe, þegar þad tekur Enda sem Hälfverked er, þvi þad mun i hiñe eylijfu Sælu verda hid mesta Epterlæte Guds Barna, ad losa hañ og þacka hönum fyrer allar hañs Dæsemder og Velgiörninga, hveria vier þa fyrst þeckium, svo sem vier þeckter verdum, eñ hier ecke nema svo sem fyrer Speigel i Næd-Gætu, 1. Cor. 13. Nu er þad ecke noog, ad Meñ giore Gude Þacker med Muñenum alleina, Hiartad æ med ad fylgia. Hversu iñelegar Þacker ad Madur þesse hafe giort Frelsaranum, þad sijna oss Ord DRottens, er hañ sagde; Þijn Trwa Giörde Þig Hoolpeñ. Og ecke einasta æ Þacklæted ad fram̃koma af Hiartanu, þad er liett fyrer þañ, sem Hugleider, ad hañ er Gude um̃ Sæl og Lijf skylldugur, ad þacka Gude af Alvöru, helldur æ og Gnægd Hiartans ad briootast wt med Verkenu i Betran Lifnadarens, i Jdkun hiña bestu Dygda og Mañkosta, og öllu þvi er vier Gude þocknanlegt vitum vera, þad bijdur Paulus, er hañ seiger: Epter þvi Christur er dæeñ fyrer alla, þa er þad Riettvijst, ad vier ecke framar skulum lifa siælfum oss, helldur hönum sem fyrer oss er dæeñ, 2. Cor. 5. Eñ þo æ þesse Vidurkieñing Guds Giæsku hvad mest ad læta siæ sig i Myskunar-Verkunum, vid þa sem bera DRottens Kross. Frelsareñ sæ Aumur æ þessum veiku Moñum, og læknade þæ; Gior slijkt hid sama, vert Myskunsamur, svo sem hañ var Myskunsamur, og nær þu sier þvilijkt eitt lifande Hræ, þa huxa til þess, og læt siæ þad i Giörningnum, ad þu vidkañest, ad þu ert i Skijrneñe hreinsadur, af hiñe Andlegu Lijkþræ Syndeñe, sem er öllum Siwkdoomum skiædare. Miñ HErra JEsu; Eg hefe ecke Glede af nockurs Mañs Hörmungu, nema þiñe; Hvar fyrer? Þviad allra Maña Harmkvæle eru Straff Syndareñar, eñ nær eg sie, ad þeir eru typtader, eñ eg em heill og hraustur, þa kiemur mier i Hug, ad eg hefe hid sama forskulldad; Eg, sem ad er hiñ meste æ medal Syndaraña; Eñ þegar eg ælijt þijnar Hörmungar, DRotteñ miñ, er þu ecke hafder forskulldad,

forskulldad, eñ leidst þo Saklaus miña vegna, þa stend eg upp med þessium Utlending, þa hressest Hugur miñ, þar eg trwe, ad mijnar Jllgiørder sieu þar fyrer kvittar, ad Gud hefur lided i Holldenu; Svo Giorer Mijn Trwa Mig Hoolpeñ, og þess fullorugg-añ, ad þiñ himneskur Fader hefur kastad Syndum mijnum i Haffsins Diwp, svo þeirra Miñing kome ei upp ad Eylijfu. Þier med hønum, asamt Heiløgum Anda, sie Vellde og Kraptur, Dijrd og Heidur, uñ Allder Allda, Amen.

# Fimtanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 6. Cap.

A Þeim Tijma. JEsus sagde til siña Lærisveina: Eingeñ kañ tveimur Herrum ad þioona. Añadhvert hañ afrækir þañ eina, og elskar hiñ añañ, eda hañ adhillest þañ eina, og fyrerlijtur hiñ añañ. Eige gieted þier Gude þioonad, og Mañona. Þar fyrer seige eg ydur; Vered eige Hugsiwker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta og drecka, og eige helldur fyrer ydrum Lijkama, hvøriu þier skulud klædast. Eda er ecke Lijfed meir eñ Fædslañ, og Lijkameñ meir eñ Klædnadureñ? Lijted a Fugla Himens, þeir ed hvørke saa nie uppskiera, og ecke helldur safna þeir i Korn-Hlødu, og ydar Himneskur Fader hañ fæder þa. Eda erud þier ecke miklu framar eñ þeir? Eñ hvør ydar gietur med siñe Ahyggiu auked eirnre Alen vid sijna Leingd? Og hvar til erud þier Hugsiwker fyrer Klædnadenum? Hygged ad Akursins Liliu Grøsum, hvørneñ þau vaxa, þau viña ecke nie spiña; Eñ eg seige ydur, þad Salomon i allre siñe Dijrd, var eige so skrijddur sem eitt af þeim. Og ef Gud klæder so Grased þad i Dag er a Akre, og a Morgun verdur i Ofn kastad; Skyllde hañ ecke miklu framar þad sama vid ydur giøra, O! þier Lijteltrwader? Þar fyrer skulud þier ecke Hugsiwker vera, so seigiande: Hvad eigum vier ad eta, eda hvad eigum vier ad drecka, eda, med hvøriu eigum vier ad klædast? Þviad epter þessu øllu leita Heidnar Þiooder. Og ydar Himneskur Fader, hañ veit ad þier þurfed alls þessa vid. Þar fyrer leited fyrst Guds Rijkes, og so hañs Riettlætes, og mun ydur allt þetta til-leggiast. Fyrer þvi skulud þier ecke Ahyggiu bera fyrer Morgundeigenum, þviad Morgun-Dagureñ mun fyrer sialfum sier Umhyggiu bera. Hvørium Deige næger sijn Pijning.

Exordium.

þott

ÞOtt ad Hungur vor sie hin Daasamlegasta Skiepna Guds under Sooluñe, þa gietur hønum ecke tvijskipt vorded, til ad rækia þa Hlute, sem Gaguſtæder eru hver ødrum, ſvo er hañ kreinktur af Spillingu þeirre, sem vier epter Adam erfdum, Eñ aadur eñ Vondskañ iñkom i Heimeñ, þa var eckert Gude Mootſtædelegt, allar Skiepnur hlijddu hønum, þad var allt harla gott, er hañ skoop, Illskañ ein er hønum Ohlijdeñ, og þeir Hluter, sem af heñe framkoma, hverra Høfutdur ad Diøfulleñ er, og hañs Þienare hiñ Gudlause Heimur þesse. Medal Guds og hañs, er Eilijfur Fiandskapur stadfestur, sijdañ hañ var wt wr Himnenum rekeñ, Svo er og Heimureñ, þvi seiger Jacob, Cap. 4. Hañ, sem er Heimsins Vinur, hañ giørest Guds Ovinur: Hægra er Vatne og Vidsmiøre samañ ad blauda, eñ þessa ad forlijka; svo ad hverugs Þienarar gieta añars vered, þad vill Frelsareñ kieña oss i upplestur Gudspiallſ, er hañ seiger: **Ad eingeñ kuñe tveim Herrum ad þioona, og ad vier gietum ecke under eins, þioonad Gude, og Mañona.** Þetta Ord MAñona, þijder Abata, epter sumra Vijsenda Maña Utleggingu; Eñ allskonar Nægter og Fullsælu Fiaar, epter sumra: Hun er ad søñu stoor Guds Gaafa, nær hun er af hønum þeigeñ, og ecke af Fiandanum edur ad hañs Raadum wtvegud, brwkud edur medfareñ, þvi seiger Frelsareñ ecke: ÞJer KUñed EJge GUde Ad ÞJoona, og þo leita Næringar ydar i Sveita ydar Andlitis, edur taka vid þvi, er Gud vill laata ydur i Skaut falla: Ecke helldur seiger hañ: Þier Kuñed Ecke GUDE Ad ÞJoona, og Rijker ad vera: Margur Abraham, Isaac, Jacob og Joseph, ecke einasta hañ, sem var Forvista Ægyptalands i Tijd Pharaonis, helldur og hiñ af Arimathia, er DRottin groof, þeir hefdu vered wtrekner wr Þienustu hiñs stoora Konungs Himens og Jardar, ef svo være, helldur søkum þess, ad Audureñ er Gud Veralldar þessarar, og hañar Børn leita hañs framar, Eñ GUds Rijkis Og Hañs RJettlætis, þa vill Frelsareñ kieñt hafa i Predikun þessare, ad Omøgulegt sie baadum ad þioona, og þad Ord er hier i Textanum stendur, Ad ÞJoona, þad merker ad vera aanaudugur Þræll einhvers. Nu þarf einga adra Røksemd til þess ad sijna, ad þessu Tveñn sie Omøgulegt samañ ad koma, helldur eñ DRottens eigeñ Ord, þviad i hañs Muñe eru alldrei Svik fundeñ. Eñ eg vil wt af Gudspiallenu Tveñt Hugleida, sem er.

1. Hversu gott þad sie Gude ad þioona. 2. Hvilijk Plaaga þad sie, ad vera Mañons Þræll.

Þu alleina Rijke Goode Gud, Stioorna þu Hiørtum vorum, þier til Þioonustu hier i Tijmanum, svo vier meigum þier Eilijflega þioona, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HVersu gott sie Gude ad þioona, þad kañ eingeñ nooglega ad skynia, nema sa, sem af Alvøru er Guds Þienare. Aller Meñ kieppast vid ad naa Þienustu hiaa Tignum Møñum, þvi þad þyker Heidarlegt: Sæler eru Meñ þijner, og Þienarar þijner, er standa ydulega frame fyrer þier, og heyra Speke þijna, sagde Drottningeñ af Saba, vid Konungeñ Salomon, 1. Reg. 10. Eñ siaa, hier er meire eñ Salomon, þvi, ef ad DRotteñ seiger hier i Gudspiallenu, Ad Salomon J Allre Siñe Dijrd, Hafe Ecke Svo Skrijddur Vered, Svo Sem Eitt Af Akursins Liliu-Grøsum: Hversu laangt var hañ þa fraa þvi, ad koma i nockurn Samjøfnud vid Himnaña Konung, hañ sem þa hefur wtþaned, og prijdt med hinum føgru Lioosum og dægelega Himensins Her, sem vier Augum lijtum; Og er þad þo svo sem Myrkur ad reikna hiaa sialfre hañs Dijrd, sem upplioomar hina føgru Jerusalem Guds Barna Borg, sem er þar uppe, hverrar Sool og Tungl hañ sialfur er, og sialfur bijr i þvi Lioose, sem eingeñ fær tilkomest: Hañ sem Lopted hefur wtbreidt, og skapad alla Fuglana þar iñe, forsorgar þa, vidhelldur þeim, giefur þeim sijna Fædu i hentugañ Tijma, svo ad Lausnareñ seiger

hier

hier i Gudspiallenu: Ad Ecke Ein̄ Af Þeim Falle A Jordu An Sijns Fodurs Vilia, han̄ hefur Siooen̄ giort og alla Fiskana þar in̄e, Smaa og Stoora, og in̄elykur han̄ i sijnum Hnefa, seigiande til Hassins, hijngad skalltu komast, og hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. Han̄ ed sialfur hefur tilbwed Akursins Liliu-Gros, prijdt Jordena med Skoogum, Dijrum, Fiollum, Haalsum, Dolum, og Arlega framleider af hen̄e allrahanda Avoxt og Alldine, hinum lifande Skiepnunum, og þo allra hellst Man̄enum til Nota og Upphelldis, og allra sijdarst skoop han̄ hid Veglegasta og Daasamlegasta Dijr under Soolun̄e, epter sin̄e eigen̄ Mynd, sem er Maduren̄, Jaa, Endurskoop han̄ i Synd og Dauda fallen̄, og took han̄ i Saatt aptur, Endurleyste han̄, ecke med Gulle og Sylfre, helldur med sijns Eingietens Sonar dijra Bloode, 1. Pet. 1. Helgade han̄ Ohreinan̄, af Ohreinum komen̄; Endurnyar alla þa, sem sin̄ Skijrnar-Saattmaala ecke vijsvitande under Footum troda; Fyrergiefur oss Daglega margar Synder, þvi Daglega syndgunst vier, og vin̄um ecke nema til Hegningar; Hverium er oss sæmra, hverium skylldugra og vegsamlegra ad þioona, en̄ honum, i hvers Hende ad er oll lifande Saal? Hver ad er vor Styrkleike, vor Prijs, og er vorden̄ oss til Hiaalpræde, Esa. 12. En̄ svo sem þad er agiætt og Veglegt, ad þioona Konunge Dyrdaren̄ar, svo er þad ecke sijdur Gagnsamlegt. Pad er oss ollum kun̄ugt, hversu mikel Un̄svif ad Daudleger Men̄ hafa fyrer þessa fallvallta Lijfs Næringu, sem þo lijtels vid þarf i sialfu sier, og þrijtur nær allra minst Vonum varer, og þo eru sumer Men̄ ecke aanægder, fyrr en̄ þeir hafa Korn-Hlodur sijnar fullar, svo þeir giete sagt med hinum Rijka Maura-Pegn, Luc. 12. Et og dreck Saala mijn, þviad þu hefur til margra Ara saman̄safnad. En̄ hvad seger Frelsaren̄ hier i Gudspiallenu? Vered Eige Hugsiuker Fyrer Ydru Lijfe, Hvad Pier Skulud Eta Og Drecka, Og Eige Helldur Fyrer Ydrum Lijkama, Hveriu Pier Skulud Klædast; Med odrum fleire Ordum, sem þar a epterfylgia; Og eru full af Guddoomlegre Speke. Med miklu Snarræde hefe eg þa afloked allre Ahyggiu min̄e, sem kvelur hin̄ Vantrwada og Asiarna, þegar eg hefe kastad hen̄e uppa han̄, sem aa oll Dijren̄ a Morken̄e, Ps. 50. Og allt Silfur og Gull er han̄s; Mun Hugsyke mijn draga mig leingra a Leid, en̄ han̄s Fyrerhyggia? Og fyrst um̄ Maatten̄ er ecke ad efast, þa kan̄ eg ecke Vilian̄ ad ugga. Noog er þad, ad Drotten̄ seger, hier i Gudspiallenu: Idar Himneskur Fader Veit, Ad Pier Hafed Alls Pessa Porf. Ef Gud er min̄ Fader, mun han̄ þa ecke forsorga mig? Ef eg, sem vondur er, kan̄ ad giefa Barne mijnu goodar Gaafur, mun þa min̄ Himneske Fader giefa mier Stein fyrer Braud, edur Hoggorm fyrer Fisk? En̄ þott han̄ a Stundum laate mig vanta þessa Lijfs Næringu, epter sijnum þægelegum Vilia, mun han̄ þar fyrer hafa gleimt Myskunsamur ad vera? Mun han̄ samt ecke vera min̄ Fader? Eg kalla þad ecke goodan̄ Fodur, og ecke forsiaalan̄, sem ad elur Barn sitt svo kappsamlega, ad han̄ under eins elur upp i þvi Matvendne og an̄an̄ Osooma, Maa eg þa kun̄a Gud fyrer þad, ad han̄ neitar mier um̄ þær Nægter, er mig skadar; Noog er þad, ad eg veit ad han̄ er min̄ Fader, trwr er han̄, og freistar einkis yfer Megn fram̄.

Þegar mier allt ad Oskum geingur, þa finn eg kannske valla til þess, ad hann er minn Fader. Eg kynne ad gioraſt lausläatur þegar eg er fullur og feitur eins og Jſrael, Devt. 32. Af þvi veit eg ad eg ecke er Hiaa-Barn, ad hann typtar mig. Af þvi sie eg ad hann elſkar mig, Heb. 12. J allre þeirra Angiſt, þa aangrade hann þa ecke, helldur verndade þa Eingill hanns Andlitis, og forſvarade þa med Millde ſinne, ſeger Eſajas Cap. 64. Hver er ſaa Auglitesins Eingellenn, minn Herra Jeſu, nema þu Christe? Þu byrteſt aan Aflaats fyrer Auglite vors Fodur a Himnum, ſvo ſem einn eilijfur Kiennemadur, þu ert Mynd hins Oſijnelega Guds, Col. 1. Þu ert i Fodurſens Skaute, Joh. 1. Þijn Medalgaanga verkar þad, Drottenn minn, ad jafnvel i hinne meſtu Angiſt, finna Born Fodur þijns til einkis Angurs, þviad þinn Vondur og þinn Stafur hugga oss, Pſ. 23. Vitnisburdur þijns Anda telur oss Trw þar umm, ad vier Guds Born ſieum, Rom. 8. Þar fyrer reiknum vier ecke Mootlætingar þeſſara Tijma verdar þeirrar Dijrdar, ſem vid oss framkoma mun i eilijfu Lijfe, og hier af kiemur þad, ad ſvo veglegt og ſvo þarflegt ſem þad er Gude ad þioona, ſvo er þad og Yndællt og Ununarſamlegt. Hvad er þad ſem Menn allra meſt ſækia epter i Heimenum? Þad er ad vera aanægdur, og una vel Hag ſijnum, enn þar er valla nockur ſaa, er naae þeirre Fullſælu af Veralldar Munum, edur Munudum, ad honum þyke ſig eckert vanta. David kienner oss eitt Ædra og betra Raad, er hann ſeger: Haf þijna Unadſemd i Drottne, og mun hann giefa þier þad ſem þitt Hiarta gyrneſt, Pſ. 37. Satt er þad, ad vegna þeirra naakvæmu Teingda, ſem eru a millum Saalar og Lijkama, þa hryggeſt hun edur gledſt af þvi, ſem honum gott edur Jllt til fellur; Enn þo eru þau ecke ſvo miog ſkylld, ad ei ſie Gud henne ſkylldare; Ecke er hun af ſama Eſne giord og Lijkamenn, ſem af Mollldu vàr ſkapadur, Gud blies lifande Anda i Mannſens Naſer, ſeger Ritningenn, Gen. 2. Hun er af eingu ſkopt eins og Einglarner, hverier i Jobs Book, Cap. 1. kallaſt Guds Syner; Svo kallar og Lucas Adam Fodur vorn, Luc. 3. Og Paulus ſeger; Vier ſieum hanns Kyns, þad er lijkrar Veru, enn þo ecke hinnar ſomu; Gud er einn Ande, ſeger Johannes: Ande hefur ei Holld nie Bein, eins og þier ſiaaed mig hafa, ſeger Frelſarenn: Hier af kiemur þad, ad þott Adam yfergiæfe ſinn Uppruna, þa hefur hinn allra Hæſte ſvo bætt Raad vort aptur fyrer hinn annann Adam, ſem er Gud af Himnum, ad hvad elſkar ſier lijkt, ſvo þegar einn er vorden einn Ande med Gude, og Ummyndadur epter hanns Mynd, er ſkapade hann, þa fær Saalenn Krapt af Hædum, ſem er henne miklu ſkylldare, og ſterkare þeirre Elſku ſem hun hefur a Lijkamanum, ſvo ad hun reiknar alla Hlute Preck ad vera hiaa Jeſu Christo ſijnum Drottne, eins og Paulus, hun hrooſar ſier af eingu, nema af hannsKroſſe, fyrer hvern henne er Heimurenn Kroſſfeſtur og hun Heimenum, Gal. 6. Svo yndællt er þad nu Gude ad þioona, ad þad er Ununarſamlegt, jafnvel i Hormungunum. Paulus talar þannig umm hinn ſanna Christenndoom, 1. Tim. 4. Ad Gudhrædſlann ſie til allra Hluta Nytſamleg, hafande Fyrerheit bæde þeſſa Lijfs, og hinns Komanda. Þeſſe er hin rietta Guds Þioonuſta; Enn hvad þa? Ecke hefur Gud i Nya Teſtamentenu heited ſijnum Þioonuſtumonnum ſvo mikille Verallldar Farſælld, jafnvel þoott hann veite þeim hana

na a Stundum. Hvar i er þa Fyrerheited iñefaled? J þvi ad hañ giefur þeim sialfañ sig, sem er ollu ædra; Saa sem hañ a, hañ hefur eignast allt, og saa sem ecke hefur Hlutdeilld i honum, hañ hefur miña eñ ecke, hañ vantar jafnvel þad hañ hefur, þvi Guds Rijke er ecke Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, þar fyrer seger Paulus eñ aptur, 1. Tim. 6. Ad Gudhrædslañ sie mikell Abate med þvi Skape, sem lætur sier sijna Lucku nægia. Nu er þad ecke einasta Vegsamlegt: Parflegt og yndællt Gude ad þioona, helldur og er þad Einsætt og Omissande, svo ad aan þess kuña Meñ ecke Guds Born ad heita, nie Saaluhiaalpena ad erfa, og siaa þa aller þeir sem trwa þvi, ad Himnarijke og Helvijte sie til, þeir siaa hvad miklu ad tapad er, ef Meñ skiootast ur Guds Þioonustu: Bolvadur vere saa sem ecke elskar Drotteñ vorn Jesum Christum, seger Paulus, 1. Cor. 16. Eñ ad elska hañ, og ad þioona honum, þad er allt hid sama, honum verdur alldrei þioonad fyrer utañ Elsku, og alldrei verdur hañ elskadur fyrer utañ Þioonustu, þvi i Þioonustuñe skulu Meñ sijna Elskuna, og af Elskuñe Þioonustuna. Þess vegna spurde Drotteñ St. Petur ad, aadur eñ hañ baud honum ad fæda Lomb sijn og Saude sijna, hvert hañ elskade sig, Joh. 21. Sama er ad segia um hvern eiñ, hvada Starf sem hañ a Hende hefur af Guds Alfu; Eñ aller hafa noog; Eingeñ er saa, ad ecke hafe sitt Pund af Gude; Eins vel Bondeñ a Akrenum, svo sem Prestureñ i Kyrkiuñe, edur Doomareñ i sijnu Sæte, og aller þesser eru honum eins kiærer, nær þeir giora Verk siñar Kallanar trwlega i Otta Drottens, þvi sialfur hefur hañ þeim Verked i Hendur feinged. A ecke Smidureñ Leirsens Valld? Maa hañ ecke giora þar af hvad hañ vill? Rom. 9. Þvi er einsætt ad þioona honum af allre Trw, epter þvi sem hañ hefur sierhverium umboded, añars erum vier ecke hañs rietter Þioonustumeñ. Eiñ Strijds-Þegn a ecke þar ad standa i Fylkinguñe, er hañ sialfur vill, helldur þar sem Hofdingeñ baud honum. Eg em Madur Yfervalldenu undergiefeñ, hafande under mier Strijds-Foolk, sagde Hundrads Hofdingeñ i Capernaum, vid Frelsarañ, Luc. 7. Og nær eg sege þessum kom þu, þa kiemur hañ, og hinum far þu, og hañ fer, og Þræle mijnum gior þetta, og hañ giorer þad: Eins a þad ad vera i Christi Her-For hier a Jorduñe, þar skal hver sitia, sem hañ hefur hañ settañ, þar iñe skal hañ Gude þioona, ef hañ vill þocknast honum sem valde hañ til Bardagans, 2. Tim. 2. Þvi ecke er þad noog, ad leggia Hondena a Ploogeñ, eñ lijta aptur til þess sem til Baka er, saa þad giorer, hañ er ei hæfur til Guds Rijkis, seger Lausnareñ. Seged mier; Til hvers hefur Gud Mañeñ skapad, nema til þess, ad hañ skule þioona sier? Aller Hluter adrer eru Mañsens vegna skapader, þvi alla þa hefur hañ lagt under hañs Fætur, Ps. 8. Eñ Madureñ er Guds vegna giordur, ecke þess vegna, ad hañ þyrfte hañs med, helldur ad hañ skyllde þioona sier, til ad lifa þar af eilijflega. Hverium er oss skylldara ad þioona, eñ honum sem oss skapade? Hefur Mañson nockurn skapad? Vesæll er hañ til þess, Vanskapad gietur hañ suma Meñ; Eñ eingañ hefur hañ skapad nie Endurskapad. Kalla Meñ þad ecke Gudlaust Ræktarleyse, ef Borneñ ei vilia liaast Forelldrunum til Þioonustu? Og hvad skulum vier þa

uñ hañ tala, sem er Fader yfer allt þad sem Børn kall'ast bæde a Himne og Jordu? Til hvers hefur Guds Sonur Endurleyst oss? Seger ecke Lutherus oss þad i Frædunum? Til ad þioona honum i Riettlæte og Heilagleika alla vora Lijfdaga. Til hvers hefur Ande Drottens kallad oss, helgad og upplijst med sijnum Astgiøfum? Mun ecke til þess, ad vier gaungum verduglega þeirre kallan, hvar iñe vier kallader erum? Eph. 4. Þvi ælykta eg svo, ad sa sem ecke vill Gude þioona, hañ er ecke hañs Barn, ecke Christi Læresveirn, og ecke Limur Guds Kyrkiu. Hvad er hañ þa? Diøfulsens Barn, Prœll Syndareñar, og Helvijtis Elldebrandur. Nu er þetta svo sagt uñ þad Fyrra, er eg hiet uñ ad tala.

Hvad hinn Sijdara vidvijkur, þa hefe eg til Forna i Iñgangenum sagt, hver ad sie Meining Frelsarans i þessum Ordum, þo vil eg þvi hier vidauka uñ sama Efne, ad þar DRottiñ seiger: Eingeñ Kañ Tveimur Herrum Ad Pioona, þa meinar hañ Tvo, þa sem eru hver ødrum gagnstæder; Pioona kuña Meñ Forelldrunum, Yfervalldenu, og Naaunganum, i øllu þvi sem Gud hefur boded, og þo under eins Gude; Hvar fyrer? Þviad svoddañ Pioonusta og Guds Pioonusta eru Eitt; Sa sem þioonar þeim sem af Konungenum sender eru, hañ þioonar Konungenum; Sa sem Konungenum þioonar i þvi sem Gud boded hefur, hañ þioonar Gude. Eins er æ hina Sijduna, sa sem þioonar Mamona, hañ þioonar Heimenum, sa sem þioonar Heimenum, hañ þioonar Syndeñe, Hver ed Syndeñe þioonar, hañ er Prœll Syndareñar, eñ hañ sem er Prœll Syndareñar, hañ er under eins Prœll Andskotans, og er þessu Omøgulegt samañ ad koma, þetta vottar Paulus, er hañ seiger, Rom. 6. Vited þier ecke, ad hveriuñ þier giørest Pioonustu-bundner, til Hlijdnes, hañs Pienarar erud þier, hvert helldur Syndareñar til Daudans, edur Hlijdneñar til Riettlætesins. Og þetta Ord, Herra, merker hier svoddañ Yfer-Raad, nær eiñ selur sig einum svo alldeiles æ Valld, ad hañ æ ad mestu hañs øll Raad: Vel kañ eg ad þioona einum, þoott ecke sie hañ miñ Herra, svo hefur og Gud alldrei bañad, ad þioona ad Gaafum sijnum, helldur leyft ad brwka Heimeñ, eñ ecke ad vanbrwka hañ, ecke bañad ad eignast Audeñ, helldur ad festa Hiartad vid hañ, þvi sa þad giører, hañ er riettur Mamons-Prœll, hañs Herra er Abateñ og Audureñ, þvi alla Hlute vill hañ til hañs viña, og jafnvel ad tapa Saalu siñe, sem mørg munu Dæme giefast, og er þa eingeñ Pioonusta argare. Hun er sierdeilis med Tveñu Moote. Fyrst, nær Madur safnar Audnum med hveriu moote, sem hañ kañ, hyrdande eckert uñ, hvert þad er riett edur rangt, edur hversu Prælslegt edur Ohreinlegt þad er, þetta er Skap-Løstur sa, er vier Agyrne køllum. Paulus seiger uñ hana, ad hun sie Afguda-Dijrkun, Eph. 5. Pad er hveriu Orde sañara, þvi hiñ Agiarne hefur ecke añañ Gud, eñ Mamona. Hañ svijfist ecke ad ryia Guds volada Saude, til ad fylla Pwng siñ, ecke ad sveria vid hañs Nafn, og þo Ranglega a stundum, ef hañ gietur æbatast uñ eitt Alnar-Virde: Ecke þyrmer hañ Kyrkium nie Kieñemoñum, Kounungeñ svijkur hañ giarnañ, ef hañ maa, sem er ein Høfud-Skøm, og i einu Orde ad seigia: Hañ tredur øll Guds Bodord under Fætur sier: Hvad vantar þa til

til Skwrgoda-Dijrkunareñar? Betra er af Illu ad tilbidia Lijkneskiuna, eñ ad vera svo selldur Mamona i Prældoom, þvi margur sa sem eiñ Afgud hefur, hañ ætlar þo, ad hañ mune hegna vondra Verka, eñ launa hin goodu; Og svo hafa flester Heidingiar meint; Eñ Agyrndeñ hefur eingañ Gud, og er þa ei Von aa verra. Þu seiger: Eg vil dijrka Gud, heyra hañs Ord, sijngia honum Lof. Eg geing til hañs Bords, trwe aa hañ, ydrast Synda miña, verda maa, ad svo sie. Eñ ef þu dijrkar Gud, þa laat mig siaa ad þu giorer þad ei, sem hañ bañad hefur, edur verdur hañ nockud dijrkadur med Raane og Stulde, med Svikum og Prettum, med Lygum og Meinsære: Ef hañ er þiñ Gud, ef hañ er þiñ Fader; Hvar er þa hañs Heidur? Þu seigest heyra hañs Ord, hvar eru þa Avexterner? Eru þeir þad sem strax var upptaled? Siaa til, ad þu ecke heyrer þad til Dooms Afelles þier, þu heyrer þad, svo er þetta. Saadmadureñ gieck wt ad saa, eñ þad hañ saade, fiell aa medal Þyrna, þar sem þu aatter Hluteñ ad, og Þyrneñ uxu upp, og kiæfdu þad; Hvad þad sie, maattu læra af Utleggingu Frelsarans, er hañ seiger, Matth. 13. Þad sem saad var medal Þyrna, er sa ed Orded heyrer, og Umsorgun þessarar Alldar, og Villa Audsins kiefur Orded, og hañ verdur Avaxtarlaus. Þu lofar Gud ad soñu med Vorunum, eñ Hiartad er laangt þar fraa, þad er wt aa Bwgarde þijnum, og hiaa Aknautum þijnum. Þu geingur til Guds Bords, eñ tekur þo med þier Gieste þa, sem hañ ecke maa lijda; Siaa til ad ecke eter þu og drecker þier Doom. Þu trwer aa Gud, sijn mier Trw þijna af Verkunum, seiger Jacob. Þu ydrast Syndaña, Laat þa af Illu, og lær Gott ad giora, Es. 1. Añars meina eg þu vilier under eins þioona Gude og Mamona, og er þijn Guds Þioonusta þa eingu betre eñ Gydinga Fordum, þeir ed færdu Gude Foorner i Jerusalems Mustere, eñ offrudu þo aa Hædunum, og i ollu þessu launar Mamon Þienurum sijnum illa: Hañ sedur þa med Harma-Braude. Paall seiger, ad Agyrndeñ sie Root alls Ills, 1. Tim. 6. Fyrst er hun Root Lastaña, svo sem aadur er sagt: Gud forsmaaer hun, hañs Nafn skyrrest hun ecke vid ad misbrwka vegna Abatans, Hvijldar-Daga DRottens hefur hun til Aviñings; Þa geingur heñar Ploogur hvad Kappsamlegast, svo ad hun jafnvel kiemur þa odrum til ad syndga, Forelldrum, Bornum og Naafrændum þyrmer hun ecke. Margur hefur veiged Mañ til Fiaar; Ecke ætla eg ad sumer Meñ sieu vander ad Hlut sijnum i Skijrlijfenu, þegar Fied er i Bode. Um Siounda Bodorded vil eg ei tala: Hun aa þar heima, og hvad er tijdara, eñ ad liwga vegna Abatans, og giora sig falañ til ad bera Liwgvitne; Eñ ecke einasta fremur hun þetta moote Gude og Naunganum, helldur kvelur hun siñ eigeñ Præl, svo þad maa um hana seigia, sem David seiger um hiñ Ogudlega, aa medal hverra Fie-Pwkeñ er hiñ meste, ad hañs Plaagur sieu margar. Helvijte og Glotuneñ verda alldrei fylld, seiger Salomon, Prov. 27. Svo eru og Augu hins Agiarna, þess meira hañ dreckur, þess meira þyrster hañ, eins og hinar mogru Pharaonis Kyr, svo er hiñ Agiarne, þegar þær hofdu uppeted hinar feitu, þa saast þad ecke, ad þær hefdu komed i Maga þeirra, seiger Ritningeñ, Gen. 41. Riett eins og Ovidius Skaalld kvedur um Erisichthonem Guds-Nijding, ad þess meira

sem hañ aat, þess meira svallt hañ; Fylleñ vard hønum Orsøk til æ meira Hwngurs,
svo þegar hañ hafde sellt Aleigu sijna fyrer Mat, þa sellde hañ Doottur sijna, og sijdarst
allra took hañ ad naga sijna eigeñ Limu. Svo er og hinum Agiarna vared, þad hañ
fær, þad fyller hañ ecke; Hañ er eins sollteñ epter sem aadur, Ecke sparar hañ Vine nie
Frændur, og þegar hañ nær eingu, þa etur hañ sitt eiged Hiarta, af þvi, ad hañ gietur
ei uppeted HwsEckna og Føodurlausra. Mørgum af þessum Mamons-Pwkum lijd-
ur ð Rotteñ ad fylla Kornhløodur sijnar, og adrar Hyrdslur med Aura-Nægt. Eñ
þese vita Meñ og nockur Dæme, ad þess meira þeir nidur saa i Raanglætenu, þess miña
uppskiera þeir, nema i Skadsemeñe, svo ad Hyrdslur þeirra eru eins og Oþiett Lagar-
Fat, sem ecke helldur þvi, sem i þad er laated. Þess gietur Salomon, Prov. 11. Er
hañ seiger: Eiñ wtbijter sijnu eigeñ, og verdur rijkare, añar iñehelldur þar sem ecke
skal, og er jafnañ faatækur. Þetta er riett ad eta, og verda þo ecke mettur, og ad drec-
ka, og verda þo ecke druckeñ. Hin oñur Þioonusta Mamons, er su, ad liggia of-fast
aa þvi, sem eiñ aa, eins og Moab aa Dreggium sijnum, jafnvel þoott velfeinged vera ku-
ñe: Ad soñu eru þetta adgreinder Lester ad nockru Leite, eñ þo nærsta skyllder hver od-
rum. Til eru þeir ad vijsu, sem taka allt fraa øllum, sem þeir naa, eñ laata þo eckert af
Hende rakna vid nockurn, þeim er hvad verst vared, og optlega plagar slijkt ad halldast
i Hendur: Hins eru og Dæme, ad sumer Meñ eru ecke miøg aasælner, eñ vilia þo eck-
ert wtelaata, þessa kalla Meñ nijdska, og er hañ ad soñu Ill-skaarre eñ hiñ, eñ þo samt
Mamons-Þræll, ecke munar þa nema i þvi, ad þegar Mamon skipar, þa fer hiñ Agiar-
ne, eñ Nijdingureñ hefur ecke svo myked Valld yfer hønum, ad hañ giete reked hañ wr
Stad: Jafnvel þoott hañ eige øll hañs Raad, þa lætur hañ svo daatt ad hønum, svo
sem Mooder ad einka Syne, og vill ecke giøra hønum Omak. Lijker eru þeir Saddu-
cæis, er ecke villdu giøra aa añars Hlut, ecke villdu þeir helldur neinum Gott giøra, þeir
eru Brædur Nabals, er ei villde giefa David Mat, þegar hañ mællte til þess i Naud-
syn siñe, og hafde þo til Matar uñed, 1. Sam. 25. Jaa, þeir eru argare eñ Nabal,
þvi hañ tijmde, ad laata epter sier og Hyske sijnu, eñ þessum er svo Audureñ saar, ad þeir
neita sijnum eigeñ Lijkama um Naudsynlega Hlute; Ecke hafa þeir lesed þad er Salo-
mon skrifar, Prov. 3. Hiñ Riettlaate etur svo myked sem hañ vidþarf, eñ Maga hins
Ofrooma vantar alltijd, og eñ sijdur þad hañ ritad hefur i Predikunar Bookareñar 6.
Cap. Þar er ein Olucka er eg saa under Soolune, og hun hin mesta yfer Møñunum:
Eiñ Madur sa ed Gud giefur Rijkdoom og Audæfe, og Heidur, hvers Hiarta ad eckert
vantar, og Gud giefur hønum þo ecke Magt til ad neyta þess hiñs sama; Svoddañ O-
þockar siaalfs sijns eru þo nockrer, svo laangt er fraa þvi, ad þeir klæde edur mette Brod-
ur edur Systur, nær þeir siaa þau Nakeñ, edur Hwngrud, og er þetta hiñ meste Þræl-
doomur, þad er riett køllud Afgudadyrkun, þad sem Christner Meñ ættu ad giøra Gu-
de til Þioonustu, sem er ad þvijnga Lijkama siñ, og giøra hañ ad Þræl, þad sama giøra
þeir vid Mamona; Seiged mier, Er hañ þa ecke þeirra Gud? Vere þeir nu samañ sem
lesa þetta, hverium betra sie ad þioona, Gude edur Abatanum, hverneg ad Gud ale Oñ

fyrer

fyrer sijnum Pienurum, þad er ædur sagt i þinum fyrra Partenum, eñ hverneg Mañ-on fare med sijna, þad hefe eg i þinum Sijdara talad uñ, med fæm Ordum, þvi vil eg seigia vid ydur, Christi Born, hid sama og Josua sagde vid Jsrael ꝼomu fyrer Andlæt sitt, Jos. 24. Seiged hvert þier vilied þioona Jehovæ Gude ydar, edur ei; Eñ þeir svorudu aller: Vier vilium þioona DRottne Gude vorum: DRotteñ miñ og Gud miñ, gief þu oss þad Siñe, ad þad sem þeir jætudu med Muñenum, meigum vier med Hiarta, Orde og Verkum uppfylla, allt til Enda vors Lijfs, svo vier meigum wr Bijt-um bera Coronu Lijfsins, hveria þu Konungur Nædareñar giefa munt oll-um þeim, sem elska Tilkomu þijns Sonar. Bænheyr þad fyrer hañs Skulld og Forþienustu, Amen.

# Sextanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 7. Cap.

Pañ Tijma. Og þad skiede so epter þad, ad JEsus gieck til þeirrar Borgar sem kallast Nain, og hañs Læresveinar gein-gu marger med honum, og mikell Fiolde añars Foolks. Pa er hañ took ad nælægiast Borgar-Hlided, Siæ þu, þad Frañ-lideñ Madur var boreñ wt, einka Sonur siñar Moodur, og hun var Eckia, og mikell Fiolde Borgar-Mañа gieck wt med heñe. Eñ þa ed DRotteñ leit hana, hrærdest hañ Myskunar yfer heñe, og sagde til heñar: Græt þu eige. Og hañ gieck þar ad og æhrærde Kistuna. Eñ þeir sem bæru, stoodu vid. Og hañ sagde: Pu Ung-Meñe, Eg seige þier, Rijs þu upp. Og sa setteſt upp sem Frañlideñ var, og took til ad mæla, og hañ gaf hañ aptur siñe Moodur. Eñ aller urdu Otta slegner, Lofudu Gud og sogdu: Spæmadur mikell er a medal vor upprisen, og Gud hefur vitiad sijns Foolks. Og þesse Saga barst wt af honum, uñ allt Gydinga Land, og uñ oll krijngum liggiande Hierod.

## Exordium.

Skomu ædur eñ DRotteñ giorde þetta mikla Kraptaverk, sem þessa Dags Evangelium herriner oss, þa flutte hañ þa ægiætu Predikun fyrer Lijdnum, sem ritud stendur i nærst fyrerfarande Capitula, Lucæ 6. Hver og er af Matthæo uppteiknud i hañs Gudspialla 5. Capi-tula. J heñe standa medal añara þesse Ord: Sæler eru þeir sem Harma, þvi þeir muñu Hlæ-ia. Matthæus seiger oss þad a þeña Hætt: Þeir skulu Huggader verda, sem er allt hid sama, þvi þar heyrer eingeñ Sorg til ad giora sig Gladañ, seiger Ordtæked, og eingeñ hlær, nema honum sie gladt i Hug, og Gladyr er eingeñ, nema hañ Huggadur sie. Pad er Addæanlegt ad Hugleida, hverneg Frelsareñ a Dogum Holldz Vistar siñar hefur Vijslega hagad sijns Em-bættis Utriettingum, Margt þad sem ad i greindre Predikun stendur, þad er Gagnstædt Holl-de og Bloode, hvorin ad oll Typtan þyker Sorg og eingeñ Glede ad vera medañ hun æligg-ur, seiger Paulus, Hebr. 12. Og giæter ecke þess, ad epter æ giefur hun Fridsamlegañ Avoxt

Riett-

Riettlætesins. Eñ til þess, ad hiñ goode Meistare færde Soñur a Maal sitt, þa giører hañ sier Ferd wr Capernaum til Borgareñar Nain, til ad styrkia med þessare Jarteikn, hvad hañ ꜳdur talad hafde. Eingeñ skal meina ad þetta hafe skied af Hendingu, ad DRottiñ mætte þessare Lijkfør, helldur fyrer þvi hañ visse alla Hlute, þa hefur hañ sa ꜳu Efa vered Tilgꜳngureñ, sem nu hefe eg ꜳdur sagt, og þar ad auke ad giefa øllum Sorgbitnum Eckium og Munadarlausum eitt Æfeñlegt Huggunareñar Dæme, og fullrar Vonar og Trwnadar-Traustz uñ sijna Hiartgroona Myskunseme yfer þeim, ad hañ vilie vera Fader Fødurlausra, og Forsvar Eckiaña, Devt. 10. Ps. 68. Og fyrer þvi, ad þetta Heilaga Gudspiall er nærsta Gledelegt ad Hugleida, fyrer alla þa sem þreya epter Astvine sijna, sem þeim i Lijsenu hafa til Glede og Adstodar vered, Pa vil eg af þvi Tveñt yfevega. 1. Hvad Eckiurnar eige ad hugga sig vid i sijnum Einstædingskap. 2. Hvad þeim eige til Huggunar ad verda, er missa Børn sijn, jafnvel a Unga Alldre. Eñ þu sem ert Fader yfer allt þad sem Børn kallast bæde a Himne og Jørdu, Styrk þu Maal mitt, og Tilbw svo Hiørtu Barna þiña, ad þetta þitt Eyrende meige vel takast, J JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

HJer stendur i Gudspiallenu uñ Moodur þessa Ungmeñes, ad hun hafe Eckia vered; Pad Stand hefur jafnañ hallded vered aumt og Ofkiemtelegt, sem og ad Lijkindum lætur, David veit valla añad lijkara ad Oska, hvert helldur sijnum edur Guds Ovin, eñ ad Børn hañs skule verda Munadarlaus, og hañs Kviña Eckia, Ps. 109. Vonder Omagar eru Fodurlauser, og Mædur vorar svo sem Eckiur, seiger Jeremias i Harmagrꜳtnum, 1. og 5. Cap. Nu er þad vijst, ad slijkt er Reide-Teikn DRottens ꜳt Stundum, og Straff Syndaña, eins og hvert añad Mootlæte; Eñ hverge nærre alltijd, þvi valla er nockurt Stand i heilagre Ritningu umgieted, sem hiñ Almꜳttuge vill helldur taka i Forsvar, eñ Eckiudoomeñ, þvi fyrer utañ þad, ad hañ vill sialfur vera þeirra Forsvar, og Fæda þær, þa hefur hañ sier i Lage giefed þeim Verndar Bref i sinu H. Løgmꜳle, ꜳ þeña Hꜳtt. Eingre Eckiu edur Omyndugum skalltu Pianning giøra, ef þu sijner honum Pianning nockra, (þvi ef hañ ad eins kallar til mijn, þa vil eg Bænheyra hañ) Pa skal mijn Reide breña, og eg skal slꜳ ydur i Hel med Sverde; Svo skulu ydar Konur Eckiur verda, og ydar Børn Fodurlaus, Exod. 22. Og eñ seiger hañ: Eckiuñe og Omyndugum skalltu eingañ Skada giøra. Hefur hañ ecke stickad þeim siñ Hlut af Tijundum? Devt. 14. Bijdur hañ ecke ad kalla þær framar ødrum til Almeñelegrar Maal-Dryckiu fyrer Drottne? Cap. 16. Jꜳ, hañ hefur sier i Lage umboded Valldstietteñe, ad þeir skule dæma Maal hins unga Mañs og forsvara Eckiuna, Esa. 1. Jafnvel þott eg ætle ad valla sie nockru Guds Bodorde midur hlijdt eñ þessu af sumum Moñum. Oskande være, ad ei fyndust þeir, ed sialfer hafa Eckiurnar fyrer Fe, og giøra þær sier ad Raane, svo sem Esajas ad Orde kiemst, Cap. 10. Hefnast a þeim og þeirra Munadarlausum Bornum, ef þeir þottust eiga Fodur þeirra nockrar Heipter ad giallda, eñ feingu ecke stoled Hefndeñe frꜳ Gude a medañ hañ lifde: Sod dañ er hin mesta Lodurmenska, sem eiñ Hugprwdur Tyrke ei villde verda funden ad, og þo skamast ecke sumer Christner Meñ sijn ad æfa þetta Blygdunarlaust, svo hoppa þesser Myslingar a einu daudu Leone, sem þeir þo ecke þordu ad geispa ꜳ moote, ꜳ medañ

þad

þad hafde Muñeñ opeñ. Lijted muna þeir til hiñar ſkielfelegu Bolvunar, er Drotteñ leggur yfer þa, ſem umhverfa Riette Eckiuñar, Devt. 27. Edur hins, ad Ritningeñ telur þad med hinum hellſtu Orſøkum hiñar Babyloniſku Herleidingar, ad þeir dæmdu ei Mælefne Eckiuñar, Jer. 22.

Nu vil eg ſleppa þeſſu, eñ hverfa aptur til hins er eg ſkildeſt vid: Peſſe Kviña var Eckia, Lijklegt er ad Madur heñar hafe burtkallaſt æ ſijnum beſta Alldre, hvad þar af ræda mæ, ad hañ hafde heñe epterlæted eiñ einaſta Son, ſem ad eñ þa var Ungmeñe: Þetta var ſtoor Sorg, hveria hun gat ecke duled, þvi ſagde Frelſareñ vid hana: Græt Þu Ecke, og þetta Mootlæte heñar var ſvo myked, ad Bæar-Meñ ſampijnduſt heñe, þvi ſeiger i Textanum: Ad Mykill Fiollde Peirra Hafe Geinged Ut Med Heñe. Lærum þad af þeim, ad græta med Grætendum, og hafa Medaumkun med þeim er i ſlijkar Rauner rata, ſvo giorde hañ ſem beſt kañ ad ſampijnaſt Eymdum vorum, þvi Guds-ſpialled ſeiger: Ad Pegar DRotteñ Leit Hana, Pa Hrærdeſt Hañ Myſkunar Yfer Heñe, og fæum vier jafnañ Orſøk þar til, þvi ecke lijdur æ Stundum langt æ millum þeſſ, ad ſvoddañ tilfellur. Morg volud Eckia a þvilijkt til Bruñs ad bera: Eñ wt af þeſſare Medaumkun Frelſarans take Eckiurnar ſier hina meſtu Huggun, Strax ſem hañ ſæ þeſſa ſorgande Konu, þa hrærdeſt hañ af Innſtu Medaumkun, ſeger Texteñ: Ecke giorer hañ þad ſijdur nu, helldur eñ þa hañ umgieckſt i voru Hollde, ſem nu er upphafed til Kraptarens hægre Handar, hañ hefur Likel Lijffsens og Daudans, Barn mitt, hafe þvi Daudeñ griped Hendeñe iñ i Hws þitt, og veitt þier eitt miked Sar, þar hañ hefur teked Helming þijns Hiarta burtu, og giort Born þijn Munadarlaus, þa vit, ad þad er ecke ſkied æn hañs Radſtøfunar; Einga Magt hefde Daudeñ haft yfer þijnum kiæra Egta-Mañe æn hañs Leyfis; J hvers Hende ad er øll lifande Sæl; Audmijk þig þeſs vegna under Vollduga Guds Hond, og ſeg med David; Eg vard Mællaus, og talade ecke, af þvi þu giorder þad, Sierdeilis þar þu hefur þo ecke tapad þijnum Egta Mañe; Meina ecke, Barned gott, ad ſiælfur Giæſkuñar Bruñur ſie eins lyndur og ſumer Oþockar i Heimenum, þeir ed apturtaka þad þeir gæfu, helldur vil eg hier um ſegia eins og Paall ſagde um Oneſimum vid Philemonem. Hañ er um Stundar ſaker vidſkileñ, ſvo þu hallder honum Eilijflega. Hañ er ecke daudur, ad þvi Leite ſem vidvijkur Sæluñe, þvi Gud Abrahams, Jſaacs og Jacobs, hañ er ecke Gud Daudra, helldur Lifendra, ſeger Frelſareñ, þar fyrer er hañ ecke daudur, helldur kalladur fræ Daudanum til Lijffsens; Fræ Volæde þeſſa Heims, til eilijfrar Sælu; Fræ Selſkap vondra Maña, til Samfelags heilagra Eingla. Jæ, hañ er ecke helldur daudur, þad Lijkamañ æhrærer, helldur ſefur hañ, ſvo ſem Drotteñ ſagde um Hofdingians Dottur, Matth. 9. Pad ſtendur Æfeñlega ſtødugt, er Frelſarñ ſagde: Hver ſem trwer a mig, þad ſkal ſkie, ad þoott hañ deye, þa ſkal hañ ſamt lifa, Joh. 11. Par fyrer, þoott ad þad ſie Natturlegt, ad ſyrgia Aſtvine ſijna, þa er ecke ſvo ſtoor Orſøk þar til, þvi vier hofum ecke miſt þa, helldur eru þeir undañ oſs farner i eilijfa Sælu, eñ Lijkameñ hvijleſt af Erwide ſijnu iñ til þeſs Dags ad DRotteñ uppvekur hañ, og giorer Einglunum

kunum jafnañ, Jaa, samlijkañ sijnum Dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Nu er þad vijst, ad eckert Guds Barn mis=añ sijnu Egta=Hiarta þvilijkrar Sælu, eñ þad er Veikleike vor, ad Meñ syrgia siñ eigeñ Hag, og siña Epterlaateña, þeinkiande meir a hid nærveranda, eñ hid Epterkomanda. Eñ huxa til þess, Barn mitt, ad Gud hefur kañskie þiñ Egta=Mañ i burtu teked til siñar Dijrdar, uppa þad þu skyllder hafa allt þitt Traust, alla Von, alla Glede og Unadsemd i sier einum, og Fognud af þvi, ad siaa og reyna sijna Naad a þier, og vid þig og þijna, nær øll Mañleg hiaalp er wte, giør svo, þar af hefur þu tvøfallda Nytseme, þa einu, ad þijn Saala gledur sig i Gude Heilsugiafara þijnum, hver Føgnudur ad yfergnæfer allañ Skilning, og drepur alla Sorg, allt Mootlæte giører hañ liett. Hina adra, ad a medañ þu ert svo Skape fareñ, þa er þad Feste=Bref uppa Guds Rijke, þad er Pantur þess, ad þu muner fagna med þijnum Egta=Mañe i himneskre Sælu eilijflegana, med Gude og hañs Heilogum. Laat þvi siaa, ad þu tileinker þier þad sem Drotteñ seiger vid Jsrael, Esa. 54. Sa sem hefur skapad þig, hañ er þiñ Madur, Drotteñ Zebaoth er hañs Heite, og þiñ Lausnare, sa Heilage i Jsrael, hvern øll Verølldeñ Gud nefner. Hvar fyrer grætur þu, og þvi ber þitt Hiarta sig svo illa; Er eg þier ecke betre eñ tiju Syner? sagde Elkana vid Konu sijna Auñu, 1. Sam. 1. Og hvad miklu betre er þa Gud Himnaña, helldur eñ eiñ daudlegur Madur, vilie hañ gaanga þier i Mañs Stad; Hvada Naud hefur þu þa? Hañ er noogu vijs til ad Raadleggia þier, noogu rijkur til ad forsorga þig, noogu Maattugur til ad forsvara þig, noogu Giæskurijkur til ad hugsvala þier: Hvers villtu framar æskia? Eckiur og Munadarlauser hafa stooran Riett i Himnenum svo sem aadur er sagt: Þegar Drotteñ leit þessa Eckiu, þa Hrærdest hañ af instu Medaumkun yfer heñe. Hun hefur kañske ecke þeckt Drotteñ, edur ecke sied hañ, þvi sorgande Mañeskiur geingu med huldu Høfde hiaa Gydingum; Hun hefur og ecke Orde wtkomed fyrer Harme, svo hun giæte beded hañ, og þo gat ecke Bruñur Giæskuñar hallded sier. Hañs Hiarta brast i hønum, svo hañ hlaut heñe Myskunsamur ad vera, strax sem hañ leit Eymd heñar, med einu Orde, einu Atvike þurkade hañ øll Taareñ af Augum heñar. Þegar þær Ruth og Naemi voru aldeilis Munadarlausar, þa sende Gud þeim Boas, Ruth. 2. Þegar Eckiañ i Sarepta og heñar Sonur voru adkomeñ Dauda i Atviñuleyse, þa baud Gud Eliæ ad bæta Brest heñar; Mun hañs Hønd eñ nu stutt vordeñ? Er honum nockud apturfared, sijdañ hañ er hafeñ yfer alla Himna? Nei, Nei, wtriett er hun eñ nu i Dag til allra þeirra, sem a hañ vona, og þott hañ reyne sijna a stundum, þa efest eingeñ um Sañsøgle hañs, edur ætle sig yfergiefeñ; Hañ gat hallded Mañe þessarar Eckiu vid Lijfed, hañ gat læknad Son heñar a Bana Sængeñe; Eñ hier færde Drotteñ Søñur a Maal sitt, er hañ skomu aadur talad hafde, ad sæler væru þeir sem harma, þviad þeir mune huggader verda, þvi myklu meire var Føgnudur þesse, ad hañ gaf heñe aptur Son siñ, sem daudur var, helldur eñ þott hañ hefde læknad hañ Daudsiukañ. Laat þvi þier til Hugar koma, Guds Barn, ad þott Daudeñ hafe slited þad Band um Stund, sem var a millum þijn og þijns Egta=Mañs, þa er þo ecke slited þad Ein-

ing=

ingareñar Band, sem hefur bunded Hiarta þitt vid Gud, hver alleina hefur Odaudleikañ, hver og hefur trwlofad þig sier ad Eilijfu, i Naad og Myskunseme, i Riettlæte og i Doome, Hos. 2. Ef þu elskar hañ, þa er ecke ad ugga hañs Elsku til þijn, hañ vill vera hia þier i Neideñe, og þier þadañ wtryckia, allar þijnar Andvarpaner heyra, øll þijn Taar reikna, og hella þeim i siñ Siood, og sijdañ af þurka med eilijfre Glede, og þott ad þu meiger sia a Bak þijns kiæra Egta-Mans um Hrijd, þa er þad stutt hia Eilijfdeñe, hvar þid munud um Allder Allda samfagna, aan nockurs Kvijda fyrer þvi, ad skiliast framar. Seig þvi ecke, eg er af øllum forlaateñ, medañ þu hefur ecke Gud forlaated, mun hañ þig alldrei forlaata; Treyst þvi ad fullu, ad þad sem Drotteñ seiger vid Christnena, hia Esajam Cap. 54. þad vill hañ til þijn sagt hafa, svo sem eina forlaatna Konu, og Sorgbitna, þa kallar Drotteñ þig aptur; Fyrr skulu Fiølleñ ur Stad vijkia, og þessar Hæder nidurfalla, eñ ad mijn Naad vijke fraa þier, edur miñ Saattmaale nidurfalle, seiger Drotteñ þiñ Myskunare. Jaa, hañ sem er trwr, og siaalfum sier ei kañ ad Neita, seger Postuleñ. Øll Umsorgun og Umhyggia Bwskaparens liggur nu a þier, sijdañ Gud took þiñ Mañ fra Sijdu þiñe, huxa til þess er David seger, Ps. 68. Gud leggur oss eina Byrde uppa, eñ hañ hiaalpar oss ad bera; Vantreist honum ecke, sem bar allañ Israel i Eydemørkuñe, svo sem ein Mooder ber siñ Son, seger Moyses, Edur hañs Syne, hver ed ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, ad hañ giete ecke hiaalpad þier, til ad bera þad hañ hefur siaalfur þier a Herdar lagt, Haf þijna Unadsemd i honum, hañ hefur lofad ad giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnest; Fiñest þier Byrdeñ þung, þa varpa allre þiñe Ahyggiu uppa hañ, sem þvi mun vel til Vegar koma, Og er þad nu svo um hid Fyrra wt-talad.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur, þa reyna Meñ þad optlega, ad Forelldrunum fellst ecke miña um þad, nær þeirra Børnum verdur fyrer Tijmañlegañ Dauda burtu kipt, helldur eñ þo ad hvert misste añars, sierdeilis, ef þad eru einka Børn, svo sem hier aa stoodst, Þvi Hañ Var Einka Sonur Siñar Moodur, seiger i Textanum: Og þar ad auke, ef ad þvilijk Børn eru lijkleg til Giæfu, og Meñingar, svo þau giæte sijdañ Gude og Fødur-Landenu med Sæmd og Æru þioonad, og ecke verdur þvi moote sagt, ad stor Hørmung laa aa Kviñu þessare, þar Daudeñ hafde rænt hana fyrst sijnum Hiartkiæra Egta-Mañe, og þo aa heñar besta Alldre, og þar ad auke sijnum Einasta Syne, eiñig i sijnu Æsku-Bloome, hver aan Efa hefur vered heñar einasta Ynde og Adstod i heñar Munadarleyse, eñ þad eykur myklu hier aa, ad þad var eitt Brixle hallded aa þeim Døgum fyrer Kviñurnar, ad laata ecke Sæde epter i Israel, þvi allar gyrntust ad vera Mædur ad Messia, og ecke hefur þad einasta Læging þoott Obyria ad vera, helldur og hitt ein stoor Sorg, ad missa Børn sijn, og eiga kañ skie ecke Von til añarra, þad sie eg aa Dæme hiñar Sunamitisku, er sagde vid Elisæum, nær Sonur heñar laa Andvana, 2. Reg. 4. Beidda eg miñ Herra nockud um Son? Sagda eg ei, pretta mig ecke? Svo sem hefde heñe þoott sa Kostur liettare, alldrei ad hafa Barn fædt, helldur eñ ad Syne heñar hefde vered i burt svipt, og maa sa vera af Jaarne gior, sem ecke vor-

kieñer þeim svoddañ Mootgaang, sierdeilis, þar Guds Ande setur oss þetta til Dæmes um̃ hina mestu Sorg, þar hañ seiger, Amos. 8. Ad Harmkvæle Gydinga skule verda eins og Harmur epter eiñ einasta Son, þad sama Jtrekar hañ hiaa Zacharjam, Cap. 12. Þvi er svoddañ miøg Naatturlegt og eingum ad laa, þo skulu Christner Meñ haga sier i þessu svo sem Guds Børn, og laata hañ raada, sem alls Raad aa bæde aa Himne og Jørdu. Hinar sømu Røksemder skal ad søñu til þess hafa, ad bæta Sorg sijna i þessu Tilfelle, og hinu, er i fyrre Greineñe var um̃talad; Seig mier, Christeñ Madur, Hefur þu ecke Barn þitt af Gude ødlast? Svo seiger David, Ps. 127. Børneñ eru Guds Gaafa, og Lijfsens Avøxtur er eiñ Skeinkur, þau eru ecke svo alldeilis vør Børn, ad þau sieu ecke myklu framar hañs, sem er Fader yfer øllu þvi er Børn kallast bæde aa Himne og Jørdu, þvi nær hañ gaf oss þau, þa gaf hañ þau med þeim Skilmaala, ad honum være frialst ad taka þau til sijn nær hañ villde; Eda giørum vier ecke svo hver vid añañ? Þoott eiñ laate Barn sitt til Vinar sijns um̃ Stund, mun þad ecke standa i hañs Vallde, ad laata þad til sijn aptur hverfa, nær honum lijkar; Ætlunst þvi ecke til, ad Gud mune hafa miñe Riett yfer oss, og Børnum vorum, eñ vier þykiunst yfer þeim hafa; Seig þvi midt i Sorgeñe, midt i Harmenum eins og Job, hvern Gud svipte ecke einasta øllum Børnum sijnum, helldur og allre Aleigu siñe i einu Verfaange, Job. 1. Gud gaf, og Gud aftook, sie Nafn DRottens blessad. Ef þu ert Guds Barn, (þvi fyrer þeim vil eg sier i Lage þetta talad hafa) Ef þu ert sialfur Guds Barn, seige eg, þa veit eg, ad þier hefur um̃hugad vered, ad fela þessa Guds Gaafu honum sialfum aa Hendur, ad Barn þitt mætte hañs Myskunar og Forsioonar i øllu nioota; Eñ allra hellst muntu hafa Um̃hyggiu bored fyrer þess eylijfre Velferd; ad þad mætte Gude sem kiærast vera, og sem mest vardveitt fyrer Andskotans, Heimsins og Höllsins Vielum, hier um̃ muntu Gud beded hafa i øllum Bænum þijnum, meir eñ um̃ laanga Lijfdaga: Seig mier, Hefur þa Gud ecke Bænheyrt þig, er hañ hefur teked þad burt wr Þrældoome Heimsins i Sælu Himensins, fraa Uñisaatrum Diøfulsins til Guds Barna Frelsiis, fraa Ofrijke Holldsins, til þijns og þess Fødurs Rijkis, hvar þad mun skijna svo sem Sool um̃ Allder Allda? Þier skilst þetta lijtt kañ skie, aa medañ Sorgeñ er sem braadust; Eñ laat þa svo sem Christur seige vid þig hid sama, er hañ sagde vid Petur Fordum, þa hañ ei villde laata DRotteñ þvo Fætur sijna; Hvad eg giøre, þad veitstu ecke nu, eñ þu munt þad sijdar þeckia, Joh. 13. Þier munde vænt um̃ þikia, þu munder af Hiarta gladur verda, ef Gud giæfe þier Barn þitt aptur, eins og Eckiu þessare; Eñ eg vil svara þier eins og hañ svarade þeim i Nazareth Fordum, Margar Eckiur voru aa Døgum Eliæ, eñ til eingrar var Elias sendur, nema til Eckiuñar i Sarepta i Sidons Lande, Luc. 4. Gud veit hvad hañ vill giøra, eckert giører hañ til Onytis, Tilgaangur DRottens i þessu Kraptaverke er audsien. Fyrst er sa, ad hañ sijnde bæde þier og øllum Sorgbitnum, ad hañ bæde vilie og kuñe ad sampijnast Eymdum þeirra. Hiñ añar, ad hañ Auglijste þad hañ Gud være, sem ad hefur Valld yfer Daudanum, þvi þesse var hiñ Fyrste af hinum Daudu, er hañ uppvakte aa sijnum

Hiervistar

Hierviſtar-Dogum, eñ ſijdañ ad hañ hefur hvertveggia þetta med mørgum Rokum ſtadfeſt, hver Naudſyn ber þa til þeſs, ad hañ umbreyte ſijnu Logmaale? Og þoott þu mætter þañ Koſt eiga, ad Barn þitt hverfe aptur i Verolldena, hvilijk Fæviſka være þad, ad ſelia Rijkdoom fyrer Armood, Heilbrygde fyrer Siwkdoom, Glede fyrer Sorg, og hina allra ſætuſtu Roo og Hvijld fyrer allskonar Andſtreyme og Erfide, þad være ad hata, og ecke ad elſka Barn ſitt, ef riett er ælited, fierdeilis þar hiner Utvoldu Guds, ſem i DRottne dæner eru, þeir lofa Gud Oaflaatanlega fyrer ſijna Endurlauſn i Himnenum, þvi ſkylldu Meñ þa ſyrgia þeirra Burtfor af Heimenum, allra helſt þar vier høfum eckert miſt, helldur undañ oſs ſendt, og munum fiña eitt heilagt Barn fyrer Syndugt, Odaudlegt fyrer Forgeingelegt, og Einglunum ſamjafnt, fyrer þad ſem æður var þo ecke nema Molld og Aſka; Leifed þvi Bornum ydar til DRottens ad koma, Chriſtner Meñ, og bañed þeim þad ecke, og ſeiged eins og Baruch vid hina Herteknu i Babylon, Baruch 4. Eg hefe laated ydur burt med Harme og Græate, eñ Gud mun ſkila ydur mier aptur med Glede og Fognude eylijflega. Eg veit ad mørgum er þad ſtoor Harmur, ad miſſa eitt einaſta Barn, ſem var Giæfulegt, og vel ad ſier um alla Hlute; Eñ hugleid þo Chriſteñ Madur, ad Gud gaf ſiñ eigeñ og einaſta Son wt fyrer þig, i hverium hañ alleina hefur ſijna Velþocknan, ecke til ad bada i Rooſum, helldur til þeſs, ad ecke hefde hañ þar hañ mætte Hofde ſijnu halla ad, Luc. 9. Ecke til ad laata ſier þioona, helldur til ad þioona ødrum, ecke til ad lifa i Sælu nockre, jafnvel þott hañ mætte þa vel Sælu hafa, helldur til ad þola Kroſſeñ, Heb. 12. Þetta giorde hañ, ſem þier var um eckert ſkylldugur; Ojafnt hafeſt þid ad, ſem ert honum ſkylldugur bæde um þig og Barn þitt, ad þu ængraſt af þvi, ad hañ flutte þad i eylijfa Sælu, ſem hañs Sonur hefur þvi med ſiñe Kvol afrekad: Hverſu giorſuglegt ſem þad var, þad var þo alldrei ſvo veglegt, ſvo ſem hiñ Frijdaſte medal Mañaña Barna; Ef Gude og Fodur þootte hañ ecke Ofgoodur i Kvalernar, Hvar fyrer ſkyllde þier þa þykia Sonur þiñ Ofgoodur til Dijrdareñar: Þu villder hafa honum Stoor-Fie epterlaated i Verollldeñe, mun þad vera betra eñ hañs Arfa-Hlute i Lande lifande Maña? Misjafnt fer um Arfana hier i Verollldeñe, eñ Petur ſeiger oſs ad þeſſe Arfur ſkiemeſt ecke, 1. Pet. 1. Nooger eru Erfingiarner, þoott eiñ deye Barnlaus, ſieu ecke adrer, þa er Fodur-Landed, þa eru Guds Volader, gior þeim Gott medañ þu lifer, og hefur þu Fie-Siood æ Himnum. Sonur þiñ doo burt i ſijnu Æſku-Bloome, eñ eingeñ veit Æfe ſijna fyrr eñ oll er: Vor fyrſta Mooder fagnade nærſta miøg hinum fyrſta Mañe, ſem i Heimeñ var fæddur, eñ þad villde ecke ſvo rekiaſt wr fyrer honum. Eli Hofud-Preſtur liet dæatt ad Sonum ſijnum, 1. Sam. 2. þo voru þeir Skalkar. Vænt þookte David um Abſalon, hverneg hañ launade honum, þad er alkuñugt: Þu þykeſt vita, ad ei var Barne þijnu hætt vid ſlijku, ſvo er þad, hverium af oſs þyker ſiñ Fugl fagur. Eñ þegar ad Gud hefur ad fullu ræded Son þiñ ſier til Handa, þa hefur hañ teked þeſſa Umſorgun af þier, hañ er þangad komeñ, hvar hañ ecke ſkal vega ſiñ Broodur, ecke vanvyrda Guds Þioonuſtu, og ecke giora Uppreiſt i moote Fodur ſijnum. Þu villder hafa ſett hañ til Menta, ad



hañ

hañ lærde alla Heims-Speke, og øll Tungumaal: Heyr mier, Guds Vinur: Eing-eñ er hvilijk Speke sem ad deya vel, og þar ad æ øll Speke ad lwta, añars er hun O-nijt. Hañ kuñe ecke svo margar Tungur sem þu villder; Þott hañ kuñad hefde, munde þad hafa gagnad honum til Himnarijkis? Þacka Gude ad hañ er þaangad komeñ, hvar Tungumaalunum slotar, eñ Kiærleikureñ varer eylijflega, 1. Cor. 13. Noogur Vijsdoomur er þad, ad hañ þecker Gud, svo sem hañ er af honum þecktur, og talar Einglaña Tungu. Adgreining Tungumaalaña er Straff Syndareñar, eñ þad er Naad Guds, ad Tunga hiña Maalhölltu skal tala riett, Esa. 32. Svo veit eg og ad hver Utvalldra mun skilia añañ, og ad þetta fullkomnast j Himnarijke, þar skal ecke Barn mitt þola mørg Høgg fyrer siñ Lærdoom, ecke Ottast fyrer, hvert þad mune viña edur tapa i einu Prætu-Maale, ecke helldur æra sig i Reikninge Stiarnaña, edur Mælingu Himensins, nær þær eru dottnar, eñ hañ samañvafeñ eins og añad Klæde, Heb. 1. Jafnvel þoott Meñ verde ad flækiast vid þeña Hiegooma epter Naudsyn Spillingareñar Harttalags. Þu meinar ad Gud sie þier reidur, af þvi hañ leifde þier ecke ad uppala þad er hañ svo vel skoop, sijnum Brædrum i Heimenum til Nota og Gagnsemdar; Gief þig til Frids, Barn mitt, þacka Gude, ad þu med hañs Adstod hefur uppaled þad til Himnarijkis, hañ æ margañ Goodañ, læt hañ sorga fyrer Londum og Lijdum, sem þad leingst hefur giort. Svo hygged nu ad þessu, Christner Meñ, hver i siñ Stad; Laated hañ raada sem raada æ, og alldrei rædur sijnum Børnum, nema til hins besta, og ætlest ei til, ad þier siaed betur fyrer ydar Raade edur Barna ydar og Astvina, helldur eñ hañ, til hvers ad bæde ydur og þeim er varpad allt i fraa Moodur-Lijfe. Eñ þu eylijfe Fader, sem ecke einasta taled hefur alla Daga vora, helldur og øll vor Hofud-Haar; Kieñ þu bæde Forelldrum og Børnum, ad huxa þad vier hliootum ad deya, svo vier Forsiaaler verdum, ad alldrei lifum vier svo sem ættum vier i þessu Volæde Æfeñlega ad lifa, helldur gief þu oss, sem ert Gud Lijfsens og Daudans, ad hvert vier lifum edur deyum, þa sieum vier DRottens, Bænheyr þad DRotteñ miñ, Fyrer JEsu Pijnu og Dauda, og gief oss þar til Styrk Heilags Anda, Amen, J JEsu Nafne, Amen.

# Seytianda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 14. Cap.

A Þeim Tijma. Og þad skiede so ad JEsus kom i Hws nockurs Phariseara Høfdingia a Þvott-Deige Brauds ad neyta, og þeir høfdu Vardhalld a honum. Og siaa þu, ad Madur nockur Vatns-Siwkur var þar frame fyrer honum. Og JEsus Andsvarade og sagde til Leg-Spekingaña og Phariseaña, so seigiande: Hvort leifest nockud ad lækna a Þvott-Døgum? Eñ þeir þøgdu vid. Og hañ took a honum, læknade hañ, og liet hañ i burtu fara, svarade og

og sagde til þeirra: Hvørs ydar Asne eda Naut, sem fellur i Pitt, er þad eige jafnsnart wtdreiged a Pvott-Deige? Og þeir gaatu hønum þar til aungvu svarad. Eñ hañ sagde þessa Epterlijking til þeirra sem bodner voru, þa ed hañ merkte hvørneñ þeir møttust epter hinum fremstu Sætum, seigiande so til þeirra: Nær ed þu verdur bodeñ af Einhvørium til Brwdkaups, þa set þig ecke i hid Ædsta Sæte, kañskie, þad añar Heidarlegre eñ þu, sie bodeñ af hønum, og kome sa sem þier baud og hønum, og seige til þijn, Gief þessum Rwm, og hliooter þu þa med Kiñroda ad hafa hid ytsta Sæte. Helldur so, nær ed þu verdur bodeñ, þa far þu, og set þig i hiñ ytsta Sess, so ad þa nær ed sa kiemur, er þier baud, þa seige hañ til þijn, Vinur, Þoka þier upp betur. Þa mun þier Virding veitast hiaa þijnum Sessunautum. Þviad, hver sig sialfur Upphefur, hañ mun Nidurlægiast, og hvør sig Lijtelæter, hañ skal Upphafeñ verda.

## Exordium.

A Medal hiñar Vegleguſtu Guds Þioonuſtu, er vier eigum ad dijrka hañ med, þa er Helgun Sabbats Dagsens, hun er i Fyrstuñe ecke bodeñ Syndareñar vegna, helldur ædur eñ Spillingeñ iñkom i Heimeñ. So seiger i Genesis Bookar 2. Cap. DRotteñ blessade hiñ siøunda Dag, og helgade hañ, þar hañ a hønum hvijldest af øllu sijnu Verke, er hañ skapad hafde, þad er, ad hañ hætte þa ad skapa Himen og Jørd, og allt hvad þar er iñe. Þetta Bodord er aptur Jtrekad i Moysis Løgmaale, og er eitt af þeim Tiju Guds Laga Bodordum, Þess gietur i Exod. Bookar 20. Cap. Miñstu ad helga Hvijldar-Dageñ DRottens Guds þijns, og er þetta Bodord optlega stadfest i Gamla Testamentesins Bookum. A Sex Døgum skulud þier Verk viña, hiñ Siøunde Dagur skal Helgur kallast, þvi þad er Hvijldar-Dagur, Þier skulud eckert Verk a hønum viña, seiger i Lev. 23. Cap. Hin Fyrsta Orsøk til þessa Hvijldar-Dags i Gamla Testamentenu var siw, ad Endurmiñast hiñs mikla Stoorvirkis, er Gud giørde i Skøpun allra Hluta, Þvi nefner DRotteñ þad eitt Teikn a millum sijn og Jsraels Barna, Ezech. 20. Øñur var siw, ad a þeim Deige skyllde almeñeleg Guds Þioonusta halldeñ verda, med Foornfæringum, med Kieñingu Guds Orda og ødrum þvilijkum Gudrækuis Eyrendum i Helgedoomenum. Uñ Foornernar maa lesa, Num. 28. Eñ uñ Guds Orda Kieñingu, vottar Lucas Cap. 4. med Dæme Frelsarans, Hañ kom til Nazareth, hvar hañ var uppaleñ, og gieck iñ ad Venin siñe a Sabbats-Deigenum i Samkunduna, og stood upp ad lesa. Hin Þridia var, ad Meñ og Viñu-Dijr skylldu hvijlast af Sex Daga Ervide, þad er bert af Exod. 23. Cap. Og hin Fiorda var sier i Lage fyrer Jsraels Foolk, ad Endurmiñast Lausnareñar af Egyptalands Prældoome, svo sem seiger i Devt. Bookar 5. Cap. Nu, þoott ad Gud sette svo i Ondverdu, ad hiñ Siøunde Dagur skyllde brwkast til þessarar Helge, þa er hun nu og hefur vered sijdañ Himnaför Lausnarans halldeñ a hinum fyrsta Deige Vikuñar, er vier i Miñing Christi Upprisu helgum, i Miñing Endurskøpunar Heimsins, sem fyrer hañs Dauda er skien, og Miñing hiñs Eilijfa Sabbats, er øllum Guds Børnum i hañs Upprisu feinged er. Þetta skulu Meñ ecke ætla ad sieu Maña Setningar, helldur svo sem Moyses flutte Guds Løgmaal a millum hañs og Jsraels Barna, Svo hafa og Christi Postular giørt þessa Skyckun aan alls Efa epter hañs Bode, þvi eckert seigiast þeir munde þora ad giøra fyrer utañ hañs Skipan, Act. 15. Þad er og

kuñugt,

kuñugt, ad þeir afmaadu sumar Greiner af Kyrkin-Løgunum i Samkomuñe i Jerusalem, þegar Paulus og Barnabas voru til þeirra sender fraa þeim Christnu i Antiochia, Og er þeña Flutning Sabbats-Dagsins ecke meira i spuñed. Eg vil ecke ætla, ad nockur giøre sier i Lund, ad Christur hafe ei haft Valld til þessarar Færslu, þvi hañ seigest vera HErra Sabbats-Dagsins, og ef þad var ecke a moote hañs Guddoomlegu Haatign ad afmaa Sacramente hiñs Gamla Testamentis, þa var ei helldur þetta. Eñ ad þesse Raadstøfun sie af hañs Postulum giør, er þad til Vitnis, ad þeir komu samañ a Hvijtasuñu-Deige, Act. 2. sem iñfellur a vorn DRottens Dag. Lucas skrifar, Act. 20. Ad þañ fyrsta Dag Vikuñar hafe Lærersveinarner samañkomed til ad brioota Brauded, og ad Paall hafe þa Rædu hallded, Og sialfur Paall skrifar Corinthu Borgar Møñum til, 1. Cor. 16. Ad a hinum fyrsta Deige Vikuñar skule þeir leggia Afsijdis Olmusur sinar, er Naudsiøddum Christnum Møñum ætladar voru. Þeña sama Dag kallar Johañes Postule og Gudspiallamadur DRottens Dag i sijnum Openberunum, Cap. 1. Og svo hefur Christeleg Kyrkia nefnt hañ fraa þeirre Tijd, allt til þessa, Pad ber til þess, ad nær Postularner ecke nefna Frelsarañ sijnu eigeñ Nafne, þa kalla þeir hañ DRotteñ i Staden fyrer Guds Heite, sem er Jehova i Gamla Testamentenu, Þvi kalla eg þad vijst, ad þesse Raadstøfun sie fraa Gude komeñ, og ad þessu svo fyrermælltu, þa vil eg nu taka mier Orsøk af Spurningu DRottens til Gydinga, HVert Þar Leifdest Ad LÆkna a SAbbats-DEige. Af heñe vil eg taka mier Orsøk ad tala uñ þetta Tvent. 1. Hvad Christnum Møñum sie Oleifelegt ad fremia a Sabbats-Døgum. 2. Hvad þeim byrie ad giøra, og Leifelegt sie.

Þu Stoore HErra DRottens Dagsens og hiñs Eilijfa Sabbats, Laat oss so giøra þitt Verk a þessum Deige, ad vier uñ sijder meigum Iñgaanga til þiñar Hvijldar, Amen, i JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

HID Fyrsta sem bañad var a Sabbatenu, þad var ad viña nockurt Verk a þeim Deige; Svo seiger DRotteñ i sijnu Løgmaale, Devt. 5. Vardveit þu Hvijldardageñ, ad þu helger hañ: Eckert Verk skalltu a honum viña, og svo streingelega var þetta bañad Israels Sonum, Exod. 35. ad þeir ecke maattu Elld kveikia i Hybijlum sijnum a þessum Døgum, hvar fyrer þeir ecke helldur maattu Matreida, og er valla nockurt Bodord svo optlega Itrekad i heilagre Ritningu, svo sem þetta, og hversu ad Gud hafe freklega straffad Vanhelgun Hvijldardagsins, þad sijner oss Straff hañs, er tijnde upp Smælked a Sabbats-Deige, ad hañ maatte deya epter Løgmaalenu, Num. 15. Fyrer Vanhelgun þessa, hootar Gud sijnu Foolke, ad hañ vilie uppbreña Borger þeirra, hiaa Jeremiam Cap. 17. og hiaa Ezechielem Cap. 22. Sverded Kongsins af Babylon, og er þeir aptur komner wr Herleidinguñe tooku til ad vanhelga DRottens Hvijldardaga, þa aatalde Nehemias þa hardlega, og leidde þeim fyrer Siooner, ad fyrer þessa somu Synd, hefde Ogiæfañ komed yfer Fedur þeirra, seigiande: Þegar Forfedur ydar giordu svo, munde ei Gud vor leida yfer oss alla þa Olucku og yfer þessa Borg? Og þier vilied upperta Guds Heiptar Reide moote Israel, med þvi ad vanhelga Sabbatsdageñ, Nehem. 13. Nu er þo uñ Sabbatsdageñ Tvent ad hugleida, þad eina er Sida-Løgmaalenu vidvijkur, þad er hellst i þvi foolged, ad lofa Gud og dyrka a þeim Deige, og svo ad giefa bæde sialfum sier og Hiwum sijnum Toom og Stunder til þessarar Þioonustu, svo og ad hallda einhvern Viku-Dag til þessarar Idnar, og þad er svo rijkt i Naatturuna iñskrifad, og medfædt Mañenum, ad hiner orgustu Heidingiar tooku sier vissa Daga, nærre svo marga sumer hverier, svo sem vier-

vier Christner Meñ, til ad fremia Bloot sijn, og adra Godaña Pioonustu, hverre Skipan þeirra þoott ad Mañkynsens Ovinur hafe spillt med siñe Dyrkun, þa er þo audsært hier af, ad Natturañ hefur boded þeim, ad slijkt være ein sialfbodeñ Skyllda vid Gud, og hafa ad þvi Leite og med þessum Setninge sañad þad sem Paull skrifar, Rom. 2. Ad Heidingiarner sem ecke hafa Logmaaled, þeir giore af Natturuñe þad Logmaalsins er,. Añad er þad sem Kyrkiu Logum Gydinga sier i Lage vid kom, sem er, ad hallda Sabbated, a hinum Siounda Dege, hvar uñ ædur er nockud i Jñgængenum talad, svo og ad viña alldeiles eckert Verk a þessum Dogum, sem þo æn Efa hefur nockurn Skilmæla haft, sem sijdar mun sagt verda. Nu þott ad Christeña Maña Frelse hafe nockra Lijkind hier i giort, svo og linad Straff þeirra, er Drottens Dageñ vanhelga, þa vite Meñ samt, ad þad er ein hroopande Synd, ad brioota hañ med Onaudsynlegu Erfide. Til Guds Dyrkunar var hañ helgadur i Fyrstuñe, laungu ædur eñ Logmaaled var wtgiefed. Christelegt Frelse hefur ei afmæd hañ, helldur flutt a hiñ fyrsta Dag, hañ er i Sida-Logmaalenu bodeñ, alldrei er hañ af Christo fyrerbodeñ, helldur Hræsne og su Hiæ-Trw er Gydingar uñ hañ hofdu, hun er stroffud af Frelsaranum. Petta Bodord uñ Helgun Hvijldardagsens er Alyktun hiñar fyrre Bodorda Tobluñar, hvers vegna ad sijnast mæ, ad hañ sem þad mootþrooanlega brijtur, hañ neite allre Guds Dijrkan fyrer utañ þad, ad þad stendur alltijd stodugt er Jacob skrifar, Cap. 2. Ad sæ sem brijtur eitt af Bodordunum, hañ er vid oll sekur, sæ sem brwkar Hvijldardageñ til siña Utriettinga, ad Parflausu, fyrer Agyrnes saker, edur af Forsmæn vid Gud, hañ er eiñ Afguda Dijrkare, þvi Gude einum eñ einguin odrum tilheyrer sæ Heidur ad hallda hañ helgañ, þar fyrer seger hañ, Exod. 31. Siæed til, ad þier hallded miñ Hvijldardag, þvi þad er Teikn a millum miju og ydar, vanbrwke þvi nockur þeña Dag, med þvi Moote, sem ædur er sagt, þa ræner hañ Gud sijnum Heidre, og tileinkar sier, þad honum alleina tilheyrer, hañ vanhelgar og hañs Nafn, þvi a þessum Dege a ad prijsa og losa þad, med hiñe mestu Audmijkt; Eñ sa sem ecke er med mier, hañ er a moote mier, seger Christur, Matth. 12. Svo vil eg segia; Ad hañ sem ecke Guds Nafn helgar a þessum Dege, hañ vanhelgar þad; Og i Sañleika, Christner Meñ, þiker oss þad Oflijted, ad Gud hefur giefed oss hina Sex Dagana til Utriettinga vorra, ad hañ hefur blessad vort Erfide, vora Lijfs Næringu, vorar Karfer og vorar Afgængs Leifar? þott vier giolldum honum Pioonustu Siounda reñar, svo sem eiñ Skatt af ollum Tijmanum, þad være stakt Ohacklæte, ad skora sig undañ þvi. Eg vil ei þar uñ tala, ad Gud er længtum Vægdarsamare vid Lijkame vora, eñ vier erum sialfer: Par fiñast þeir, ed svo eru ækafer i Bwsorgeñe, ad þeir mundu eingañ Tijma giefa sier, Hiwum sijnum og Viñu-Dijrum til Hvijldar, nema þesse Dagur være tilsettur, svo eyda þeir sialfum Lijkamanum fyrer Lijkamans Næringu ad Parfleysu, hvar med Gude er eingeñ Pioonusta gior, þviad hañ, sem ad baud Mañenum, ad i Sveita sijns Andlites skyllde hañ sijns Brauds neyta, Gen. 3. Hañ hefur og boded, ad a hinum Sjounda Deige skyllde hañ hvijlast af



sijnu

sijnu Erfide. Og þott nu ad Strit-Viña og oñur þvilijk Veralldar Umsvif sieu bonud a helgum Dogum, þa meine þo eingeñ, ad Gud verde med Eintomes Idiuleyse dijrkadur. Idiuleysed er Orsok til margra Lasta. Þegar David gieck Idiulaus uppa Hws Pake sijnu, þa freistade Diofulleñ hañs til ad gyrnast Bersabe, og var hañ þo Guds-Madur; Ætla ecke ad þu siert Ohultare fyrer honum ef til vill, þvi talar Hieronymus vijslega og Gudrækelega, er hañ seiger; Haf alltijd eitthvad ad sijsla, svo Diofulleñ hitte þig ecke Idiulausañ, þvi Idiuleysed færer med sier Lestena, Meñ læra Illt ad giora, af þvi ad giora eckert; Þar fyrer seiger og eiñ af þeim Christnu Forn-Moñum; Betra være Gydingnum ad viña Eitthvad til Þarfenda a Akre sijnum, helldur eñ ad giora Upphlaup a Akrenum, og betra være Konum þeirra ad sitia ad Ullar-Verke, helldur eñ ad dansa Openberlega a sijnum Tunglkomu Hatijdum, og er þad Mala sañast, ad oss Christna Meñ vantar alldrei Verk a Helgum Dogum, til ad þiona Gude med, ef vier værum Lundlægner þar a, þott vier hvijlunst af Daglegu Erfide, hvar um eg vil framar tala i hiñe sijdare Greineñe. Eñ ef þad er ecke Leyfelegt, ad viña Ofmiked, edur eckert a þessum Dogum, þa er þad vijst, ad þad er ein Hofud Skom, ad hafast þad ad, sem illt er og i sialfu sier Oleifelegt, þvi þad er ad dijrka Diofuleñ i Stadeñ þess Meñ ættu Gud ad dijrka. Þetta giora aller þeir ed brwka Guds helga Daga til Lausletis, til Ofneytslu og Ofdryckiu, til liootrar Skemtunar, til Okurs og Agyrne, til ad viña sier iñ Fe med Duble og Teninga Kaste, hvar af þrælega orsakast Svardagar, Agg og Þræta, Afliog og Riskingar, til Ills Samtals, til ad Baktala, Rægia, og liuga uppa Nauungañ, til ad Atyrda hañ, og giora Illt i Skape. Ostande være, ad ecke kiæmu Meñ samañ til slijks, a helgum Dogum, under þvi Skyne, ad gaunga i Guds Hws, um hveria Paull seger, 1. Cor. 11. Ad þeir samañsafnest til hins verra eins, og er eingeñ Vanhelgun argare eñ þesse; Þvi ef þad eru i sialfu sier þvilijker Klæker, ad Paulus seger, ad med slijkum skule Meñ ecke Umgeingne hafa, og ad þeir ed þvilijkt fremia, erfe ecke Guds Rijke: Hvilijkur Glæpur mun þad þa vera, ad adhafast svoddañ a þeim Tijmum, sem Drotteñ helgad hefur? A medal þessara Klækia, er ecke hiñ miñste, Guds-Hwss Forsoomun og hañs Heilogu Orda, sem morgum Veralldar Syne þyker lijtil Synd, og allt añad þarfara ad viña: Þykiast sialfer noogu vel uppfrædder, svo ad ei mune þeir læra miked af einfolldum Prestum. Herra Gud; Olijker eru Sialfbyrgingar þesser heilogum David; Hañ var svo vel uppfrædur af Heilogum Anda, ad hañ hefur morgum odrum Himneska Speke kient i Psalmum sijnum; Þo seger hañ, Ps. 27. Eins hefe eg beded af Drottne, þess kresst eg af honum, ad eg sitie i Hwse Drottens alla mijna Lijfdaga, til ad sia Fegurd Drottens og leita heñar i hañs Mustere. Hvad sijnest ydur, munde David ecke gieta funded Gud heima i Hwse sijnu, eins vel og þier? Iw miklu betur, þvi eg efast um, hvert þier sijned hañ nockurstadar, sem svo Toomlater erud, ad þier vilied ei lia Fætur ydar til ad gaunga i Guds Hws, til ad leita hañs þar, edur Eyrun til ad heyra hañs Ord. Hvad fañ þo David i Guds Hwse añad eñ nockrar Foornferingar, i hverium ad Fyrermyndud

dud voru epterkomande Giæde, vid hveriar hañ þo huggade sig, og var gladur af Voneñe: Eñ þier hverium Christur er med øllum sijnum Velgiorningum Krossfestur afmaaladur, i hverre riettskickadre Predikun, þier forsmaaed þo Lijkamañ, þar sem David unde sier vid Skuggañ. Hier af spretta adrer Avexter, lijker Rooteñe, sem er Bænrækarleysed, þvi Guds Hws er Bæna Hws: Vantrweñ, þvi hverneg meiga þeir trwa, nema þeim sie predikad, seger Paulus, Rom. 10. Kiærleiksleysed, þvi þeir yfergiefa Safnadeñ a moote Postulans Bode, Hebr. 10. og Samneyte Guds Barna, sem hvad mest ebleft i Guds Helgedoome. Hier af fylger hañs Pienara Forsmaan, þeir eru soddañ Moñum eins og ein Gaman Vijsa, sem er fogur ad leika, svo sem Drotteñ sagde vid Ezechielem, þeir eru þeim nockurskonar Epterlijkinga edur Ordskvida Smider eins og hañ, Ezech. 21. Eñ hvad vill hier af fylgia; O! þier hin Faavijsu Børneñ? Pad aan Efa, ad hver sem þa forsmaaer, hañ forsmaaer Christ, eñ hver sem Christ forsmaaer, hañ forsmaaer þañ er hañ sende, eñ þañ ed Gud forsmaaer, þañ vill hañ forsmaa, 1. Sam. 2. Og er þa ecke leingra ad leita ad Glotuneñe, sa fiñur hana i eilijfum Ellde, sem ei villde leita ad Drottne i hañs Hwse. Hier uñ mætte margt fleira tala, eñ eg læt þetta nægia ad svo støddu, og vil koma til hins, er eg aadur lofad hefe uñ ad tala.

Hvert ad vera eige vort hid sierlegasta Verk aa DRottens Døgunum og ødrum helgum Tijdum, þad er audvitad af Skickun Sabbatsdagsens i Gamla Testamentenu, hvar Foolked aatte samañ ad koma til Helgedoomsins, til ad dyrka Gud med Offrum og Foornfæringum, svo sem aadur er sagt, þvi jafnvel þoott Dagureñ sie uñbreittur, og Foornernar afmaadar med þeirre einu Foorn, sem hiñ Ædste Nya Testamentesins Kieñemadur hefur iñbored i þad Allra Helgasta i Himnenum, ad wtvegadre eylijfre Endurlausn, þa er þo ecke hañs Vilie uñbreittur i þvi, ad laata þiona sier af Christnum Moñum. Fyrer Synda-Foornernar Offrum vier þvi saklausa Guds Lambe, sem fraa Upphafe Verallдar slaatrad er. Vor Upplyptingar-Offur eru Bæner og Packargiørder, þetta eru Kaalfar Vara vorra, þad eru vorer Frumburder, sem Drottne eru helgader, þa eigum vier frañ ad bera ad søñu alltijd og allstadar, eñ þo sierdeilis i hañs Hwse aa þeim Døgum, sem þar til helgader eru, þar til er hiñ Fyrste Dagur Vikuñar bodeñ, sem aadur er uñgieted, sem og adrar Haatijder, þær ed Christelegt Yfervalld hefur sett, og eiga ad halldast i josnu Gyllde, þvi hañ sem baud ad helga hiñ Siounda Dageñ; Hañ hefur og boded ad hlijda Yfervalldenu, og aa þad þo hvad mest ad framkoma i þeim Hlutum, sem Guds Dijrd aahræra, og hañs sierlegustu Velgiorninga, hvar fyrer hiñ Fyrste af Christnum Keysurum, hiñ stoore Constantinus, liet hallda Føstudageñ helgañ i Miñing Krossfestingar DRottens, og varde saa Sidur leinge nockud, nu er þad þo ecke noog, ad koma samañ til Kyrkiuñar, nema Meñ giore þar Guds Eyrende med allre Alwd, aññars er vor Kyrkiu-Gaangur ecke nema Eintoms Hræsne, og være af Illu skarra, ad koma þar alldrei (sem þo er stoor Synd i sialfu sier, nær þvi maa vel vid koma) þvi hitt er ad naalægiast Gud med Vørunum, eñ Hiar-

tad er þar lángt frá, og hvad gagnar þad til Guds Dijrdar og vorrar Saaluhialpar, ad Meñ sitie i Kyrkiuñe, eins og Gud seiger um Tilheyrendur Ezechielis, Cap. 33. Þeir koma til þijn Hoopum samañ, og sitia fyrer þier svo sem mitt Foolk og heyra Ord þijn, eñ þeir giora þau ecke. Þad er Teikn til þess, ad Eptertekteñ hefur ecke mykel vered, og ecke einasta er þad nu Skyllda vor, ad koma samañ á helgum Døgum, til ad lofa Gud, helldur er þad eiñ gledelegur Hlutur, þad er Myskun Guds, ad hañ hefur ætlad þessa Daga til Sadningar Saalum vorum, Þar hefur hañ tilreidt eitt myked Giestabod i Syne sijnum. Þar vid huggar David sig i siñe mestu Sorg, er hañ kvedur þañeñ, Ps. 42. Eg wthelle Hiarta mijnu i sialfum mier, þar eg mun med þeim Flocknum burtgánga, og med þeim fara til Guds-Hwss med Gledskap og Þackargiord, med þeim Hoopnum sem Helgena helldur, eg fagna af þvi, seiger hañ eñ aptur, Ps. 122. Ad til mijn verdur sagt, vier skulum gánga i Hws DRottens. Þetta sagde hañ Konungureñ i Israel, og einum Verk-Þræl á medal vor má valla nwa til þess, ad sækia Sooknar-Kyrkiu sijna á Stundum, edur og Hwsboonde hañs hefur svo lwd hañ i Erfide, ad hañ gietur þad valla, hvad og er ein hroopleg Synd. Nu er ecke þar med bwed, Christner Meñ, ad Meñ heyre Guds Ord i Kyrkiuñe. Allañ Dageñ á Gude ad giefa med Riettu, ef þad giora má Stoor-Naudsynia vegna. Þegar Meñ eru frá Kyrkiuñe geingner, þa eiga Meñ ecke strax ad hætta sijnu Gudræknis-Verke, edur lifa svo sem alldrei hefdu þeir komed þar, og huxa ecke framar þar til; Hvad á þa ad giora? Riett er ad sedia Lijkamañ epter Þørfum, þad er og ecke bañad ad hallda skickañlegar Maal-Dryckiur á þessum Døgum, þo svo ad Meñ gledie sig med Otta og dijrke DRotteñ med Virdingu, Ps. 2. Þetta gietur og vered eitt af Kiærleikans Verkum, ef þad er giort án Ohoofs og Metnadar. Svo søgdu þeir Nehemias og Hezras Kieñemadur og Levitarner, er kiendu Folkenu; Eted hid Feita og drecked sætañ Dryck, og sended þeim eiñ Part sem ecke hafa tilbwed, þvi Dagur þesse er helgadur DRottne vorum, Nehem. 8. Þetta budu þeir ecke af eigeñ Myndugleika, helldur epter Løgmaale DRottens, er ritad stendur i Deuteronomii Bookar Cap. 16. Hvar fyrer slijkt er Leifelegt, sierdeiles ef Meñ gleyma ecke Naunganum og hinum Fátæka, þvi þeim bijdur DRotteñ med svoddañ Hætte gott ad giora, Luc. 14. Eñ þoott ad Skapareñ hafe láted þetta epter Lijkomum vorum, þa eiga Meñ ecke ad láta Saalena Hlutlausa vera, helldur æfa hana i Umþeinkingu Guds Orda, er Meñ heyrt hafa, og þess Lestre, þeir sem á Bækur kuña, og meiga fyrer ødrum lesa; Ecke høfum vier Christner Meñ færre edur smærre Velgiørninga DRottens ad miñast, á vorum Døgum, eñ Gydingar; Eins er oss skylldt ad miñast á Verk Skopunareñar og þeim, og øllu meir á vora Endurlausn af Helvijtes og Syndareñar Þrældoome, eñ þeim á Lausnena af Egyptalands Anaud, ad hverre fullendadre, (eg meina vorre Endurlausn) ad Drotteñ, sem doo fyrer Synder vorar, er uppriseñ oss til Riettlætes; A vora Endurskopun og Helgun i Skijrneñe, hverrar Fyrermyndan ad var Gángur Israels Sona yfer um Hafed Rauda wr Egyptalande, þvi meigum vier tileinka oss þad sem DRotteñ bijdur

biÿdur i ſijnu Logmaale; Geimed mijna Sabbats-Daga, ſvo ad þier vited ad eg er DRotteñ ſem ad helga ydur, Ezech. 20. A Deydingu Holldſins, ad vier ei giorum þad oſs lyſter a hañs helga Deige, nie gaungum a vorum Vegum, Eſa. 58. Uñ þetta eigum vier ad huxa a þeſſum helgum Tijmum, þad eigum vier ad brijna fyrer Bornum vorum og Hiwum, ecke ſijdur eñ Iſraels Syner Logmaaled, og ſkule Meñ ſatt tala, þa er eingeñ Idia Gude þeckare a Sabbatsdogum, eñ ad uppfræda Ungdoomeñ og hina Faafroodu i þeirra Chriſteñdoome, þvi til þeſs maa eg ſeigia, ad Chriſteña Maña Sabbat ſie giort ſier i Lage. Giæte þeir þeſs, ed af Gude ſetter eru til ſlijkrar Idnar, bæde Kieñemeñ, Forelldrar og Hwsbændur, og hugleide, hvad ſtoorum Reikninge þeir eige ad ſvara fyrer þeña Dag, ad odrum fraateknum. Nu fyrer þvi, ad ſvo er vared ſpilltu Edle voru, ad færſter af oſs, Ja, ſvo faaer ſem eingver af þeim ſem lifa a þeſsare kolldu og ſijdurſtu Olld, þeir gieta allañ Dag til Enda Gude þioonad i Hiarta ſijnu, aan þeſs ad Hugur þeirra hvarfle fraa, þa meina eg ad Leifelegt ſie, ad hreſsa Hiarta ſitt med Sidſamre og Hæverſkre Skiemtan a þeſſum Dogum. DRotteñ og hañs Læreſveinar geingu wt uñ Korn-Akur a Sabbatsdeige, Matth. 12. Þvi veit eg ad hañ bañar ecke ad giora ſier eitthvad til Dægur-Styttingar, hvert helldur þad er med lijtelle Viñu edur Meinlauſum Leik, nær þad ecke ſkiedur af Giaalijfe, af Lauslæte, af Hreckvijſe, edur odrum Hlutum ſem Guds Haaleita Nafn verdur laſtad med, ſvo og eru Naudſyneñe eingeñ Log ſett. Hvers Ydar Aſne Edur Naut, Sem Fellur J Pitt A Sabbats-Deige, Er Þad Ecke Jafnſkioott Uppdreiged? Seger Frelſareñ hier i Gudſpiallenu: Þvi veit eg ad ecke a ſvo Logmaaled ad ſkilia, ad oll Viña hafe Judum boñud vered a Sabbats-Deige, hvernig ſem aaſtædiſt, þad kieñer Chriſtur ſiaalfur med þeim Ordum, er ſtrax voru leſeñ, og aptur med þvi ad hañ ſeiger, ad Kieñemeñerner i Muſterenu vanhelge Sabbated, hañ meinar epter Phariſæaña Utleggingu. Eins mykel Viña var ad ſlaatra Foornunum fyrer Altarenu, ſvo ſem i heima Hwſum. Eñ fyrer þvi, ad þeſſer Phariſæi kyñu ad hafa ſagt, ad ſlijkt helgadeſt af Muſterenu, þa leifde hañ Læreſveinunum Axen ad plocka fyrer utañ Muſtered a Akrenum, og ſagde: Hier er ſa, ſem meire er eñ Muſtered, Matth. 12. Hvad ed ſatt var, þvi hañ var Muſtereſins HErra, ſvo vel ſem Sabbatsdagſins, Luc. 6. Þad var og af Guddoomlegre Speke talad, er hañ talade under eins; Sabbated er giort fyrer Mañeñ, eñ Madureñ ecke fyrer Sabbated, Marc. 2. Þetta er ſatt, ſvo ſem oll hañs Ord, þvi Madureñ var ſkapadur aadur eñ Sabbated var ſett; Hvar fyrer ſkyllde þa hin ædſta Skiepna Guds, ſem er under Sooluñe, vera ſvo miog bundeñ vid Kyrkiu-Logeñ, ſem ecke aattu ad vara leingur eñ til Chriſtum, ad ei mætte bregda wt af Logvitringaña Utleggingu. Guds Logmaal wtleggur og ſiaalft ſig i þeſſare Grein, þviad i Levitici Bookar 23. Cap. ſtendur optlega, Þu ſkallt eckert Prældooms-Verk viña, Þad er Itrekad aptur i Num. 28. og 29. Capitulum. Hvilijkt þad ſie, kieñer bæde Eſajas og Jeremjas, Ad ei ſkule bera Byrder iñ uñ Jeruſalems Port a Sabbats-Dogum, og maa þar af raada, hvad i þeſſu hafe meſt bañad vered. Nu er þo Frelſe

vort Christeña Maña meira, þvi vier erum ecke ad ollu Leite bundner vid Gydingaña Sabbat, nockud hefe eg ædur þar um̃ sagt, nockud vil eg hier epter seigia. Pad er nu ollum kuñugt, ad Kyrkiu-Log Moysis eru fyrer Dauda DRottens afmæd, eñ þad er ædur sijnt, ad Forbod alls Erfides æ Sabbats-Deige heyrer til Kyrkiu-Logunum. Satt er þad, ad Gud skipar, ad þetta Logmæl um̃ Sabbats-Dageñ skule vera þeim eitt Æfeñlegt Logmæl i þeirra Kynsloodum, eñ þær rugluđust, ei længt epter Himna-For DRottens, og nu veit eingeñ af þeim, af hverre Ætt hañ er, þvi er þad bert, ad þetta Logmæl hefur ei ad ollu Leite vered giefed nema Gydingum. Um̃skurneñ kallast og eitt Æfeñlegt Sættmæl, þo er hun afteken med Skijrn Christeña Maña, þvi ber þess ad giæta, ad Ritningeñ kallar þad Æfeñlegt æ Stundum, sem leinge æ ad vara; Eñ hvernig sem þessu er vared, þa vil eg adspyria: Hvar fyrer mun Paulus straffa þa i Galatia seigiande, Gal. 4. Pier taked Vara æ Dogum og Mænudum og Tijmum og Arum? Hvar fyrer mun hañ aptur seigia vid þa i Colossis, Cap. 2. Eingeñ skal dæma ydur i Mat edur Dryck, edur um̃ Hætijdardags-Halld, edur Ny-Mæn-uda Helgar, edur Hvijldardags, sem ad er Skugge þess Epterkomanda, eñ Christi er Lijkameñ? Hvad er þetta añad, eñ ad Sabbatsins Logmæl er ad nockru Leite linad, og ecke svo streingelega boded Christnum Moñum, svo sem þad var Judum; Eg vil og þad til leggia, ad þad kallast Teikn i Exodi Bookar. 31. Cap. Hvad munde þad þa teikna? Pad Ævarande Sabbat sem DRotteñ byriade med siñe Upprisu hier i Nauðeñe, eñ mun fullkomna i Upprisu allra Maña, hvar epter ad Utvalder munu eckert añad Verk viña, eñ ad lofa Gud. Fyrst Meñ nu hafa siælfañ Hluteñ Allareidu ad nockru Leite, þvi Trweñ er Vera þeirra Hluta sem Meñ vænta epter, Heb. 11. Og ad vijsu hver eiñ fullkomlega sæ ed i DRottne deyr: Pvi skylldu Meñ þa svo miog hallda uppæ Teikned? Pegar eg Lijkamañ hefe, hvad gyllder mig þa um̃ Skuggañ? Svo er nu Christnum Moñum Leifelegt ad viña æ Suñudogum allt hvad Stoor Naudsyn vid liggur, þo svo, ad Meñ heyre ædur Guds Ord, ef heyra mæ, svo sem er ad biarga Atviñu siñe fræ Skiemdum, ef þær vidliggia, ad giora Naudsynlegar Reysur, ad hiælpa þvi sem ad Lande ber, ef añars er hætt vid ad missest, ad Rooa til Fiskiar i Hallæris Tijd, þo svo, ad ei sie Fætækum gleymt, epter þvi sem Logeñ biooda, og añad þessu lijkt. Petta er Leifelegt ad viña, og jafnvel þoott ecke bere bræd Lifsens Naudsyn til, þa er þo ecke svoddañ bañad. Ecke liggur Mañsens Lijf vid ad draga Nauted upp ur Dykenu a Sabbats-Dege, og þo mæ siæ, ad Gydingar hafa þad Leifelegt hallded. Ecke hefdu Lærisveinar Drottens af hwngre Dæed, þoott ecke hefdu þeir plockad Axen a Hvijldar Degenum, og took hañ þa samt i Forsvar moote Illkvittne Pharisæaña, hañ gat og sadt þa med odru Moote, hefde þetta ecke Leifelegt vered, þvi ecke var hañ komeñ til ad uppleisa Logmæled, Matth. 5. Nu er þetta og añad Christnum Moñum lofad med sogdum Hætte; Eñ þess a eingeñ ad dyrfast ad Naudsynialausu, edur ad brwka Frelse Guds Barna til Agyrne, edur giora þad af Vantrauste vid Gud, edur Forsmaun vid hañs helga Daga. Eñ hvad hier um̃ er framar ad tala, þa er Gude eingeñ Hlu-

tur

tur þeckare ad giora a Sabbats Dogum, nærst siñe Pioonustu, helldur eñ Kiærleikans Verk; Hier stendur i Gudspiallenu, Ad Hañ Hafe Teked A Þessum Vatnssiuka Mañe, Læknad Hañ, Og Læted Hañ i Burtu Fara; Og hversu ad hañ hafe Phariseana sañfært hier um, er Augliooſt, ecke einaſta af hañs Tale i þetta Siñ, helldur og af Andsvare hañs vid Samkundu Hofdingiañ, er vandlætte um þad, ad hañ læknade hina veiku Konu a Sabbats Dege, Luc. 13. Þu Hræsnare, sagde hañ, Leyſer ecke hver ydar sitt Naut og Asna af Stalle a Sabbats Dege, og leider til Vatns, Byriade þa ecke þessare, sem er Abrahams Dotter, hveria Andskoteñ hefur bunded, Siau, i Atiaun Ar, ad leysaſt af þessu Bande a Sabbatsdege? Ecke erum vier megnuger um ad giora Kraptaverkeñ, samt eiga þeir ed Læknes Kunſtena vita, ad giæta þessa, og aller ad giora vidlijk Kiærleikans Verk hvad meſt a þessum Dege, epter þvi sem hve hefur Orsok og Efne til.

Eg veit þar er eingeñ su Predikun, ad eg fære ecke ad heyra þar talad um Synder miñnar, um Giæſku Guds og hañs Velgiorninga, um Avoxtu Trwareñar, og Betrun Lifnadarens, og þoott alldrei sie Predikuneñ svo Einfalldleg, þa veit eg, ad eg er ecke svo lærdur sem Lutherus, er sagdeſt alldrei hafa heyrt þa Predikun, ad hañ ecke hefde Eitthvad af heñe lært, og mun hañ þo hafa heyrt þær misjafnar a þeim Dogum; Sie eg nu Guds Barn, þa vil eg sijna þad i Verkenu, sem eg numde af Ordenu, añars er þad falled utañ hiaa Veigenum, i grijtta Jord, edur medal Þyrna. Alltijd eigum vier Kiærleikans miñuger ad vera, eñ þo helſt a þessum Dogum. Gud giæfe, ad Christner Meñ nu villdu giora sier þad ad Skylldu-Logmaale, sem Paulus ried þeim i Corintho um Tillaged til Heilagra. Hiñ Fyrſta Dag Vikuñar, sagde hañ, þad er a Suñudageñ, þa legge hver eiñ hiaa sialfum sier, safnande i Siood, þad sem honum hefur heppnaſt: Faatæka hofum vier jafnañ hiaa oss, eñ þo hofum vier sier i Lage Orsok til ad giora þeim Gott a þessum Dogum, þvi þeir koma aasamt oss fram fyrer Gud i Helgedoomenum, þar faaum vier beſt ad heyra Naudsyniar þeirra, þar gietum vier raaded Boot a þeim, vier sem Gud hefur giefed Audlegd Heims þessa. Þar kuñum vier ad giora oss Vine af hinum Raanglaata Mañon, þa er medtaka oss i Eylijfar Tialldbwder. Svo og eigum vier ad vitia Siwkra, Hwsa-Eckna og Fodurlausra a þessum Dogum, þvi þad kallar Petur Gudræknes Verk, hugga þa, Raadleggia þeim, og ecke koma Toomhendter, ef vier meigum afleggia, eñ þeir eru Naudſtadder; Añars geingur þad nærre þvi, ad seigia, Fared i Fride, vermed ydur og metteſt, eñ giefa þeim þo ecke hvad Lijkamanum gagnar, Jac. 2. Svo giæted nu þessa, Christner Meñ, og giored ei Hiegooma wr DRottens Dogum, hañs Orde, edur hañs Hwse, þvi hañ lætur ecke ad sier hæda, og hvern sem hañ forsmaaer, hañ vill hañ forsmaa. Eñ þu goode Gud og Konungur Dijrdareñar, verka þu þad med oss, ad vier so rækium þijna Sabbats Daga, þitt Ord, þijna Pioonuſtu, og allar þijnar Helgar Tijder, ad vier meigum med þier Oendanlegt Sabbat hallda, fra eiñe Eilijfd til añarar, med ollum Heilogum, Bænheyr þad Naaduge Fader, Fyrer Jesum Christum, Amen.

A Micha-

# A Michaelis Messu.

Gudspialled, Matth. 18. Cap.

J Þañ Tijma, Geingu Lærefveinarner til JEsu, og søgdu: Hvør er mestur i Himnarijke? JEsus kallade eitt Barn til sijn, og sette þad midt i millum þeirra og sagde: Sañlega seige eg ydur, Nema þier uñsnweist, og giøreist so sem Smaa Børn, munud þier ecke iñgaanga i Guds Rijke. Hvør sialfur sig læckar, so sem Ung-Meñe þetta, sa er mestur i Rijke Himnaña. Og hvør sem medtekur eitt þvilijkt Ung-Meñe i mijnu Nafne, sa medtekur mig: Eñ hvør hañ hneixlar eirn af þessum Smælingium sem a mig trwa, Þarfara være hønum ad Mylnu-Steirn heingdest um hañs Hals, og være i Siaafardiwp søcktur: Vei sie Heimenum fyrer Hneixlaner, Þar hlioota þo ad koma Hneixlaner. Eñ Vei þeim Mañe, fyrer hvorn ad Hneixlaneñ kiemur. Eñ ef þijn Hønd edur þiñ Footur hneixlar þig, snijd hañ af og snara hønum fraa þier. Betra er þier iñ ad gaanga til Lijfsins Halltur og Handar vane, eñ þad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur, og verder i Eilijfañ Elld kastadur. Og ef Auga þitt hneixlar þig, þa slijt þad wt og snara þvi fraa þier, Betra er þier Eineigdum iñ ad gaanga til Lijfsins, eñ þad þu hafer tvø Augu, og verder i Helvijskañ Elld kastadur: Siaaed til ad þier forsmaaed ecke eirn af þessum Smælingium. Þviad eg seige ydur, ad þeirra Einglar a Himnum, siaa jafnañ mijns Fødurs Auglit, sem er a Himnum.

## Exordium.

ÞEsse Veglega Hatijd, er vier i Dag hølldum, er tileinkud hinum stoora Høfud-Eingle Michael, hvers Nafn ad merker, Jafn GUDE, eda, HVer Er Svo Sem GUD, Ecke þess vegna, ad hañ sie Gude jafn, edur nockur øñur Skiepna, helldur hiñs, ad hin øñur Guddoomsins Persoona Guds Eingieteñ Sonur, hañ ber þetta Nafn Sumstadar i Ritninguñe, og medal añars hiaa Danielem i 10. og 12. Capitulum. Ecke helldur er þesse Dagur helgadur Guds Eingle i þeirre Veru, ad Meñ skule dijrka hañ þar med, þvi DRotteñ Gud þiñ skalltu tilbidia og hønum einum þioona, seiger Ritningeñ, Matth. 4. Þad bañar Paulus, er hañ tekur oss Vara fyrer, ad vier ei skulum laata villa oss med Dijrkun Einglaña, Col. 2. Og ecke villde Eingilleñ sem byrtest Johañi taka a moote þvilijkre Lotningu, þegar Postuleñ fiell hønum til Foota ad tilbidia hañ, er hañ sagde, Apoc. 19. Siaa til ad ei giører þu þetta, eg er þiñ Sampioon. Helldur er þesse Hatijdes Dagur þar til giørdur, ad þacka Gude fyrer Vernd H. Eingla, hverium hañ umboded hefur, ad þeir bere oss a Høndum sier, svo ad ei steitum vier Foot vorn vid Steine, Matth. 4. J Ritninguñe høfum vier mørg Dæme uppa Varatekt H. Eingla: Gud DRotteñ Himensins mun senda siñ Eingel fyrer þier, sagde Abraham vid Eleasar Þioon siñ, Gen. 24. er hañ reiste i Mesopotamiam, til ad bidia Syne hañs Konu til Handa. Jacob seiger, ad Eingilleñ hafe frelsad sig fraa øllu Illu, Gen. 48. Petur seiger: DRotteñ sende Eingil siñ,

sū, hver ed frelsade mig, Act. 12. Eñ þott ad ei siaum vier Einglaña Siooner nu a þessum Dogum, þar hiñ stoore Michael, hiñ stoore Eingill þess mikla Raads hefur bwed svo uñ vor Saaluhiaalpar Esne, og so liooslega opeñberad oss sijns Fodurs Vilia, ad vier þurfum ecke Einglana af Himne til ad kieña oss hvad til vors Fridar heyrer, þa samt skulum vier vita, ad þeir blessudu Andar eru oss naalæger til ad afstijra Skadræde og Araasum Fiandmaña vorra, og þad vottar Paulus, er hañ seiger epter David, ad þeir sieu aller Pioonustusamer Andar, wtsender þeim til Pioonkunar, er Saaluhiaalpena erfa skuln, Hebr. 1. Nu vilium vier aller i þeirra Tølu vera, þar fyrer eigum vier ad leggia allañ Huga a, ad vier styggium þa ecke fraa oss med Hneixlanlegum og Ogudlegum Lifnade, Hvar uñ ad þetta H. Evangelium giefur oss Orsøk ad ræda, wt af þeim Ordum, er DRotteñ talar uñ Hneixled, hvert ad er Tvøfalldt. 1. Pad Meñ giefa ødrum af sier. 2. Nær Meñ hneixla siaalfa sig: Uñ hvørttveggia vil eg med faam Ordum tala. Eñ þu goode Gud, styrk oss hier til med Raad þijns Anda, i JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

HVer Sem Hneixlar Eiñ Af Pessum Smaau, seiger Frelsareñ: Pad Order i Textanum stendur, er dreiged af odru Orde, sem merker Ad Halltra, og þad þess vegna, ad saa sem hneixladur verdur, hañ er ecke Heilfættur, hañ halltar aa Guds Vege, og geingur ecke riett fyrer DRottne. Petta aa vel samañ vid vora Tungu, þvi Hneixle drøgum vier af þvi Orde, ad Hnijga edur Hneigia, þvi sa sem Hneixle af sier giefur, hañ kiemur ødrum til ad hnijga edur rasa, og hneiger hañ til vondra Verka. Petta Ord merker a Griska Tungu þad Tre, sem Snøruñe helldur, a hvert þegar Dijred reñur, feller þad hana yfer sig, og verdur Veidemañenum ad Braad: Svo brwkar og Diofulleñ sijna Eyrendsreka i Heimenum, til ad veida Einfalldar Saaler; Peir hallda Snørum hañs yfer Hofde þeim: Svo kallar Paulus hañs Viela Brogd, er hañ seger: ad þeir sem rijker vilia verda falle i Diofulsins Snørur. Par fyrer seger og Drotteñ fyrer Muñ Hoseæ, uñ hina Otrwu Kieñemeñ i Juda, þier erud Snara i Mitzpa, og utþaned Net a Thabor, Hos. 5. Dragande Dæme af þeim Veideskap er brwkadest a þessum Fiollum. Nu er þesse hin fyrre Grein af Hneixlenu med tveñu Moote: Añad hvert verdur þad med Ordum edur Verkum. Med Ordum skiedur Hneixled, þegar þeir sem eiga ødrum ad undervijsa, þeir kieña Villur og raangañ Lærdoom, hañ ecke er a Guds Orde bygdur, og leider til Glotunar. Fyrer þessare Drepsott hefur Guds Fodulegg Millde þyrmt Lande voru, sijdañ hid klaara Lioos Evangelii skein i hañs Kyrkiu medal vor: Lofad sie hañs Dijrdarfulla Nafn uñ Allder Allda. Petta verdur og, nær þeir sem i Guds Stad eru setter, predika þad sem er Hiegoome, ecke sundurkliufa Ord Sañleiksins svo sem byriar, Ecke giefa Guds Hiwum i riettañ Tijma þad þeim tilheyrer, og tala þad fyrer Foolkenu, sem ei er til Sadningar Saalu þeirra, svo hun er litlu edur eingu nær: Ecke segia hinum Ogudlega til Synda siña; Ecke Leidrietta þañ, sem fer villur Vega; Ecke undervijsa hinum Faafrooda, Ecke hugga þañ Sorgbitna og Angraada, jaa, þegar Meñ i Guds Nafne og under hañs Persoonu reka sitt eiged Eyrende, til sijns Abata, og ad leita siaalfum sier Virdingar, eñ laata Guds Dijrd fara, og eru ei miog hugsunarsamer þar uñ, hvad heñe vid lijdur, þessa kallar Paulus Otrwa Erfidara, og Esajas Maallausa

Hunda, sem ei kuñe ad giellta, eñ þo sterka Hunda til ad eta: Hvar fyrer? Þvi þeir segia þeim Strijd a Hendur, sem ecke leggia i Muñ þeirra, eñ boda Frid, nær þeir tyggia med Toñunum, Mich. 3. Þeir eru Hverfuler, Osañsøguler og Linga, segiande: Eg skal driupa, þad er kieña þier fyrer Vijned, og fyrer æfeingañ Dryck, svo sem Drotteñ ad Orde kiemst, hiaa Micheam Cap. 2. Og eg veit ecke hveriu þeir betre eru þeim folsku Spaamoñum, er Drotteñ talar um̃ i Gudspiallenu, er koma i Saudaklædum, eñ iñra eru þeir glepsande Vargar, þvi einu maa gyllda med hveriu Moote Meñ draga Andskotans Ploog, til ad spilla Guds Akre, og er þetta eitt skielfelegt og banvænt Hneixle. Næst þessum tel eg þa, sem bæde siaalfa sig og adra venia a skam̃arlegar Ordrædur og Fiblslegt Hial, sem eru Bloot, Muñ-Eydar, daarleg Skiemtan, Hroop og Nijd, liooter Kvedlingar, og þo allra hellst illar Um̃rædur og Hneixlanlegar um̃ Naungañ, sierdeilis dauda Meñ edur fiarlæga, af hveriu ad þraavalldlega fram̃kiemur Agg, Reide, Præta, Mord, Mañdraap, og allra handa Fiandskapur og Daudlegt Hatur: Þetta kalla sumer Ohlutvander Meñ litlar Synder, aukhelldur ad þeir varest ad laata jafnvel sijn eigeñ Børn og adra Faafrooda þetta til sijn heyra; Eñ Paulus seger oss, ad illt Samtal spille goodum Sidum, 1. Cor. 15. Og framar seger hañ, ad þvilijkt ecke Christnum hæfe, Eph. 5. Eñ hvad er þad? Eckert añad eñ ad saa sie ecke Christeñ, ad Postulans Doome, sem ad temur sier þvilijkt edur um̃ Hønd hefur; Eñ ef hañ ecke Christeñ er, þa er hañ ecke Guds Barn, og hefur forbroted hañs Naad, og tapad Velferd Saalar siñar, nema hañ ydrest, af Hiarta, eñ forþienad ecke einasta Ad Mylnusteiñ Heingdest um̃ Haals Honum, Og Yrde i Siaafardiup Sockt ur; Svo sem hier stendur i Gudspiallenu, helldur og, ad hønum yrde i eilijfan Elld kastad: Og af þessu er nu audsært, hvad skielfeleg Haadung þad sie fyrer Gude og øllum Heidvirdum Moñum, ad hafa þeña Osooma fyrer Smaa-Børnunum, edur ødrum Einfølldum, og draga þa med svoddañ Hætte fraa Gude under Satans Valld; Hverutveggium bæde þeim sem hneixlar, og hinum sem hneixladur er til eilijfrar Gløtunar. Þeir eru og ecke Saklauser af þessu, er hroosa vondum Verkum, og þeim er þau i fram̃e hafa, forsvara þa, og tala þeim alla Hlute til Um̃bootar, þvi hier af leidest hiñ Einfallde og Barned til ad giøra hid sama, og elska þad sem þad losad heyrer af ødrum sier Elldre og Vijsare; Þad er satt, ad Mañeñ skal elska, eñ Verkeñ hata, og færa alla Hlute a betra Veg: Eñ þvi skal eg losa hañ, sem hatar Gud og gooda Sidu? Jafnvel þo margur kalle þad Hæversku og Spaklynde, ad giøra þañeñ; Eg voga ad segia, ad þar er eingeñ meire Drepsott i eiñe Bygd edur Lande; Eñ þeir Meñ sem Ogudlega lifa og einkis svijfast hvad þeir giøra, eñ eru þo heidrader i Ordum, og hvad þeir tala edur giøra, þad er teked svo sem af Himnum ofañ komed, og Jafnvel Klæker þeirra eru Dygder kallader: Þesser eru eitt Atu-Mein alls Heidurlegs Athæfes og goodrar Skickunar; Snara hins vonda Heims, Taal-Fuglar Diøfulsens; Og svo eg þad i einu Orde sege, þeir eru Meistarar til ad forfiarsa, svo sem Drotteñ talar um̃ Babilon hiaa Ezechielem; Þvi kalla eg þa litlu betre sem ala Osooma þeirra i faanytu Hroose, þo vil eg hier hafa fraaskiled

Kiled hañ Heidur, er Meñ eiga Valldstioorneñe ad veita, ecke einasta Goodum og Froomum, helldur og Hreckviijsum, seger Petur: Og skrifad er; Hofdingia þijns Lijds skalltu ecke Bols bidia, seger Paulus: Eñ hitt Añad er eg fyrer Skomu umtalade, þad orsakar stort Hneixle, þvi þad er nockurskonar Raangdæme, og riettlæter hiñ Raanglaata, edur ad miñsta Koste leggur vonda og gooda ad jofnu. Nu er allt þetta illt sem allareidu er upptaled, eñ Kunsteñ stijgur eñ þa hærra upp i Diofulsins Haaskoola.

Par eru þeir sem ad hafa Valld yfer odrum, Svo sem eru Forelldrar yfer Bornum sijnum, Hwsbændur yfer sijnum Pienurum, Stoor-Herrar og Magtar-Meñ yfer þeirra Undersaatum; Nær þesser biooda eitthvad þad sem Ogudlegt er, svo ad hiner doga ei añad eñ hlijda, þad er eitt fullkomed Ofrijke og Yfergaangur Satans i sijnu Rijke, svo baud Nebucadnezar sijnum Undersaatum ad dijrka sitt Gull-Bijlæte, Dan. 3. Svo skipade Jessabel ad wtvega Fals-Vitne aa moote Naboth. Svo baud Herodias Doottur siñe ad bidia um Johañis Hofud. Svo kom Jeroboam Israel til ad syndga, er hañ baud ad dijrka þau Skwrgodeñ i Dan og Bethel: Og þo ad i ollu odru sie Olijku samañ ad jafna, þa var siaalfur David hinum lijkur i þvi, er hañ liet slaa Uriam i Hel med Sverde Amons Barna. Þessa Eptermynd hofum vier a Lands-Hofdingium þeim, er biooda odrum þa Hlute, sem Gud hefur Andstygd aa, Meinsære, Ofbellde, Gripdeillder, og i hvern hellst Maata, sem þeir locka þa edur hræda til ad viña Dioflenum, eñ mootþægia Gude. A Hwsbændum, er þeir giora slijkt hið sama, ad þvi Leite sem i þeirra Vallde stendur, til Dæmis: Nær þeir biooda þeim edur tæla þa til ad giora odrum Oriett sier til Abata, Ad forsooma Guds Ord og helgar Tijder fyrer sijn Eyrende, Ad hefna aa einhverium, er þeir þykiast eiga Heipter ad giallda, edur ad þeir brwka þa aa einhvern Haatt til ad framkvæma sijnar Gyrnder, þetta er eitt skadsamlegt Hneixle; Og hid sama er ad seigia um Forelldrana, edur adra þa, sem yfer Borneñ eru setter, edur umgaangast med þeim, og er þeim þo mykclu meire Vande aa Hende, eñ ollum odrum, fyrst þess vegna, ad Forelldrarner eiga hina mestu Rækt aa Bornunum ad hafa, og er þad Maala sañast, ad þeir eru fæster sem vilia þeim Illt giora i Lijkamlegum Hlutum, og sumer eru allt Ofhlijfner i þvilijku, sumer steypa siaalfum sier til Helvijtis fyrer þeirra Skulld, er þeir safna þeim Raangfeingnum Aude, og kieña þeim ad giora hid sama; Eñ trwed mier, ad betra er ad giora Barn sitt Arflaust ad Saklausu, betra er ad slaa þad og lemia til Obboota, betra er ad myrda þad, eñ ad hneixla med þvi, ad vijsa þvi aa nockurt Forræde, hvar af þvi kyñe ad orsakast einhver Saalar-Vode, þvi allur Lijkamlegur Skade er Hiegoome ad reikna hiaa Meinum Saalareñar. Hin oñur Orsok til þess, ad oss er vandast vid Borneñ, er su, ad þau eru hvad næmust aa hid Vonda, og hvad þau ung numdu, þad verdur þeim torvelldara ad laata nær þau dragast aa Legg, og þvi tekur Frelsareñ þau til Dæmis hier i Gudspiallenu. Hañ virdte þau Blessadur svo mykels, ad hañ sagde: Leifed Bornunum til mijn ad koma. Hañ setur þau til Epterdæmis þeim sem iñ vilia gaanga i Guds Rijke; Hañ took þau uppaa siñ Armlegg, hañ blessade þau, hañ seiger hier i Gudspiallenu,

Ad Þeirra Einglar Siaae Jafnañ Sijns Fodurs Andlit Sem A Himnum Er: Meined þier ecke, ad hañ take þad sart, þegar þau eru hneixlud, er hañ svo miog virder og elskar, þegar þau eru dreigeñ fraa Himnarijke, sem eiga þess vissa Von aa medañ þau þañeñ eru: Munu ei Guds heilager Einglar klaga þa saarlega, þegar þeirra Hiord, er þeir eru setter til ad vakta, þegar hun er svo illa wtleikeñ, af þeim er sijdst skyllde, edur odrum Ohlutvondum, er vilia sem flesta jafnsvarta sier, þviad ef þar er Glede i Himnenum yfer einum Syndara sem Ydran giorer, þvi skyllde þa ei Guds heilogum Einglum lijka þad stoor-illa, nær svo er hondlad med þeirra Foostur-Born; Þvi kañ hver eiñ nærre ad gieta sem nockra Rækt hefur aa þvi Barne, sem honum er Astfoolged. Og þo nu Frelsareñ tale sier i Lage um Borneñ i Gudspiallenu, þa vited ad aller adrer eru þar iñe falder. Giefed eingum neina Hneixlan, seiger Paulus: Eñ sierdeilis eru þad þeir, sem eru hañs, einkum Volader, Einfallder, og þeir sem bera hañs Kross, þvi hañ giefur þeim somu Meiningar Nafn hiaa Matth. 25. Þar hañ kallar þa hina Miñstu, Jaa, sijna miñstu Brædur, i sama Capitula, þvi skulum vier nu vita, ad hiñ añar Matte til ad hneixla med Ordum, er saa, ad raada einhverium til nockrar Syndar, þegar hañ er Sorgfullur og Mootlættur, Jobs Kona seiger vid hañ i hañs stooru Mañraunum, bolvadu Gude, og far ad deya: Heñe eru aller þeir lijker, er raada Harmþrwngnum Mañeskium til ad leita Oleifelegra Medala, hinum Siwka til ad leita Fiolkinges Maña, edur brwka adra Hiaa-Trw og Afgudadijrkan, hinum Faatæka til ad stela, edur viña sier iñ Fie med Prettum og Raangsleitne, þeim sem Orietteñ lijdur, ad hefna sialfur sijn, eñ forsmaa Logeñ, og stela Hefndeñe fraa Gude; Hafe nockur eitt Oddada Verk i Siñe, eins og Absalon, þa vantar ecke eiñ Achitophel til ad raada honum ad krenkia Fridlur Fodur sijns, 2. Sam. 16. Og nær Ammon lijtur Syrndar-Augum til siñar eigeñ Systur, þa verdur jafnvel hañs Brædrungur Jonadab til þess ad giefa honum Raad, til ad fremia siñ Ogudlegañ Vilia, 2. Sam. 13. Eg vil ei tala um þa sem fleka adra Einfallda til ad giora sier Selskap i þvi, ad Fefletta adra, til ad wtsiwga Hws Eckna og Fodurlausra, til ad draga under sig añars Goots med Yfervarpe Laga og Riettinda: Eingeñ hefur þa betur wtmaalad eñ Salomon, er hañ seiger, Prov. 1. Son miñ, nær Synduger Meñ vilia locka þig, þa kom ecke, þegar þeir seigia, gack med oss, vier vilium umsitia Blood, vier vilium umsitia hiñ Saklausa: Og skomu þar epter seiger hañ oss hvada Taal-Bita þeir brwke til sooddañ Veida: Vier skulum fiña allra Handa kostuleg Audæfe, vier skulum filla vor Hws med Herfaang, vier skulum aller hafa eiñ Siood. O! Jaa, þier Satans Einglar, verda maa þier hafed aller eiñ Siood i ydar Fodurs Rijke, sem er Hofdinge þessa Heims; Eñ svo munud þier og eiñ Siood hafa med honum i hinu vellanda Dijke, þegar Guds Vesælingar liooma i Rijke sijns Fodur, eins og Stiornur Himens, þier munud seigia eins og Israel Fordum, nær þier fagned ydar Raangfeingnum Aude: Þesse eru þau Laun er mijner Elskugar hafa giefed mier, Hos. 2. Eñ nær þier uppvakned i Helvijte og Kvolunum med ollum þeim er þier leidt hafed til Glotunareñar med ydar falskre Aeggian, munud þier

þier þa seigia: Þesse eru mijn Laun er mijner Elskugar, Holldeð, Heimureñ og Diofulleñ hafa giefeð mier? Svo er nu þetta hin Skadlegasta og Hneixlanlegasta Taalsnara, og þad þess helldur, ad slijkt er hallded Framsijne og Skynseme af Bornum Veralldareñar. Meñ hneixla og siñ Naunga, nær Meñ brixla honum um Einhvern Hlut, jafnvel þañ, sem ecke er i hañs Vallde, um Faatækt sijna, um Faavitsku, um Lijkamans Skapnad, herma epter honum og spotta hañ; Aller þeir ed svo giora, þeir ecke einasta hæda ad Skaparanum, helldur koma hinum til ad syndga, i þvi hañ reidest slijku, og leitast vid ad hefna sijn, og faae hañ ei Hefndeñe framkomed, þa hatar hañ þañ, sem hañ lijdur slijkañ Oriett af; Eñ Hatred er ein Synd, sem bañar Mañenum iñ i Himnarijke. Eg vil eñ framar seigia: Hver sem brixlar einum um bætta Synd, hañ giefur stoort Hneixle af sier, þvi Natturañ er svo Illgiorn, ad Sañendunum verda Meñ reidaster; Eñ vier eigum ecke ad giefa NaunganumOrsok til neirnrarSyndar, añars giora Meñ sigHluttakande i añarlegum Syndum, og hver vill upptelia allt þad sem Tungañ hneixlar med, nær hun er upptendrud af Helvijte, seiger Jacob. Eins vil eg geta aadur eñ eg skilst vid þetta Maal, sem er þad Satans-Æde, er margur Gaarungur brwkar, ad spotta Guds Þioonustu, og hlæa ad þeim er hana ydka: Þetta er riett ad gabba Gud, og hæda ad Christo i sijnum Pijslum, þvi svo sem ad hiner Ogudlegu Kieñemaña Hofdingiar, med þeirra Hauduglegre Medferd, leiddu þad Foolked sem komu aadur hafde sijn Klæde breidt aa Veigeñ, og kallad, Hosiaña Syne Davids, þeir leiddu þad, seige eg, til ad hroopa litlu sijdar, Tak burt þeña, og gief oss Barrabam lausañ, svo fyrerverdur sig margurEinfalldur og Istodulijtell, þegar þeir sia, ad Christelegt Lijferne ablar þeim Haturs hiaa Moñunum, og þetta er verra eñ allt añad, sem aadur er upptaled, þvi nær Hneixled hefur þrijst Einhverium til ad burtkasta Guds Otta, og laata meir ad Mañaña Doome eñ Guds, þa fylgia þar allar Skañer a epter, og þañeñ verdur nu Hneixled med Ordunum. Eñ med Verkunum skedur þad ecke miña: Vei Heimenum Fyrer Hneixlaner, seger Drotteñ. Þetta Vei talar hañ af Medaumkan, aalijka og þegar hañ griet yfer Jerusalem, hvar fyrer? Þvi hañ saa, ad þar yrdu ad koma Hneixlaner; Ecke af Guds Tilstille, hverium ecke lijkar Ogudlegt Athæfe, helldur af Heimenum, sem ad liggur i hinu Vonda, og hefur hañs Alvijsa Speke ad vijsu eiñig lited til Illsku þessara Tijma, sem er svo mikil, ad i Villu kyñe ad leidast ef ske mætte jafnvel Utvallder. Nu kiemur Hneixled af Verkunum. 1. Þegar Meñ drygia Opeñberar Skañer og Leste, sem eru þvert a moote Guds Bode og Logunum, svo sem Okur, Naunglæte, Agyrne, Ohoof, Ofmetnadur, og þad svo Blygdunarlaust, ad Meñ ecke einasta fremia þad siaalfer, helldur samsiña þeim ed þad giora; Þetta Eitur skadar med tveñu Moote. Fyrst, ad þad leider bæde adra eins vonda, svo og þa sem af Natturuñe eru þo ecke Illgiarner, til ad giora þad Illt er: Saa sem umgeingst med hinum Hallta, hañ lærer ad halltra. Saa sem giefur eina liioota Forskrift, hañ velldur þvi, ad añad eins lioott verdur epterskrifad, og Meñ hafa allt ofmorg Dæme til þess, ad Almeñingur lockast til ad giora þær Synder sem fæster mundu giora, nema þeir sæe adra giora þad

fyrer sier, og ad þad være Sidvane og Tijdska Maña a medal; Eñ a aðrañ Veg hneixlast og þeir sem Froomer eru og Raadvander, ad þeir verda Oþoleñmooder yfer slijku, eins og Elias yfer Achabs Hwse, og Paall yfer Raanglæte Ananiæ Hofud-Prests, svo hañ rasade med Tungu siñe: Jaa, þar kviknar i þeim nockurskonar Leide og Oskickañlegt Vandlæte, svo þeir taka þad til Raads, sem Gude er Stygd i, eins og Jonam hendte, er hañ flwde undañ Guds Bode. Og eñ nu munu þeir fiñast, er leita svoddañ Oyndes Urræda, nær þeir siaa, ad allt geingur Andhælis, añadhvert ad þeir slaast i Selskap med þeim, er þañeñ breyta, edur ad þeir yfergiefa siaalfa sig og Skylldu sijns Embættis. A ollum er þetta Hneixle Skadsamlegt, eñ þo hvad mest aa þeim, sem eru Maals metande og bodner yfer adra.

Kieñemeñerner hneixla, nær þeir giora allt añad eñ þeir predika, svo ad þegar Almwgeñ ber Kieñinguna samañ vid Lifnadeñ, þa verdur Þioonustugiordeñ løstud, og þeir fallast myklu helldur aa þad, er þeir siaa fyrer Augunum, sem er ein þeigiande Predikun, helldur eñ þad þeir heyrdu med Eyrunum, þvi bæde gleymist þad fliootl, og þyker eingeñ Alvara, nær þvi er hvad sijst epterfylgt af þeim, sem þad hellst aattu ad giora, þvi ecke eru aller þeir ed giort gieta þad, sem Frelsareñ bijdur, ad hlijda þvi er þeir tala, sem sitia aa Moysis Stoole, eñ breyta þo ecke epter Giorningum þeirra. Eñ hvad verdur þa? Þad sama sem Frelsareñ seiger, er hañ kallade Læresveinana Sallt Jardar: Eñ ef Sallted skieñest, i hveriu verdur þa salltad? Matth. 5. Og ef Guds Þienarar lifa illa, hver er Von aa þvi, ad Tilheyrendurner giøre þad betur? Hid Veralldlega Valld hneixlar stoorlega, nær þeir dæma Raanglega, taka Fie til Dooma, um̃hverfa goodum Løgum og giora Rietteñ ad Malurt, svo sem Spaamadureñ ad Orde kiemst, taka raanga Eyda vijsvitande, Tradka Maalum og draga þau, til ad þreyta þañ sem Raangindeñ lijdur. Af ollu þessu fram̃kiemur eitt skielfelegt Hneixle, þvi þad elur Ooooma upp i Skaalkenum, og venur hañ af ad hrædast Løgeñ, eñ tekur allañ Dug fraa hinum Frooma, svo hañ verdur hinum ad Braad, edur og ad hañ tekur þad O-Raad, ad ræna Rietteñ sijnum Riette, og hefna siaalfur Vanvirdu siñar. Og fram̃veigis skiedur þetta Hneixle, nær þeir sem Vollldeñ hafa, briioota siaalfer Løgeñ hvad mest: Eru Lauslaater, Draadvander, Agiarner, svijkia Daglaunarañ, fleka Eigur sijnar wt af hinum Einfallda, eru Baraattusamer, Ofbelldner, og fremia allra Handa Skam̃er og Ohæfu, er þeir straffa aa odrum, svo sem være ecke Løgmaaled giort nema fyrer Almwgañ. Forelldrar og Hwsbændur hneixla Børneñ og Hiweñ, ecke einasta nær þeir leggia einhveria Synd i Vana siñ, helldur og fremia eckert Gott, eru toomlaater i ad heyra Guds Ord, Ofervalldenu Ohlijduger, Later, Hyrdulauser, Reidegiarner, og lifa i þvilijkum Syndum, þvi þa meina hiner ad ei sie sier Vandara, og þad heiter riett ad Hneixla Christs Hina Smaau, svo sem hier stendur i Textanum. Hiner Rijku hneixla hina Faatæku, nær þeir lifa i allskonar Ohoofe, eñ hiner svellta. Faatæker hina Rijku, nær þeir fara illa med Olmusuna, og eru Oþacklaater, gefa svo hinum Orsøk til ad hallda þvi iñe, sem añars ætte ute ad laata: Og þar Verolldeñ er nu full af þessu, þa er ei Undur þo

Frel-

Frelsareñ sege: Vei sie Heimenum fyrer Hneixlaner. Framvegis rijs þar a stundum Hneixle af þeim Hlutum, sem hverke eru gooder nie vonder i siaalfum sier, eñ verda þo odrum til Hneixlis: Eg vil taka það til Dæmis, ad a St. Pauls Dogum leifdest allañ Mat ad eta a medal Christeña, eins og nu i vorre Kyrkiu; Saa sem aat allañ Mat, og hiñ, er hiellt sig fraa sumum; Baader voru þeir Gude eins kiærer, og hverugur vill hañ ad añañ dæme; Þo seger hañ: Ef ad þiñ Brooder hryggest vegna Fædsluñar, þa geingur þu ecke epter Kiærleikanum, Tortijn honum ecke med Fædslu þiñe, fyrer hvern Christur dæeñ er, Rom. 14. Þo nu lijted þyke i þetta spuñed, þa metur Postuleñ það svo mikels, ad hañ helldur það kuñe ad verda einnm til Glötunar, sem Guds Sonur hefur þo Endurleyst, og hañs dijra Blood svo til Onijtis a honum; Þvi seger hañ og i odrum Stad: Vissa eg ad miñ Brooder Hneixladest, skyllda eg alldrei Kiot eta. Þvilijker eru nu marger Hluter medal vor, svo sem er ein og oñur Siergiæde i Umgeingne, er vier köllum Affarasnid a vora Tungu, eitt og añad Laatgiæde þeirra, sem añadhvert i Klædabur de edur añare Hegdan vilia vera odruvijse eñ adrer Meñ, hvad jafnvel sumer af oss brúka a Helgum Tijdum, nyar Uppaafindingar i Imsum Hlutum, sem ecke eru verre eñ hid gamla Skick, ecke helldur betre, og añad þvilijkt, sem Adgiætner Meñ faa vel athugad: Þetta er ad soñu eingeñ Synd i siaalfu sier, eñ það verdur ad Synd ef Naaungeñ hneixlast þar af, til ad tala edur þeinkia illa uñ hañ, er svo giörer ad Parflausu, og þvi bañar Paulus, ad giöra það nockud, a hveriu ad nockur Brooder kuñe ad hneixla sig edur steita, Rom. 14.

Hvad hinu odru vidvijkur, sem eg hiet uñ ad ræda, þa kuña Meñ hvad mest ad hneixla siaalfer siaalfa sig; Það kiemur af þeirre Synd, sem i oss bygger, voru spilltu Hollde og Bloode, þess gietur Frelsareñ hier i Textanum, Er hañ seiger: Ef Þijn Hond Edur Footur Hneixlar Þig, Þa Snijd hañ Af Og Snara Honum Fraa Þier. Ecke er það Frelsarans Meining, ad Meñ skule Vana sig edur Limlesta, helldur su, ad vier skulum eckert svo kiært hafa, ad vier ei hofnum þvi edur fraa oss kostum fyrr eñ það hneixle oss, svo ad vier föllum i Freistne, og dregur hañ hier Dæme af Læknurum: Oss er eingeñ Hlutur kiærare eñ vorer Limer, og þo ef nockur af þeim er svo roteñ, ad hætt er vid, ad hañ meige feigia hina, þa lijdum vier það Læknernum, ad hañ skiere hañ af, þvi skylldum vier þa ecke deyda vora Jardnesku Limu, Saurlijfe, Ohreinleika, illa Tilhneiging, vonda Gyrnd, Agyrne, hver ad er Skurgoda Dijrkan, svo sem Paulus ad Ordekiemst, Col. 3. Og það sem hañ hier seiger uñ þessa Leste, það vill hañ sagt hafa uñ allt hid Vonda, sem i giegn Saaluñe strijder, hvert hañ upptelur i Pistlenum til Galatas Cap. 5. Þesse er Lijkame Syndareñar, sem umgietur, Rom. 6. Það er hiñ gamle Madureñ, hver ed brukar sijna Limu, vondar Gyrnder, til ad reka Andskotans Eyrende, eins og eiñ Verka-Madur brukar Hendur og Fætur til ad þiona Naattur legu Lijfe, þa byriar oss ad deyda, þa eigum vier ad afsnijda og snara þeim fraa oss, svo þeir hneixle oss ecke. Hversu opt verdum vier hneixlader af Hondunum, þegar Foolskañ blæs þær upp, til ad meida Holld Naaungans, þegar Agyrndeñ riettir þær wt

til ad

til ad grijpa hañs Gots og Peninga, þegar Leteñ svæfer þær til ad leggia sig samañ, Prov. 24. svo Meñ gieta ecke eted sitt eiged Braud, og verda þvi ad leita þess i añara Andlites Sveita. Fæturnar hneixla oss, nær Leideñ a Guds Orde og Toomlæted i vorum Saaluhiaalpar Efnum giorer þa trega til ad gaanga i hañs Hws, eñ fwsa til ad hlaupa þaangad sem þeir Hluter eru ydkader, hveria Gud hefur bañad, þa er hiñ Gamle Madureñ skiootur a Fæte, eñ hiñ Nye halltur, og þa helltum vier oss og hneixlum nærsta miog sialfa. Sama er uñ Augun ad segia, hverra Frelsareñ og gietur hier i Gudspiallenu. Hvad er i Heimenum? Pad er Gyrnd Holldsens, Fysn Augnaña og Drambsamt Lijferne; Hversu opt festa sig vor Augu a þeim Hlutum, sem eru fuller af þessu? Fögur Asynd, Audæfe, Metord, og svoddañ Taal Veralldareñar, þad er vor Augna-Bode: O! hvad miklu betur være þad Auga wtstunged, er lætur sig blinda af þessum Hlutum, eñ hverfur af Gude sijnum og hañs Bodordum: Þess vegna giörde Job Saattmaala vid Augu sijn, ad ei lite hañ þeim til Meyareñar: Þvi bidur David Gud: Snu þu Augum mijnum, ad ei lijte þau a Hiegomañ, laat mig gaanga a þijnum Vegum, gesande þar med til Vitundar, ad saa sem starer a Glis Veralldareñar, hañ kuñe ecke Guds Veg ad rata; Eñ þad sem Drotteñ hier seger uñ þessa Limu hins gamla Mañs, þad vill hañ sagt hafa uñ allt þad sem oss maa fraa Gude draga. Saa sem virder meir Fodur og Moodur, Systur edur Broodur, edur Eigeñ Konu sijna, og jafnvel sitt Lijf, helldur eñ Christum, hañ hneixlar sialfañ sig. Saa sem gyrnest þad Embætte, sem hañ er ecke Madur fyrer, (hvad margur Daare giörer a þessum Dögum) hañ hneixlar sialfañ sig, þvi hañ giörer sig verre med þvi, ad hañ fer illa med Guds Umbod, sokum Faakiænsku edur añars Dugleyses, þar hañ hefde añars kañske goodur Madur vered.

Saa sem tekur sier Hneixle af þeim Hlutum, sem ecke eru hneixlanleger, helldur goodir og Gude þecker, svo sem er skynsamlegt Vandlæte i Kieñinguñe, Rokseme Yfervalldsens i Stioorneñe, Alvörugiefne Skoolameistara, Forelldra og Hwsbænda i Typtaneñe og Umvondunēñe, hver sem steiter sig a þessu, hañ same hneixlar merkelega sialfañ sig; Svo hneixludu þeir sig a Moyse Guds Mañe, þvi hañ rak Guds Eyrende sköruglega: A Elia, Michea og Jeremia, af þvi þeir vandlættu i Guds Stad: A sialfum Christo, þvi hañ heidrade siñ Fodur, eñ þeir vanheidrudu hañ: A hañs Postulum, þvi þeir hlijddu framar Gude eñ Möñum. Saa sem steiter sig a añars Hæglæte, og meinar sier leifest allt vid hañ ad giöra, þvi hiñ er ecke Heiptrækur, hañ hneixlar sialfañ sig, svo hneixludust Israels Syner a Moyse, þvi hañ var hiñ þoleñmoodaste Madur a Jordune: A Christo, þvi hañ hroopade ei nie kallade, hañ aat og drack med Tollheimtumöñum og Bersyndugum. Saa sem er Raangeygdur, ef nockur er Goodgiarn, hañ hneixlar sialfañ sig; Svo voru þeir ed fyrster voru leigder i Vijngardeñ, eñ öfundudu hina, sem ecke hösdu nema Eina Stund erfidad: Svo var haattad Broodur hins fortapada Sonar, er ecke gat lided ad hañs Fader myskunade sig yfer hañ; Svo eru og aller þeir, ed sia Offisioonum yfer añara Velgeingne og Luckuskaane, svo sem hefdu þeir af Gude eins myked edur meira forskulldad. Saa ed vogar sier i nockurn

Selskap

Selskap sem honum er Ofvaxeñ, edur leggur Lag sitt vid þa, sem hañ kañ ad hlioota Skada af, hañ hneixlar siaalfañ sig; Þvi bañade Gud siinu Foolke ad taka til Egta Canaans Dætur, edur ad giora Saattmaala vid þa, er hañ wtrak fraa þeim, ad ei yrde þeir þeim ad Snøru, þvi bañar Salomon ad hafa Umgeingne med Reidegiørnum Mañe. Pad Maaltæke er satt, Ef nockur tekur aa Tioruñe, þa loder hun vid hañ: Hefde Jsrael ecke samlagad sig Skiækiunum i Moabs Lande, þa hefde ecke svo skielfeleg Guds Hegning yfer þa komed: Hefde Samson ecke bunded svo fasta Ast vid Dalila, þa hefde hañ Augunum hallded, og hefde Petur ecke geinged iñ i Biskups Hollena, munde hañ ecke hafa siinum Meistara afneitad. Saa sem reider sig uppa siaalfañ sig edur sitt Atgiørfe, Abl, Vitsmune, Magt, Rijkdoom, edur nockurn añañ Hlut; Eñ gleimer þvi, ad hañ hafe þad þeged; Hañ hneixlar hvad mest siaalfañ sig, og kañ ecke Oluckuna ad umflya; Pad keña oss Dæme Egyptalands, Assyriæ og Chaldæalands Konunga, er a Augnablike urdu upprætter, þvi þeir gaafu ecke Gude Dijrdena; Og hefe eg svo nockud um Hneixled talad: Eñ hvert ad sie þess Straff, þad seger Frelsareñ med þessum Ordum. Vei Þeim Mañe Fyrer Hvern Ad Hneixlaneñ Kemur. Eñ hvad þad sie, keñer hañ oss siaalfur er hañ sagde: Vei þeim Mañe sem Mañsens Son forrædur, og hier i Gudspiallenu maa þad siaa, ad hañ sem ecke kastar fraa sier þeirre Hond edur Fæte sem hañ hneixlar, hañ hefur forþienad ad kastast i eilijfañ Elld: Sama er ad segia um hinar adrar Greiner af Hneixlenu, þvi ecke skulum vier meina, ad sa sem Børneñ hneixlar edur adra Guds Vesælinga, hañ mune sleppa þar med, Ad Mylnusteiñ Heingdest Um Hals Honum, Og Verde i Siaarfardiup Socktur: Helldur tekur DRotteñ til þessa, eins og hins Smaanarlegasta Lijfs-Strafs a medal Gydinga, til ad siina Stærd þessarar Syndar. Þar fyrer, Christner Meñ, giefed nu giætur ad þessare Volldugu DRottens Predikun, og laated ydur hana i Eyrum loda, Rañsaked ydar undañfared Lijferne og spyried Samvitsku ydar ad, hvern þier hafed dreged med Orde, Verke, edur Epterdæme a vondañ Veg, med Giaalijfe, med Lauslæte, med Fegyrne, med Hofmood og Oflæte, og i einu Orde ad segia, med Dijrkan Veralldareñar og heñar Muna, og ef hañ geingur eñ nu a honum, þa legged allañ Hug a, ad leida hañ a hina riettu Leid, ef þier vilied lifa, og ydrest hins af Hiarta. Sa sem nockru stoled hefur, hañ a epter Moyses Logmaale Ferfallt ad giallda. Sachæus sagde vid Christ, þegar hañ ætlade sier Christeñ ad verda; Hafe eg nockrum Raangt giort, þa gelld eg þad ferfallt aptur; Eñ svo miklu dijrare sem Saaleñ er Fienu, svo miklu þijngre sem Guds Reide er Mylnu-Steinenum, svo miklu fegra sem Himnarijke er Stundlegu Epterlæte, svo miklu meire Hug skylldum vier leggia a, Christner Meñ, ad bæta þeim aptur, sem vier rænt hofum siinum Andlegum Fiesiood. Nær þier siaaed eitt Ungmeñe, eiñ Vesæling, eiñ sem Drotteñ bijdur ad medtaka i siinu Nafne, þa hugsed med ydur; Smaaer eru þesser ad Vijsu, eñ hañ er stoor; Sem er þeirra Fader og þeirra Brooder; Smælingiar eru þeir ad soñu, eñ Hneixled er stoort, Synden er mikel, og Straffed Obærelegt: Vesælingar eru þeir; Eñ sæll er saa, sem ecke hneixlar sig a þeim, þvi hañ hneixlar sig a Christo, eñ Vei sie hinum: Þar



fyrer

fyrer, ef þier vilied Guds Viner vera, ef þier vilied Saaluhiaalpena erfa, ef þier vilied heilagra Eingla Þioonustu nioota, ef þier vilied Helviijtis Kvaler umflya; Pa giefed þeim eckert Hneixle; Hverke med Orde, Verke nie Epterdæme; Þvi nær þier hneixled þessa, þa hneixled þier sialfa ydur, þar fyrer medtaked þa i Christi Nafne; svo medtaked þier hañ, og faaed ad heyra a hinum Efsta Dege: Pad þier giordud einum af þessum mijnum minstu Brædrum, þad giordud þier mier. Þess uñe oss ad niota hin eilijfa Guddoomsens Haatign, Fyrer JEsu Blessada Forþienustu, Amen.

# Atianda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap.

Þañ Tijma. Pa Phariseearner heyrdu þad, ad hañ hafde nidur þaggad þa Sadduceos, Samañsofnudust þeir i eitt. Og Þeirn Løgvitringur af þeim spurde hañ ad, Freistande hañs og sagde: Meistare, Hvørt er hid hædsta Bodord i Løgmaalenu? Eñ JEsus sagde til hañs: Pad, ad þu skallt elska DRotteñ Gud þiñ, af øllu Hiarta þijnu, og af allre Aundu þiñe, og af øllu Hugskote þijnu. Þetta er hid fyrsta og stædsta Bodord. Eñ hitt añad er þessu lijkt, þad, Ad elska skalltu Naaunga þiñ so sem sialfañ þig. J þessum tveimur Bodordum er iñebunded allt Løgmaal og Spaameñerner. Eñ þa Phariseearner voru so til samans komner, spurde JEsus þa ad, og sagde: Hvad virdest ydur um Christ, hvørs Son hañ sie? Þeir søgdu hønum, Davids: Hañ sagde þa til þeirra: Hvørneñ kallar David hañ þa i Anda eirn HErra? Þar hañ seiger: DRotteñ sagde mijnum DRottne: Sit þu mier til hægre Handar, þaangad til ad eg legg Ovine þijna Skør Foota þiña. Nu ef David kallar hañ eirn Herra, Hvørneñ er hañ þa hañs Sonur? Og eingeñ gat svarad hønum eirnu Orde. Og eige dirfdest nockur upp fraa þeim Deige hañ framar ad spyria.

## Exordium.

TVeir eru Partar Christelegs Lærdooms, Løgmaaled og Evangelium. Løgmaaled er fyrer Moysen wtgiefed, eñ Naad og Sañleike er fyrer JEsum Christum vordeñ, Joh. 1. Af Løgmaalenn verdur eingeñ Hoolpeñ, þvi þad verkar Reide: Fyrer Trwna i Evangelio verdum vier Riettlaater: Moyses seiger oss hvad vier eigum ad giøra, Christur, hverneñ vier eigum ad trwa: Moyses foor med Skugga epterkomande Giæda, i Christo er sialfur Lijkameñ oss veittur. Nu er þetta þo ecke svo ad-skilia, ad Fedurner j Gamla Testamentenu hafe af Evangelio Hlutlauser vered: Sioa, eg kiem, J Upphafe Bookareñar stendur skrifad af mier, þiñ Vilia, miñ Gud, giøre eg, seiger Messias fyrer Davids Muñ, Ps. 40. Hver er sa hañs Vilia? Sa, ad Kviñuñar Sæde skyllde i sundurmola Høggormsins Høfud. Fyrer þad blessada

Fyrer-

Fyrerheit hafa þeir aller hiaalpast eins og vier, sem Hoolpner eru vordner, allt þar til ad Christur leidde Saanleikañ i Lioos. Fyrer Trwna vard Abraham Riettlaatur, og fyrer Trwna seiger Petur ad Fedurner hafe Hoolpner vorded: Eñ svo sem þeir vorn ecke aan Evangelii og þess Astgiafa, svo skulum vier þad og vita, ad vier ecke erum aan Løgmaalsins, þvi DRottiñ kom ecke til ad uppleisa, helldur ad uppfylla Løgmaaled, Matth. 5. Satt er þad, ad þeir sem Christo tilheyra, þeir eru ecke under Løgmaalenu, þad er, under Løgmaalsins Bølvan, Eñ þo Krossfesta þeir sitt Holld med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Þad heimtest ecke af þeim, ad þeir uppfylle Løgmaaled, eñ þess krefur Gud, ad Meñ life epter þvi, sem fremst vier megnum, edur þvi mundu hañs Postular svo opt biooda oss ad lifa Gudrækelega, Sparsamlega og Riettvijslega i Heime þessum? Þvi munde Jacob seigia, ad Trweñ sie daud aan Verkaña? Þvi munde Frelsareñ sialfur wtleggia Løgmaaled, og vijsa Moñum til þess, ef ecke ættum vier epter Løgmaalenu ad lifa. Þetta siaaum vier i þessa H. Dags Evangelio, i hverin oss verdur fyrer Siooner sett øll Skyllda Christens Mañs, sem foolgeñ er i þessu Tveñu. 1. Ad elska Gud og Naaungañ. 2. Ad þeckia Christum og hañs Persoonu riettelega. Um̃ þetta hefe eg æsett mier framar ad tala. Eñ þu goode Gud, Styrk oss hier til med Naad þijns Anda, J JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

J Hinu fyrra hofum vier Tvo Bodord ad athuga, sem er, Ad Elska GUD, Og Añad, Ad Elska NAungañ. Þad Fyrra kallar DRotteñ hid ædsta og mesta Bodord i Løgmaalenu, svo sem Von er aa, ecke einungis þess vegna, ad eckert er svo Ypparlegt, svo Daasamlegt, svo mikillrar Elskuverdt sem Gud, helldur og þess vegna, ad øll øñur Bodordeñ hafa siñ Krapt og Mindugleika af þvi, þar allt hvad vier giorum med Ord og Verk, hversu vel sem þad sijnest giort, þad er Onijtt, utañ þad framkome af Elskuñe og Virdinguñe til Guds. Allt þad sem Gud hefur boded, þad eigum vier ad giora, af þvi vier Ottunst og Elskum hañ, Eñ hañ eigum vier ad Elska fyrer þa Ometanlegu Yferburde, er hañ hefur yfer allar sijnar Skiepnur, hañs Magt, hañs Dijrd, hañs Riettlæte, eñ þo allra mest fyrer hañs Giæsku, þvi vier hofum ei svo Skynbragd aa ødrum Greinum hañs Dijrdlegu Haatignar; Eñ hana fiñum vier og þreifum aa heñe aa hveriu Augnablike, þvi hañ uppfyller vora Epterlaungun med Giædum, seiger David, Ps. 103. Og ef vier fyrst vilium hugleida Giæsku hañs i Lijkamlegañ Mata: Er hañ þa ecke sa ed hefur giefed oss Ønd og Lijkama? Þvi skylldum vier þa ecke elska hañ af allre Øndu vorre? Hefur hañ ecke iñplantad Naad og Skilning i Saaler vorar? Þvi skylldum vier þa ecke elska hañ af ollu Hugskote voru? Hefur hañ ei giefed oss Hiartad, sem er Bwstadur Elskuñar? A hverium skyllde hun helldur festa sig, eñ aa honum, sem hana hefur sialfur tilreidt og bwed svo Daasamlega um̃ hana? Mun hañ ei vera sa, i hverium vier lifum, erum og hrærunst? Act. 17. Uppfyller hañ ecke Hiortu vor med Fædslu og Føgnude? Upplijkur hañ ecke siñe milldu Hende, og sedur allar lifande Skiepnur? Ps. 145. Og hvad mest hina Oþacklaatu Mañeskiu. O! vor Gud, eg hrylla til þess, er DRotteñ brixlar sijnu Foolke hiaa Jeremiam, seigiande: Hefe eg vered Israel svo sem Eydemork edur Jord sw, er tapar Avextenum? Jer. 2. Gud giæfe, ad vier villdum og laata oss til Rifia reña þessa hañs Fodurlega Hiarta-Giæsku, og athuga hvad orlaat hañs Millde hefur vered, hversu Vijsdoomsfull hañs

Guddoomlega Forsioon, ad hañ hefur aled oss aa þessum Arum, ei sijdur eñ friooffsom
Jord Akur-Kalleñ, ad honum sofande, aa hverium vier høfum þo hvad verst lifad: Ef
vier hugleidum þetta, ad miñsta Koste i hvert Siñ, er hañ veiter oss nockurn sierdeilis
Velgiørning, þa mundum vier helldur leidast til ad elska Gud, og ecke seigia med Gud-
lausum Judum: Vier drottnum og vilium ei framar til þijn koma, Jer. 2. Og þo nu
ad DRotteñ laate oss kieña hardt aa stundum, añadhvert alla Almeñelega, edur og
nockra sier i Lage, til ad typta oss þar med Lijfada Kaalfa, Jer. 31. Edur til ad reyna
sijn Børn, þa eigum vier samt ad elska hañ, þvi hvern þañ Son, sem Fadereñ elskar,
þañ agar hañ, seiger Paulus, Hebr. 12. Eñ ef þetta er hañs Elsku-Merke, hvilijk
Faasiña er þad þa, ad elska hañ ei aptur aa moote. Svo sem þad er lijtill Heidur halld-
eñ, ad elska Vine sijna medañ þeir kuña ad duga oss, svo er þad lijted Rækktar-Merke
vid Gud, ad elska hañ alleina medañ allt ad Oskum geingur: Og Gud Naade, Þad
eru þo svo faaer, sem giora þad: Eñ svo sem Gulled reynest i Ofnenum, svo proofast
og Elskañ til Guds i Mootgaangenum: Og hvad mørgum hefur hañ þrijst til ad elska
hañ, sem þvi aadur fiarlæger voru, og hafa Meñ til þess fulla Orsøk, nær Meñ giæta
þess, ad hvad sem hañs Elskendur vantar hier, þad mun oss margfalldlega Endurgolld-
ed verda i Upprisu Riettlaatra; Þad vottar sialfur DRotteñ, er hañ seiger: Hver
sem ad yfergiefur Hws og Brædur og Systur, edur Fødur edur Moodur, edur Eigeñ-
Konu, edur Børn, edur Akra fyrer mijns Nafns Saker, hañ skal faa Hundradfallt ap-
tur og eignast ad Erfdum eilijft Lijf, Matth. 19. Eñ hvern sem ad hañ svipter øllu þessu,
edur svo Miklu edur Litlu sem honum þocknast, og hañ elskar samt Gud siñ, og kysser a ha-
ñs Vønd, hañ giører allt hid sama. Munum vier þa nockud miñast Harmkvæla þess-
ara Tijma, nær vier skijnum eins og Sool i Rijke vors Fødurs? Matth. 13. Mun
Sonureñ reikna þau Høggeñ er Fader hañs sloo hañ, nær hañ situr i Tign og Heidre?
Þvi er þad faavijslegt, ad vilia ei kaupa þessu, og þvi skylldum vier þa ei elska vorn Himn-
eska Fødur; Jafnvel midt i Hørmungunum. Eñ hvad Almeñelegre Typtan vidvij-
kur, þa giæfe Gud, ad vier villdum eins lynder og samhuga vera i þvi, ad elska Gud, þo
hañ age oss, sierdeilis þar vier i þessu faatæka Lande meigum jaata þad, ef vier adgiæta
vilium, ad hañ burtrekur ecke eilijflega, vier meigum þeckia þad vid oss framkomed vera,
sem hañ heiter sijnu Foolke fyrer Muñ Joels Spaamañs: Eg skal Endurgiallda yd-
ur þau Areñ sem ad Eingesprettañ, Trie-Ormureñ og Gras-Madkureñ hafa eydt fyr-
er ydur, Joel. 2. O! vor Gud, þvi skyllder þu Mañenum betala? Hver hefur þier nock-
urn Tijma giefed, svo þu þurfer honum aptur ad giefa? Rom. 11. Vilier þu giallda oss
epter Verdugleikum, þa eru vor Laun Daudeñ, vier høfum ecke añad medteked i Str-
aff Syndareñar, eñ hvad vier tiluñed høfum, og þad med nærsta smaaum Mæler, eñ þvi
velldur þijn Giæska, þijn Fødurleg Elska, ad þu villt svo ad Orde komast: Þar fyrer
Hugleidum nu, christner Meñ, Hafe Gud typtad oss Ohlijduga Synda-Þræla med O-
Aran nockurre, edur ødrum Landplaagum; Hefur hañ oss þad ecke margfalldlega ap-
turgollded, med hiñe mestu Ar-Giæsku og ødru Blijdlæte sijnu? Skylldum vier nu el-
ska

ſka nockurn jafnframt honum, er ſvo leikur vid oſs eins og Born ſijn? Eñ hvad ſeiger Drottenñ fyrer Muñ Joels ſijdar i þeſſum ſama Capitula? Nær þier eted jafnadarlega og erud Metter, munud þier Lofa Nafned Drottens? Eñ hvert ad hiñ goode Gud hefur ei optlega funded Breſt a þeſſu hia morgum af oſs, þad bid eg þa ad Hugleida, uñ hvoria eg hygg þad riett-talad ſie, er ſtendur hia Hoſeam Spaamañe, i Cap. 13. Undereins og þeir ſadder urdu, hoofſt upp Hugur þeirra, þar fyrer hafa þeir gleymt mier. Eñ oll þeſſe Lijkamleg Bleſſan, ſvo mikel ſem hun er, ſem þo er ſo mikel, ad alldrei verdur hun fullþockud, þa er hun þo Smaa-Muner hiaa hinum Andlegu Giædum ad reikna, er oſs veitt eru i Jeſu Christo. Faaum oſs er tamt ad elſka Gud fyrer þær Gaafur, ſem aller jafnt niootа, fyrer hañs Sool, er hañ lætur ſkyna yfer Vonda og Gooda, fyrer þad Regned, er hañ falla lætur yfer Rangla̋ta og Riettla̋ta, Matth. 5. Hvar fyrer? Þviad aller meina ſig þeſs verduga, fyrſt aller hafa þeſs ſomu Not, eñ Avoxtureñ verdur þo meire hiaa ſumum, eñ ſumum miñe, jafnvel þott ad Tveir hafe hina ſomu Atburde, þvi Bleſſan Drottens er þad ſem Hwſed bygger; Eñ hañs Heilſuſamleg Naad i Christo er augliooſs vorden ollum Moñum, Tit. 2. Hun er alldrei Avaxtarlaus hia þeim, ſem hanā medtaka vilia, og þar er eingeñ Mismunur a ollum þeim, ſem jafnt bera ſig epter heñe, þvi hia honum er eckert Mañgreinar-Alit, þar er hverke Gydingur nie Grickur, Þræll edur Frelſinge, helldur aller Eitt i Jeſu Christo, Gal. 3. Eñ fyrer þeſſa Haaleitu Guds Velgiorninga elſka fleſter hañ hvad miñſt; Hvar fyrer? Þvi Meñ dæma epter Holldenu, eñ Hollded ſkyniar ecke hvad Guds Anda er, 1. Cor. 2. Athugum þo hvert meira er, ad ſkapa Himen og Jord, edur ad laata Gud, ſem hverttveggia ſkoop, taka a ſig Lijkingu ſyndugs Hollds, Rom. 8. Ad ſkapa Mañeñ, edur ad Endurſkapa hañ: Ad giora hañs Lijkama af Molldu, og blaaſa lifande Anda i hañs Naſer; Edur ad ſkapa i honum eiñ nijañ Mañ, og giefa honum H. Anda: Ad leggia alla Hlute under hañs Fætur, Pſ. 8. Edur ad giefa ſiñ Eingieteñ Son wt fyrer hañ, ad hañ fyrerfareſt ecke, helldur hafe eilijft Lijf: Ad giefa honum Jardneſka Fædſlu, edur ad ala hañ a ſijns Sonar Hollde og Bloode: Ad giefa honum Þroott og Atburde til ad wtvega Næringu ſijna, eda giefa honum Styrk i Mootgaangenum, Freiſtingunum og Offooknunum: Hvert er meira ad giefa honum Vit og Rænu, til ad ſiaa fyrer þeſſu Lijkamlega Lijfe, edur ſitt H. Ord, ſem hañ uppfræder til eilijfs Lijfs, og ad upplijſa bæde Viliañ og Skilningeñ, ad hañ gete bæde þeckt Gud og elſkad? Hvert er meira, ad giefa honum Maaled, til ad tala vid ſijna Lijka i Heimenum, edur ad giora hañs Tungu vel talande, ſvo hañ fare vid ſiaalfañ Gud talad? Og ad ſijdurſtu, hvert er meira, ad giefa honum Gull og Sylfur, Akur og Kvikfenad, edur ad wtvega honum þañ Feſiood, ſem er a Himnum, hverium ei kañ Molur nie Rid ad granda, Matth. 6. Hver ed Guds eiged Blood og hañs dijrañ Dauda koſtad hefur: Saa ſem þetta ſamañ ber, hañ mun fiña, ad ſvo miklu Ædre ſem Saaleñ er Lijkamanum, ſvo miklu fegre ſem Himnarijkis Dijrd er forgeingelegu Gliſe Veralldareñar; Jaa, ſvo miklu Ædre ſem Gud er ollum ſijnum Skiepnum, ſvo miklu heitara eigum vier hañ ad elſka fyrer hina Andlegu Velgiorninga, helldur eñ þa Lijkamlegu, þviad i þeſſum veiter hañ


hvad

hvad forgeingelegt er, eñ i hinum sialfañ sig, sem ad blijfur, sem er eiñ og hiñ same, og hañs Ar þrotna ecke, Heb. 1. Og hver sem Gud alleina fyrer Jardneska Mune elskar, hañ hefur alleina Matar Ast a honum, eins og eiñ Hræsnare sem tilbidur hiñ Rijka a medañ hañ elur hañ. Og fyrer þessar Ometanlegu Guds Astgiafer, eigum vier hañ nu ad elska hvad mest af ollu Hiarta voru, og allre Ondu vorre, og ollu Hugskote voru; Pad er, af ollum Saalar og Lijfs Kroptum, so sem David bijdur; Lof seig þu Ond mijn Drottne og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafne. Eñ su Elska er vier a Gude hofum fyrer Tijmañlega Mune, hun aa ad vera svo kroptug, ad hun naae þvi Maale, er hañ tilætlad hefur; Sem er, ad hun leide oss til ad elska hañ i Christo og fyrer Christum, hvers Elska ad Paulus seger ad sie betre eñ allt ad vita, og hañ lijser Bolvan yfer þeim, sem ecke elska Drotteñ vorn JesumChristum, og þetta er nu so talad uñ hid Mesta og Ædsta Bodord i Logmaalenu. Hitt añad er þessu lijkt, seger Frelsareñ: Elska skallt Pu þiñ Naunga sem sialfañ þig. Sier hefur Gud sialfum hiñ fyrsta og mesta Heidur skiled; Eñ fyrer þvi, ad saa sem segest elska Gud, eñ hatar siñ Broodur, hañ er Liugare, seger Johañes, 1. Joh. 4. Pa er audsært, ad Naungans Elska fylger Guds Elsku jafnañ a epter, þess vegna samteinger og Lausnareñ þesse Tvo Bodord, þvi hverugt maa añars missa. Saa sem elskar Gud, hañ elskar siñ Broodur, og eingeñ elskar siñ Broodur riettelega, nema hañ elske hañ fyrer Guds Saker. Hier til þarf og mikla Alvoru, og þar Bodord þesse eru svo skylld, þa rijdur eins miked a baadum; Svo sem Helvijte er vijst þeim sem ecke elskar Gud, svo seger og Christur, ad saa sem reidest Broodur sijnum, hañ sie sekur Helvijtis Ellds, Matth. 5. Petta Bodord þyker morgum nærsta þungt, og sierdeilis epter þvi sem Christur utleggur þad hiaa Matthæum segiande: Elsked Ovine ydar, blessed þa er ydur bolva, Giored þeim Gott sem hata ydur, og bidied fyrer þeim sem eru ydur mootfallner og Offsækia ydur. Eñ Johañes seger þo, ad hañs Bodord sieu ecke þung; Eg vil og segia, ad eckert Bodord er Riettvijsara og eckert Nytsamlegra til Velferdar. Riettvijst er þad, þvi hañ hefur oss þad boded sem er sialf Riettvijseñ, sem aa Valld a ad bioda oss hvad hañ vill, sem elskade oss, þa vier vorum hañs Ovíner, sem ad eingum er uñ neitt skylldugur, eñ vier erum honum skyllduger uñ Saal og Lijf, og allt hvad vier erum. Gagnsamt er þad, þvi saa er so giorer, hañ viñur hiñ besta Hlut, þvi hañ verdur af Gude elskadur. Hver er þvilijkur Hlutur, sem ad vita Synder sijnar kvittar? Eñ þad veit hañ, sem svo elskar Ovin siñ, ad hañ tilgiefur honum hañs Misgiorder, ad Vitne Frelsarans, er hañ sagde: Ef þier fyrergiefed Moñunum þeirra Misgiorder, þa muñ miñ Fader tilgiefa ydur ydar Synder, þvi vil eg segia hid sama hier uñ og Paall sagde uñ Mañ og Kviñu; Saa sem elskar sijna eigeñ Konu, hañ elskar sialfañ sig, Eph. 5. Og allt hidsama giorer hañ sem elskar siñ Broodur, og hver sem hañ hatar, hañ hatar sialfañ sig. Eñ þessa Elsku til Naungans eigum vier ad Auglijsa, ecke med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sañleika, añars elskum vier ecke riettelega; Gud eiñ veit hvad i Hiartanu bygger, þvi hañ rañsakar Nijruñ, þad veit Madureñ ecke, hañ dæmer af Avoxtunum. Pvi kañ eg ecke ad segia, ad saa elske siñ Naunga, sem eckert Gott lætur af sier

sier leida, þar til giefur Jacob mier Orsok, er hañ seger: Ef Syster edur Brooder eru nakeñ, og vantar Daglegt Vidvære, eñ Einhver ydar seger: Fared i Fride, vermed ydur og metteſt, eñ giefed þeim þo ecke þad Lijkameñ vid þarf, hvad gagnar þad? Og þetta er nu ſvo framſagt uñ þeſſe Tvo Stooru Bodord; J hverium Frelſareñ seger, ad allt Logmaaled og Spaameñerner ſieu Jñefalder; Eñ þegar vier nu rañſøkum hvad miked oſs vantar a ad fylla þeſſe Guds Bod, þa mun oſs til Hugar koma, ad leita eins añars Lærdooms, hvar fyrer vier kuñum holpner ad verda. Til hañs vijſar oſs Chriſtur i ſiñe Spurningu til Gydinga, er hañ ſagde: Hvad Vyrdeſt Ydur uñ Chriſt Hvors Son hañ ſie? Hvar uñ vier vilium nu med faaum Ordum tala i hiñe Sijdare Greineñe.

Gydingar hofdu framſett fyrer DRotteñ Tvær Onytiu Spurningar, aadur eñ þeſſe kom til uñ Bodordeñ; Adra baaru Phariſæi og Herodis Pienarar frañ, hvert ad leifdeſt ad giefa Keyſaranum Skatt edur ei, þeim ſvarade hañ wtaf, ef eg maa ſvo ad Orde komaſt, ſem verdugt var, þvi Madureñ ſkal ei ſvara einum Daara uppaa ſitt Tal. Adra Sadducæi, er þeir ſpurdu, hvers ad Konañ ſkyllde verda i Uppriſuñe af Sio Brædrum, ſem aller hofdu haft hana, þa nidur þaggade hañ, og ſtraffade þeirra Oviturleik. Peſſe var hin Pridia, og voru uñ hana ymſar Meiningar hiaa Gydingum. Adrer hielldu hin hellſtu vera uñ Foornernar: Adrer Uñſkurnareñar-Logmaal: Nockrer uñ Hvijldardageñ: Eñ DRotteñ, er ſiaalfur hafde Logmaaled wtgiefed, J hverium ad binggu aller Fiaarſiooder Vitſkuñar, hañ leyſte wr heñe aan Uñþeinkingar, Til þeſs, ad ſijna þeim hvad myked þa vantade aa Guds H. Logmaals Uppfylling, ſem meintu hana ad vera einungis foolgna i wtvortis Verkum, eñ ecke til ad kieña þeim, ad nockur giæte af Logmaalenu hoolpeñ orded, og þvi vijſar hañ þeim til Chriſtum og hañs Perſoonu, ſvo þeir vel mattu læra Saaluhiaalpareñar Veg, hefdu þeir haft Vilia edur Vit aa epter ad taka, edur framar hier uñ ad ſpyria, eins og Nicodemus; Hvad Virdeſt Ydur Uñ Chriſt Hvers Son Hañ Sie? ſeiger Frelſareñ: Peir Sogdu Honum Davids. Ecke neitar DRotteñ þvi, ad hañ være Davids Son, ſvo ſem ei var Von til. Gud hafde David heited, ad hañ villde giefa honum eiñ Son, hvers Rijke ad ſkyllde eylijft verda, 2. Sam. 7. Hañ er Sonur Davids epter Holldenu, ſem Paulus vottar; Hañ er giordur af Sæde Davids, eñ þeſſe hiñ ſame Davids Sonur, ſem ad er fæddur af Fedrunum epter Holldenu, hañ er þo Gud bleſſadur uñ Allder: Pvi ſeiger nu Lauſnareñ framveigis: Hverneñ Kallar David Hañ Pa i Anda Eiñ HErra? Eingeñ Fader er ſvo Audvirdelegur, og eingeñ Sonur ſvo Megtugur, ad Fadereñ kalle Soneñ Herra. Laatum vera, ad eiñ Fader ſie ecke Kongboreñ, og Synenum Konungs-Tign hlotnadeſt, ſvo ad Fadereñ kallade hañ Herra, af þvi hañ ber Guds Perſoonu aa Jorduñe: Eñ hverneñ mætte þad eiga heima hiaa David, hver ed ſiaalfur var Konungur, og aatte ſier eingañ ædre, nema Gud alleina, ſem bijr i Himnenum, og er allra DRotteñ? Pvi er þad audſied, ad ſa er Gud, og Guds Sonur, er hañ Herra kallar: Par fyrer ſeiger Frelſareñ: Ef David Kallar Hañ HErra, Hverneñ Er Hañ Pa Hañs Sonur? Og ſvo ad eingeñ kyñe ad leida ſier

i Hug,

i Hug, ad þad være nockur af Einglunum, edur Hofud-Einglunum, sem David kallar HErra i þessum Stad, þa færer DRottenñ til sijns Maals þa Grein af Spadoome Davids, sem eingum Eingle edur nockurre Skiepnu til heyrer, og ecke utañ alleina Guds Syne, sem er sañur Gud, Gude Fodur og Heilogum Anda Sam-Eylijfur og samjafn ad allre Tign, Magt og Vellde, og þo sañur Madur vordeñ, svo myklu ædre Einglunum, epter Mañdoomenum, sem hañ hefur þeim ædra Nafn, þad er Tign bloted fyrer Jbwd Guddoomsins: Pa seiger hañ: DRottenñ Sagde Mijnum DRottne, Sit Pu Mier Til Hægre Handar, Par Til Eg Legg Ovine Pijna Til Skarar Foota Piña. Pviad til hvers af Einglunum hefur hañ nockurn Tijma sagt, Sit þu mier til hægre Handar? Seiger Paulus, Hebr. 1. Jaa, Eingilleñ kvadst vera Sambioon Johañis, er hañ talade vid hañ i Openberaneñe. Hverneñ maatte þa David nockurn Eingel siñ Herra kalla? Sw er þa Meiningeñ i þessu Tale Frelsarans vid Gydinga, ad Christur sie Davids Son, þad er af Fedrunum fæddur, epter Holldenu, og þo Guds Sonur af honum gieteñ fyrer allar Allder, þad er sañur Gud og sañur Madur i eiñe Persoonu, hvad og siaa maa af þeim Maalshætte; Ad Sitia Til Guds Hægre Handar, hvad eingum gietur tilheyrt, nema þeim, sem er ein Persoona samsett af Guddoome og Mañdoome. Petta hefdu Gydingar kuñad ad læra, og þo myklu skilianlegar og betur, eñ nockur Syndug Tunga faae wtmaalad, hefdu þeir lagt nockurn Huga aa sitt Maal, og spurt fremur hier uñ. Eñ vier sem feinged hofum þad ad heyra, og trwum þvi sem þeir heyrdu ad soñu, eñ trwdu þo ecke; Vier, hverium Christur er fyrer Augunum maaladur i hañs Orde, Vier skulum reikna oss þad fyrer eylijfañ Sooma, og hina ædstu Huggun, ad Gud er Madur vordeñ, og ad vort Holld er upphafed aa Guds Tignar-Stool fyrer Jbwd Guddoomsins. Eñ hvad er þad, ad sitia aa hægra Veg Gude? Pad leggur Paulus wt, er hañ seiger, 1. Cor. 15. Honum byriar ad rijkia þar til hañ leggur alla Ovine til Footskarar honum. Eñ hvilijkt er þetta Rijke? Pad er, ad hañ er settur yfer allañ Hofdingskap og Vellde og Krapt og Herradæme, og oll Nofn sem nefnast, ecke einasta i þessare Olld, helldur og hiñe Tilkomande, Eph. 1. Eñ undañ þessu Dijrdlegu Rijke urdu Pijslernar ad gaanga, þvi lijser hañ sialfur, er hañ talade vid þa Tvo, sem til Emaus geingu, Luc. 24. Og lagde wt fyrer þeim Ritningarnar, seigiande: Hlaut ei Christur þetta ad lijda, og iñgaanga sijdañ i sijna Dijrd. Guds Sonur er ad soñu Konungur fraa Eylijfd, þess gietur David, seigiande: Gud, þiñ Tignar-Stooll varer uñ Alldur og uñ Allder Allda. Eingeñ maa Konungur heita, nema hañ Rijke hafe, eñ Mañsins Sonur braut sig til Rijkis i giegnum Pijslernar, Daudañ og Port Helvijtis, þegar hañ took Herleidinguna ad Herfaange, eñ wtsnarade honum, sem hefur Magt Myrkrañа, og settest aa Guds Hatignar-Stool, lifer og rijker ad Eylijfu, svo ad hañ er vor Konungur vordeñ, epter vorre Naatturu, eñ vier hañs Brædur, þad er oss eylijf Huggun. Verde eg aumare eñ Lazarus, verde eg audvirdelegre eñ hañs Postular, verde eg Afrak og Hreinsunar-Foorn Veralldar, eins og þeir, verde eg svo fatækur sem sialfur hañ, ad eg ecke hafe þar eg kuñe ad halla ad Hofde mijnu,

mijnu, þad er mier noog, ad mitt Holld og Blood rijker aa Himnum, og situr aa hægra Veg Gude, med hverium hañ fæder mig og dryckiar, til Stadfestu þar um, ad eg sem med honum lijd, mune og sijdañ med honum rijkia, og hversu sem miñ Lijkame yrde afskræmdur af Volæde og Vesolld, þa skal hañ þo verda samlijkur hañs Dijrdlegum Lijkama, Jaa, þad er mier ecke lijtel Huggun, ad þad sama Holld og Blood, sem situr aa Guds hægre Hond, þad medtek eg i H. Alltaresins Sacramente, til Styrkingar um Kvittun Synda miña, þviad i þeim Lijkama, sem broteñ var aa Krossenum, og i þvi Bloode, er þar var wthellt, i þvi sama bygger oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, svo þegar eg medtek Lijkama og Blood Mañsins, þa medtek eg og sialfañ Gud aa moote hverium eg syndgad hefe, og af hverium hvad mest hanger Verdugleike mijns Syndagiallds. Þar fyrer, nær eg skielfest af Stærd Synda miña, þa verd eg af þessu huggadur, þvi ef ad mitt Hiarta fordæmer mig, þa er Gud meire Hiarta mijnu, og þad mun alldrei bregdast, er Gud hefur heited i Christo fyrer Muñ Jeremjæ: Ef leitad verdur ad Ranglæte Jsraelis, þa skal þar eckert vera, og Synder Juda skulu eingar fiñast, þvi eg mun fyrergiefa þeim er eg mun epterskilia. O! miñ HErra JEsu, fyrer hvers Skulld mun þad vera, ad þiñ Fader midt i Reideñe miñest aa Myskunsemena, Hab. 4. Hvar fyrer brestur hañs Hiarta i honum, svo hañ hlijtur Syndaranum Myskunsamur ad vera? Jer. 31. Hvar fyrer skiedur þetta, DRotteñ miñ, Nema fyrer þijna Medalgaungu, sem situr honum aa hægra Veg? Þegar eg sed eina þreytta Saal og uppfylle sierhveria aangraada Saal, þa vake eg til þess, miñ Svefn er mier jafnañ sætur, seiger DRotteñ epter Mañlegum Plagsid, til ad wtmaala sijna Elsku til Mañkynsens i Christo JEsu. Vier seigiunst ad vera vakner og sofner i þeim Hlut, er vier hofum Ynde af, og svo talar hañ hier um sig, hver þo ecke sefur og ecke sisiar hañ; O! Gud giæfe, ad vier værum eins Arvakrer og Ydiusamer i hañs Pioonustu, Jaa, hvad stoor og Omælanleg sie hañs Giæska, yfer þeim, sem jafnvel hafa hinar verstu Synder drygt, þad seiger hañ skomu sijdar med þessum allra hiartnæmustu Ordum: Ef ad Himeneñ verdur mældur ad ofañ, edur Rañsakadur Grunddvollur Jardareñar ad nedañ, þa skal eg forsmaa allt Jsraels Sæde, fyrer allt þad þeir giort hafa; Eñ svo sem þad er Omøgulegt ollum nema honum einum, sem Himeneñ hefur wtþaned, og mæler hañ med siñe Speñ, og Jordena hefur grunddvallad; Svo er þad Omøgulegt, ad Bruñur Myskunsemeñar verde uppauseñ, hver ed alldrei tæmdur verdur, nema af þeim, sem ecke vilia koma til þessara Vatna, og forsmaa Rijkdoom hañs Poleñmædis, þar til þeir hafa uppfyllt Mæler Syndaña. Hvad mun nu vallda þvi, Christner Meñ, ad hañ, sem er eiñ fortærande Elldur, sa ed breñur allt til hins nedsta Helvijtis, hañ vill þo vera oss syndugum Ormum svo Naadugur? Hvad velldur þvi, ad Himnarijke lijdur svoddañ Ofrijke? Hvad añad eñ þad, ad hañ sem er sialfur Gud, Hañ situr i voru Hollde, hveria hañ skamast sijn ecke Brædur ad kalla? Hañ situr, Seige eg, til Kraptarens hægre Handar og bidur fyrer oss; Þesse er sa stoore Leyndardoomur, hvern Paulus seiger, ad Vitringar Veralldar hafe ecke skyniad, eñ þo er Opeñberadur oss, sem erum

Guds Smælingiar. O! þa stooru Naad, O! þau diwpu Myskunar-Ydur Guds, i hverium hañ hefur vitiad vor uppruñeñ af Hædum; Hon- um sie Lof, Dijrd og Heidur, Speke og Kraptur, uñ Allder Allda, Amen.

# Nijtianda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 9. Cap.

J Þañ Tijma. JEsus stie a Skip, foor hañ yfer uñ aptur, og kom i sijna Borg. Og siaa, ad þeir færdu til hañs Limafallssiwkañ Mañ, þañ er laa i siñe Reckiu. Eñ þa JEsus leit nu þeirra Trw, sagde hañ til hiñs Limafallssiwka: Vertu Hughraustur Sonur, þijnar Synder eru þier fyrergiefnar. Og siaa, ad nockrer af Skriftlærdum sogdu med siaalfum sier: Þesse Gudlastar. Og sem JEsus saa þeirra Hugreñingar, sagde hañ: Hvar fyrer hugsed þier so vondt i ydrum Hiørtum? Hvørt er audvelldara ad seigia, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar? Ellegar ad seigia, Statt upp og gack? Eñ so ad þier vited, þad Mañsins Sonur hefur Magt a Jørdu til ad fyrergiefa Syndernar (Þa sagde hañ til hiñs Limafallssiwka.) Statt upp, tak i burt Sæng þijna, og gack i þitt Hws. Og hañ stood upp, og foor i sitt Hws. Eñ þa Foolked saa þetta, undradest þad, prijsande Gud, sa ed þvilijka Magt hefde Møñunum giefed.

## Exordium.

MArga Hlute kalla Meñ Vonda i Heimenum, þar er þo eingeñ Vondur nema Syndeñ alleina, Vier køllum Straff Syndareñar Illt, Eñ þad er þo ecke Illt i siaalfu sier, þvi þar er eingeñ Olucka, ad ei kome hun fraa Gude, sem er alleina Goodur, fyrer vora Skulld verdur þad Illt, sem þad forþienad høfum med Syndeñe, og verdur þad þo mørgum Gott, sem þvi taka svo. sem Guds Børn, sier til Andlegrar Heilsubootar. Være þar eingeñ Noot, þa være ecke helldur neiñ Avøxtur, og være þar eingeñ Synd, þa være eingeñ Olucka. Daudeñ er Verdlaun Syndareñar, seiger Paall, svo er og allur hañs Her, sem under hañ þioonar, Siwkdoomar, Orbyrgd, Hallære, Ossookner, Bloods Uthellingar, Skadræde af Vøtnum og Vodaellde: Svo er þa Syndeñ hin einasta Orsøk til allrar Olucku Andlegrar og Lijkamlegrar, þess gietur Esajas, Cap. 42. Hver hefur giørt Jacob ad Herfaange og Eydelagt Israel, hefur ecke DRotteñ giørt þad, a moote hverium vier syndgad høfum, og þeir villdu ecke gaanga a hañs Vegum, og hañ wthellte yfer þa Grimd siñar Bræde, og megnu Strijde? Og þarf hier ecke laangt ad Nøkum ad leita, DRotteñ JEsus kieñer oss hier i Gudspiallenu, hver ad sie Orsøk til alls Mootlætis Mañaña, þar ed hañ sagde vid hiñ Haalfvisua: Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. Vilium vier þvi af Gudspiallenu læra, hvernig vier eigum ad saa Boot vid Syndeñe, J hverre vier alder erum, hverrar Illsku Kraptur ad Daglega brijtst wt uñ Lijkama þessa Dauda, Spillande allre vorre Umgeingne, Eñ þad er Tveñt sierdeilis, sem er hrein Ydran, og ørugg Trw og Traust a JESU Forþienustu.

Hiaalpa oss hier til, goode Gud, med Naad þijns Anda, fyrer JEsum Christum, Amen.

Ut-

## Utleggingeñ.

DRotteñ Sagde Vid Peñañ Hœlfvisña Mañ, Vertu Hughráustur Sonur, Pier Eru Pijnar Synder Fyrergiefnar. Eingeñ Efe er a þvi, Brœdur M. Ad þesse Vesœlingur hefur Angrœdur vered vegna Synda siña, er hañ hefur þeinkia mœtt, ad væru Orsök til sijns Krænkdœmis: Þess vegna sagde hiñ goode Meistare; Er visse hvad med Mañenum bioo, ad hañs Synder væru hønum fyrergiefnar; Eñ þu Christeñ Madur, sem þetta heyrer, athuga hvad JEsus svarade sijnum Læresveinum, Joh. 9. Er þeir spurdu hañ, hvert hañ, sem blindur boreñ var, hefde syndgad, edur Forelldrar hañs, Drotteñ svarade: Hverke syndgade þesse, nie Forelldrar hañs, helldur svo ad Guds Dijrd Opeñber yrde, ecke meinte Jesus þad, ad hañ edur hañs Forelldrar væru Syndlauser, þvi þa hefde hañ ecke blindur fœddur vered, þar Gud straffar eingañ fyrer eckert; Hitt meinte hañ, ad hverke hañ nie Forelldrar hañs hefdu meira uñed til þessa Vanskapnadar, Eñ marger adrer, helldur være þesse Vanheilinde, sem margur hefde forskulldad, a hañ løgd, til ad byrta Guds Dijrd og Almætte hañs Sonar. Eg hygg þad sie Mœla sañast, ad ef Gud villde tilreikna Syndernar, þa munde Fæer heilskigner i Verølldena fœdast, Fæer heilum Fœte a Jordena stijga, Fæer Ovisiñ Arm utrietta, og eingeñ uñ eitt Augnablik heill vera, helldur hefur Gud lagt sumar Skiepnur sijnar i Lijma, til ad sijna þier Heilbrygdum sijna Dijrd, og hvert Valld hañ hefur yfer þijnum syndugum Kroppe, ef hañ vill i Riettlætis Doom gœnga; Lát þar fyrer þau Ørkumsleñ, er þu a ødrum sier, eñ þu hefur til uñed, þrijsta Hiarta þijnu til ad ydrast þeirra Syndaña, er hafa þañ gooda Gud stygdañ, er lient hefur þier heilvita Sæl i heilbrygdum Lijkama, og leikur vid þig eins og Barn sitt med allskonar Medlæte, jafnvel þoott þu hañ Daglega til Reide reiter: Hverneg a þa Ydraneñe hættad ad vera, Barn Guds? Hun a ad vera heit og alvarleg, þesse Hœlfvisñe Madur hefur æn Efa vered Sorgfullur i Hiartanu vegna Synda siña, þad kieña oss Ord Christi, svo sem eg strax sagde: Forgiefens kiemur þu, Barn mitt, fram fyrer Gud, til ad bidia uñ Kvittun Synda þiña, nema þig œngre þær, nema þu grœter beisklega med Petre, nema þu þvoer Christi Fœtur med Tærum Hiarta þijns, eins og Maria, nema þitt Hiarta brædne i þier so sem añad Vax, eins og Davids, ecke svo miøg af Tilfiñingu Guds Reide, so sem af Elskuñe til hañs Giœsku, sem upplauk þijnum Augum, er varst blindur boreñ af Moodur Lijfe og daudur i Syndunum, er þig hefur Endurkeypt fra eilijfu Helvijtis Bæle, med sijns Sonar Dauda, og sparad þig sijdañ midt i Syndunum: Lát þier þad til Hiarta gœnga, ad þu hefur hañ moodgad og daglega stygger, jafnvel med vitanlegum Syndum. Svo a Guds Barna Ydran hættad ad vera, og er hun Gude svo þæg, svo sem ad Syndeñ er hønum leid; Jæ, eñ þa þægare, þvi Syndeñ getur alldrei svo stor vorded, ad ei sie meire Myskuneñ, hvar sem Syndeñ yfergnæfer, þa yfergnæfer Nædeñ miklu framar; Svo lijted giører Gud ur Syndeñe, þegar hun er af-þvegeñ med Ydraneñe, eñ hun a ad vera alvarleg, eige hun Gude ad þocknast; Sæ sem vill af Hiarta ydrast Syndaña, hañ skal vel rañsaka siælfañ sig, og hallda Reikning vid sitt eiged Hiarta af Ordum og Giordum

um, og ſvo mikla Kiæte ſem hiñ Ydrande hefur haft af Syndeñe, ſvo miked Angur byriar honum ad hafa i Ydraneñe: Meñ eiga ad breyta vid Syndena og Amon Fordum vid Syſtur ſijna Thamar, a medañ hañ framde ſiñ Vilia med heñe, elſkade hañ hana, þar epter rak hañ hana ut af Dyrunum: Pott honum fære ſvo Skañarlega, ad ecke ſie nærre þvi verra Dæme til, þa eigum vier þo eins ad breita vid Syndena; Vier eigum ad læta oſs hana leida vera, og er þad vijſt, ad ſæ ſem hefur Gaman af giordum Syndum, nær honum þær i Hug koma, honum eru þær eñ þa apturhalldnar: Drage eingeñ ſiælfañ ſig a Tælar; Ætlum ecke ad Gud nægeſt þar med, ad vier lætunſt uñ Stundarſaker ydraſt Syndaña, eñ gaungum þo aptur til þeirra, eins og Hundur til Spyu, edur Svijn þad, er vellter ſier i ſama Saur, 2. Pet. 2. Pegar Drotteñ hafde fyrergiefed Hoor-Konuñe Glæp heñar, þa ſagde hañ þo: Gack nu burt, og ſyndga ecke framar: Giefande þier þar med til Vitundar, Chriſteñ Madur; Ad þad er forgiefens, ad þu þigger Kvittun Synda þiña af Gude, nema þu ſporner vid þeim framveigis þad meſta þu mætt. Pegar Jeſus ſæ hañ Mañ i Muſterenu, er hañ ſkomu ædur læknad hafde vid Dijked Betezda, þa ſagde hañ: Siæ, nu ertu heill vordeñ, ſyndga ecke framar, ad ei hende þig añad verra, Joh. 5. Teiknande þar med, ad Syndeñ hefde vered Orſøk til hañs Siukleika; Eñ þu, ſem framkiemur fyrer Guds Fætur, til ad læta þier boda Kvittan Synda þiña af hañs Umbodsmañe i Skrifta-Stoolnum; Pader ad ſøñu viſt, ad ef þu ydraſt ut af Hiarta Syndaña, og treyſter a Jeſu Guds Sonar Forþienuſtu, þa verda þier þær fyrer hñs Blood fyrergiefnar, þott þær ſieu raudar ſem Blood, og ſvo ſem Purpure raudar, og þu Læknadur af øllum þijnum Andlegum Oheilendum, eñ ef þu ecke leitaſt vid framvegis ad Kroſſfeſta þitt Holld af fremſta Megne, þa mun Forþienuſta hins Kroſſfeſta ecke miøg gagna þier, miklu helldur fordæma þig, nema þu ſporner vid Syndeñe. Vit þad fyrer vijſt, ad Chriſtur hefur ecke forgiefens talad uñ þañ Ohreina Anda, ſem wtfer af Mañenum, ad hañ take Sio Anda ſier verre, og hverfe aptur i ſitt fyrra Hws, og verde ſvo þeſſ ſama Mañs hid ſijdara argara hinu fyrra. Eingeñ er Efe a þvi, ad Drotteñ meinar hier þa, ſem Einuſiñe hafa wtreked Dioſuleñ wr Hiarta ſijnu fyrer Guds Krapt og ſaña Ydran, eñ byggia honum þo iñ aptur, og æfa ſømu Synder Ydrunarlauſt, edur og adrar verre, þad vitnar St: Petur, hañs eigeñ Læreſveiñ, er hañ ſeger uñ þa, er vellta ſier i ſømu Syndum, ad þeirra hin ſijdare Kior ſieu verre hinum fyrre, þvi betra hefde þeim vered, ad alldrei hefdu þeir Veg Riettlæteſins vitad, helldur eñ ad þecktum honum ad hverſa aptur fra þvi Bodorde, er þeim feinged er. Chriſtner Meñ eiga ad breyta epter þeſſum Hælfviſna Mañe i hañs Audmykt og Angre fyrer Syndernar, eiñig i Trwñe og Trauſtenu a Guds Sonar Mætt og Myſkun; Eñ ecke eigum vier hañs Soottar-Ferle lijker ad vera, i vorn Apturhvarfe til Guds fra Syndunum: Hañ var Hælfviſeñ; Svo eigum vier ecke ad vera, þott vier ſieum veiker, þa eigum vier ecke Hælfviſner ad vera, ſvo vier meinum ad giefa Gude Helftena Hiarta vors, eñ Helmingeñ Syndeñe og Fiandanum: Gud bañar i Moyſis Løgum, ad hafa eiñ Mæler fyrer hiñ Jñlenda, og añañ fyrer þañ Framanda. O! hvad giora þa ſynduger Meñ, þegar

þegar þeir skamta Gude wt i Dropa Tale, hver med sijnum Blood-Dropum hefur af þvegeð Synder vorar, eñ Andskotanum giefa Meñ fullañ Mæler mest allra vorra Lijfdaga; Pad er Baals Pioonusta, eñ ecke Christs: Eñ St. Paall seger: Ad Christur og Belial, þad er hiñ same Dioful sem Baal, eige eckert Hlutskipte samañ. Verum þvi añadhvert heiter edur kallder, þvi þeim sem volger eru, vill hañ skyrpa wt af sijnum Muñe, Apoc. 3. Pesse Madur leitade Herrans, þa hañ var veikur ordeñ: Lær þad af hönum, Guds Barn, ad Akalla Drotteñ i Neydeñe, eñ bijd þo ecke epter þvi, ad hañ neydest til ad straffa þig Syndareñar vegna; Mørgum hefur ad søñu Guds Hegning komed til Ydrunar, sem ecke hafa þeckt Synder sijnar fyrre: Eñ giæt þess, ad þeirre Ydran, sem framkiemur af Otta Hegningareñar, heñe er hættara vid ad koolna aptur, eñ hiñe, sem af Jhugan sijns Overdugleika, og Guds Giæsku uppsprettur; Pad sie eg af Achab, er klæddest i Seck fyrer Gude, nær hönum illa gieck, eñ strax sem Gud hafde liett Hrijsenu af hañs Hrygg, þa fiell hañ fra hönum til añarlegra Guda. Sa sem undañ dregur Tijma Ydranareñar, og meinar ad þar sie alltijd noogur Tijme til, hañ virdest mier vera eins og sa, er ecke hyrder uñ þoott hañ lijde Skipbrot, af þvi þad kuñe ad henda sig, ad hañ kuñe af ad komast a einum Flaka. Meñ segia; Ad sa sem giører sitt Testament, ecke fyrr eñ a Dauda-Sængeñe, hañ giefe af Erfingians Fe, og ecke af sijnu: Hætt er vid, ad Gud mune eins hallda og kalla þad ecke sier giefed, sem þa er fyrst boded, nær sagt verdur: Giør Reikningskap þiñar Raadsmensku; Pu maatt ecke leingur Raadsmensku hafa. Sa sem Daglega frestar Ydraneñe, hañ er eins og sa Skulldu-Nautur, er giefur jafnañ good Ord, eñ betalar alldrei: Skyllda vor er þad Mañana, ad lijda þvilijkt hver af odrum, Naunugans Kiærleika vegna, i leingstu Løg, þvi vier erum Gude meira skylduger, sem er Fader vor allra, eñ hañ er ecke skylldugur ad lijda svoddañ Hræsne af oss, hverium vier erum skyllduger uñ Saal og Lijf. Malachias Spaamadur lijser Bølvan yfer þeim, sem eiga Heilbrygdt Fe, eñ offra þvi Hallta og Limlesta. O! Guds Barn, mun sa ecke þurfa ad Ottast fyrer þessare Bølvan, sem giefur Fiandanum siñ Ungmeñis Alldur, eñ ætlar ad Foornfæra Skaparanum þad, sem hañ verdur a Hækium ad bera? Skioot þvi ecke a Frest Ydraneñe, Barn Guds, helldur þenk a þiñ Skapara i þijnum Ungdoome, Pvi þu veist ecke nær Angisteñ kiemur, og þu leitar ad Fridnum, og fiñur hañ ecke, Ezech. 7. Og er þad svo hierum wttalad.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur, sem er uñ Trwna, þa eru heñar furduleger Kraptar, og eg maa seigia, Guddoomlegar Verkaner, sem laangt yfergaanga Mañlegañ Skilning, svo myklar, ad þad maa valla med Ordum wtskijra, hañ sem ad er Hofundur Trwareñar JEsus Christus, Heb. 12. Hañ hefur giort hina bestu Grein a þvi, er hañ seiger vid sijna Læresveina: Ef þier Trw hefdud svo sem eitt Mustards-Korn, svo mundud þier seigia Fialle þessu, Tak þig upp og fleyg þier i Siooeñ; Og ef ein lijtel Trw kañ þvilijks ad orka, hvad mykla Hlute mun þa hin sterka fa afrekad? Svo sem var Abrahams, er hañ trwde til Vonar þar eingeñ Von var, Rom. 4. Nu vil eg i þetta Siñ ecke uñ þvilijka Hlute tala, helldur ad þvi Leite sem hun þienar til Syndaña

Fyrergiefningar, og er þad Maala sañast, ad eingeñ er stærre Kraptur heñar eñ sa; Þvi miña var þad, ad giora Moysis Staf ad Hoggorme, miña ad sundurskipta Hafenu, miña ad laata Soolena standa kyrra, miña ad tilbyrgia Himeneñ, og kalla Elld af Himne, þvi allt eru þetta Guds Skiepnur, er honum hlijda Mootmælislaust: Miña er allt þetta, seige eg, helldur eñ ad koma Mañenum, af Syndeñe og Andskotanum vanskopudum, i Saatt vid Gud, og þvi er þad hin stærsta Jarteikn og Kraptaverk Trwareñar. Þegar JEsus Saa Þeirra Trw, stendur hier i Gudspiallenu, Sagde Hañ Til Hins Haalfvisna, Vertu Hughraustur Sonur, Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar. Tvent giorde JEsus hier Gott, Sem var, ad hañ gaf þessum vesæla Mañe Lijkamans Heilbrygde aptur, og svo under eins Saalareñar, eñ mykell var þesse Munur, og svo mykell sem ad skilur Saalareñar og Lijkamans Vanheilsu; Þvi talade DRotteñ eckert um Lijkamans Ohraustleik, helldur sagde hañ: Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar, þar fyrer sagde hañ og vid hina vantrwudu Gydinga: Hvert Er Audvelldara Ad Seigia, Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar, Edur Ad Seigia, Statt Upp Og Gack? Eñ hier sier þu Krapt Trwareñar, aadur eñ þesse aume Madur talade eitt Ord til Fodur Myskunsemdaña, þa hrærdust hañs Myskunar-Ydur i honum til Medaumkunar; Heiter ecke þetta ad Bænheyra aadur eñ kallad er? Hins sama maattu þier vænta, Christeñ Madur, nær þu lætur þig af Hiarta aangra þijnar Synder; Fyrr meiga Himen og Jord forgaanga, eñ ad Eitt af hañs Ordum falle aa Jordu, er sagt hefur til eins Ydrande Syndara, ad þegar hañ lætur af Illu, og lærer Gott ad giora, þa skule hañs Synder vera honum fiarlægar, sem Austred er Vestrenu, fyrr maa Siaafar-Hafed uppþorna, eñ ad Bruñur Myskunareñar verde uppauseñ, sem lofad hefur ad kasta Ydrande Mañs Syndum i Hafsins Diwp, svo þeirra skule ecke ad Eylijfu miñst verda: Þessu kiemur Trweñ til Leidar. DRotteñ undradest ecke yfer neinum Hlut, sem hañ saa hier aa Jardrijke: Allt Veralldareñar Yferlæte þootte honum einkis vert, svo sem Von var aa, þvi allt Silfur og Gull var hañs; Hañ gaf sig lijted ad Tale Læresveinaña, þegar þeir sijndu honum hina kostulegu Byggingu Musteresins, og þootte eckert til þess koma, eñ vid hina Canaanisku sagde hañ: Kona, mykel er þijn Trw. Svoddañ Gerseme er jafnvel eins Gaungumañs Trw, i Auglite DRottens, og hversu dijrmæt ad hun sie i Guds Auglite, þad giefur DRotteñ sialfur til Vitundar i Epterlijkinguñe um hiñ tijnda Saud og Pening, er hañ aalyktar med þessum Ordum: Svo seige eg ydur, ad meire Glede er i Himnenum yfer einum Syndugum sem Ydran giorer, helldur eñ yfer Niju og Nijutiju Riettlaatum: Holldum þvi þad fyrer satt sem Johañes seiger, 1. Pist. 1. Cap. Ef vier jaatum vorar Synder, þa er hañ Trwr og Riettlaatur, ad hañ fyrergiefur oss Syndernar, og hreinsar oss af ollu Raanglæte voru; Svo voru Myskunar-Ydur DRottens vidkvæm, er hañ leit Eymd þessa vesæla Mañs, ad hañ saa strax Aumur aa honum. O! þu Guds Barn, villtu þa efast um, ad hañ hrærist Myskunar yfer þier? þegar þier taka til ad svijda þijn Andleg Kaun, þegar þau swnu Saareñ taka til ad lisna, og þu tekur til

ad Andvarpa i Leynum, seigiande: JEsu Goode Meistare, Myskuna þu mier. Hvad seiger JEsus hiá Lucam, Cap. 11. Ef ad þier sem vonder erud, kuñed ad giefa Bornum ydar goodar Gaafur, hvad myklu framar mun ydar Himneskur Fader giefa þeim Heilagañ Anda, sem hañ þar uñ bidia; Þvi vil eg i fullu Trauste seigia, þegar þu audmyker þig under Vollduga Guds Hond, og bidur af Hiarta uñ Fyrergiefning Synda þiña, Þa mun hañs Ande bera þijnum Anda Vitnisburd uñ, ad þu siert Guds Barn, Rom. 8. Þvi jafnvel þoott vier sieum Otrwer, þa er hañ samt Trwr, sialfum sier kañ hañ ecke ad neyta, seiger Paulus. Nu er þad satt, Br. M. ad Sañydrande Mañs Trw verkar svo myked hiá Gude, sem nu hefe eg sagt, eñ hañ aa þa ad vera viss uñ þad, ad hañ sie bæde Sañydrande og Riett-trwadur. Margt er lijkt med Skylldum, seigia Meñ i Ordtæke gomlu; Eñ Trweñ og Ydruneñ eru Tvær Systur, er ei meiga skilia, eins og þad, ad su Ydran er Onijt i Guds Auglite, sem ecke þvijngar Mañeñ til ad Krossfesta sitt Holld, svo er og Trweñ daud aan Verkaña, seiger Jacob, og Paall seiger, ad sw Trw alleina gyllde, sem ad er kroptug fyrer Kiærleikañ. Med Trwñe foornfæra Meñ Gude sijnum Vitsmunum, og giefa sijna Skilningu faangna under heñar Hlijdne: Med Ydraneñe Offra Meñ Vilianum, ad hañ sie Guds Bode undergiefeñ. Trweñ giorer oss ad Guds Læresveinum: Ydraneñ ad hañs Þionum. Trweñ upplijser vor Hiortu i Skilninge vorra Saaluhiaalpar Efna: Eñ Ydraneñ, ef hun er alvarleg, hun þrijster oss til ad giora Guds Vilia, og alla Skylldu Christens Mañs. Svo sem þad er ecke noog, ad ydrast uñ Stundarsaker, og gaanga aptur til ad drygia somu Synder, svo er þad ei helldur fullur Christeñdoomur, ad trwa uñ Hrijd, eda giora Avoxt Trwareñar, eñ falla þo fraa aa Tijma Freistingareñar: Være þad noog til Saaluhiaalpar ad byria vel, þa sæte Bileam haatt i Himnarijke, og ef ei þyrfte ad vaka og bidia, þa hefdu hinar Faavijsu Jomfrwrnar ecke vered wtelokadar. Þad er skiemtelegur Draumur, ad ætla ad Gud mune tilreikna sier Forþienustu Sonarens, eñ vilia þo eckert giora af þvi sem Gud boded hefur. Miog svo er eg uggande fyrer þvi, ad saa sem geinged hefur i þvilijkre Leidslu allañ siñ Alldur fram i Daudañ, hañ mune uppvakna i Helvijte og Kvolunum, þvi jafnvel þoott ad Goodverkeñ vor, ef nockur svo kallast meiga, þau sieu ecke Maattug til ad giora oss hoolpna, þar vier erum skylldugir ad jaata, ad Onijter Þionar sieum vier, Jafnvel þo vier giordum allt þad vier ættum ad giora, samt eru hin Vondu noogu kroptug til þess, ad fordæma oss. Eg veit ad soñn, ad þetta kañ ad sturla margañ þañ, sem mykeñ Part Æfe siñar hefur i Illskuñe aled, eg sæ ecke vid þvi giort, þetta eru þo Gudleg Sañende, og ecke er Von aa odru, eñ ad syndugs Mañs Hiarta mune kieña til, þegar Broddur Logmaalsins tekur til ad stijnga aa Kaunonum, vel sie þeim er svo eru vidkvæmer, ad þeir siña til Saarsaukans, hinum er ollum midur fared, er ei kieña til Guds Stroffunar, ecke til Logmaalsins Hootana, og ecke til Helvijtis Ellds-Loga, hvern þier forþienad hafa, uñ hveria þad seigia maa, sem Jeremias sagde uñ Gydinga: Þu typtar þa DRotteñ, eñ þeir siña þar ecke til, hverra Samvitskur ad Paall seiger ad sieu Breñemerkt,

merktar. Eñ hinum, sem ad soñu Ogudlega lifad hafa, eñ læta sig þo ængra sijnar Synder af Hiarta, og vilia þar æ Boot viña, þeim vijsa eg til þeirra Lijknar-Orda, er DRotteñ talar til syndugra Maña, Es. 1. Þvoed ydur, hreinsed ydur, taked ydar Illsku-Breytne fra mijnu Auglite, komed sijdañ og eigunst Log vid; Þott ydar Synd er sieu raudar sem Blood, þa vil eg giora þær hvijtar sem Ull. Þu þeinker kañ skie i Hiarta þijnu; Eg em i Syndeñe gieteñ og fæddur, hvernig mæ eg Gude þocknast? Eñ giæt þess, ad þiñ Endurlausnare, sem er Gud blessadur um allar Allder, hañ er fæddur af Fedrunum epter Holldenu, hreiñ og Heilagur og frææskileñ Syndunum: Þu ert syndugre eñ adrer Meñ, Christur er heilagre eñ aller Meñ, hañ er Forlijkun fyrer þijnar, og ecke Einungis fyrer þijnar, helldur og fyrer allar Veralldareñar Synder: Þu gietur ecke aldeilis af Syndeñe læted, svo þad Vonda lode ecke vid þig, þa þu villt giora hid Gooda, þad gat ei helldur St. Pææll, samt fieck hañ þad Svar af Guds; Lææt þier nægiast mijna Nææd, miñ Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum: Þu syndgar optlega, Christur bidur fyrer þier Oaflæætañlega: Þijnar Synder eru þier yfer Hofud geingnar, samt yfergnæfer þo Nææðeñ mykłu framar: Þig henda optlega somu Synder, sporna vid þeim sem mest þu mæætt, svo ad þær drottne ecke i þijnum Daudlegum Lijkama, eñ vit þo, ad JEsus hefur bored uppæ Tried þa Handskriftena, sem moote þier var, og hana æ Krosseñ neglt, þar er eingeñ af þijnum Skulldum epterskileñ nie Olokeñ, eñ brwka þa slijkt til ad afplææna giordar Synder, eñ ecke til Frelsis ad drygia þær framveigis: Þu þykest eckert Verk Gudrækneñar fullkomed giort gieta, þesse Medkieñing þijns Overdugleika er Verk Heilags Anda, þvi bidur hañ fyrer þier med Oumrædelegum Andvorpunum, og hiælpar þijnum Veikleika: Þu hefur allañ þiñ Alldur i Illskuñe aled, og ert adkomeñ Dauda, hafande eckert gott Verk Gude ad biooda, þoott þu hefder, mundu þau kuña ad Riettlæta þig? Hvad hafde Tollheimtumadureñ? Luc. 18. Hvad hafde Ræningeñ a Krossenum? Luc. 23. Hvad hafde Prælleñ, sem var sijnum Herra skylldugur uñ 10000. Punda? Matth. 18. Samt uppgaf Herrañ honum alla Skulldena. Þijn Trwa tekur til ad veikiast i Daudanum, þa Lijkamans Kraptar eru ad Þrotum komner, og meiga valla taka a moote Daudans Ofbode, mundu þa til þess, ad Guds Sonur hefur Daudañ sigrad, þad skal skie, ad hver sem trwer a hañ, sa skal lifa, jafnvel þott hañ deye, Joh. 11. Lææt þier þa i Hug koma hvad Fader hiñs Tunglsiwka sagde, Herra, Eg trwe ad soñu, eñ hiælpa þu Trwarleysu miñe. Ein veik Trw er þo Trw; Eiñ Elld-Neiste er þo Elldur, Ein lijtel Perla glansar svo sem ein Perla, Eins skijn ein veik Trw i Augum Guds svo skiært, svo sem þo hun være sterkare, þvi Trweñ er ecke vort Verk, helldur hañs Anda, þar fyrer beiddu Læresveinarner DRotteñ ad auka sier Trwna; Lææτum hañ rææda Mælingu heñar, hañ mun ecke sitt eiged Verk Ovirda, eñ læætum þo ecke af ad næra hana med yduglegre Bæn og Andvarpan. Lutherus seiger i einum Stad, ad eingeñ verde Fordæmdur, nema sa sem ei vill trwa: Þad er satt, ef þad er riett skiled, þvi sa vill ecke Olmusu hafa, sem ecke vill uñ hana bidia, svo vill og ecke sa trwa, sem ecke bidur Gud

ad

ad skapa hreint Hiarta i sier, og giefa sier nijañ vijsañ Anda, eñ hitt er vijst, ad ein veik Hond tekur eins vid Olmusu, svo sem ein Fullhraust, og eins vel umfadmar ein veik Trw Christs Forþienustu, svo sem ein fullorugg, þvi Guds Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum, og eiñ Veiktrwadur maa uñ sig seigia eins og Paulus; Eg formaa alla Hlute fyrer hañ, sem mig maattugañ giører, Christum, þvi þa eg Breiskur er, þa er eg Maattugur, þo ebldest svo DRottens Kraptur med honum, ad hañ hroosar þvi under sijna Foornfæringu, ad hañ hafe goodre Baraattu barest, Skeided fullkomnad, og Trwna geymt, og framveigis sie sier aflogd Corona Riettlætesins, hveria DRotteñ hiñ Riettlaate Doomare mune giefa sier a þeim Deige, og ecke einasta sier, helldur jafnvel øllum þeim hañs Tilkomu elska. Heñar niootande ad verda, uñe oss hiñ goode Konungur Dijrdareñar, fyrer JEsum Christum, AMEN.

# Tuttugasta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap.

A Þeim Tijma. JEsus svarade og talade i añad siñ i Epterlijkingum til þeirra, og sagde: Himnarijke er lijkt þeim Konunge, sem Brwdkaup giørde Syne sijnum. Og wtsende sijna Þioona ad kalla Bodsmeñena til Brwdkaupsins, og þeir villdu ecke koma. J añad siñ sende hañ wt adra Þioona, og sagde: Seiged þier Bodsmønnunum: Siaaed, Mijna Maaltijd hefe eg tilbwed, Mijner Uxar og aled Fe er slaatrad, og allt er reidubwed, komed til Brwdkaupsins. Eñ þeir forsmaadu þad og geingu i burt, eirn a siñ Bwgard, eñ añar til siñar Verslunar, eñ hiner adrer gripu hañs Þioona, og løgdu þeim Haadungar til, og draapu þa. Eñ þa Kongureñ heyrde þetta, vard hañ reidur, og sende wt sitt Herlid, og fyrerfoor þessum Mordingium, og brende upp þeirra Borg. Þa sagde hañ til siña Þioona: Brwdkauped er ad sønu reidubwed, eñ þeir sem bodner voru, þeir voru þess ei verduger. Þar fyrer fared wt a Gatnamooteñ, og biooded til Brwdkaupsins hveriium sem þier fiñed. Og hañs Þioonar geingu wt a Strætiñ, Og samañsøfnudu øllum þeim sem þeir fundu, Vondum og Goodum. Og Brwdkauped vard fullt med Bordsett Foolk. Eñ þa ed Kongureñ gieck iñ ad siaa þa sem til Bordsins saatu, Saa hañ þar eirn Mañ, eige klæddañ med Brwdkaups Klæde. Og sagde til hañs: Vinur, hvørneñ giecksstu iñ hijngad, hafande ecke Brwdkaups Klæde? Eñ hañ þagde. Þa sagde Kongureñ til siña Þienara. Binded hañs Hendur og Fætur, og kasted honum wt

**i hin ytstu Myrkur, þar ed vera mun Oop og Taña Gnijstran. Þvi ad marger eru kallader, eñ faaer Utvalder.**

## Exordium.

HVer ad sie Meining þessarar føgru Epterlijkingar, sem DRotteñ hier frameñsetur, Þad er aundraaded af ødru Guds Orde, og þo sierdeilis af Predikunum hañs, sem añarstadar ritadar fiñast i Gudspialla-Bookunum, ecke sijdst af þeirre um Verka-Meñena, sem leigder voru i Vijngardeñ, hia Matthæum i 20. Cap. Og hiñe um þa miklu Kvølldmaaltijd, sem er ad fiña hia Lucam i 14. Cap. Um hveriar baadar nockud hefur talad vered hier ad framañ. Konungureñ er hiñ Alvallde Himens og Jardar Konungur, Hañs Sonur er DRotteñ JESUS, siaalfur Konungur, ecke einasta epter Guddoomenum, helldur og Mañdoomenum, þvi Gud hefur sett siñ Konung yfer sitt Heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Jafnvel þoott ei være hañs Rijke af þessum Heime, og allt Valld er hønum giefed, bæde a Himne og Jørdu, Dan. 7. Matth. 28. Brwdkauped er hañs Holldtekia, og aller þeir Velgiørningar, er i heñe frambodner verda øllu Mañkyne, eñ veitter þeim einum, sem trwa a Nafn Eingietens Sonar Guds. Hiner fyrstu, sem bodner voru, eru Gydingar, hverium framar ødrum var boded til þessa mikla Brwdkaups, eñ þeir forsmaadu þad, svo sem Paulus og Barnabas vottudu, Act, 13. Seigiande: Til ydar byriade fyrst Guds Ord ad tala, eñ fyrst þier forsmaaed þad, og reikned ydur ei verda Eilijfs Lijfs, þa sñwnust vier til Heidingiaña. Suñum bægdu Veralldar Umsvif fraa þessare Guds Giøf, svo sem af Gudspiallenu er audsært. Hiner gripu hañs Þioona, løgdu þeim Haadungar til, og Aflijfudu þa: Þeirra gietur Frelsareñ, er hañ sagde vid Gydinga: Hvern af Spaamøñunum hafa ydar Fedur ecke Liflaated? Og yfer þa er geinged þad skielfelega Straff, sem hier um gietur i Evangelio: Fyrst, þegar Nebucadnezar Eydelagde hiña fyrre Jerusalem, og sijdañ yfer Børn þeirra, sem ad uppfylltu Mæling Fedra siña, er hun var uppbrend og ad Stein-Hrwgu giørd af Tito Vespatiano, og alldrei uppbygd sijdañ. Hiner, er sijdañ voru kallader, eru Heidner Meñ, og medal añara Forfedur vorer, þad Foolk, sem i Myrkrunum sat, Eph. 5. og er iñplantad i Stadeñ Gydinga, sem afbrotner voru, Rom. 11. Eñ vier heyrum i Gudspiallenu, ad til þessa Brwdkaups er safnad Vondum og Goodum, þvi seiger og Paulus, 2. Tim. 2. ad i stooru Hwse sieu ecke einungis Kier af Gulle og Sylfre, helldur og af Tre og Steine, og sum til Heidurs, eñ sum til Vanheidurs, Eñ ef nockur hreinsar sig af þessu, þa mune hañ verda Kier til Heidurs helgad, og siaalfur Lausnareñ endar þessa Epterlijkingu med þeirre dijrmætu Grein, Ad MArger SJeu KAllader, Eñ Faaer UTvalder. Hvar af lioost er, ad þeir eru ecke aller Christi Þegnar, sem nefna Christum siñ HErra, Til hvers hañ bender oss med Dæme þess Mañs, er kom til Brwdkaupsins, ecke skrijddur Brwdkaups Klæde, Af hverium eg vil taka mier Orsøk til, ad tala um þa Hlute, hvar af eiñ og sierhver meige þeckia siñ Bwning, hvert hañ sie hæfur til ad byrtast fyrer Konungenum, nær hañ geingur iñ ad sia Bord-Giestena.

Þu Alvallde Konungur Dijrdareñar, sem villt, ad aller verde Hoolpner, og komest til Sañleiksins Vidurkieñingar, Veit oss þijns Anda Naad til þessa Verks, J JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

ENN ÞEgar KOnungureñ Gieck Jñ, Ad Sia Þaa Sem Til Bordsins Saatu, Saa Hañ Þar Eiñ Mañ, Eige Klæddañ Brwdkaups-Klæde, seiger i Textanum: Hvert ad sie þetta Brwdkaups-Klæde, er audvitad; Þad er siaalfur Christur, og hañs Riettlæte med Trwñe høndlad, þvi fagnar hañs Christne, hia Esajam Cap. 61. seigiande: Eg gledst mykelega, og mijn Saala fagnar i mijnum DRottne, þvi hañ hefur klædt mig Bwninge Hiaalprædesins, og med Klæde Riettlætesins hefur hañ huled mig, eins og eiñ Brwdguma i Kieñemañlegum Skrwda, og eina Brwde J-

klædda

klædda Skarte sijnu: Þetta er augliooſt af ſiaalfre Epterlijkingunẽ. Hvar fyrer var þeſſum Veſæla Mañe kaſtad i hin ytſtu Myrkur? Af þvi, hañ var ei ſkrijddur Brwdkaups-Klæde. Hvar fyrer verda hiner Vantrwudu fordæmder? Af þvi, ad þeir trwdu ecke a Nafn Eingietens Sonar Guds. Hvar fyrer ſættu ecke hiner adrer þvilijkre Refſing? (Þvi um̃ hañ eiñ verdur gieted) Fyrer þvi, ad þeir voru Iklædder hinu rietta Brwdkaups Skarte. Hvar fyrer verda Utvalder iñleidder i Fognud ſijns Herra? Mun þad ſkie fyrer þeirra eigeñ Riettlæte? Fiærre fer þvi. DRotteñ, ef þu villt tilreikna Syndernar, hver fær þa ſtadeſt, ſeiger David, Pſ. 130. Eingeñ lifande Maña mun Riettlætaſt i þijnu Auglite, ſeiger hañ, Hvar fyrer er þad þa? Af þvi, ad þeir trwdu a hañ, ſem Riettlæter Ogudlegañ, ſeiger Paulus, Rom. 4. og þvi kiemur hañ ecke til Doomſins, ſeiger Frelſareñ. Sæll er ſa, hvers Synder huldar eru, ſeiger David, Pſ. 32. Eñ med Klædunum verda Lijteñ huleñ, Eins vor Andleg Blygdan, med JEſu bleſſudum Riettlætis Skrwda, þeſſ gieter hañ ſiaalfur i Opeñberunum Johañis, talande vid Biſkupeñ i Laodicea, hvern hañ Nakeñ kallar, þar hañ rædur honum, ad kaupa af ſier Gull þad ſem i Ellde er reynt, ad hañ rijkur verde og klæddur hvijtum Skrwda, ſvo ad Blygdan hañs Fatleyſis ecke Opeñbereſt, Apoc. 3. Naadar-Stoolleñ hulde Fordum Daga Saattmaals-Orkena, i hverre Logmaals-Toblurnar geymdar voru; Þu JEſu, þu ert eiñ Naadar-Stooll i þijnu Bloode, Rom. 3. Fyrer þitt Sakleyſe, O! HErra, ſem Logmaaled uppfyllt hefur, eñ varſt þo aa moote Logmaalenu dæmdur, fyrer þad eru huldar allar vorar Synder, ſem moote Logmaalenu giørdar eru, þegar vier aa þitt Nafn trwum: Hvad mun eg ætla til þeſs, ad eg ſyndugur Ormur i mijnum eigiñ Klædum byrtaſt kuñe i þijns Himneſka Fodurs Auglite? Hvad mun eg vilia koma fram̃ med þad, ſem er eins og Nidlags-Fat? Hvad mun eg biooda þad fram̃ ſm̃ er Halfverk? Eg hrædeſt oll mijn Verk, ſagde hiñ Riettlaate Job, og þvi mun eg ætlaſt til þeſſ, ad mijn ſieu betre? Hvar fyrer mun eg vilia bæta þañ fagra Kyrtel, er þu mier giefed hefur, med mijnum Totrum? Mun eg heilagre eñ Joſua hiñ Ædſte Preſtur, er ſtood i ſaurugum Klædum fyrer Eingle hiñs mikla Raads, Zach. 3. Svo mun beſt fara, DRotteñ miñ, ad bæde eg og adrer Synduger Meñ nioote þeirrar Naadar, ſem hañ naut, ad þu burt taker vort Ranglæte, og ſkipter um̃ Klæde vid oſs. Svo er nu þetta Brwdkaups Klæde eckert añad eñ Riettlæte JEſu Chriſti med Trwñe medteked; Þvi Iklæduñſt vier fyrſt allra i Skijrneñe, þeſſ getur Paulus, ſegiande: Þier erud aller Guds Born fyrer Trwna a JEſum Chriſtum, þvi hverier ſem uppa Chriſtum ſkijrder erud, þier hafed Iklædſt Chriſto; I heñe verda oſs Syndernar fyrergiefnar, ecke einaſta Uppruna Syndeñ, helldur eigum vier, i Krapte heñar, Fyrergiefningar Von, um̃ alla Æfe vora, a Gioranlegum Syndum, nær vier leitum heñar Riettelega, þvi kallar Petur hana Saattmaala goodrar Samvitſku, þvi eingeñ kyñe um̃ eitt Augnablik Roolega Samvitſku ad hafa, nema hañ viſſe ſier Kvittunar Von Synda ſiña: I heñe verdum vier Guds Born; I heñe medtokum vier Heilagañ Anda, ſem þa alla Endurnyar, fyrer Krapt Endurgietningareñar, ſem ecke mootſtanda honum nie

flockva hañ ; Þvi er sa Riettelega skrijddur Brwdkaups Klæde, sem Endurgieteñ er af Vatne og Anda, ef hañ ei spiller aptur siñe Endurgietningu, eñ þad verdur morgum, þvi midur, og þar fyrer er Skijrneñ ecke einhlijt til þessa Bunings, nema ad heñar Kraptur auglijse sig i oss, nær vier droguns a Legg, og lærum vorn Christeñdoom, og er þad fyrst i þvi Jñefaled, ad trwa Rettelega a Gud, hvad ed skedur med Tveñu Moote: Fyrst ad hafa saña þeckingu a honum, hañs Stoormerkium, hañs Velgiorningum, sem oss verda i Ordenu frambodner: Añad er þad, ad vier treystum honum, elskum og virdum, fram yfer alla Hlute. Hvad þvi Fyrra vidvijkur, þa er þad vijst, ad i Skijrneñe jaatum vier Gude og ollum hañs Stoormerkium, þar til Skulldbundu oss vor Gudfedgin, med siñe Jaatningu; Eñ hvad stodar oss su jaatning, nema vier lærum ad þeckia hañ er vier jaatudum, hañs Almætte, hañs Goodgyrne, hañs Riettlæte, hañs Elsku til vor, og hvad añad, sem hañ hefur i sijnu Orde Opeñberad oss til Saaluhiaalpar? Þetta vil eg bidia þa ad Hugleida, sem añadhvert siaalfer lijted edur eckert vita i sijnum Christeñdoome, svo sem vita byriar, edur forsoma ad kieña þad sijnum Bornum og Hiwum, jafnvel þott siaalfer nockud vita meige. Hier standur i Gudspiallenu, um þa sem forsmaadu Kongsins Bod, eñ geingu i burt; Eiñ a siñ Bwgard, eñ añar til siñar Syslanar, ad þeir hafe þess ecke verduger vered. Seged mier þa i Guds Nafne, seged mier, þier sem allareidu erud kallader, og til Bords setter i Konungs-Stofuñe, munud þier þvi fyrer hlijta, ad þier erud þar einusiñe Jñkomner? Munud þier byrtast i þvi saña Brwdkaups Klæde, er þier laated Veralldlegar Syslaner, jaa, Giaalijfe og vondañ Selskap draga ydur fra Gude og hañs Christs Þeckingu? Hversu agiæter Bordgiester erud þier vid Drottens Kvolldmaaltijd, nær þier edur ydar Born vita eingañ Greinarmun ad giora Lijkama Drottens og añarrar Fædu, ecke ad Reyna nie Proofa siaalfa sig, og ecke ad Rañsaka Hiartad, hvert þier sieud i Trwñe. O! Vei, O! Vei, hversu lijtt eru Meñ þa til Brwdkaupsins bwner? Þad heiter med Riettu, ad hafa Altared til ad Syndga, svo sem Drotteñ ad Orde kiemst fyrer Spaamañsins Muñ, um Afgudadijrkanena i Juda: Vier kieppunst vid ad bwa oss i Skart, nær vier hallda vilium Miñing Drottens Dauda, og svo er Heimskañ rijk i oss sumum hverium, ad sa sem ecke hefur siaalfur, hañ laanar af odrum, hvad ad soñu er Vijtalaust i siaalfu sier; Eñ Gud naade hvad lijted Sumum mune umhugad vera, ad byrtast i JEsu Christi dijrmæta Riettlætes Klæde, sem utvegád verdur med sañre Ydran, stodugre Trw, og Asetninge Christelegs Lifnadar. Þar fyrer, Christner Meñ; Læred ad þeckia Gud og hañs Stoormerke; Læred ad þeckia siaalfa ydur og ydar Overdugleik; Læred ad þeckia Guds Vilia af hañs Bodordum, svo þier og þeckia meiged, hvad mikeñ Skort þier hafed a þeirre Hroosan, sem fyrer Gude gyllder. Hiñ Añar Partur vorrar Jaatningar er sa, ad vier lofum ad treista Gude og reida oss uppa hañs Fodurlega Giæsku og Forsiaa, bæde i Medlæte og Mootlæte, eñ af þessu ber æred miog hiaa morgum hverium, sem þo meinar sig velbueñ i Lambsins Brwdkaup; J Medlætenu treistum vier uppa siaalfa oss sumer hverier, uppa Aud vorn og Metord, uppa Vine og Hofdingia, eñ ecke uppa hañ, sem er Drotteñ alleina Rijkur:

Konung-

Konungureñ af Tyro sagdei Hiarta sijnu: Eg er eiñ sterkur Gud; Eñ Drotteñ seger honum, muntu segia vid þiñ Veganda: Eg em sterkur Gud? Og þo treista Meñ uppa svoddañ eina Vatns-Boolu framar eñ a Gud, sem øllu rædur bæde a Himne og Jørdu; Hvar er þa Trausted? Hvar er þa Trweñ, sem Meñ eiga a Gude ad hafa? Munu þesser vera henntuger Giester i Christi Brwdkaups Stofu; Er sagt hefur; Hver sem til mijn kiemur, og ei hatar Fodur og Moodur, Konu og Børn, Systur og Brædur, og jafnvel sijna eigeñ Saal, hañ gietur ei vered miñ Lærespeiñ? Meñ standast ecke Reide-Svip eins Veralldar Hofdingia, er Meñ svo kalla, þegar þeir ygla sig, þa eru sumer Meñ buner til ad giøra allt hvad þeir biooda, og jafnvel hinar verstu Skañer og Klæke i giegn Gude, eñ hañ Ottast þeir ei, i hvers Hende ad øll Veralldareñar Magt er eins og eiñ lijdande Poka, og þo vilia Meñ Christner heita, þo ætla Meñ sier med þvilijku Skape i Lambsens Brwdkaup iñ ad gaanga, med þeim Guds Hetium, sem jafnvel ecke sitt Lijf elskudu allt i Daudañ, þar fyrer hafa þeir nu faagad siñ Skrwda i hañs Bloode. I Mootlætenu eru Meñ ecke einasta Oþoleñmooder, sem jafnvel Guds Børn hender, helldur Møglunarsamer moote Gude, kalla sier Oriett giordañ, Orvænta hañs Adstodar, griipa til þeirra Raada, sem hañ bañad hefur: Og i einu Orde ad segia; Kasta i burtu Trwñe a hañ, og briootaOked i sundur. Fiñe Meñ nu eitt hvad af þessu hiaa sier, añad hvert, ad þa vante Naudsynlega Peckingu a Gude og sijnum Saaluhiaalpar-Efnum, og hañ hyrder ecke uñ ad raada Boot þar a, sem best hañ kañ, edur hañ Ottast nockra Veralldar Magt, Vinaattu edur Velgeingne, eins miked og Gud, þa drage eingeñ sialfañ sig a Taalar, edur meine þad hañ sie Riett-trwadur, þoott hañ skijrdur sie, þoott hañ sie Bordgiestur Drottens i Heilagre Kvølldmaaltijd, og fylger þad þa epter, ad hañ ei er skrijddur Brwdkaups Klæde, a medañ hañ er svo bueñ. Take eingeñ svo Ord mijn, ad eg meine þott einhvern kuñe nockud af slijku ad henda, ad honum þar fyrer eige strax ad kasta i hin ytstu Myrkur: Giæska Drottens er Poleñmoodare yfer Syndum vorum eñ svo, þad sijna oss Dæme hiña mestu Syndara, sem þo hafa aadur haft fulla Guds Peckingu, svo sem Arons, Davids og Peturs, eñ hitt sege eg, ad Meñ skule ecke brwka þessa Guds Naad til ad ala Syndena a heñe: Eg sagda fyrer skoñu, ad i Skijrneñe værum vier fyrst Iklædder Brwdkaups Klædem; Eñ Gud naade, ad þar fellur svo optlega Blettur aa, og svo atast þad i Forødum Veralldareñar, ad þad valla þeckest aa stundum, eñ þad a burtu ad þvo med heitre Ydran og hañs Forþienustu, sem hrein giører Børn Levi, Jesu Christi, hver ad er eins og Saapa Þvotta Kveña, seger Spaamadureñ Malach. 3. Eitt Klæde er jafngott þo ad Saur falle a þad, ef þad er vel þveged, nema þad sie Groom teked; Eins er Syndareñ; Hañ er jafngoodur, þegar hañ ydrast af Hiarta, Trwer ad sier verde Syndernar fyrergiefnar, og leitast vid ad lifa betur af øllu Megne; Eñ vælke hañ sig svo miog i Gudleysenu, ad hañ burtkaste Drottens Forþienustu, og hyrde ei uñ ad leita heñar med þeim Medolum, sem til þess eru giord; Þa seger Paulus oss, ad þar sie eingeñ Forlijkun fyrer Syndena framar, Hebr. 10.

Eg fiñ i heilagre Ritningu svo sem Þriu Troppu-Stig, til Glotunareñar, fyrer þa, sem

sem medteked hafa þo Guds Anda: Hrygged ecke Heilagañ Anda, seiger Paulus:
Pad skiedur þegar þeir, sem eñ þa eru i Guds Naad, þeim verdur þad, ad þeir laata ept-
er Holldenu, þo ecke alltijd af aasettu Raade; Eñ veikia þo med þvi Krapta siñar End-
urgietningar, svo þeir eru ecke svo liwfer aa ad giora þad Gude lijkar. Aptur seiger
hañ: Slöckved ecke Heilagañ Anda: Pad skiedur nær Meñ svo venia sig aa synd-
samlegt Athæfe, ad þar fiñst eingeñ Baraatta Holldsins og Andans, helldur laata Meñ
Syndena drottna i sijnum daudlegum Lijkama, svo þeir þioona heñe, þar med tapa
Meñ Andanum til fulls, og rata i Guds Ovingan. Hiner Pridiu eru þeir, ed moot-
standa Heilogum Anda, svo sem DRotteñ sagde vid Gydinga, og hañs Pijslar-Vott-
ur Stephanus: Pad skiedur, nær Einhver forsmaaer Andañ, nær hañ añadhvert
straffar Syndena i Ordenu, edur og med sijnum iñre Verkunum i Hiartanu, og stan-
da aa moote hønum af ølln Megne, svo ad þoott þeir vite hvad riett er og Hiaalpsamlegt,
þa smijda þeir sier Meiningar og Affsakaner aa moote Guds Orde, og Jñblæstre Hei-
lags Anda, og leitast vid ad styrkia þær med þeim Rokum, sem Hollded og Diofulleñ
fyrer þa dycktar: Og þesse er hin sijdarsta Trappa, um̃ hveria mier virdest ad Post-
uleñ tale til Hebræos, Cap. 6. Ad valla edur ecke eige Apturkvæmt til Ydranar.
Giæte þvi hver og eiñ ad siaalfum sier, sa ed þeña himneska Giest hefur Einusiñe hloted,
ad hañ laate sig af hønum leida i allañ Sañleika, hañ breite eins og Ezechielis Dijr,
þau geingu riett aafram̃, eins og þeirra Andlit horfdu, hvert sem ad siaalfur Andeñ foor,
þa fooru þau. Svo eigum vier og ad giora, Christner Meñ, aa medañ Gud geingur
undañ oss i Sky-Stoolpa siña Orda, hvar i Andeñ bijr, þar vier raafum i Eydemørku
Heims þessa; Pvi ef vier gaungum i Andanum, þa munum vier ei fram̃kvæma Hollds-
sins Gyrnder, Gal. 5. Par hañ leider alldrei nema til Guds, af hverium hañ fram̃-
geingeñ er. Trwed mier, Christner Meñ, ad mykel Gaumgiæfne heyrer til þess, ad
rañsaka hvert Meñ hafa Vitnisburd heilags Anda um̃ þad ad þeir sieu Guds Børn,
edur og, ad þeir leidast af sølskum Anda, sem lofe þeim Arfleifd Guds Barna, uppaa
Ovissa Von, sem heñar eru þo miñst verder, hvad margañ mun henda, þvi verr. Pad
siaa Meñ ecke einasta af Pharisæunum, þeim Hræsnurum, er meintu sig alleina ad ha-
fa Lykeleñ ad Guds Rijke; Eñ hversu laangt þeir hafe fraa þvi vered, vottar siaalfur
Sañleikureñ, Matth. 23. helldur og aa mørgum ødrum, sem ad soñu ecke efast um̃
Guds Naad, eñ lifa þo eingañvegeñ ad Guds Vilia, jafnvel þoott ei dryge þeir Stoor-
Glæpe; Pessum rædur Postuleñ nærsta heillt, er hañ seiger: Reyned hvert þier erud
i Trwñe, hvad ei verdur med ødru moote betur giørt, eñ ad Meñ rañsake siñ Lifnad
grandgiæfelega, þvi soñ Trw er alldrei Avaxtarlaus, helldur verkar hun fyrer Kiær-
leikañ, hver ad er Løgmaalsins Uppfylling, og allar Christelegar Dygder hefur i sier
foolgnar. Ad soñu er JEsu blessad Riettlæte þad saña Brwdkaups-Skart, sem Tex-
teñ um̃gietur, nær þad er med Trwñe høndlad; Eñ Glanseñ aa þessu Tignar-Klæde,
eru Verkeñ, sem af heñe fram̃koma, hver hana auglijsa, og um̃ hana votta, þvi af þeir-
ra Avoxtum skulud þier þeckia þa, seiger Frelsareñ um̃ Ulfana, sem koma i Sauda-
Klædum,

Klædum, og eins maa um̃ Guds Born seigia: Ecke hylur Farve Klædaña Lijte Lijkamans, ei helldur wtebyrger hañ Frost og Kulda, helldur Fated, sem ad Lijteñ byrger. Svo giora og Verkeñ eingañ Riettlaataň, helldur Trweñ, sem þvi velldur, ad vort Lioos svo lijser fyrer Moñum, ad þeir vor Goodverk siaa, og dyrka vorn Fodur, sem aa Himnum er, Matth. 5. Sooleñ er ecke Byrta, eñ þo giefur hun Byrtuna fraa sier: Epled er ecke Eyk, og þo ber Eykeñ Epled: Trweñ er helldur ecke Verk, eñ þo er hun alldrei aan Verkaña, þvi seiger Jacob: Sijn mier þijna Trw af Verkunum. Vere þvi eingeñ svo blindur, ad hañ ætle þad hañ sie Riett-Trwadur aa medañ hañ ecke ber Trwareñar Avexte. Hvad skulu Meñ þa tala um̃ hina vondu Olld, sem vier lifum i? Eg skal giefa þeim eitt Hiarta og eiñ Veg til ad Ottast mig, seiger DRotteñ um̃ Christnena aa Nya Testamentesins Dogum, fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 32. Mun þetta siaast hiaa morgum aa vorum Dogum, þar ed svo margt er Siñed sem Madureñ er, Jafnvel i þeim Hlutum, sem heyra til Guds Dijrkunar, og Saaluhiaalpeñe vidkoma. Ad eg tale ecke um̃ adra Hlute, svo laangt er fraa þvi, ad Meñ hafe eitt Siñe til ad Ottast Gud, ad i einu Lande, eiñe Bygd, i eiñe Sookn, er þar daudlegt Hatur, Agg, Reide, Præta, Tvijdrægne, Iñbyrdis Flaattskapur: Meñ liwga hver uppaa añañ Lijtum og Skom̃um, pretta hver añañ i Kaupum og Solum, svijkiast aa Iñbyrdis med Kiassmælum, berande Hunaang i Muñe, eñ Gall i Hiarta. Hvad þa? Eru Guds Ord ad Brygdmælge vordeñ? Fiærre er þvi: Sie Gud Sañsogull, eñ aller Meñ Lygarar, helldur er þad þess vegna, ad vier erum svo Fraaleiter og Olijker vordner hiñe fyrstu Guds Kyrkiu, þar aller Christner voru Eitt, og aller Hluter sameigeñleger med al hiña Trwudu, og þo hallda aller sig hafa hid fagra Brwdkaups-Klæde til ad bera. Brædur mijner, Vilied þier heyra þær Saker, fyrer hveriar Gud wtrak sitt Foolk i hina Babyloniskũ Herleidingu, hvar þeir maattu lijda svo skielfelegar Hormungar, ad valla hefur þvilijkt heyrst fraa Alldodle, þær standa skrifadar hiaa Ezechiel Spaamañe, Cap. 22. aa þeñañ Haatt: Fodur og Moodur virdtu þeir einkis, vid hiñ Framanda hondla þeir svikſamlega, Eckiuñe og hinum Fodurlausa giora þeir Oriett: Eñ ad þessu leika Meñ sier aa stundum og odru þvilijku, og þyker þad Hofmeñska vera: Mun nu Konungureñ þeckia þetta fyrer Brwdkaups-Klæde, nær hañ lijtur af Himnum ofañ, til ad siaa epter Brwdkaups-Giestunum? Eg vil ei tala um̃ Flaattskap og Underferle, er svo miog drottnar i Heimenum, Jafnvel medal þeirra, er vel Christner heita vilia, og ætla sier einkis Aboota vant. Ein af þeim mestu Skom̃um, sem þvijngade Gud til ad yfergiefa sitt Foolk Juda, var hin staka Otrygd, sem drottnade aa þeim Dogum; Þess gietur Jeremias, Cap. 9. Seigiande: Vare sig hver eiñ vid sijnum Vin, og treysted ei uppaa neiñ Broodur, þvi eiñ Brooder hañ bregdur odrum, og sierhver Vinur brwkar Afdraatt og gabbar Vin siñ, þeir tala ecke Sañleikañ, þeir kieña Tungu siñe ad tala Lygar, og þreyta sig i Raangsleitneñe. Seiged mier, ef Jeremias mætte hverfa aptur til Lijffins, munde hañ ei þeckia nockud þess Haattar medal vor? Og maa þad Eingvañveigeñ Brwdkaups-Klæde nefna, Laangtum helldur vil eg kalla þad Andskot-

ans Bodsmañs-Ham, er hañ klæddur var, þegar hañ talade vid Evu i Hoggormenum, og baud heñe uppa Epled; Þvi David, og Paulus Rom. 3. seigia, ad Hoggorma-Eytur sieu under Vorum þeirra, eñ Diofulleñ er sier alltijd lijkur, og þad þess helldur, sem hañ veit ad hañ hefur styttre Tijma. Eg vil ei fa mier til Orda um hina skadlegu Agyrne þeirra, sem wtsiwga Hws Eckna og Fodurlausra Barna, og selia hiñ Fatæka fyrer eiñ Skoo: Margañ mun Gud sia i hiñe Almeñelegu Brwdkaups-Stofu sijns Sonar, þad er hiñe sijnelegu Guds Kyrkiu hier a Jorduñe; Eg seige, hañ mun þar margañ sia lijkañ þeim sem framfalla i Pantsettum Klædum, Ja, hañ mun sia Blood siña Voladra i Løsum Klæda þeirra, hvad sijnest ydur, Christner Meñ; Munu Meñ i þvilijkum Bwninge Iñganga i Lambsins-Brwdkaup? Langt er fra þvi: Fyrer þvi Hreinsed ydur, Pvoed ydur, Lated af Illu, Læred Gott ad giora, Es. 1. Giored hvad Riett er a hverium Morgne, og frelsed þañ sem Raaned lijdur af þess Hende sem underþrycker hañ, svo ad Bræde DRottens ecke wtfare svo sem eiñ Eldur, sa ed eingeñ fæe slockt, fyrer Illsku Saker ydar Athafna, seiger DRotteñ fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 21. Eñ vilie Meñ vita, hvad ad sie hid rietta Brwdkaups-Klæde, þa er þad JEsu blessad Riettlæte, med eiñre sañre og lifande Trw umfadmad, sem adur er sagt: Eñ hvad Avoxtum Trwareñar vidvijkur, sem alldrei kuña vid hana ad skilia, helldur eñ Byrtañ vid Liooσed, þa fæ eg þad ecke betur sagt, helldur eñ David i hinum Fimtanda Psalme, med þessum Ordum: DRotteñ, hver fær ad bwa i þiñe Tialldbwd, edur hver mun hvijlast uppa þijnu heilaga Fialle? Hañ sa ed framgeingur Flecklaus og giorer Riett og talar Sañleikañ wt af Hiarta, hver ed ecke Svikſamlega mæler med siñe Tungu, og Naunga sijnum eckert Illt giører, og leggur sijnum Naunga eckert Lastlegt til, hver hañ leider hia sier hiñ Illgiarna, eñ i Heidre hefur hiñ Gudhrædda, hver hañ sver sijnum Naunga, og svijkur hañ ecke, hver hañ giefur ecke Fie wt uppa Okur, og tekur ecke Mwtu yfer hiñ Saklausa, hver ed þetta giører, hañ mun stødugur blijfa Æfeñlega. Lijted nu hier, svo sem i ødrum Speigle, hverneñ þeim byrie Hattudum ad vera, sem riettelega eru til þessa Brwdkaups bwner; Eñ vilie Meñ þad ei heyra, þa heyred þo, Christner Meñ, hver ad urdu Endalok þessa auma Mañs, er vanvirdte Samsæted med Almeñelegum Bwninge: BInded Hañs Hendur Og Fætur, sagde Konungureñ, Og Kasted Hønum i Hin Ytstu Myrkur, Þar Mun Vera Oop Og Taña Gnijstran. Ecke þarf eg margt ad seigia af þessu Fordæmingareñar Lande, þad er noog, sem hier stendur, Ad Þar Sie Oop Og Taña Gnijstran, Og meir vantar oss þad, ad varast Helvijte, helldur eñ ad vier ecke nærre gietum hversu-heitt þad sie: Þesse Vesæle Madur var ecke einasta wtrekeñ, wr Brwdkaupenu, helldur og var hønum i Myrkvastofu kastad; Svo munu og aller þeir, er ecke eru JEsu Dijrmætum Riettlætis-Kyrtle skrijdder, þeir munu ecke Einungis wtrekner verda fra Auglite Guds, og Styrkleika hañs Dijrdar, 2. Thess. 1. Helldur og i Eylijfum Eldde breña med Dioflenum og øllum hañs Arum. Þegar Israel heyrde, ad Guds Reider sloou i Horeb, nær Løgmaaled var wtgiefed, þa hræddust þeir fyrer Elldenum, og

og þordu ecke nær ad gaanga: Eñ hvad mun verda þegar hañs Reide tekur til ad breña allt til nedsta Helvijtis yfer þeim, er valla añad giordu, eñ ad brioota þetta Logmaal, og ydrudust þo alldrei Afbrotaña, edur þeinktu uñ, ad afplaana þau med Guds Sonar Forþienustu? Elldureñ snerte ecke Gydinga, þo gaatu þeir ei stadest ad siaa hañ; Eñ hvilijk mun þeirra Ofraun verda, semi Helvijtis Ellde velltast munu fraa eiñe Eylijfd til añarar? Þar fyrer mijner Elskanleger, siaaed til, ad þier giored ydar Utvalningu vissa, 2. Pet. 1. Iklædest DRottne JEsu Christo, Rom. 13. Þad er hañs Riettlæte; Iklædest Herskrwda Riettlætesins, Eph. 6. Iklædest Bryniu Trwareñar og Kiærleikans, 1. Tess. 5. Svo ad þier verduger verded i Lambsins Brwdkaupe ad standa frame fyrer Gude, Istrijdder biortu Lijn-Klæde, sem eru Riettlætingar Heilagra, Apoc. 19. Þeirrar Eylijfu Farsælldar, giefe oss Gud ad niooota, fyrer JEsu sijns Sonar dijrmæta Blood og Forþienustu, AMEN.

# Tuttugasta og Fyrsta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Joh. 4. Cap.

Iß Þañ Tijma. Þar var eirn Kongs-Madur, hvers Sonur ad siwkur laa til Capernaum. Þa hañ heyrde þad, ad JEsus var komeñ af Gydinga Lande i Galilæam, foor hañ til hañs, og bad hañ, þad hañ fære ofañ og læknade Son hañs, þviad hañ var ad mestu daudur. Þa sagde JEsus til hañs: Nema ad þier siaaed Teikn og Stoormerke, trwed þier ecke. Kongs-Madureñ sagde til hans: HErra, far þu ofañ aadur eñ Sonur miñ andast. JEsus sagde hønum þa: Far þu, Sonur þiñ lifer. Og Madureñ trwde þeim Ordum er JEsus sagde hønum, og gieck þadañ. Eñ þa ed hañ foor ofañ epter, geingu hañs Þienarar i moote hønum, og kuñgiordu hønum, seigiande: Sonur þiñ lifer. Hañ spurde þa þar ad, a hverium Tijma þad hønum hefde batnad, Og þeir søgdu hønum: J Giær uñ Siøundu Stundu hvarf fraa hønum Kaldañ. Þa formerkte Fadereñ, ad þad var uñ þañ Tijma, a hverium ad JEsus hafde sagt, Sonur þiñ lifer: Og hañ trwde, og allt hañs Heima-Foolk.

## Exordium.

HVad er sterkara eñ Leoned, søgdu þeir i Thimnath Fordum vid Samson, er þeir høfdu raaded Gaatu hañs? Jud. 14. Eñ eg vil seigia, ad Trweñ er eñ þa sterkare, þvi hun sigrar þad Leoned af Kyne Juda, er hefur hiñ frægasta Sigur vuñed, sem uñ Allder heyrst hefur. Þvi lijser hañ Blessadur, er hin Canaaniska þreytte vid hañ, eñ hañ sagde: Kona, mikel er þijn Trwa, verde þier epter þvi sem þu villt. Trwndum er allt møanlegt, þvi sagde og Frelsareñ, Matth. 17. Ef þier hefdud Trw svo sem Eitt Mustards Korn, þa mundud þier seigia þessu Fialle: Far þadañ og hijngad, og þad mun færa sig, eckert mun ydur Omøgulegt vera. Hvad

 velldur

velldur þa þvi, ad vier sem þo bæde vilium trwa, og trwum a Christum, ad vier ecke fáum
øllu til Vegar komed, sem vier gyrnunst? Þar liggur Svar til, þad sama sem Frelsareñ sag-
de Læresveinunum, er þeir adspurdu hañ, þvi þeir hefdu ei gietad wtreked Twnglmeina Dioful-
eñ, Hañ sagde: Vegna ydar Trwarleysn; Og fyrer þvi, ad þessa Heilaga Dags Texte, gief-
ur oss Orsøk til, ad tala framar hier uñ, wt af Dæme Konungs-Mañsens, Þa vil eg af hon-
um Tveñt Hugleida. 1. Veikleika Trwareñar, og heñar Framfør. 2. Guds Giæsku i
þvi, ad efla hana. Styrk oss hier til Náduge Fader, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

HVer ad vered hafe Konungs-Madur þesse, eru margar Getur a, lijklegust er þeir-
ra Meining, ad miñe Hyggiu, er ætla hañ vered hafa eiñ af Herodis Þienurum,
þvi jafnvel þoott Herodes være ecke Konungur, helldur Fioordungs Hofdinge alleina,
þa var hañ þo svo nefndur af sijnum, og svo ødrum epter þeim, svo sem ad lesa er hiá
Marcum i Siøtta Capit: Og hefur hañ þa án Efa Gydingur vered, þvi Gydinga
Þioonustu og Sidum lietst Herodes fylgia: Eñ þoott hañ Gydingur være, og heyrt
hefde Spádoomana uñ Messiam, og af JEsu, þad hañ giørde þau Verk, sem eingeñ
kuñe ad giøra, þa fæst hañ ei myked uñ hañ edur hañs Lærdoom, vegna hvers hañ var
þo epter sijnu Spámañs Embætte i Heimeñ sendur: Svo geingur þad mørgum af
oss; Vier erum skijrder, vier erum i Christeñdoomenum uppalder, vier kuñum ad þylia
vorn Barna-Lærdoom, og sumer vita ad giøra Grein á honum, med wtvortis Vid-
urkieñingu, eñ hversu ad Kraptur Trwareñar sie rijkur i Hiartanu hiá Allmørgum,
þad sijnest i Lijfernis Háttunum, þegar Gud á ad elska fram yfer alla Hlute, þegar
Náunganum á til ad giefa hañs Misgiørder, og giøra Gott hinum Volada, þad sijn-
est nær Hollded á ad Krossfesta, og i Krossburdenum þegar øll Mañleg Hiálp er wte.
DRotteñ var i Cana þegar þetta skiede, þad var lijtill Bær og liggur hier uñ Þing-
mañа-Leid frá þeirre stooru Borg Capernaum, þar giørde JEsus þad mykla Krap-
taverk, er hañ snere Vatne i Vijn, þad var hid Fyrsta er hañ giørde i þeim Stad:
Þetta hefur Konungs-Madureñ heyrt án Efa, og þvi leitar hañ DRottens Hiálp-
ar, eñ þo ecke nema til Lijkamlegrar Adstodar, af þvi hañs Sonar Neyd þreyngdead
honum; Eñ myklu meir lá honum á þvi, ad brwka þetta Kraptaverk sier og sijnum
til Andlegrar Heilsubootar, þvi sá er hiñ riette Avøxtur Kraptaverkaña, og sá er Til-
gángur DRottens, nær hañ giørde þau, añadhvert fyrer sialfañ sig, edur sijna Post-
ula; Eñ Gud Náde oss, ad vier erum eins lynder og þesse Konungs-Madur var;
Medañ oss lijdur vel ad øllu þvi sem Lijkamanum vidvijkur, þa hyrdum vier ecke so miøg
uñ Sálena, og leitum ei Christs, jafnvel þott allt Høfuded sie siukt, allt Hiartad veikt,
fra Hvirfle og allt til Ilia sie þar ei nema Sár, Kaun, Beniar og Þrote: Vier leit-
um hañs, sege eg, ef oss brestur nockud af Veralldar Munum, þegar vier siuker erum,
þegar oss brestur Atviñu vora, nær vier Offsookter erum, og Ráangendeñ lijdum, og vier
eigum so ad giøra; Þvi hañ er Meistare til ad hiálpa, og vor Hiálp kiemur frá Drott-
ne, sem skapad hefur Himen og Jørd: Eñ ad leita Guds Rijkis og hañs Riettlætis, þar
erum vier svo treger til, jafnvel þott þad sie þad eina, sem er Omissande, þvi giørdum vier
svo, þa munde oss allt añad til leggiast, og seged mier, hvad er vorre Trw þa betur hætt-
ad

ad eñ þessa Konungsmañs? Hañ hefur ad vijsu Hofdinge vered. Nockrer ætla ad hañ hafe vered hiñ same og Chusa, sæ ed var Armadur Herodis; Hvers Kviña Johaña ad sijdañ epterfylgde Christo af Galilæa, og þioonade honum; Og er þeirra Gæta ecke Oslijkleg; Þvi hier stendur um þ:ña Mañ sijdañ; Ad hañ hafe Trwad og allt hañs Heima Foolk. Eñ fyrer þvi, ad hañ var Magtar Madur; Eñ um Christ hefur hañ ecke odruvijse meint, helldur eñ um eiñ Spæmañ, svo sem Eliam, Elisæum og adra svoddañ, þa vill hañ ad Drotteñ kome ofañ med sier. Þesse er slijkra Fugla Tegund, ad jafnvel þott þeim ligge miked a, vilia þeir læta sig virda framar odrum Moñum. Eins var Jairus Samkundu Hofdinge lyndur, hver ed var sömu Borgar-Madur, hañ beidde Drotteñ ad koma med sier, og leggia Hond yfer Dottur sijna, svo sem hañ giæte ecke reist hana af Daudum Fiarlægur, og hefur hañ þo æn Efa heyrt þetta Dæme: Eñ þott Drotteñ liete þad epter honum, þa hefur þad ei vered þess vegna, helldur ad hañ giorde þad mikla Kraptaverk i Augsijn svo margra, er i Fyrstuñe dæudu hañ. Hversu lijkt er þetta Naaman hinum Syrlendska? Er Elisæus baud honum ad þvo sig sioſiñum i Añe Jordan, 2.Reg.5. Þa strauk hañ burt i Reide-Svip, og sagdest meint hafa, ad hañ munde hafa komed ut til sijn, og ækallad Nafn Drottens Guds sijns: Hañ leit a Virdingar sijnar, eñ ecke a siñ Lijkþræa Kropp. Ecke giorde svo hin Canaaniska, ecke hin Bloodfalls siuka, ecke hiner Blindu, er sætu vid Veigeñ og kolludu; Herra Sonur Davids Myskuna þu ockur, Matth.20. Þesser beiddu um Christi Hiælp, so sem adra Olmusu, þvi þeir ættu ei miklum Veralldar Aud nie Virdingum ad treysta: Og Gud giæfe vier villdum og þeckia þad, ad aller erum vier Drottens Þurfa-Meñ. Ecke gat Naaman kastad af sier Lijkþræñe, med hañs mikla Gulle og Silfre: Ecke gat Ezechias Konungur bætt sier Heilsuna med allre siñe Magt: Og ei gat þeſse Konungs-Madur teked Kollduna fra Syne sijnum, añars hefde hañ ecke til Christum komed: Eñ miklu sijdur kuñum vier ad auka oss Trwna, eñ Trwarveikena Orsakar marg opt þad Þeckingarleyse, er vier hofum, bæde a Gude, og a siælfum oss: A siælfum oss i þvi, ad vier kollum oss eckert Omættugt, nær ad Oskum geingur, eñ a Gude i þvi, ad vier treystum honum svo lijted, þegar Mañleg Hiælp er ute. Eñ hvad er þo Madureñ? Ein Gusa er hañ, hver ed sieſt um Stundarsaker, eñ hverfur sijdañ, seger Jacob: Hvad er Vijntred fremur eñ oñur Tre? Verdur teked af þvi Efne til nockurs Verks? seger Drotteñ hia Ezechielem Cap.15. Og hvad er Madureñ æn Guds? Eiñ Fauskur, sem til einkis er hæfur, nema ad upphoggvast og i Ellde breñast. Konungureñ af Egyptalande er Madur, og ecke sterkur Gud, Hestar þeirra eru Holld, og ecke Ande, seger Drotteñ vid sitt Foolk, Es.31. Er þeir treystu þessum Hofdingia framar eñ Gude sijnum: Og hvad skylldu þeir þa ætla uppa siælfa sig, sem længtum eru miñe Mættar: Eñ Vantraustid a Gude kiemur af þvi, ad Meñ reiddu sig ecke uppa hañ, þegar vel gieck, helldur uppa siælfa sig, og færdu Foorner fyrer Nete sijnu. Meñ eru Ovaner þvi, ad trwa i Voneñe a moote edur framar Von, eins og Abraham, Rom.4. Vier vilium siæ eitthvert Medal fyrer Augunum, ef vier trwa skulum, eins og þesse Konungs-Madur: Hañ beidde Drotteñ ad fara of-

añ og Lækna Son siñ: Ad soñu var þar nockur Trwar-Meiste hiaa honum, eñ miøg svo veikur: So erum vier og a stundum Skape farner, jafnvel þott vier vel vitum, ad Gud hafe Þusund Veige til ad hiaalpa, þa er þad svo sem vier vilium skrifa hinum Alvijsa eiñ Maata fyrer, hverneñ hü hiaalpa skule. J Þurrvidrenu bidium vier um Regn, J Regnenu um Þurk, eñ ecke svo um Guds Blessan: J Offsooknunum um Fall Ovina vorra, eñ ecke um Guds Adstod a moote þeim: J Siukdoomenum um Heilsuboot, eñ ecke svo miøg um Poleñmæde: Laugt er fra þvi, ad eg seige þad sie illa beded, þvi allt skal af Gude þiggia: Eñ þo a þad ad vera med þvi Moote, ad vier kostum allre vorre Ahyggiu uppa Drottenn; Fullorugger þess, ad hañ mune þvi vel til Vegar koma: Eñ vier verdum Opoleñmooder a stundum, ef vier ecke strax Bænheyrder verdum, og þad so miøg, ad oss verdur Lijfed leitt eins og Eliæ, eins og Job, er hañ sagde, Job. 3. Þvi giefur Gud Lioosed hinum Mootlætta, og Lijfed þeim, sem eru Angurfuller, til hverra Daudeñ ei kiemur, þott þeir bijde epter honum, svo sem huldum Fiesiood? Þvilijk Ord og Hugsaner pressar Mootlæted op lega ut af þeim, sem jafnvel hafa morgum kiendt og styrkt hinar veiku Hendurnar eins og Job, eñ þeim verdur rettelega svarad med Ordum Eliphas af Theman, er hañ sagde vid þeña Guds Astvin: Mun hiñ Daudlege vera Riettlaatare eñ Gud? Mun Madureñ vera hreiñe eñ hañs Skapare? Vier erum hañs Verk, þvi moglar þa Leirkiered a moote þeim sem giorde þad? Hvar fyrer eckert er añad Raad i Mootgaangenum, Born mijn, eñ ad hallda stodugt aafram i Bæneñe, þvi Komande mun hañ koma og ecke tefia: Svo giorde þesse Konungs-Madur, þo Trweñ være veik, þa gaf hañ samt ecke upp ad bidia: DRotteñ svarade honum ad soñu ecke af, eñ þo i hardara Lage: Ecke ad sijdur bidur hañ nærre somu Ordum, segiande: Herra Far Þu Ofañ Adur Sonur Miñ Andast: . Og maa siaa, ad hañs Trw hefur eblst vid þau Ord, er Christur talade: Laatum oss ei fara midur eñ þessum Mañe. Ei visse hañ ad Jesus var Messias, helldur ætlade hañ munde vera Guds Madur nockur, lijkur Spaamoñunum, sem aadur er sagt. Jesu Læresveinar voru ei Sañfrooder um hañs Persoonu i þañ Tijma, auk helldur þesse Okiende Madur. Eñ vier hofum heyrt svo morg Takn og Stoormerke epter honum: Vier vitum, ad hañ er af Gude utgeingeñ: Vier þeckium, ad hañ er aptur til Himens uppfareñ, og hefur Moñunum Gaafur giefed. Ecke þarf Gud Kraptaverkeñ til þess, ad hiaalpa oss, þau eru giord fyrer hina Vantrwudu, seger Paulus; Eñ vier trwum, og segiunst trwa, þvi er þa Trw vor svo veik a stundum, ad vier trwum ei nema vier tokum a, eins og þesser Galilæi, er ecke trwdu, nema þeir sæu Teikn og Stoormerke, og strax sem vier ei fiñum til Bænheyrsluñar i Lijkamlegum Efnum, þa kollum vier oss yfergiefna. Vantrweñ er svo megn, ad hun giorer Almætte Guds Vanmaattugt, (ef svo mætte ad Orde komast) þvi hun metur Guds Krapt epter Smaamunum sijnum; Þar yfer klagar Drotteñ, Zach. 8. segiande: Af þvi, ad þad er Furdañlegt i Augum þessa Folks, skylde þad þa vera Furdañlegt i mijnum Augum? Vitum vier ecke, ad þess nær vier erum Gude, þess meire hofum vier Smeck epter komande Alldar, eñ nu erum vier honum alldrei nær, eñ i Krossburdenum, ef vier berum Christi Ok riettelega. Seged mier, giorer

Gud

Gud þa illa vid oss, ad hañ svarar oss utaf a stundum, nær vier bidium um̃ þetta Tijmanlega, til þess ad auka oss Trwna, og festa Hiarta vort vid þad Eilijfa, sem vier eigum leingst vid ad bwa? Þegar Drottiñ nu svarade þessum Mañe med fullre Bænheyrslu, þa seger Textiñ: Og Madureñ Trwde Þeim Ordum Er Jesus Sagde Honum, Og Geck Þadañ. Svo Ebldest nu Trwa hañs, er skom̃u ædur var lijtt trwande, hañ Rædgadest ecke um̃ vid Holld og Blood, þegar hañ hafde feinged Trwna, helldur reidde sig Einfalldlega og med fullu Trauste uppa hañs Ord, er hañ þo ecke þeckte ad fullu, og valla meir eñ hañ heyrt hafde, añadhvert sialfur, edur af ödrum, sem voru i Jerusalem a Hatijdardegenum, og þvi er ecke ad undra, þott Guds Born treyste honum, hverium hañ i sijnu Orde er fyrer Augunum asmaaladur, hverra Kraptur hañ er midt i Hörmungunum, Ossooknunum, Angisteñe, þvi þa þau veik eru, megna þau alla Hlute, fyrer hañ, sem þau Mauttug giorer, eins og Paulus: Þegar Konungsmadureñ þesse fyrst trwde, þa flijtte hañ sier ecke heim ad vitia um̃ Son siñ, þar af maa marka Trw hañs, þad var um̃ Siöundu Stund ad hañ skyllde vid Jesum, þad svarar litlum Tijma epter Hadege hia oss, og ei kom hañ heim fyrr eñ añars Dags epter, eñ Vegureñ er ei leingre eñ ædur er sagt: Eins eru og þeir lynder, sem til fulls eru bygder a þañ Hyrningar Stein i Zion, Es.28. Jesum Christum; Þeir flijta sier ecke miog, seger Spamadureñ; Þeir hlaupa ecke med Þioofnum til ad stela, ecke taka þeir til fanijtra Rada eins og Achas, Es.7. Ei giora þeir Samband vid Daudañ, nie Sattmaal vid Helvijted med hinum Gudlausa, Esa.28. Helldur bijda þeir epter Drottne, styrkia Huga siñ, og eignast Saaler sijnar i Þoleñmæde, Luc. 21. Og sa ed sier temur þetta Hugarfar, i honum er Trweñ fullvaxeñ; og Christur ad fullu myndadur. Og hvert skyllda eg helldur flijta mier? Drotteñ, ef þu værer reidur; Þoott eg upphefde mig med Edom, eins og Orneñ, og bygge mier Hreidur medal Stiarnaña, þa munder þu kasta mier ofañ þadañ, Obad. v. 4. Og hvert vilia þeir ellta mig, nær þu ert Madugur, nema ad þijnum Footum? Hverra Skör ad Jordeñ er, og allar Þioodernar a heñe fyrer þier svo sem Vatns-Drope i Ausu, þar vil eg flatur liggia, þar vil eg fulloruggur bwa, þar vil eg hæda ad öllum þijnum og mijnum Ovinum, þar vil eg Drottens bijda, og vardveita hañs Vegu, þa mun hañ upphefia mig; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur ad Eilijfu, Amen. Svo er nu uttalad um̃ Veikleika Trwareñar og heñar Ebling, Epterfylger hid sijdara, er eg hiet um̃ ad tala.

Gudspiallamadureñ seiger skom̃u ædur eñ Textiñ byriar, Ad JEsus Hafe Fared burt i Galilæam, þvi hañ hafe sialfur vitnad, ad Spamadur hefde ei Virdingu i sijnu Fodur-Lande. Marger hallda, ad þar med sie Nazareth meint, sem var Foosturjord DRottens, og svo er hun kollud hia Matthæum, Cap.13. Eñ þesse Borg var og svo i Galilæa, þvi gietur þad eins vel Judæa edur Gydinga-Land vered, hvar hañ fæddur var: Eñ hverneñ sem þvi er vared, þa reiste hañ fram̃ hia hiñe Vantrwudu Nazareth i þetta Siñ, um̃ hveria Matthæus sijdañ skrifar, ad hañ hafe ei giort þar morg Kraptaverk Sokum þeirra Trwarleysu, og ferdadest til Cana, hver ed la i þeim Parte Landsins, er nefndest Galilæa Heidingiaña, þar la og Capernaum, er var hin

Frijdasta Borg af þeim Tiju Stodum. Þetta Land bygdu marger Heidingiar, þar voru Tyrus og Sydon, þadañ var hin Canaaniska, er þreytte vid DRottteñ; J Capernaum var Hundrads-Hofdingeñ, hvers Trw hañ svo miog hroosade. Þetta kiemur mier til ad prijsa hañs Fodurlega Giæsku i þvi, ad sneña took hañ til þess Blessadur, ad lijta til vor Heidingiaña, jafnvel þoott hañ sier i Lage være sendur til fortapadra Sauda af Hwse Jsraels. Ecke er ad efa, ad þau morgu Kraptaverk, er hañ giorde i Capernaum, er nefndest hañs Borg, þau hafa snwed morgum Heidingia a Lijfsins Veg. Eñ lijtum nu til vor, Christner Meñ, sma voru Upptok Christnebodsins hia oss i Fyrstuñe, og ecke var liwslega a moote teked þessare Guds Giof; Vor Christeñdomur var og svo miog i Veikleika fram epter Olldunum, þo hofum vier, sem nu lifum, og svo Fedur og For-Fedur vorer til þess funded, ad þad er satt sem DRotteñ seiger i Eptꝛerlijkinguñe, Matth. 23. Ad Himnarijke sie lijkt Mustards-Kornenu, hvert ad Eiñ took og saade i Akre sijnum, hvert ad er hid minsta af Sædunum, eñ þegar þad vex upp, er þad hid stærsta af Kaal-Grosunum, og verdur ad eiñe Eyk, svo ad Fuglar Himeñsins bwa sier Hreidur i Greinum þess. Svo hefur nu Gud eblt Christelega Trw hia oss, sem i Fyrstuñe ei vorum nema lijted Sæde, þvi ei kuñum vier ad neyta þvi, ad ei bwe Christi Ord rijkuglega vor a medal. Vier hofum heyrt hañs Kieñingar, hañs Kraptaverk, hañs Pijnu og Dauda, hañs Upprisu og Himna-For, svo ad JEsus Christus er oss fyrer Augum afmaaladur Krossfestur a medal vor, ei sijdur eñ þeim i Galatia, Gud giæfe, ad vor Christeñdoomur þar epter auglijste sig i Trwareñar Avoxtum og Kiærleikans Verkum, svo vier þecktum og findum til, ad Guds Rijke være iñe hia oss. Meñ heyra ecke, ad DRotteñ hafe stadnæmst i neirnre af Galileæ Borgum, fyrr eñ hañ kom til Cana, þar hafde hañ adur giort þad mykla Kraptaverk, er hañ snere Vatne i Vijn, svo sem hier ad framañ er umgieted, añ Efa til ad reyna hvern Avoxt ad Bæjar-Meñ hefdu fært þar af, og hvad þeim hefde i Trwñe framfared, eñ þad ma merkia af hañs Svare vid Konungs-Mañeñ, ad hañ ei hafe funded fyrer sier allt ad Oskum, Þvi sagde hañ: Nema Þier Siaed Takn Og Stoormerke, Þa Trwed Þier Ecke. Hañ talar ecke til hañs alleina, helldur til allra þeirra sem naalæger voru, svo sem bendande til þess, ad jafnvel þoott þeir medtæke hañ vegna Kraptaverkaña, svo sem Gudspiallamadureñ seiger, þa nædu þau samt ecke þvi Maale, hvar fyrer þau giord voru, sem var, ad trwa þad hañ være sa sem koma skyllde, hvar fyrer hañ og vijsade Johañi, edur riettara ad seigia, Johañis Læresveinum til þeirra. Þañeñ breyter Guds Fodurleg Giæska eiñeñ vid oss, til ad vekia i oss Trwna og adrar Christelegar Dygder: Hvad optlega straffar hañ i oss Vantrwna, Bænarleysed, Avaxtarleysed, og Oþoleñmædena, þegar hañ talar vid oss i sijnu heilaga Orde? Vel-sie þeim sem lia þvi Eyrun til nockrar Eptertektar og Umbootar Lijferneslns; Eñ Gud naade, ad þad vill ei alltijd a eptersylgia: Vier heyrum Guds Ord med Leidendum a stundum, eins og Jsraels Syner atu Manna a Eydemorkuñe, og þvi verdur oss svo fautt til Naada i Angisteñe, jafnvel þoott hun sie þad Verkfæred, med hveriu ad Gud um-

skier þau Oum̃skornu Eyrun og Hiortun, sem ecke a añañ Veg heyra nie trwa vilia. Ecke sneriſt Ephraim til Guds, fyrr eñ hañ var typtadur, ſvo sem lijfadur Kalfur, Jer. 31. Ecke liede Manasses honum Eyruñ, fyrr eñ hañ var beigdur i þwngum Jarn-Vidium: Ecke hlijdnadeſt Juda honum, fyrr eñ hañ lærde þad af Anaudeñe i Babylon: Og ecke munde þesse Konungs-Madur hafa ſkipaſt vid Ord DRottens, nema hañs Sonur hefde leiged Daudsiwkur i Capernaum: Svo ebler nu DRotteñ Trwna i Kroſsburdenum, og er þad Maala sañaſt, ad þad sem Omøgulegt er fyrer Moñum, þad er møgulegt fyrer Gude: Þeim sem aan Guds eru i Heimenum, þeim er Mootlætid hin meſta Orsok til Hugarvijls, þad tekur allañ Dug wr þeim, sem ecke Gude treyſta, eñ hañ sem reider sig uppa Gud, hañ lætur DRotteñ vera sitt Hiartans Trauſt og Hlutskipte, þoott ad Lijf og Saal vanmegneſt, þeſs gietur Jacob i hañs Piſtils 1. Cap. seigiande: Hallded þad fyrer hiñ meſta Fognud, Brædur mijner, ſvo opt sem þier rated i Jmislegar Freiſtingar, vitande þad, ad Reynſla ydar Trwar verkar Poleñmædena: Hvar fyrer verkar hun þa Poleñmædena? Þviad ſvo leinge sem þar er eiñ Trwar-Neiſte i Mañsins Hiarta, þa er hañ alldrei aan Guds, hverſu lijtell sem hañ er, eñ Guds Kraptur er alldrei lijtill, þo hañ bwe i Litlu, þeſs vegna fullkomnaſt hañ i Breiſkleikanum, ſagde hañ ſialfur vid Paal; Þar fyrer ſkrifar sa Guds Madur ſvo kuñuglega hier um̃ til Romveria, Cap. 5. Vier hrooſum oſs af Hormungum, seiger hañ, vitande ad Hormungeñ verkar Poleñmæde, eñ Poleñmædeñ Reynſluna, eñ Reynſlañ Vonena, eñ Voneñ lætur ei til Skam̃ar verda; Þviad Elſka Guds er wthellt i Hiortum vorum, fyrer Heilagañ Anda, sem oſs er giefeñ. Hverneñ verkar nu Hormungeñ Poleñmædena, þviad hvar eingeñ Hormung er, þar orkar ecke a Polgiæded, þvi verkar Poleñmædeñ Reynſluna; Um̃ Ezechiam Konung ſtendur ſkrifad, 2. Cronic. 32. Ad Gud hafe freiſtad hañs ſvo ad uppſkaatt yrde hvad hañ i Siñe hefde, ecke fyrer þvi, ad Gud viſſe þad ecke, þvi hvar fyrer ſkyllde hañ ecke vita hvad med Mañenum bijr, sem Mañeñ ſkapad hefur? Helldur ad hañ reynde ſialfañ sig, hvad mykla Krapta hañ hefde þeiged, til ad bera Guds Alag, ad hañs Trw og Von ebldeſt þeſs meir fram̃veigis, og þañeñ verkar Poleñmædeñ Reynſluna, og Reynſlañ Vonena, þviad Elſka Guds er wthellt i Hiortum vorum: Vier lijdum̃, vier freiſtunſt, vier þolum, og trwum þo i ollu þeſſu, þviad vier elſkum hañ, sem reyner oſs, og vitum, ad hvern þañ Son sem hañ elſkar, þañ agar hañ. Guds Sonur var ſvo yferkomeñ i Pijslunum, ad hañ beidde ad hiñ ſwre Reideñar Kaleikur mætte fra sier takaſt, ef þad være Fodursins Vilie, og þo var honum Elſkañ ſvo megn til vor Syndugra, ad hañ þreytte vid Daudañ, og gaf ecke upp, fyrr eñ Þad Var Fullkomnad. Hier med hefur hañ þad afrekad oſs, ad vier hañ elſkum, aller þeir, sem a hañs Nafn riettelega trwa, þviad i þvi er Kiærleikureñ, ecke ad vier elſkudum Gud, helldur ad ſialfur Gud oſs elſkade, seiger Johañes, 1. Joh. 4. Þvi ſkyllde þa ecke Elſkañ til hañs vera ſvo rijk i oſs, ad vier lijdum þad med Trw og Poleñmæde, sem hañ a oſs leggur, til þeſs ad verda honum lijker i Augiſteñe, ſvo vier med honum fagna meigum i Dijrdeñe. Þegar

DRotteñ

DRotteñ hafde nu svarad þessum Mañe nockud hardlega, og hañ gaf þo ecke upp ad bidia, jafnvel þoott þad være i Veikleika, þa vill hañ Blessadur ecke wtslockva þeña lijttloganda Hor-Kveik, helldur seiger hañ:. Far Þu, Sonur Þiñ Lifer. Þad Ord, sem i Textanum stendur, gietur og merkt, Hañ Lifer Heill: Hañ sem visse hvad med Mañenum bioo, hañ þeckte, ad ei munde þesse Madur svo Þoleñmoodur edur Trwarsterkur, svo sem hin Canaaniska, þvi tefur hañ ecke framar fyrer honum. Merk hier þad, Christeñ Madur, ad DRotteñ veit Tijma og Stunder, nær Mæl er ad hiælpa, þvi freistar hañ einskis yfer Megn fram, svo ad Trweñ þrotne ecke: Fyrer þvi, jafnvel þoott ecke þyckest þu gieta bored meira æ stundum, þa vit þo, ad hañs Stund er eñ þa ecke komeñ, sem ad hefur Tijma og Hentugleika i siñe Hende, Act. 1. Bijd þvi stoduglega epter DRottne, þa mun hañ hneigia sitt Eyra til þijns Akalls, Ps. 40. Eckert sijnelegt Medal sæ þesse Konungs-Madur til þess, ad Barne sijnu munde hoolped verda, og þad bræst honum, er hañ vonade hellst epter, sem var, ad DRotteñ munde fylgiast ofañ med honum; Þo Trwde Hañ Þessum Ordum, er JEsus sagde: Sæler eru þeir sem ecke siæ og trwa þo, sagde DRotteñ vid Thomam, af þvi hañ ei villde trwa, nema hañ tæke æ honum. Vier kollum þa sæla, er Kraptaverkeñ sæu; Eñ hañ kallar oss eñ sælle, er trwum æ hañ, æn þess, ad vier siæum þau: Ecke villdu Teikneñ alltijd þess orka hiæ Gydingum, ad þeir sneruſt og urdu hoolpner. Þeir spurdu, hvert Teikn sijner þu, ad þier leifest þetta? Þegar hañ rak wt þa er selldu og keyptu i Musterenu, og hañ giorde svo morg Teikn æ medal þeirra: Þeir leitudu af honum epter Teikne af Himne, þegar hañ hafde wtreked Dioful þañ, er Dumbe var, Luc. 11. eins og þad være ecke i siælfu sier noogu berlegt Teikn. Hañ formællte þeim Ohacklætu Borgurum, Corazin og Betsaida, hvar hañ hafde giort hin flestu Teikn, og heñe, sem jafnvel allt til Himens var upphafeñ, Luc. 10. Þessare somu Capernaum, er hier gietur um i Gudspiallenu, eñ margañ hefur hañ leidt æ Lijfsins Veg fyrer einsamlañ Ordsins Krapt, og Heilagañ Anda, er verkar þar i, hvers vier og noted hofum, sem ecke siæum, og trwum þo: Ad soñu eru Kraptaverkeñ til þess giord, ad efla Christelega Trw, þad siæum vier berlega af þessu Dæme, sem nu er hondlad um: Þesse Madur kom til JEsum, af þvi hañ heyrt hafde þad sem giordest i Cana og añarstadar, eñ ecke i þeirre Meiningu i Fyrstuñe, ad læra Christeñdoomeñ af honum, eins og Nicodemus, eñ þo trwde hañ þeim Ordum, er JEsus sagde honum i Lijkamlegum Efnum, um Bata Sonar sijns, eñ sijdañ, er hañ fieck ad reyna þad er hañ trwad hafde, þa seger Texteñ, AD Hañ Trwad Hafe, Og Allt Hañs Heima-Foolk. Med hverre Trw? Ecke ad hañ være eiñ almeñelegur Spæmadur, helldur Messias og Frelsare Heimsins, Þvi svo merker þetta Ord, ad trwa, optlega i Ritninguñe: Þetta Dæsemdarverk, var ecke helldur Jdjulaust, Þad kom Jairo til ad bidia um Lijf-Giof Doottur siñar, Þad leidde Hundrads-Hofdingiañ til ad leita Hiælpar sijnum Daud-siwka Þioon: Vier hofum og þesse Undur heyrt, og morg oñur fleire, Lætum þau svo styrkia Hiarta vort i Trwñe, ad alldrei vantreystum vier honum, sem er svo vijs, svo goodgiarn, og mattugur,

ugur, hvad sem oss kañ til Handa ad bera, helldur glediunst, svo sem Petur oss seiger, ad vier hrygder verdum uñ lijteñ Tijma, ef Þørf gioreft, med Jmislegum Freistingum, svo ad Reynsla vorrar Trwar verde fundeñ myklu dijrmætare, eñ Gullsins, hvert ed forgeingur, og verdur þo i Ellde reynt, til Lofs, Heidurs og Dijrdar; Þegar JEsus Christus verdur Openberadur, hvern vier elskum, eñ siaaum þo ei, hvern vier nu ecke siaande, eñ þo Trwande aa hañ, glediunst med Oumræðelegum og Dijrdlegum Fognude, berande wr Bijtum Verdlaun Trwar vorrar, hvert ad er Saaluhiaalpeñ.

Heñar niootande ad verda, uñe oss O Drotteñ Allsheriar Konungur eylijfrar Dijrdar, fyrer JEsum Christum, Amen.

# Tuttugasta og Aññañ Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 18. Cap.

OG JEsus sagde til siña Læresveina. Himnarijke er lijkt vid eirn Konung, sem reikna villde vid Pioona sijna: Og er hañ took til ad reikna, Kom eirn fyrer hañ, sa ed honum var skylldugur uñ Tiju Þusund Punda, eñ þa hañ hafde þad eige til, sem hañ skyllde giallda, skipade HErrañ ad selia hañ, hañs Hwsfreiu, og so Børneñ, og allt þad hañ ætte, og borga þar med. Eñ sa Pioon fiell frañ, tilbad hañ og sagde: Haf Poleñmæde vid mig, allt skal eg þier giallda. Eñ HErrañ saa Aumur a þeim Pioon, og liet hañ lausañ, og gaf honum upp alla Skulldena. Eñ þa hañ gieck wt, fañ hañ eirn af sijnum Samlags Pioonum, sa ed honum ætte ad giallda Hundrad Peninga, þañ sama Handtook hañ, greip fyrer Kverkar honum, og sagde: Gialld þad þu ert mier skylldugur. Og hañs Samlags Pioon fiell frañ til Foota hañs, bad hañ og sagde: Haf Poleñmæde vid mig, þvi allt skal eg giallda þier. Eñ hañ villde ecke. Helldur foor burt, og liet hañ i Dyblyssu, þaangad til hañ hafde borgad sijna Skulld. Eñ sem hañs Sam-Pioonar saau hvad skiede, urdu þeir miøg hryggver vid, komu og Kuñgiordu sijnum HErra, allt hvad ed giorst hafde. Pa kallade hañs Herra a hañ, og sagde til hañs: Pu Jllur Pioon, alla þa Skulld gaf eg þier upp, af þvi þu badst mig. Hvørt byriade þier þa ecke Myskunsømum ad vera vid þiñ Samlags Pioon, Lijka sem þad eg var þier Myskunsamur? Og hañs Herra vard reidur, og ofursellde hañ Kvølurunum, þaangad til hañ hafde borgad, allt þad hañ var honum Skylldugur. So mun og miñ Himneskur Fader giøra vid ydur, ef ad hvør ydar sem eirn fyrergiefur ecke wt af Hiarta, sijnum Broodur, hañs Misgiørder.

# Exordium.

ÞAD er skrifad uñ Augustum Keysara, ad þa þar Eitt Siñ doo eiñ Riddare, sem liet svo miklar Skullder epter sig, ad hañs Arfur vanst hverge nærre til Luktningar, þa hafe Keysareñ boded, ad kaupa Sæng hañs til Handa sier, þviad Uñhyggia Stioornareñar hiellt Vøku fyrer hønum optlega: Teiknande þar med, ad sa Madur munde Svefnsæll vered hafa, er hañ gat þo nockurn Tijma sofed, svo miklum Skulldum vafeñ: Þvi hañ sem til Laans tekur meir eñ hañ fær gollded, hañ hefur Frelsed sellt, og er Þræll hiñs, sem hañ Skulldbundeñ er: Þess gietur hiñ Vijse, er hañ seiger: Sa ed bygger sitt Hws med añars Fe, hañ er lijkur þeim er safnar Steinum ad Grøf siñe, Syr. 21. Eñ Þrælleñ hefur eingar Naader, nema þær sem hañs Lavardur vill hønum epterlaata. Hvernig sem þvi er nu haattad vor a medal, þa tekur þad yfer, ad vera Okvittur vid hiñ Stoora Himens og Jardar Konung, sem ecke þarf ad leida Votta ad Skulld siñe, Ecke sækia hana med Løgum, Ecke mørg Uñsvif hafa til Atfarar, heldur kañ ad varpa Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld nær hønum þocknast, Þvi veit eg ecke hverneñ sa kañ ad hafa nockra Roo edur Hvijld, er veit sig Okvittañ vid slijkañ HErra, svo sem Skallded seiger: Hver vill vænta sier Værd og Frid, vera Osaattur þo vid Gud? Eñ þad eru þo aller þeir, er ei vilia tilgiefa sijnum Broodur hañs Misgiørder, svo sem oss i þessa Dags Evangelio berlega kieñt verdur, Af hveriu vier Tveñt Hugleida vilium. 1. Hvad miked og hverneñ Gud oss fyrergiefe. 2. Hvad miked og hverneñ vier eigum Naunganum ad fyrergiefa.

Hiaalpa oss i þessu Gudhrædsluñar Eyrende, Naaduge Fader, fyrer hañ, sem hefur betalad allar vorar Sekter, Þiñ Son JEsum Christum, AMEN.

# Utleggingeñ.

HVersu myked ad Gud oss fyrergiefe, verdur ecke fullsagt; Ef nockur visse hvad opt hañ syndgade, þa mætte hañ kañ skie nærre gieta hvad myked hønum tilgiefed være, eñ David kallar þad Omogulegt, er hañ seiger: Hver skilur hvad opt hañ syndgar? Þo vilium vier nu fyrst hugleida, hvilijkañ Riett Gud hefur til vor, myklu er hañ stærre eñ sa, er vier eigum yfer vorum Viñu-Dijrum, þvi ecke høfum vier skapad þau, eñ hañ hefur giort oss, seiger David, Ps. 100. Og þegar vier høfdum skotist under Andskotañ, og vorum i hañs Vallde, þa hefur hañ Endurleyst oss, þvi þier erud Verdekeypter, seger Paulus, 1. Cor. 6. Ecke med forgeingelegum Hlutum, Gulle og Silfre, helldur med Jesu Christi Saklausu Dijrmæta Bloode, hver ed hefur giefed sig Lausnar-Giallд fyrer alla, og þegar vier svo Endurleyster vorum, hefur hañ helgad oss, þvi Guds Ande hefur kallad oss i hañs Vijngard; Fyrst i Skijrneñe, sijdañ Daglega i Ordenu og Sacramentunum, svo vier erum ecke vorer eigeñ, svo sem Paall ad Orde kiemst, og þad er riett til vor talad, sem Drotteñ sagde vid sitt Foolk, Es. 44. Þu ert miñ Þræll Israel; Eg hefe frelsad þig: Eñ til hvers erum vier þa skapader, frelsader og kallader? Ecke til ad vera Idiulauser, helldur til ad Erfida, eñ allra sijst til ad skieña edur spilla hañs Akre; Øllum af oss hefur hañ sitt Pund i Hendur feinged, sumum Meira, sumum Miña, eñ aller hafa noog, þegar kiemur ad Reikningskapar Deigenum: Þion þesse var skylldugur Konungenum 10. Þusund Punda, þad eru 60. Siñum Hundrad Þusund Cronur, þetta var eingeñ Smaa-Skulld; Eñ þo er þad meira, sem Gud hefur oss laanad, sem er Lijkame og Saal, hver Gud skoop i Ondverdu, epter siñe Mynd, hver hañ Endurskoop, fyrer sijns Sonar Blood i Heilagre Vatns-Laug, hver og Daglega

lega eiga fyrer Heilagañ Anda ad Endurnijast epter hañs Mynd, sem þau skapad hefur: Eñ gietum vier nu svarad Gude þessare siñe dijrmætu Skiepnu Jafngoodre? Langt er fraa þvi, ef vier niootum oss ei Fulltingis: Hefdum vier wtaf daaed vid Skijrnar Saaeñ, þa vorum vier svo ad kalla Jafngooder, eñ hversu opt hefur nu slest uppa vort Skijrnar-Klæde sijdañ? Lijkameñ er hiñ Oædre Partur vors Skapnadar, þo eru bæde Saaleñ og hañ med Guds Bloode Endurleyst, Hendurnar aattum vier ad brwka til ad Erfida; Margur hefur lagt þær samañ med hinum Lata til ad hiaalpa Naaungan-um, eñ sumer hafa utriett þær til ad meida hañ. Augun til ad siaa Aumur a þeim Voludu Guds; Margur hefur stunged þau ut, þegar oss hefur giefist Orsok þar til, eñ ecke þegar þau hafa hneixlad oss: Eyrun eru oss giefeñ til ad heyra Guds Ord, þeim læsa Meñ fyrer þvi optlega, eñ liwka þeim upp fyrer Hiegoomanum; Sumer fyrer skamar-legum Ordrædum og fijblslegu Hiale: Muñ og Tungu hofum vier þeiged til ad lofa Gud, og ad hiaalpa Naaunganum, til ad tala Maale Eckiuñar, hins Fodurlausa, og hins Under þryckta; O! Vor Gud; Vertu Naadugur, hvad margra Pusund Punda Skulld ad þetta verde maa raada ecke einasta af Tregleikanum til Bænareñar og Lofgiordareñar, helldur af svo margre Vanbrwkun Tunguñar, Gudlaste, Roog, Lijge, Svardogum, Bakmælge, og allre þeirre Ohæfu, er Spilling Naatturuñar leikur sier ad, svo sem ødru Table; Ad eg faae mier ecke til Orda, hversu illa vier hondlum med þessa Tialldbwd Saalareñar, þar vier briootum optlega nidur þad Guds Mustere, med Ohoofsamre og Ofkickañlegre Umgeingne, og ef þar nu fellur þvilijkur Avoxtur af Lijkamanum, hverium vier alldrei svarad faaum, meir eñ Pioon þesse sijnum 10. Pusund Pundum; Hvad mun þa ecke af Saaluñe falla? Hofum vier brwkad Tilhneigingarnar til ad elska Gud og Ottast hañ, Viliañ til ad stunda þad honum lijkar; Skynsemena til ad æfa sig i þvi, sem vors Fodurs er? Og ecke miklu helldur a moote honum, eñ hver ødrum til Skada, og Fiandanum til Pioonustu.

O! Vei, O! Vei, hversu diwpt erum vier þa sokner nidur i Afgruñ Skulldaña, og være þo allt goodra Giallda vert, Nema ad vier afræktum hañ Fiesiood, er oss er bodeñ af Einskiærre Naad, til ad bæta allt þetta fullum Bootum, og færum illa med siaalft Lausnar-Giallded, þad er JEsu Dijrmæta Blood, sem hreinsar oss af øllum vorum Syndum. Oss er Vitanlegt, ad i Heilogu Altaresins Sacramento verda þeim øllum Skulldernar uppgiefnar, er þad verduglega medtaka, Eñ hvad seger Paulus uñ hina? Seger hañ ecke, ad þeir ete og drecke siaalfum sier Doom? Pad er Fordæmingu: Og seiged mier þa, ad hveriu mun þeim gagna Saattmaalans Blood, er hallda þad svo Almeñelegt, og troda Guds Son under Footunum? Vier vitum, ad heilagur Ande upplijser oss, og helgar med sijnum Astgiofum: Hañ leider þa i allañ Sañleika, er sier laata stioorna af honum, hañ er Pantur Arfleifdar vorrar; Eñ hversu opt ho..um vier nu mootstaded honum? Hvad tijdt hofum vier hryggt hañ? hvad þraasiñum hofum vier nu slockt hañ, med vijsvitande Mootgiordum og Bodorda-Brotum i giegn Gude, og leiged i þeim ecke all-lijteñ Tijma, aa stundum þvert aa moote Samvitskuñe, svo vier

hofum mist Nadena, og hefdum hana ad fullu mist, nema Guds Fodurleg Giæska hefde ruñed a moote oss Fortopudum Sonum; Og af þessu sem nu er sagt, sem þo er eingañ Veigeñ haalfsagt, þa kañ hvers eins sañydrande Mañs Hiarta ad dæma, hversu myked ad Gud honum Daglega tilgiefe. Eñ hverium tilgiefur hañ þa, edur hveria Atferd brwkar hañ i þvi? Pad sijner oss Texteñ: Hañ Reiknast Vid Pioona Sijna; Svo giorer hañ vid oss, hañ kallar oss til Reikningsskapar, ad standa Skil a Ordum, Giordum og Hugreñingum; Svo kallade Gud sialfur Adam, er hañ syndgast hafde, svo kallade hañ Ninive Borgar-Meñ fyrer Jonam, svo stefnde hañ David til Reikningskapar fyrer Nathan Spaamañ, svo stefnde hañ ollu Foolke a Hollde kiu Dogum DRottens, med Predikun Johañis Skijrara, svo stefner hañ oss eñ i Dag af Muñe siña Pienara, þeir hafa hañs Krofu i Hondunum, pad eru hañs Tijulaga Bodord, vor Medkieñing er skrifud i Book vorrar Samvitsku; Hver sem þetta Tveñt samañber, hañ mun fiña, ad hañ ecke einasta er 10. Pusund Punda skylldugur, helldur og svo myked a mooste hveriu Bodorde af þeim Tiju, er vier attum upp ad fylla. Eñ þoott Meñ heyre þetta nu svo opt, þa eru þo ecke aller svo liwfer a ad kañast vid Skulldena, og eñ sijdur ad giallda, þvi þad er ei til, er giallda skal, hia sialfum oss: Vid svoddañ Skullda-Prioota brwkar hiñ Riettlaate Konungur svo sem nockurskonar Hardræde, og skipar Ad Selia Pa, Peirra Konur Og Born, Og Allt Hvad Peir Eiga; Svo sellde Gud sitt Foolk Jsrael, nær þeir voru honum þverbrotner, þar um spaer Moyses, seigiande: Devt. 32. Hverneñ ellter Eiñ Madur Pusund Jsraels Meñ, og Tveir reka 10. Pusund a Flootta? Mun pad ei þess vegna, ad þeirra Gud hefur sellt þa? Par um kvartar David, seigiande: Ps. 44. Pu hefur sellt þitt Foolk fyrer eckert, og ei abatast af þeirra Verde; Svo selur hañ þa eñ i Dag, sem ei villa skipast vid hañs Pienara Amiñingar, þegar hañ leggur a þa Kryssen, tekur af þeim Heilsuna, þeirra Kviñum og Bornum, sem haanga af þeirra Saalu, eins og Benjamins af Jacobs; Svipter þa Tijmanlegre Blessan, edur giefur þa i Valld Ovina siña, ad ei skule þeir verda Ofursellder i fraleitt Siñe, eins og Pharao, Achab og Jeroboam, sem var selldur til ad giora Jllt, hveria hañ hafde þo adur fyrer sig kallad, og er þad stoor DRottens Naad, ad hañ breiter þañeg vid Syndarañ, adur eñ hañ hefur uppfyllt Mæler Syndaña. Pegar nu svo ber vid, þa trwe eg flestum kome til Hugar, ad tijsta eins og Tranañ, og kurra eins og Dwfañ, og ad bidia med þessum auma Pioon: Haf Poleñmæde Vid Mig, Allt Skal Eg Pier Giallda. Gud giæfe, ad sa Panke være stodugre hia oss, eñ hañ var hia honum: Eñ hvad skulum vier þa giallda? Hvad a Snaudur fyrer ad giefa? Poott vier lifdum Eingla Lifnade, wr þvi vier snerunst til Guds, þa ættum vier ad jata: Onijter Pioonar erum vier, auk helldur ad vier faaum hina miñstu Synd afplaanad af oss til. Petta er Huggunen alleina, Ad Herrañ. Saa Aumur A Peim Pioon, Og Gaf Honum Upp Alla Skulldena. J Uppgiofeñe er oll Lwkningeñ, J Myskunsemeñe oll Fullnægian, J Christi Forlijkun oll Fridþægingeñ: Eñ er hun þa alldeilis giefens? Ad sonu, ad voru Leite, eñ dijrt hefur

ur hun kostad vorn Borgunar-Mañ, þvi hañ gaf sitt Lijf wt fyrer sijna Saude, Joh. 10. Miñ HErra JEsu, Eg huxa til þess, er DRotteñ seiger fyrer Muñ Esaiæ Cap. 13. Um̃ þær Hormungar, er Caldæi mundu lijda, af þeim Medis og Persis: Eg skal þad giøra, ad eiñ Daudlegur skal verda dijrmætare eñ hid besta Gull: Teiknande þar med, hvilijkur ad verda munde Grim̃leike Ovinaña, ad Lijf Mañsins munde ei falt verda fyrer nockurt Verd. Eñ hvad var aumt Mañkyn þess, miñ Drotteñ, ad þad mætte ei Endurleysa, nema med þijnu Bloode O! Gud? Svo mikel var Bræde Fodursins; Svo miked hañs Riettlæte; Svo mikel Stærd Syndareñar, ad hin miñsta Ypersioon vard ei leyst med allrar Veralldareñar Aud, og svo dijrmæt var þesse Skiepna, sem i Ondverdu var epter Gude skopud, þar fyrer var Veralldareñar Skapare Veralldareñar Synder, og maa hier medal aňara af Stærd Lausnargialldsins marka Þijngd Skulldareñar, sem upp er gefeñ. Þegar Syndareñ nu svo fram̃kiemur fyrer Naadar-Stooleñ, med angrudu Hiarta, i Krapte JEsu Forþienustu, þa er honum Uppgiofeñ vijs: Þvi hvar sem ad Syndeñ ypergnæfer, þar ypergnæfer þo Naadeñ miklu framar. Eñ hvilijk Uppgiof? Hañ gaf honum upp alla Skulldena, seger Texteñ: Svo fer nu Gud ad tilgiefa Misgiordena, þegar hañ er Fridstilltur, þvi brwkar Ritningeñ þessa Ordshaattu; Ad hañ kaste vorum Syndum i Haffsins Diwp, og vilie þeirra ecke ad Eilijfu miñast: Ad hañ giøre oss þær svo fiærlægar, sem Austred er Vestrenu. Hvad seger þu, DRotteñ miñ; Er þu talar um̃, hversu lijted Fornernar gyllde i þijnu Auglite, Esa. 40. Fialled Libanus munde ecke duga til ad breña, og øll þess Dijr mundu ei hrockva til Breñefoorna: Eñ þu, vor Gud, sem allt þetta næger ecke; Þu lætur þier nægiast med ydrande Mañs Taar; Þau slockva Elld þiñar Reide; Þau deigia þad Staaled af Nordrenu, Þau leggia Bond a hañ, sem Diøfuleñ bunded hefur; Þu, fyrer hverium ad Þioodernar eru ecke meir eñ Vatns-Drope i Ausu, og svo sem Dupt i Metaskaalum; Þu ert ánægdur med eiñ Harmþrungeñ og Sundurknosadañ Anda: Hvar fyrer? Ecke fyrer vorrar Ydrunar Skulld, sem ad jafnvel er Synd af vorre Alsu, helldur fyrer JEsu Blood; Hvert ed teingest vid Syndarans Taar i Metaskaaleñe a moots vid þitt Riettlæte. Þegar DRotteñ brixlar Jerusalem um̃ sijna Vanrækt og Þeckingarleyse; Þa seger hañ hiaa Esajam, Cap. 50. Hvar er su Skilnadar-Skraa, er eg gaf ydar Moodur? Edur hver er saa, af mijnum Kaupanautum, er eg hefe sellt ydur? Siaa, hier erud fyrer ydar Raanglætingar sellder, og sokum Fraahvarfs ydar Moodur, er hun ein laateñ: Og þo seger hin Eeilijfa Giæska fyrer Muñ sama Spaamans, taled þad sem Jerusalem er þocknanlegt, og prediked heñe, ad heñar Erfvardadur Tijme sie upfylltur, heñar Raanglæte sie betalad, hun hafe feinged Tvofallt af Hende Drottens fyrer allar heñar Synder: Þesse allra Huggunarsamlegustu Ord, eru svo sem Iñgaangur til Spaadoomsins um̃ hiñ fyrsta Nya-Testamentesins Ydranar Predikara, Johañem Skijrara. O! miñ HErra JEsu; Hver hefur þad Giallded loked? Hver nema þu Gud, hver ed i voru Hollde lijdande hefur oss tvofalldañ Fiesiood afrekad, sem er, Fyrergiefningu Syndaña, og eilijft Lijf: Þesse er Audur þijns Rijkis

 i øllu

i øllu Evangelio, hverium þu Konungur Dijrdareňar, af einskiærre Naad wtbijter Pegnum þijnum: Nær vier heyrum Moysen kresia oss Skullda þeirra, er vier eigum Gude ad giallda, þa moglar Hollded, þad geingur hønum ecke betur hiaa þvi, helldur eň hiaa sijnum Eigeň i Eydemørkuňe: Pad vill laata tala þad, sem þvi er þocknanlegt, eň hasta þu a þad, O Drotteň, svo þad þeige, Straffa þad, svo þad hrære sig ecke, Ogna þvi, þvijnga þad, svo þvi svijde, eň tala sijdaň þad, sem Jerusalem er þocknanlegt, sem er, ad oss sie øll Skullden uppgiefeň, og laat oss ecke safna þeim sijdaň: Og er þad svo wttalad uň hid Fyrra.

Epterfylger hid Sijdara med faaum Ordum ad Hugleida. Texteň seiger: Eň Pa Haň Gieck Ut, Hitte Haň Eiň Af Sijnum Samlags-Pioonum, Er Honum Atte Ad Giallda 100. Peninga, Paň Sama Handtook Haň, Greip Fyrer Kverkar Honum, Og Sagde: Gialld Pad Pu Ert Mier Skylldugur. Ecke efast eg uň, ad þesse vonde Pioon hefur nærsta Bliwgur, Hræddur, og Skiaalfande vered, þegar haň stood frame fyrer Konungenum, og heyrde, ad þar ætte Ad Selia Haň Sialfaň, Kviňu Haňs Og Born, Og Allt Hvad Haň Atte: Eň þesse Audmykt varde ecke leinge, strax sem haň var wt af Dyrunum geingeň, og haň saa siň Verkanaut i vidlijkum Prautum staddaň, sem haň hafde skømu ædur vered, høndlade haň vid haň Myskunarlaust. Gud Naade oss auma Meň: Pegar vier lesum vort Synda-Registur, og Samvitskaň tekur ad lemia oss med Miňingu Illgiordaňa, þa taarunst vier fyrer Gude, þeir sem nockud hyrda uň Saalu sijna: Eň Gud betre þad, ad vier munum svo lijted til haňs Myskunar, þegar vier eigum Naunganum ad myskuna, og sumer ecke meira eň þesse vonde Pioon; Aňars være ecke þeir svo marger, sem Prisvar, Fioorum Siňum a hveriu Are, laatast taka Kvittun Synda siňa i Skriptar-Stoolnum, eň eru þo Hardsvijrader, Myskunarlauser, Heiptrækner, og vilia ecke hid allra miňsta uppgiefa af sijnum Riette: Og þetta er nu svo alment, bæde i Skulldaheimtum, og svo i Uppgiøf Misverkaňa, ad þar uň maa tala þad, er O Drotteň seiger, Jer. 2. J Løfum Klæda þiňa er funded Blood hiňa Voludu Saalna, Blood hiňa Saklausu: Ecke þarf eg ad grafast epter þessu, þvi þad er yfer allt, seiger O Drotteň. Pu seiger: Haň er ecke saklaus, haň hefur giort mier stoorum til: Eg seige, Jw, haň er saklaus, þegar haň vill þad ofgiort hafa: Pvi O Drotteň seiger hiaa Lucam: Ef þiň Brooder syndgar a mote þier, þa aatel haň, og ef haň ydrast, þa forlaat hønum: Villtu þa dyrfast ad kalla þaň sekaň vid þig, sem Gud hefur skipad þier saklausaň ad hallda? Pu seiger: Haň hefur og i þvi Gude moote broted, ad haň vid mig afgiorde, hvad kiemur þad vid þig? Siaa til ad þu giører þijna Skylldu, sem er ad fyrergiefa honum; Hver ert þu sem aňarlegaň Pioon dæmer? Haň stendur og fellur sijnum Herra, Laat þier ei verda þad sem Petre er laad, er haň sagde: Hvad skal þesse? Gief þina Søk epter, Laat Gud raada hvad haň giører af siňe; Eň þad er vijst, ad haň tilgiefur hønum þana, nær haň ydrast, þvi er þad Skoň fyrer þig, ad apturhallda þiňe, og nær gaf haň þier Umbod til ad kresia Skulldar siňar, Nema þu siert Yfervalld, og eiger Guds Riett ad sækia? Eň þar

þar um̃ giöra Meñ sier ecke svo aũt a Stundum, helldur lata siñ fyrergaanga, Jafn-vel þoott ad slijkt ætte ad gaanga þvert a moote þvi sem þad Almeñelega tilgeingur, þvi DRottenn hefur sagt: Blessed þeim er ydur bolva, eñ ecke þeim sem bolva mier, og mun eingeñ ofunda þig af þvi, ad fara til Helvijtis med þa Hefnd er þu stalst fra Gu-de. Þu seiger, Gud gietur teked siñ Riett nær hañ vill, eñ eg ecke, eg vil taka medañ eg giet: Þu Vitfyrringur, af þvi ad þu ert Vesæll og Vanmattugur, villtu þa hafa stærre Riett eñ hiñ Almattuge? Eñ þad er þier ecke ofgott ad taka þiñ Riett þar sem Gud slepper sijnum, þu sier hverneñ þad gieck hinum vonda Pioon, Ad Herrañ Ofur-sellde Hañ Kvolurunum, Þar Til Hañ Hafde Borgad Þad Hañ Var Skylldug-ur; Eñ Frelsareñ seiger hier i Textanum: Svo Mun Og Miñ Himneskur Fader Giora Vid Ydur, Ef Ad Hver Ydar Sem Eiñ Fyrergiefur Ecke Ut Af Hiarta Sij-num Broodur Hañs Misgiorder. Drotteñ seger: Hañs Misgiorder; Hañ tek-ur einga undañ, allar vill hañ til giefnar-sieu, sama seiger hañ Bak vid DRotteñlega Bæn, Matth. 6. Þar bidium vier, ad Gud fyrergiefe oss vorar Skullder, Svo sem vier fyrergiefum vorum Skulldu-Nautum, Vilium vier þa ad Gud forlate oss ad nockru Leite, og ecke ad ollu? Ei mun þad Raadlegt, þvi hin miñsta Synd viñur til eilijfrar Fordæmingar, nema hun sie uppgiefeñ og forlijkud, Þvi sa sem helldur allt Logmaaled, og verdur Brotlegur i einu hañ er sekur vid oll, seiger Jacob, Nu forlæt-ur Gud oss eins og vier Naunganum forlaatum, Þar fyrer, Ef vier vilium ad hañ til-giefe oss allar vorar Synder, þa fyrergiefum vorum Broodur allar sijnar. Hañ Gaf Honum Upp Alla Skulldena, seiger i Textanum: Svo eigum vier ad breita; Allt eigum vier ad uppgiefa, hveriu Nafne sem heiter, Hversu rijkt sem þad liggur oss i Ska-pe, Hvern Skada, Ovirding edur Vansa sem vier hloted hofum, Þad ma ei gyllda, þad skal allt uppgiefa fyrer Guds Saker, og mun þad eingum þeim Ofgollded þykia, sem Iduglega Hugleider, hvad miked honum sialfum sie af Gude uppgiefed, og hvad vardar mig um̃ Ovirding þessa skynlausa Heims, þegar eg liooma eins og Sool i Rijke mijns Fodur? Hier mun margur spyria, hvert hañ sie skylldugur ad uppgiefa laanad Fe og Skullder, sem hañ a ad odrum? Þar til svara eg, ad ecke talar DRotteñ um̃ Fiaarheimtur i þessum Stad, helldur brwkar hañ þetta Dæme i Epterlijkinguñe til ad sijna oss Skylldu vora, i þvi, ad uppgiefa Misgiordernar, Eñ þo vil eg þar um̃ seigia, ad ef þiñ Skulldunautur er svo Vesæll, ad hañ ecke ma missa þad sem hañ a þier ad gialldа, nema hañ þar fyrer rate i Armood og Volæde, þa byriar þier ad hafa Þoleñ-mæde vid hañ, og jafnvel giefa honum upp alla Skulldena, ef hañ ma ei añars lifa, eñ þier er fullborged, ellegar ertu sekur i hañs Dauda fyrer Gude, þvi hañ er þa Þurfa-Madur, eñ Gud hefur feinged honum siñ Rett til þess, sem þu hefur Ofmiked.

Aptur munu Meñ spyria, hvert ei sie Riettvijst fyrer Gude, ad sækia Riett siñ fyrer Christelegu Yfervallde, a moote þeim sem oss hafa tilgiort? Þar til liggur Svar, ad þad leifest ad vijsu, ef Madur nær ei Riette sijnum a añañ Veg, ella være a Logeñ og Yfervallded af Gude tilskickad; Verollden gietur og ecke an þess vered, sokum Raang-

fleitnis Ohlutvandra Maña, þo skal þad med slijkre Vareigd giora, ad ei raskest Christelegur Kiærleike, og ad Sækiandeñ ecke hatest vid þañ, sem hañ Varhent æ, nie hverigur vid añañ, ei helldur hlaupe til Domarans fyrer Smaa-Mune hveria, alleina fyrer Metnadar Saker: Eñ fyrer þvi, ad Medal-Hoofed er vandratad i þessu, þa er framveiges verdt ad vita, hverneñ vier eigum ad fyrergiefa, og er þad fyrst ad athuga, ad þeir ed oss moote giora, eru med Tveñu moote: Þar eru þeir sem giora oss til, og ydrast þess ecke, þyker vænt um þad, hroosa sier þar af, edur bidia Forlaats til ad gabba oss, ad ei verde þeir afhendter Doomaranum, eñ hafa þo hid sama i Siñe, og Jtreka þad nær þeim rædur svo vid ad horfa; Þessum eigum vier þo ad fyrergiefa med þvi Moote, ad vier ei ølum neina Heipt til þeirra, jafnvel þoott vier neydunst til ad forsvara vort Nafn og Rickte, vora Vine og Vanda-Meñ, vorar Eigur og Fiaar-Hlute, sem añars munde verda O-Raadvondum Moñum ad Braad, ad vier þo ecke glediunst yfer Oforum þeirra, helldur bidium Gud ad snwa þeim; Svo seiger Salomon, Þegar Ovinur þiñ fellur, þa gledst ecke, og nær hañ hrapar, þa fagne ei Hiarta þitt, ad þad ei sijnest illt i Augum DRottens, og hañ snwe fraa honum Reideñe æ þig, Prov. 24. Ecke Oskum þeim neiñrar Hefndar af Moñum, nema þeirrar sem Log leifa oss, og þo ecke Oska heñar frekare eñ Tilgiordeñ er, eñ þo myklu sijdur, ad beidast Guds Hefndar, yfer þeim, allra sijst eylijfs Straffs; Þad er ein Ogudleg Osk, sæ ed þess bidur, hañ bidur um slijka Hefnd, sem Gud alleina hefur Riett til, og er Afgudadijrkare, hvad þo margt Foolk giører i Osstæke Bræde siñar: Helldur eigum vier og þessum ad fyrergiefa, eñ giefa Gude Hefndena, og jafnvel þoott vier gaungum ad þvi vijsu, ad þeir mune leita a oss aptur: Svo giører Gud, hañ liet Pharao standa þegar hañ beiddest Fridar, þoott hañ visse ad ei munde hañ sleppa Jsrael, Hañ fyrergaf Achab þa hañ klæddest i Seck, 1. Reg. 21. Visse hañ þo, ad sw Ydran munde ei leinge vara, eñ Frelsareñ hefur skipad oss, Vered Myskunsamer, Lijka svo sem ydar Fader er Myskunsamur, Og ecke talar DRotteñ um þad vid Petur, er hañ skipade honum ad tilgiefa sijnum Brodur Siotiju Siñum Siosiñum, Matth. 18. Hvort ad hiñ Seke ydradest siñar Motgiordar edur ei. Adrer eru þeir, sem wt af Hiarta ydrast Mootgiordaña, vilia þad giarna bæta, er þeir broted hafa, og sijna þad i Verkunum, er þeir jaata med Muñenum, þa eigum vier apturi fulla Saatt ad taka, svo sem ecke hefde æ mille bored: Svo giører DRotteñ fyrer Muñ Zachariæ; Eg skal myskuna þeim, og þeir skulu vera svo sem alldrei hefde eg þeim i burtu kastad: Og hier meina eg ad eige heima sæ Skilmaale, er stendur, Lucæ 17. Og jafnvel þo svoddañ optlega til bere, Þvi svo giører Gud vid oss, eingeñ af oss mun neita þvi, ad vier Daglega syndgunst, og viñum ei nema til Hegningar, Og þo er hañs Naad Fersk og Nij yfer oss æ hverium Morgne, og alldrei hefur hañ nockurn Ydrande fraa sier reked, hversu opt sem hañ syndgast hefur. Ef vier nu vilium þessarar Myskunar nioota, þa audsijnum hana og vorum Brædrum, añars hofum vier aungva Hlutdeild i heñe, og þær Synder, sem oss voru adur tilgiefnar, þær munu oss ad nyu tilreiknadar verda, eins og þessum vonda Þioon, þvi Myskunarlaus

Doomur mun yfer hañ gaanga, sem ecke Myskun sijner, seger Jacob, Cap 2. Og er
þad eiñ stoor Daraskapur, ad laata Heiptena svo fyrer sig raada, ad Guds Blood og
hañs Naad snuest þeim til Fordæmingar, er hañig breyter, og ad Meñ gaange ur Skug-
ga uñ þad ad vier skylduger sieum ad tilgiefa vorum Broodur, hversu opt sem hañ synd-
gar, þa bijdur hañ, Lucæ. 17. Ad honum skule Siosiñum a Deige fyrergiefast, ef hañ
Siosiñum ydrast, lijklegt er, ad eingeñ mune optar brioota a Deige, og þo svo opt yd-
rast, eñ hvernig sem þvi er vared, þa merker þetta, svo opt sem hañ brijtur, epter Ords-
hætte Ritningareñar; Hiñ Riettlaate fellur Siosiñum a Deige, seger Salomon,
Prov. 24. Siosiñum a Deige lofa eg þig, seger David, Ps. 119. Ef þier heyred
mier ecke, þa skal eg straffa ydur Siofallt, seger DRotteñ, Levit. 26. Pad er Ef-
eñlega, svo leinge þier ecke heyred: Pad verdur og ad vera, þvi saa sem vill vænta Fyrer-
giefningar Synda siña allt fram under Daudañ, hañ skal og hvern Dag fyrergiefa
allt i Daudañ, nær honum giefst þar Orsok til, og þad af Hiarta, seger DRotteñ hi-
er i Gudspiallenu, aan Yferdrepskapar, aan Moglunar, Bryxles og Eptertalna; Svo
giorer Gud, hañ giefur ollum Einlæglega, og telur ei epter, seger Jacob, Cap. 1. Pad
er ei noog, ad Meñ umgangest i Meinleyse, eñ geyma þo eiñ Mordingia i Hiartanu,
og kyssa a þa Hondena, er Meñ giarna villdu ad af være; Svoddañ Fyrergiefning er
Hræsne fyrer Gude. Herrañ saa aumur a þeim Pioon, seger Texteñ: Hañ komst vid
i Hiartanu, ad siaa Eymd hañs, er i Prældoom gaanga atte, med Konu og Born-
um, fyrdtur ollu sijnu: Svo stendur Optlega uñ vorn Frelsara, nær hañ saa Eitthvad
Aumt, ad hañs Ydur hafe hrærst af Medaumkan; Svo vill hañ ad vier lynder sieum
moote þeim, sem oss tilgiora, og ydrast þess. Pad er vel tilfunded i votu Maale, ad
siaa Aumur a einum; Saa þad giorer, hañ kieñer i Brioste uñ þañ sem hañ Myskun-
ar, hañ tekur sier nockud, hañ ber nockud af hañs Eymd, og verdur sialfur Aumur
med sialfum sier, og þad kañ ske ecke sijst þess vegna, ad hañ veit, ad hañ hefur slijkt for-
þienad, og er slijku Volæde underorpeñ, ef Gud vill. Hañ sem tilgiefur af Hiarta, hañ
aalijtur hvad miked hañ sie Gude skyldugur, og hvad braadlega hañ kyñe þvilijkt ad hen-
da. Iklædest Hiartgroeñe Myskunseme, seger Paulus, ecke þeirre sem er a Vorunum,
og seger; Eted og Drecked, klædest og vermed ydur, eñ giefur eckert hinum Purfan-
da, ei helldur hiñe, er seger; Eg vil tilgiefa honum, eñ gleymer þvi þo alldrei, er honum
var tilgiort: Helldur þeirre sem hefur diupar Rætur i Pelalausu Hiarta; Elskar O-
vine sijna, Blessar þa ed Bolva, Bidur fyrer þeim sem Offækia, og giorer Gott þeim
ed misgiora; Og er eckert Skaplynde farsælla eñ þetta, eckert Roosamlegra, og eckert
sem betur Hag sijnum une; Pvi svo sem ad hiñ Heiptræke hefur einga Roo, hañs Mat-
ur og Dryckur er honum Swr og Beiskur, þegar Foolskañ leggur wt i hvorn hañs Lim
og Lid, og honum flijgur Mootgiordeñ i Hug; Svo maa og uñ hiñ segia; Er Foottredur
Drietteñ, þad sem David sijngur, Ps. 119. Mikeñ Frid hafa þeir, sem elska þitt Log-
maal, og þeim mæter eckert Hneixle, þvi a medal þeirra helgstu Bodorda i Logmaalenu
er, ad tilgiefa Misgiordernar, og þeir hneixlast ecke af Oriettenum, sem forsmaa Orett-

eñ:

eñ; Par fyrer vered brædlega sampycker ydar Mootstodu-Moñum, Christner Meñ, æ medañ þier erud eñ þa a Vege med þeim, svo ecke Ofurselie Mootstodu-Madureñ ydur Doomaranum, Doomareñ afhende ydur Kvalaranum, og þier verded svo i Dijflissu kastader. Hvar fraa hiñ Naaduge Gud vardveite øll sijn Børn, i JEsu Nafne, og giefe øllum oss svo ad umgaangast hver vid añañ hier i Naadeñe, ad vier i eilijfum Kiærleika meigum samfagna hver ødrum i Dijrdeñe. Pad Bænheyre hiñ Naaduge Gud, Fyrer Sonarens Forþienustu, Amen.

# A Allra Heilagra Messu.

Gudspialled, Matth. 5. Cap.

Þ G er JEsus leit Foolked, gieck hañ uppaa Fialled. Og þa hañ sette sig nidur, geingu hañs Lærisveinar til hañs. Og hañ lauk upp sijnum Muñe, Kiende þeim og sagde: Sæler eru þeir sem Andlega eru Volader, þviad þeirra er Himnarijked. Sæler eru þeir sem Harma, þviad þeir munu Huggader verda. Sæler eru Hoogværer, þviad þeir munu Jardrijked erfa. Sæler eru þeir sem Hungra og Pyrsta epter Riettlætenu, þviad þeir skulu Sadder verda. Sæler eru Myskunsamer, þviad þeir munu Myskun hlioota. Sæler eru Hrein-Hiartader, þviad þeir munu Gud siaa. Sæler eru þeir sem Frideñ semia, þviad þeir munu Guds Børn kallader verda. Sæler eru þeir sem fyrer Riettlætesins Saker Ofsookter verda, þviad þeirra er Himnarijke. Sæler erud þier nær sem Meñerner Hallmæla ydur, og Offsookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku, fyrer mijnar Saker, þo Lijugande. Fagned þier og vered Glader, þviad ydvart Verdkaup er miked a Himnum. Pviad so Offsooktu þeir Spaameñena, þa sem fyrer ydur voru.

## Exordium.

SVO er margt-Siñed sem Madureñ er, Seiger i gømlum Maalshætte. Faaer eru þeir Hluter, sem aller Gooda kalle, Eñ i þvi kiemur øllum samañ, ad þad sie gott ad vera Sæll, og vanta ecke uppa þad þeir girnast, þo meta ecke aller Sæluna med einu Auga: Pad sem Paulus hiellt Preck ad vera, þad kalla adrer Full-Sælu. Pad er skrifad um Anaxagoram Speking, ad Sælkere nockur hafe spurt hañ ad Einhverin Siñe, Hver ad Farsæll være? Og hafe hañ svarad: EIngeñ Af PEim, Sem Pu MEinar, HEldur Saa, Ed Pu KAllar VEsælañ Ad VEra, Hañ Er Sæll. Og hid sama er ad seigia um Børn Veralldar þessarar, Pad sem þau Sælu kalla, þad er reyndar Volæde, Ef riett er aalited. Pesse Haatijdis Dagur er af Lærefedrum Christelegrar Kyrkiu i Fyrndeñe Helgadur øllum Heiløgum, þad er øllum þeim, sem hafa ysieruñed fyrer Lambsins Blood, eñ þo sier i Lage þeim, sem i giegnum margar Hørmungar, Utlegd, Orbyrgd, Hydstrokur, Forsmaan, Hungur, Klædleyse, Liflaat, og allt þad Jllt, er þeir lidu fyrer Christi Nafns Skulld, Peim sem i gieguum øll þesse Oskøp, Seige eg, Hafa brotest iñ i sijns HErra Dijrd, og þa nefner hañ nu Sæla i Gudspiallenu, sem er

er Bruñur allrar Sælu, og fyrer utañ hvern eingeñ Sæla maa nefnast, þvi hañ er Gud alleina Sæll, og þeir sem i hønum eru alleina Sæler, og eingeñ Sæll fyrer utañ þa. DRotteñ hafde nærre þvi i haalft Ar predikad Evangelium Rijkesins, J hveriu þeim verdur Sælañ heiteñ, er þvi trwa: Hañ hafde aadur sagt, ad hver sem tryde a Soneñ, hañ skyllde ei fyrerfarast, helldur hafa Eilijft Lijf, Joh. 3. Ad sa sem drycke af þvi Vatne, er hañ munde giefa hønum, skyllde ecke þyrsta ad Eilijfu, Joh. 4. Og fleyra þess Haattar hafde hañ talad uñ Guds Rijkis Sælu. Eñ svo sem ad Kviñañ, er talade vid hañ hiaa Jacobs Bruñe i Samaria, Hun skilde ecke hvad hañ meinte, þar hun sagde: HErra, gief mier þetta Vatn, ad ei þyrste mig, og ei þurfe eg ad koma hijngad til ad ausa Vatn: Svo hafa og flester af hañs Tilheyrendum vered Ofrooder uñ þessa Guds Giøf, sierdeilis þar ed Løgmaalsins Fyrerheit, vid hver þeir voru uppalder, Pau voru añadhvert Lijkamleg, Edur vafeñ i Hylmingu Lijkamlegra Hluta. Fiølde Mañs took vel þessum Bodskap i Fyrstuñe, eñ þegar til Leingdar liet vid, og þesse Fyrerheit ecke komu svo braadlega fram̃, þa hefur Foolked geinged i Tvær Sveiter, svo sem raada maa af Joh. Gudspialla-Bookar Siøtta og Siøunda Capitulum: Og jafnvel hafa ruñed tvær Grijmur a sjaalfa Læresveinana, þoott ad bæde þeir og adrer sæu Kraptaverkeñ, er hañ giorde a þeim Siwku i Galilæa, Matth. 4. Eñ til þess, ad undervijsa bæde þeim og ødrum i siñe Rijkis-Stioorn, þa tekur hañ þa hier Afsijdis fraa ødrum uppaa Fialled, og talar fyrer þeim Eyrende Rijkesins, i hiñe merkelegu Predikun, er ritud stendur i Matth. 5. 6. og 7. Capitulum: Hverrar Jñgaangur ad er þetta Heilaga Gudspiall, af hveriu vier i þetta Siñ Hugleida vilium hina Fyrstu SÆlu, og Tveñt þar af oss fyrer Hendur taka. 1. Hversu ad Faatækteñ sie Gagnleg. 2. Hveriu þeim heited sie, sem eru Andlega Volader. Eñ þu sem ert alleina Rijkur, styrk þu oss Faatæka og Auma til þessa Verks, svo vier verdum i Gude Rijker, Fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

SÆler Eru Andlega Volader, seiger Drotteñ: Eg veit, ad Meñ greinast aa þar uñ, hvad þetta Ord Voladur merke i þessum Stad: Bæde Augustinus og Chrisostomus hallda, ad þad sieu þeir ed afneita ollum sijnum Verdugleik, og kalla sig alls Goods Overduga, eñ einkis Jlls; Og kañ eg þvi ecke ad neita, ad sw Meining sie og foolgeñ i þessu Orde, þvi svo eiga aller Christner lynder ad vera, hvert helldur Rijker eda Faatæker eru, samt hygg eg þo, ad Lausnareñ meine hier sier i Lage þa, sem eru snauder af Veralldar Munum edur Virdingum, þvi ad svo mun þeim flestum hafa haattad vered, er hønum i þad Siñ epterfylgdu: Pad maa siaa af þvi er Kieñemeñerner og Pharisæi søgdu Fordum, Joh. 7. Trwer nockur af Hofdingiunum aa hañ, edur af Pharisæis? Eñ þesse Almwge, sem ecke kañ Løgmaaled, er Bølvadur: Og þar ad auke skrifar Lucas alleina i sijnu Evangelio; Sæler Eru Faatæker, og er hañ vijkur Rædu Drotteñs til hiña, sem Vesæler eru ad Guds Doome; Pa seiger hañ, Luc. 6. Vei ydur Audugum, þvi þier hafed ydar Huggun medteked: Pa kalla eg þad vijst, ad DRotteñ meine i þessum Stad, þa sem ei hafa mykla Veralldar Laane ad fagna, ecke alleina þa, sem Ørbyrger eru, helldur og þa, sem aa einhvern Haatt eiga vid baagañ Kost ad bwa, þvi ad þvilijkra er Guds Rijke, seiger Lausnareñ: Pad eru þeir, sem eru eins illa stadder og Øreigar, og þo ecke þa alla helldur, þvi margur er Faatækur, og skickar sier illa i siñe Faatækt, er Oþoleñmoodur, hleypur med Pioofnum til ad stela, viñur alla Ohæfu fyrer Sulltardoom, til ad rydia af sier Faatækteñe, sem i sialfre sier er eiñ Heilagur Hlutur, þvi Guds Sonur hefur hana helgad med sijnu Dæme, þegar hañ giord-

est Fatækur vegna vor, þar hañ var þo Rijkur, svo vier af hañs Fatækt Rijker yrdum, seiger Postuleñ, 2. Cor. 8. Þar fyrer utañ er hun Straff Syndareñar, og að einga Hlutdeilld i þessu Fyrerheite: Svo eru marger af þessum Hwsgangs-Herrum, er ganga á medal vor, og leita sier Olmusu i Guds Nafne, eñ giallda Bolvan fyrer Blessan, nær þeir ecke hafa wr hvers Mañs Hende þad þeir vilia: Frafiiled er þetta Illþijde slijkre Naad, Gud mysfunar sijnum Fatækum, seiger Esajas Cap. 49. eñ ecke Andskotans, þeir verda ad hafa slijka Myskun, er hañ vill veita, sem þeir liast til Þioonustu, ad vellta af sier Christi Oke á moote hañs Logmaale, er skipad hefur, ad sa skule ecke eta, sem ei vill erfida, 2. Thess. 3. Eñ Matthæus seiger oss hier i Gudspiallenu, hverier þeir sieu er þesse Sæla tilheyre, þar hañ leggur til þetta Ord, Andlega, seiger hañ: Þad eru þeir, sem ecke Orvænta i Volædenu, ecke eru Oþoleñmooder, helldur til Frids i Hormungunum, i Offooknunum, i Angisteñe, i Naudunum, eins og Paulus, þeir ed ecke grijpa til Oleifelegra Medala, og ecke Ofunda þa, er hafa Velgeingne Heims þessa, helldur audmijkia sig under Volldugа Guds Hond i Mootgangenum, og seigia jafnañ, Verde þiñ Vilie: Þesser hroosa sier i siñe Fatækt, svo sem Jacob ad Ordekiemst: Og þad eru þeir ed David kallar Guds Volada, Ps. 72. Þetta er sw Fatækt, er eg meina ad ecke alltijd gagne til Himnarijkis. Margt ber til þess, Christner Meñ, ef vier þad vilium riett athuga: Þad er oss vitanlegt, ad vier dugum ecke til þess, ad giora Tvent i einu; Muñum vier þa under eins fa þioonad Gude og Mamona? Og er þa hætt vid þvi, ad ef añadhvern skal yfergiefa, ad þeim sem Skwrgod þetta fagurt þyker; Þeir mune seigia laust vid Gud, hvern þeir sia ecke, eñ þijdast Mamona, hver ed glansar i Augunum, so ad margañ hender þvilijkt og Gydinga Fordum, vid hveria DROtteñ seiger, Esa. 22. Þier gioored Farveg á mille tveggia Mwrana, fyrer Vatne hins gamla Fiske-Dijkesins, eñ þier lijted ecke á þañ, sem þad skapad og myndad hefur; Eñ sa sem eckert á i Heimenum, hañ hefur myklu betre Orsok og Tækefære til þess, ad verda Rijkur i Gude, og fyrst hañ þeinker ecke á Jardneskañ Aud, þa skal hañ alldrei draga hañ fra þeim Himneska. Sa sem myklum Aude safnad hefur, hañ liggur á sijnum Dreggium eins og Moab, Jer. 48. Hañ hefur sijna Umgeingne á Jordune, þar sem hañs Fiesioodur er, þar er hañs Hiarta; Eñ Oreigeñ þarf ecke ad geima vandlega þad sem eckert er, hañs Umgeingne er á Himnum, hvadañ hañ vænter Frelsarans DROttens JEsu Christi, ef hañ er añars Andlega Voladur, hañ kieppest vid ad safna sier Fiesiood á Himnum. Þar eru og kañ skie fæer sem hafa Riettfeingeñ Aud i Heimenum, þvi heiter hañ og Ranglætis Mamona; Eñ á þessare Audlegd, sem i Himnenum er, eiga aller Kost ad saklausu, Gaungu-Madureñ svo vel sem Konungureñ, Blindum, Holltum og Lomudum er þar til boded, þeir kaupa fyrer alls eckert, sem hañ eignast, og hversu ad þeir sieu hæfare til ad na þessare Audlegd, sem ei hafa myked epter ad draga, þad kieñer oss Frelsareñ, er hañ seiger, ad hægra sie Ulfalldanum ad ganga i giegnum Naalar-Augad, eñ Rijkum Mañe iñ i Himnarijke: Eg vil ei þar um tala, ad Rijkdoomureñ ablast med Erfide, geymest med A-

hyggiu,

hyggiu, og missest med Sorg, ef missast skal, eñ su Sorg er siallδañ aan Syndar; Morgum hefur hun steypt i Orvænting, og dreiged til ad bæta Raad sitt aptur med Ranngindunum, og ad visu eru flester Ohöleñmooder yfer Skadanum: Faaer eru eins lynder og Job, er hañ sagde: Gud gaf og Gud aftook, sie Nafn DRottens blessad, Job. 1. Eñ saa griet alldrei fyrer Gull, sem ecke aatte þad: Hañ sem er sañur Guds Vesælingur, hañ sem er Andlega Voladur, þoott hañ misse þañ Faatækdoom, er hañ brwkar til Dags og Nætur, þa hefur hañ eckert af siñe Audlegd mist, þvi hun er i Himnenum, hun skiemest ecke, seiger Petur, hana skal eingeñ fraa honum taka, og þoott hañ skyllde i Hwngre og Klædleyse wt af deya, þa slijter þad honum alleina til Rijkes. Pad er skrifad uñ Alexander hiñ stoora, hañ fræga Konung, ad þegar Lid hañs var allt Ofþwngbwed orded af Herfaangenu, svo honum þootte lijted framgeingt verda, þa brende hañ upp Faung þeirra, og huggade þa med þvi, ad þeir munde safna Ogrynñe Fiaar, ef þeir liettu þessu af sier, eñ sæktu med Flijte til þeirra Landa, sem væru audug af Gulle og Sylfre. Meige eg nu samañ taka þad sem sundurleitast er, þa sijnest mier, ad hiñ Alvijse Konungur giore vidlijkt med Faatækteñe vid sijna Volada, þvi nær þeir hafa orvænt sier Veralldlegs Auds, þa kieppast þeir epter þeim Himneska, þegar þeir ætlast til einkis Lids af Moñum, þvi faaer eru Viner hins Snauda, Prov. 19. Pa leita þeir Lids hiaa DRottne, og nær hañ hefur, svo sem i Speigle, laated þa siaa Dijrd sijns Rijkes midt i Orbyrgdeñe, þa giora þeir Skoll ad ollu Oflæte Heimsins, og er þvi Avoxtur Faatæktareñar þesse, ad hun gyrnest ei meir eñ hun hefur, og er hun þa rijkare hellдur eñ Salomon edur Assverus; Jaa, hun gyrnest eckert nema siñ Gud, og hañ stendur hinum Faatæka alltijd til Boda: Eñ saa er Agiarn, sem vill eiga meira eñ Himens og Jardar Skapara. Aller vitum vier þad, ad vier baarum eckert iñ i Heimeñ, og eins vel, ad eckert munum vier i burtu bera, jafnvel þoott sijnast meige, ad nockrer þad ecke satt hallde, añars mundu Meñ leggia meire Hug a, ad lifa vel, eñ verda rijker, og velldur þad þvi, ad Hiartad er svo diupt nidur socked i Maurana, ad sumer giæta þar ecke ad, fyrr eñ Daudeñ grefur þa upp, til ad leggiast i eina adra Grof: Peir gleima þvi; Ad Nakter komu þeir af Lijfe Moodur siñar, og so munu þeir þaangad aptur fara, Job. 1. Pad er ofañ i Jordena, sem er allra Mooder. Par er eingeñ kiendur, sem hañ kiemur ecke, fyrer þeim Volada: Hañ a ecke vid mikeñ Heim ad skiliast; Pvi skal þad ecke draga hañ fra Himnarijke, og su Audlegd, er hañ aatte i Gude i þessum Heime, og ecke var nema Pantur epterkomande Farsælldar, hun fullkomnast, nær hañ iñgeingur i Dijrd sijns Herra, og rætest a honum þad, er Syrach skrifar: O! Daude hversu goodur er þiñ Doomur hinum Faatæka? Vier vitum hversu ad hin lìootu Skrymsle, er Syndeñ og Diofulleñ hafa sært iñ i Verolldena, Agyrne, Osund, Ofrijke, Drambseme, Ohoof, og Raanglæte, hversu, sege eg, ad þad sie Gagnstædt Himnarijke, eñ allt þetta vill haanga vid Rijkdoomeñ; Saa skal vel giæta sijn, er ecke hefur neiñ Snert af þessu, ef hañ Rikur er, þar fyrer seger Paulus; Ad þeir sem vilia Rijker verda, þeir falle i Diofulsens Snorur; Eñ Faatækteñ er eingañvegeñ svo hætt vid

 slij-

slijku, og ad vijsu ecke þeim, sem er Andlega voladur, þvi er hañ nær Himnarijke, eñ hiñ, nema saa Rijke aastunde ad vera i Gude rijkur, og i goodum Verkum, og ad vijsu hefur Christur lagt Grundvoll siñar Kyrkiu i Fyrstuñe af hinum Faatæku, þad kieña oss þesse Frelsarans Ord, er i Gudspiallenu standa, og med sama Hætte hefur þesse Bygging rised epter hañs Himna-Før, þad Auglijser Paulus, er hañ skrifar til Corinthios, Cap. 1. Siaaed ydar Kollun, Brædur, ad þier erud ecke marger Vollduger, ecke marger Gøfuger; Þad kieñer oss Jacob Postule, hver ed var a Lijfe Priaatiju Arum epter þad DRotteñ var iñgeingeñ i sijna Dijrd, segiande, Cap. 2 Hefur ecke DRotteñ wtvaled hina Faatæku i Heime þessum, rijka i Trwñe, og Erfingia þess Rijkes er hañ ætlad hefur þeim sem hañ elska, þessa Alvijsa Byggingarlags hefur margur Audugur sijdañ noted, þvi er þad Synd fyrer oss, ad forsmaa Guds Volada; Eñ faaer voru þeir af Rijkesmoñum, er geingu DRottne til Handa, medañ hañ umgieckst i Hollde-enu; Eg ætla þegar Meñ taka Zacharjam og hañs Hws, Nicodemum, Joseph af Arimathia, Johañem; Hws-Frw Chusæ, þegar Meñ taka þessa burt, þa mune hiner teliande, sem skipudust vid hañs Kieñingar af Hofdingiunum, utañ þeir sem Neydeñ droo til, svo sem voru Jairus, Konungs-Madureñ, og Hundrads Hofdingeñ, og eru þeir þa i Selskap med Faatækum, svo sem aadur er sagt.

Hier af aalykta eg nu svo, ad eins og eiñ vijs For-Smidur, hañ velur hid besta Efne til þeirrar Byggingar, er hañ ætlar sier vel ad vanda; Svo hefur og Frelsareñ breytt i þessare siñe Kyrkiugiord, hañ hefur valed þad i Underbygginguna, er hañ saa ad hentugast var, þad voru hañs Faatæker; Svo var hañ siaalfur, sem var Hyrningarsteirneñ i þessu mykla Forvirke, svo voru hin sterkustu Maattar-Trie þar i, sem eru hañs Postular, uppaa hveria vier bygder erum, svo voru þeirra Epterkomendur fram epter Olldunum, þar til Diøfulleñ spillte þessu Guds Verke med Agyrndeñe, Ofundeñe, og Drambsemeñe, svo sem lioost er af Christeñdooms-Søgunum, og siaa Meñ af þessu medal añara, hversu ad Faatækteñ og Guds Rijke eiga vel samañ, eñ þo ad Rijke DRottens JEsu hefde sijn Upptøk hier aa Jørduñe, sem var af Umkomulitlum Fiskurum, Olærdum og einkes megnaude, þoott þad Eblst hafe fyrer utañ allt Ofbellde, Haareyste og Vopnaburd, þvi eingeñ heyrde hañs Raust aa Strætunum, og hañs Rijke var ecke af þessum Heime, ei helldur Vopn hañs Herfarar Lijkamleg, Hvers Strijdsmeñ ad høfdu Tunguna fyrer Veriu, Poleñmædena fyrer Atviñu, Trwna fyrer Skiolld, Kiærleikañ fyrer Vijge, Faatæktena, Jaa, siaalfviliuga Faatækt aa stundum, i Stadeñ Gulls og Silfurs, er Heimureñ kallar Abl þeirra Hluta, sem hañ vill laata Framgaang hafa, samt hefur þo eingeñ af Veralldar Hofdingium svo vijdt wtþaned sitt Vellde um Heimeñ, svo sem hañ, þvi Gud hefur giefed hønum Endemørk Veralldareñar til Arfleifdar, svo þad er ad fullu og øllu rætt, sem Esajas fyrer spaaer, Cap. 2. Þad skal skie aa sijdustu Døgum, ad nær þad Fialled Guds Hwss er sett uppaa adra Fialla-Tinda, og upphafed yfer Haalsana, ad allar Þiooder skulu þaangad samañ safnast. Hvert er þad Fialled? Þad er Christi Rijke: Hvert er þad Hwsed?

sed? Pad er hañs Kyrkia: Hver eru þau Fiolleñ? Pad eru Rijke Veralldareñar um̃ Heimeñ: Jaa, eingeñ hefur svo fliootañ, svo frægañ Sigur uñed, sem vor Konungur, og þo med faaum og fatækum Moñum; Hañ lagde under sig meira Rijke med Toolf Postulum aa stuttum Tijma, eñ Alexander hiñ stoore aa Toolf Arum med ollum Gricklands-Her. Eiñ Madur, St. Paall, hroosar þvi, ad hañ hafe allt i fraa Jerusalem iñ til Illyricum uppfyllt allt med Evangelium, svo þad er sañkreded, er Esajas skrifar; Mun Jordeñ fæda aa einum Deige? Mun ein Piood gieteñ verda i Einu? Þar Zion geingur under eins þrongud med Born sijn og fæder þau, Esa. 66. Svo hefur nu hinum Stoora Allsheriar Konunge þocknast ad byggia sitt Rijke med Fatækteñe, þvi skylldu þa ecke Þegnar hañs kalla hana ollum Rijkdoome rijkare? Þar hañ er alleina Rijkur, sem þad hefur wtvaled, sem audvirdelegt er fyrer Heimenum. Eñ Gud Naade oss Auma, þad er hiñ allra meste Skade vor, ad þoott vier berum oss ad þioona Gude, þa haungum vier svo fast vid Audeñ og Aura-Safned, ad Meñ gleyma Guds Bodordum, og stijga fram̃ yfer þau Takmork, er hañ hefur sett oss, svo erum vier freker til Fiaarens: Eñ hvad er þad, Christner Meñ? Þad er ad færa Foorner i Jerusalems Mustere, eñ offra þo samt aa Hædunum, þad er ad sveria vid Nafn Drotteñs, og þo under eins vid Malcom eins og Juda. Heyrum þvi Ord DRotteñs af Muñe Jeremjæ: Ef þu ætlar ad snwa þier aptur til mijn, Jsrael, þa snw þier, og reika ecke hijngad og þaangad. Eingañveigeñ er þad hier med sagt, ad Meñ skule kasta fraa sier allre Um̃hyggiu fyrer Lijkamanum; Alla Hlute hefur Gud Mañenum under Fætur lagt, til þess hefur hañ giort Naatturuna svo rijka, ad Mañeskiañ skyllde audgast þar af; Eckert hefur hañ forgiefens skapad, helldur Mañkynenu til Nota, eñ sier til Loss og Dijrdar; Eñ hitt seige eg, ad Meñ laate Gud vera Herrañ, eñ Mam̃ona Prælcñ, Jaa, ad vier sieum Audsins Herrar, eñ laatum ecke hañ drottna yfer oss, eñ þo allra sijst, ad vier laatum þeña þietta Leyr svo klessast vid Hiarta vort, ad vier gleymum Gude edur hañs Bolodum. Og er þad nu svo wt-talad um̃ hid Fyrra.

Nu epter fylger ad tala um̃ þad, sem hinum Andloga Voludu heited er. J Textanum stendur: Þviad Þvilijkra er Himnarijke. Nu er Guds Rijke med tveñu Moote: Eitt er hañs Naadar-Rijke, hvert og kallast Himna-Rijke, Matth. 18. Þar ed stendur: Himna-Rijke er lijkt einum Konunge, sem reiknast villde vid Þioona sijna. Añad er hañs Dijrdar-Rijke: Saa sem vill naa til þess sijdara, hañ skal endelega hafa Hlutdeilld i hinu fyrra, og eingeñ hefur saa komest i hañs Dijrdar-Rijke, sem ecke hafe adur vered i hañs Naadar-Rijke; Sumer leingur, Sumer skiemur: Þar eru nockrer kallader sneña Morguns, Adrer ecke fyrr eñ um̃ hina Elleftu Stund, eñ þad er vijst, ad hverutveggiu þessu lofar DRotteñ þeim, sem ad eru Andlega Volader, og þeirra Lijkum. Hver eru þa Giædeñ i Drottens Naadar-Rijke? Ecke Metord, ecke Audæfe, ecke Sællijfe i Mat og Dryck, ecke Hefnd yfer Ovinum sijnum, nie Þad Hiartalag, er feste sig vid nockud af þessu, þott þad meige þeim giefast, sem eru Christi þegnar, þvi Guds Rijke er ecke Matur og Dryckur, helldur Riettlæte, Fridur og Fognudur i Heilogum

um Anda, seger Paulus, Rom. 14. Og wt af þessum hans Ordum vil eg i stuttu Maale segia, hver ad sieu Audæfe Guds Naadar-Rijkes: Pad er Riettlæted, ecke vort eiged, sem ecke er betra en Nidlags-Fat, þegar þad er sem Kostulegast, helldur JEsu Christi, hver oss er til Riettlætis af Gude giefen. Skyllde eg nu vilia taka nockurn Veraldar Aud fyrer þad, Drotten min? Fyrer þad eru mier Synder mijnar tilgiefnar; En þegar þær eru kvittar, þa er eg rijkare i ollu Mijnu Volæde, en Salomon i allre sinne Dyrd; J þvi maa eg byrtast fyrer Auglite þijns Fodur, en ecke i Pelle og Purpura hins Rijka Sælgiætings, Luc. 19. Fyrer þad mun eg Guds Barn kalladur verda, en ecke bo eg nefndur være Doottur Sonur Pharaonis. Hvad gagnar þad Mannenum, þoott han eigenst allan Heim þenna, en lijde Topun a Saalu sinne? Hverre eg veit ad boraed er, medan eg aa han Fiesiood, sem hun er Endurkeypt med. Poott ad Sveinen Conia være Signets-Hringur a minne hægre Hende, þa skyllda eg slijta han þadan, seger Drotten um Jeconiam, Son Jojachims Gydinga Konungs, Jerem. 22. En eg er þess fullðruggur, DRotten, ad þu ecke slijtur þijna Volada ur þijns Sonar Hondum, hvar þeir skrifader eru, þvi eru þeir ollu betur til þijns Rijkis borner, helldur en Veralldarennar Born, hversu sem þau megtug eru, þegar þeir hafa hans Riettlæte fyrer sig ad þera, þvi han hefur giefed þeim Magt til ad vera Guds Born, sem a hans Nafn trwa, Johannes. 1.

Af þessare Root Jesse sprettur Fridurenn, sem Paulus ummaietur, þvi han er Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Og er þad nu saa Annar Rijkdoomur i Guds Naadar-Rijke. J Rijkium Veralldarennar er eingenn Fridur: Pegar Menn taka Salomon og Augustum Keysara i burtu, þa skulu Menn ecke finna mørg Dæme til, ad Veralldar Hofdingium hafe tekist leinge Fride ad hallda, Jafnvel þoott Gooder og Riettvijser vered hafe, og kynne þad skied ad vera, til ad teikna þar med Christi Rijke, i hveriu ad aa Fridnum mun eingen Ender verda, Esa. 9. Pvi sa eine þeirra var hans Fyrermyndan: En aa Døgum hins var Lausnaren i Heimenn fæddur: En i Christi Rijke geingur þad ødruvijse til; Par er ecke saa Fridur, sem Verollden giefur, helldur hans Fridur, sem han oss giefed, sem han oss epterlaated hefur, hvern eingen skal af oss taka. Hiner Ogudlegu hafa eingan Frid, seiger DRotten hiaa Esajam, Cap. 48. Peir tonnlast og tyggiast um þetta Volæde, er þeir Rijkdoom kalla, eins og Gadd-Hestar um illt Foodur. En Fridurenn i Christi Naadar-Rijke er stadfastur, þoott hans Undersaatar hafe Pijnning i Heimenum, þa hafa þeir Frid i honum, og eru fullorugger, þvi han hefur Heimenn sigrad: Pad er Fridur vid Samvitskuna, þvi Synden er afmaad med Guds Sonar Riettlæte: Fridur vid Gud, sem er Fridstilltur fyrer hans Blood: Fridur Innbyrdis, og Eindræane i Andanum medal allra Guds Barna: Og i einu Orde ad seigia: Pad er sa Fridur Guds, sem ædre er ollum Skilninge, af hverium og kiemur Fognudurenn i Heilogum Anda, sem er hin Pridia Astgiof, su ed Guds Voludum heiten er i Christi Naadar-Rijke; Pad er saa Fognudur, sem Krossfester Mannenn Heimenum, og Heimen Manenum, Gal. 6. Saa ed forsmaaer alla Veralldarennar Glede, saa ed lætur Paul

og Silam lofa Gud i Fangelsinu, Danielem ganga Ohræddan i Leona Grofeñe, sar er þvi til Vegar kiemur, ad Meñ græta svo sem ei Grætande, og fagna svo sem ei Fagnande, 1. Cor. 7. Svo sem hriggver, og þo jafnañ glader, svo sem fatæker, eñ þo marga Audgande, svo sem eckert hafande, og eigande þo alla Hlute, eins og Paulus uñ sig skrifar, 2. Cor. 6. Þesse er Fognudureñ i Heilogum Anda, sem rijker i Christi Rijke. Þegar Læresveinarner voru hryggver af þvi, ad Lausnareñ sagde þeim fyrer sijna Burtfør til Fodursins, þa sagde hañ: Þier hafed nu ad søñu Hrygd, eñ eg skal sia ydur aptur, Og ydvart Hiarta skal fagna, og ydvarn Fognud skal eingeñ af ydur taka. Ecke talade DRottiñ i þad Siñ uñ hina eylijfu Himnarijkes Glede, helldur uñ þañ Fognud, er þeim gafst af hañs Upprisu, hver svo var mykell, ad þeir trwdu ecke þvi, ad hañ uppriseñ være, fyrer Fagnadar Saker, Eñ þo allra hellst talar hañ uñ Astgiafer Heilags Anda, er hañ hafde lofad ad senda þeim af sijnum Fødur: Hañ var sa ed til fulls uppriette Israels Rijke, þad er Guds Rijke iñe hia oss, svo þeir høfnudu øllum Hlutum, og reiknudu þa Preck ad vera hia Drottne sijnum JEsu Christo, og med þeim sama stioornar hañ eñ nu sijnum Þegnum; Þad er øllum þeim er a hañs Nafn trwa; Hañ er þad, sem ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Børn, eñ ef vier Børn erum, þa erum vier og Erfingiar, ja, Erfingiar Guds og Samarfar Christi, uppa þad ad ef vier med honum lijdum, þa skulum vier og med honum Dijrdleger verda, Rom. 8. Þesse Guds Ande er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Þeirrar sem þar uppe er og ei ma skemast, eige saurgast og ei rotna, svo sem Petur ad heñe kvedur, 1. Pet. 1. Þad er hañs eilijfa Dijrdar-Rijke, er eg fyrer skomu miñtest a, hvert ed hinum Andlega Voludu heited er; Þad er sa Fognudur, sem ecke hefur Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ecke hefur i nockurs Mañs Hug uppstijged, seger Esajas; Hvar Gud er allt i Øllu, og eingeñ Umskipte Liossens nie Myrkursins uñ Oendanlegar Allder Allda. Eckert Rijke Veralldar hefur svo Megtugt vered, ad ecke hafe þad Eydelagst, og Eitt hefur uppetid Añad; Eñ þetta mun eingañ Enda taka, þvi vier munum Eilijflega med Christo vera. Veralldar Hofdingiar drottna yfer mørgum Misjøfnum, Sumum Vondum, Sumum Goodum, Sumum Rijkum, Sumum Fatækum, Sumum Trwum, Sumum Hreckvijsum: Eñ þetta er Samkunda Heilagra, wtvaled Foolk og Konunglegur Prestskapur. Hiñ Nafnfræge Konungur Pyrrhus, Epirota Konungur spurde siñ Sendemañ, er hañ hafde giort fra sier til Romaborgar, hvilijker ad væru þeirra Rad-Herrar; Eñ hañ svarade: Ad Raded være eins og Konunga Samsæte, eñ þad ma eg med øllu meira Rette segia uñ Holl ens Mikla Konungs, DRottens Zebaoth, þvi þar eru aller Undersatarner Konungar; Allur Heimureñ nægde ecke Metorda Gyrnd eins Mañs, Alexandri hins Stoora; Eñ Guds Rijke næger svo miklum Skara, sem eingeñ fær taled, og hefur þa hver eiñ svo miked Rijke, ad Alexandri Vellde ma i eingañ Samjøfnud koma. Þegar Drotteñ spaer uñ Vegsemd Christi Rijkes hier i Radeñe; Þa seger hañ, Zach. 12. Ad a þeim Dege skule hiñ Veskasaste af Juda verda eins og David, og ad jafnvel þeir

Heimsku ei kuña ad fara villt, Es. 35. Þvi voga eg ad segia, ad hiñ miñste i Rijke Himnañg mune verda heilagre eñ Johañes, Vitrare eñ Salomon, Frijdare eñ Absalon, Sterkare eñ Samson, og Rijkare eñ øll Rijke Veralldareñar og þeirra Dijrd. Þess-
arar Sælu niootande ad verda, uñ þu oss Konungur eilijfrar Dijrdar, Je-
su Christe, þier med Fødur og Heilogum Anda, sie Valld
og Heidur, Rijke og Kraptur, um Allder
Allda, A M E N.

# Tuttugasta og Þridia Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap.

J Þañ Tijma. Þa geingu Pharisearner, og hielldu eitt Raad, ad þeir fejnge veidt hañ i Ordum. Og sendu til hañs sijna Lærefveina med Herodis Þienurum, so seigiande: Meistare, Vier vitum þad þu ert Sañsøgull, og kieñer Guds Gøtu i Sañleika, skeyter eige nockrum: Þviad þu ser eige ad Mañvirdingum. Þar fyrer, seig þu oss, hvad þier lijst: Hvort leifest ad giefa Keysaranum Skatt eda eige? Eñ þa JEsus formerkte þeirra Vondsku, sagde hañ: Hvad freisted þier mijn Hræsnarar? Sijned mier Mintena Skattsins: Og þeir feingu hønum Eirn Pening. JEsus sagde til þeirra: Hvørs Mynd og Yferskrift er þetta? Þeir søgdu hønum Keysarans. Þa sagde hañ til þeirra: Giefed þa Keysaranum, hvad Keysarans er, og þad Gude hvad Guds er. Og er þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, forlietu hañ og geingu i burt.

## Exordium.

VJer vitum, ad þeim sem Gud Elska, samverka aller Hluter til hiñs Gooda, seiger Paulus, Rom. 8. Þetta sañar øll Heiløg Ritning med Postulanum, bæde med Ordum og Dæmum: Eingeñ hefur sw Torfæra vorded a Gøtu fyrer Guds Børnum, ad hin maattuga DRottens Hønd hafe ecke rudt hana, og leidt sijna Elskendur þar i giegnum, a einhvern Haatt, til þess Gooda, er hañ hefur þeim fyrerbwed. Hardydge Josephs Brædra vard hønum til Upphefdar, Gen. 41. Þvermoodsku Pharaonis snere Gud sijnu Foolke til Trwarstyrkingar, Exod. 12. Sw Bølvan er Balach Konungur villde hafa keypt af Bileams Muñe, Num. 23. Vard Israel ad Blessan. Achitophels Raad urdu ecke einungis ad Onijtu, 2. Sam. 17. helldur David til Sæmdar Auka. Aræser Sauls Konungs giørdu hañ frægañ i Israel. Jessabels Offsookner styrktu Eliam, 1. Reg. 18. Offstope Hamans liette Prældoomenum af Guds Foolke, Esth. 8. Og þurfum vier ecke margra Dæma hier um ad leita: Eingeñ hefur svo Illt i Siñe haft, svo sem Kieñemaña Høfdingiarner, þegar Herodes og Pontius Pilatus med Heidinginum og Israels Foolke samañsøfnudust yfer JEsum Guds Son, til ad giøra allt þad, er hañs Hønd hafde ædur fyrerhugad ad skie skyllde, Act. 4. Eñ þessare Illsku þeirra snere Guds Alvitra Raad øllum Heime til Myskunar og Syndalausnar, þviad i hañs Nafne, sem þeir i þad Siñ heingdu uppaa Tried, svo sem adra Bolvan, þa faa þeir aller Syndaña Fyrergiefning, sem a hañs Nafn trwa, ad Vitne allra Spaamaña, Act. 10. Svo Meñ meiga jaata þad satt ad vera, sem

Eliphas seiger, Job Cap. 5. ad DRottenn fange hina Vitru i Slægdum þeirra, og Raad þeirra, er i giegn standa, munu detta. Dæme þar uppa høfum vier i þessa H. Dags Evangelio, þar vier heyrum, ad hiner Olmu Hundar voru enn nu Einnsinne wtsender, til ad fanga hid saklausa Guds Lamb, og høfdu svo haglega tilbwed sijnar Veidebrellur, ad ecke skyllde tilsleppa: Enn hann sem visse hvad med Mannenum bivo, og Onijt giører Raad hinna Ogudlegu, hann fellde þa i hina somu Grøf, er þeir høfdu hounm bwed, og vann a þeim med þeirra eigenn Vopne, svo sem vier heyrdum af Gudspiallenu, Af hveriu vier nu vilium Hugleida. 1. Hvad vier sieum Yfervalldeum skylldunger. 2. Hver ad sie Skyllda vor vid Gud Almattugann.

Styrk oss hier til, DRottenn minn, fyrer þijns Sonar Forþienustu, AMEN.

## Utleggingenn.

GJefed Keysaranum Hvad Keysarans Er, seiger DRottenn: Menn leggia þad kann skie ad litlu sumer hverier, ad þeir bioda ad hlijda sier, hverra Virding ad vex vid annarra Undergiefne: Pad kynne ad slliwga einum i Panka, ad ecke være ad henda Reidur a þvi, þoott ad Logenn og almennelegar Skickaner seige þeim nockur Þyngsl a Hendur, sem eingu gieta af sier hrunded, Saker Vanmattar sijns, þvi þeir somu rada fyrer Logunum, sem Tollana taka: Enn giætum ad hver sa er, ed þetta seiger: Pad seiger sa, sem allt Valld giefed er, bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Enn er þo i Præls Lijke auglijstur, Philipp. 2. Hann sem allt Silfur og Gull a, og ecke vill seigia Mannenum til, ef hann hwngrar, Ps. 50. Enn hafde þo ecke hvar ed hann matte Hofde sijnu ad halla, Matth. 8. Hann sem a hverre Stundu kunne ad bidia Fodurenn um 12. Legion Eingla, Matth. 26. Enn kom þo i Heimenn, ecke til þess, ad lata sier þioona, helldur uppa þad hann odrum þioonade, Matth. 20. Hverium Gud hafde giefed Tignar-Sæte sijns Fodur Davids, Luc. 1. Enn vard þo Forsmaan Manna og Fyrerlitning Foolksins; Fyrer vorar og allrar Veralldarennar Synder, Es. 53. Seiged mier Brædur mijner, mun hann, sem svo Hattadur var, hafa talad þesse Ord fyrer sijna Skulld, edur munde hann ecke hafa kunnad ad na Riette sijnum, hefde hanns Rijke vered af þessum Heime? Ecke munde honum hafa þad Torsookt vorded, helldur talade hann þau til Blygdunar þverbrotnum Gydingum, hverier ei villdu þeckia hinn Romverska Keysara fyrer sinn Hofdingia, er þo hafde af Gude þeiged Valld yfer þeim, og til þess, ad kienna þier, Guds Barn, þa Hlijdne, er þu ert Yfervalldenu skylldugur um: Pier kann ad sonnu til Hugar ad koma: Hvad velldur þvi, ad hann skule helldur drottna yfer mier, enn eg yfer honum, þar vid erum þo bader nakter i Heimenn borner, bader eigum vid Ætt ockar til Adams ad rekia, bada hefur Gud skapad, og hverigur ockar hefur neitt af sialfum sier? Par fellur Svar til: Fyrer Guds Saker skalltu honum undergiefenn vera, hver ad er allra Konungur: Paulus seiger med berum Ordum, Rom. 13. Par er eingenn Valldstiett, nema hun sie af Gude, helldur eru þær Valldstietter sem til eru, af Gude skickadar, þar fyrer, sa ed Valldstiettenne mootstendur, hann mootstendur Guds Skickun, enn þeir ed mootstanda, abla sier Fordæmingar: Par fyrer, Sa sem seigest Gude vilia vera undergiefenn, hann sie og Valldstioorne ne undergiefenn, hver af Gude er skickud. Pu seiger, hann kom nakenn i Heimenn eins og eg, enn ef Gude þocknast ad klæda hann i Purpura, enn þig i Totur, attu Sok a þvi? Ertu þar fyrer

Raangeygdur þviad hañ er Goodgiarn. Þid erud baader af Adam komner, eñ sa sem hafde Valld til ad mynda Adam af Leyr Jardar, mun hañ ecke hafa Valld til ad setia Eitt Kiered til Heidurs, eñ Añad til Vanheidurs? Rom. 9. Hverigur yckar hefur neitt af sialfum sier, af hverium þa? Af Gude, þar fyrer ættu hvad mest ad virda þañ sem yfer þig boden er, þvi þa Virdingu hañ hefur fram yfer þig, hana hefur hañ af Gude þeiged; Forakta þvi ecke hañs Skickan, eñ laat þier nægiast þiñ deilldañ Verd, og svo sem Meñ eru Konungenum skylduger ad hlijda næst Gude, i øllum þeim Hlutum, sem Gud ecke bañad hefur, þvi framar ber ad hlijda Gude eñ Moñum, sagde Petur, Act. 4. Svo byriar oss og ad vera þeim undergiefner, sem hañ yfer oss skipad hefur, ad svo myklu Leite sem hañ hefur þad skipad, þvi svo seiger Petur, 1. Pet. 2. Vered undergiefner sierhverre Mañlegre Skiepnu, Saker DRottens, hvert helldur Kongunum, svo sem Yferrædande, edur Stioornurunum, svo sem þeim er af honum eru sender: Saa sem þeim mootstendur, er af Konungenum sender eru, hañ mootstendur Konungenum; Saa sem Konungenum mootstendur, hañ mootstendur DRottne, Saa sem mootstendur DRottne, hañ steyper sier i Fordæmingu, hvar af þad vill fylgia, ad sa sem sijna Yferbodara svijkur, vanvirder edur mootstendur, i þvi Starfe, er þeir a Hende hafa, hañ er sama Doome undervorpeñ hiaa Gude. Hvad eru Meñ þa Yfervalldenu skylduger? Þad seiger oss Paulus, Rom. 13. Gialldeð øllum þad þier skylduger erud; Þeim Skatt er Skattur heyrer, þeim Toll er Tollur heyrer, þeim Otta er Otte heyrer, Þeim Heidur er Heidur heyrer. Tvent þad sijdara er ecke svo miøg Aboota vant, Jafnvel þoott ad Otte sa, er standa ætte af Valldstioorneñe hallde sumum Moñum lijtt aptur fraa vondum Verkum; Eñ utvortis Lotning og Virdingar faa Meñ noogar, þar er ei yfer ad klaga; þvi margur verdur til ad kyssa a þa Hondena, er hañ giarnañ villde af være, eñ þad sem gialldast a, er optast tregara hiaa morgum, ecke sijst vid þa sem oss eru af Gude skickader til ad vaka yfer Saalum vorum, af þvi þeir ecke hafa Sverded þad Lijkamlega i Hondunum; Eñ hvad þvi Andlega vidvijkur, þa hafa sumer Meñ svo briniad Samvitskur siinar med einu Staal-Hiarta, ad Sverd Andans, sem er Guds Ord, viñur ecke a hana, jafnvel þoott þad sie giort til þess, ad þreyngia sier i giegnum Bein og Merg; Og vil eg ecke faa mier þad til Orda, þoott Meñ sieu treger i Giolldunum, Gud giæfe þeirra Christelegum Amiñingum hlijdt være, þa mættu þeir hitt einkis akta, þvi DRotteñ er þeirra Hlutskipte. Eg vil aptur hverfa til þess, er eg strax um talade: Giefed Keysaranum hvad Keysarans er, seger Christur: Hañ talar hier sier i Lage um þær Skylldur, er Yfervalldenu gialldast eiga, og þetta er ecke Mañs edur Eingels, ecke nockurs Veralldlegs Konungs, helldur sialfs Guds Sonar Bod, þar fyrer, ad lijka svo sem sa Kongs Umbodsmadur, er tekur framar eñ hañs Herra hefur boded honum, hañ stelur, svo er og hiñ Þioofur i Guds Auglite, er dregur þad af Yfervalldenu, er þvi med Riettu byriar ad hafa, og sa er þad utelætur med illu Giede, hañ giorer Gialld sitt ad Synd og ad vondu Verke, þvi seger Paall, Rom. 13. Þar fyrer er einsætt Undergiefeñ ad vera, ecke alleina vegna

Reid-

Reideñar, helldur og Samvitskuñar vegna, hañ meinar Konungsins Reide, hver ed Salomon seger, Prov. 20. Ad sie eins og ungs Leons Øskur, helldur og Samvitskuñar vegna, þad er vegna Guds, sem þetta boded hefur, hverium vier erum i Hiortum og Samvitskum vorum Skulldbundner. Margur Ohlutvandur þeinker svo, og sumer kañske leife sier ad tala: Eg hefe eckert Gott af Valldstioorneñe, hun er ecke nema Almuganum til Pijngsla, þeir hafa miklar Alogur, Meñ sæta hørdum Refsingum af þeim, jafnvel fyrer smaar Saker. Heyr mier, Barn mitt; Jeg vil ecke tala um̃ Guds Bod i þessu, þar Postuleñ skipar ad Meñ skule vera sijnum Yferbodurum undergiefner, ecke einasta Froomum og Goodum, helldur og eineñ Hardrædum og Hreckvijsum, 1. Pet. 2. Og St. Paull skipar, 1. Tim. 2. Ad bidia fyrer Nerone Keysara, sem þo var Gudlaus Madur: Eñ seg mier, kañ eitt Haf-Skip ad fara Leid sijna fyrer utañ Stijre? En þa sijdur kañ Londum og Lijdum vel ad gæanga, þeim er eingeñ stijrer; Hver a ad straffa Synder og Leste? Hver a ad ressa Ogudlegum Skäalkum, þeim er Froomum og Meinlausum veita Yfergæang? Hver a ad dæma a mille Bloods og Bloods? Hver a ad skipa Riettindum Maña, svo hver hallde sijnu? Hver a ad giefa oss Log ad lifa epter? Hver a ad skicka oss Kieñendur og Predikara, til ad uppfræda oss til eilijfs Lijfs; Eñ varna vid Eilijfum Helvijtis Ellde? Hver a ad vernda oss fra Hernade og Aræasum Omilldra Maña, svo ad vier lifa meigum Hægu og Roosomu Lijferne med allre Gudrækne og Sidseme? 1. Tim. 2. Hver a allt þetta ad giora, ef þar er eckert Yfervalld? Gud vardveite sijna Christne fræa Omilldum Konungum, honum sieu og Eilijfar Packer fyrer þa stooru Naad, er hañ hefur oss giefed framar ollum Moñum i Heimenum. Eñ þad þore eg ad segia, betra er illt Yfervalld, eñ eckert, þvi hvar svo æastendur, þar er hvers Hond i moote odrum, þar er hver añars Bodull, þar er eingeñ Ohultur um̃ Lijf sitt, eingeñ um̃ Born nie Kviñur, eingeñ um̃ Eigur sijnar nie Atviñu, þar er eingeñ Sidseme, eingeñ Kiærleike, eingeñ Guds Otte, i einu Orde ad segia: Pad er halft Helvijte. Petta munu þeir Øvgar kalla, er lijda þykiast Alogur af Yfervalldenu, eñ eingeñ veit hvad ætt hefur fyrr eñ mist hefur: Øllum Moñum i Heimenum hefur þad ad Vege vorded, ad taka sier Hofdingia, þar sem Almeñingur hefur teked til ad stioorna. Illa gieck þad til a Dogum hiña Ogudlegu Israels Konunga, Jeroboams, Manassis, Achabs, og añarra: Po var þad eñ þa verr, þegar eingeñ var Doomare i Israel, og hver eiñ giorde þad rett þotte i hañs Augum, Jud. 17. Pa var valla nockur Guds Pecking i Israel; Pa giordu Benjamitar þa Hædung, er Sooleñ hefur aungva verre Yferskined, hveria Sodoma og Gomorra mættu skamast sijn vid ad heyra, þa slatrade Guds Foolk sijnum eigeñ Brædrum og Systrum, heille Ættkvijsl, morgum Pusundum Maña; Svo þar var ecke ein Kona epter i B. njamin, Og hvad vilium vier læangt leita, Vier hofum Epterdæmeñ hiaa oss, þegar þetta Vesæla Land flaut i sijnu eigeñ Bloode, æadur eñ Gud gaf oss Konung, svo ad eingeñ mætte Ohultur leggiast i Reckiu sijna, hversu ægiætlega leid oss þa? Hversu foor þa fram̃ i Lande voru? Mundu Meñ þa ecke Allshugar fegner verda ad

jaata Konunge, og gaanga under hañ, til ad hallda Lijfe og Limum, Fride og Frelse? Svo er þvi hattad, Br. M. Fyrer oss Syndugum Moñum, vier hliootum Lagaña Prælar ad vera, uppa þad vier kuñum Frelse ad hallda. Hver sem nu yfervegar allt þad Gooda, er vier hliootum af Valldstioorneñe, og under eins allt þad Jlla, er hun afstijrer; Hañ munde med betre Samvitsku og fwsare Huga giora Christi Bod; J þvi ad giefa Keysaranum hvad Keysarans er. Eñ ef nockrum þyker Valldstietteñ Ref-singa som, honum kañ eg eckert betra Raad eñ þad, er gefur St. Paall, Rom. 13. Segiande: Villtu ei Valldstioornena Ottast, þa gior hvad Gott er, og muntu Lofstijr af heñe hafa, þvi hun er Guds Pienare, þier til Gooda; Eñ ef þu giorer hvad illt er, þa vert Ottasleg eñ; Þvi hun er Guds Pienare, til Hegndar og Reide þeim sem illa giora: Og er svo wttalad uñ hid Fyrra.

Eñ hversu myked ad vier Gude skylduger sieum, þad kañ eingeñ Tunga wt ad skijra, hverke Eingla nie Maña, og hvi mun þad nockur Muñur faa wtsagt, þar sem ad aller Utvalder, aller Heilager i eylijfu Lijfe faa þad ecke fullgiort uñ alla Eylijfd? Eylijfa Tijd skal til þess hafa, ad prijsa hina eylijfu Giæsku, og Oendanlegar Allder, til ad Vegsama hañs Nafn, sem alldrei Enda tekur. Hversu meigum vier þa jaata med David: O! DRotteñ, miñe erum vier ollum þijnum Myskunsemdum: Samt hefur þo hin eylijfa Haatign boded ad vier prijsa skylldum þær Daasemder, er hañ giorer aa medal Mañaña Barna, ecke fyrer þvi, ad hañ þurfe vorrar Hroosunar vid, þvi hañ er Gud Blessadur uñ allar Allder: Helldur ad Jhugan hañs Velgiorninga meige verda oss til Sidbota og Saaluhiaalpar. Vier heyrdum Fyrra Suñudag talad uñ hiñ Vonda Pioon, sem var sijnum Herra 10000. Punda skyldugur; Munum vier ecke aller meiga sitia aa Beck med honum, þegar ad Skullda-Dogunum kiemur? Saal og Lijkama hefur Gud giefed oss, Til hvers? Ecke til ad brwka þad svo sem vier viliuni sialfer, helldur til ad þioona DRottne þar med: Lijkameñ er hiñ Oædre Partur vors Skapnadar, hañ hefur Guds Giæska lient oss til ad wtvega Atviñu vora, svo ad vier i Sveita vors Andlitis kuñum vors Brauds ad neyta, Gen. 3. Þo hefur hañ skiled sier Leigu hier af, þvi St. Paall seiger: Vited þier ecke, ad ydar Limer eru Mustere Heilags Anda sem i ydur er, hvern þier hafed af Gude, og þier erud ecke sialfs ydar Meñ: Hendurnar hefur hañ lient oss til ad brioota Voludum vort Braud, Fæturnar til ad gaanga fwslega i Guds Hws, Augun til ad upplypta þeim til Himens, hvadañ oss kiemur Hiaalpeñ, Eyruñ til ad heyra Guds Ord, og vardveita þau, Tunguna til ad lofa hañs Nafn; Eñ i ollu þessu hofum vier reifast vid hiñ Almaattuga, þad hefur geinged Andhælis fyrer oss, vier hofum lied vora Limu Syndeñe til Jbwdar, og laated hana drottna i vorum Daudlegum Lijkama, Rom. 6. Þar vier aattum ad liaa þa Riettlætenu til Verkfæra. Margur wtrietter Hendurnar til Raans og Pioosnadar, Til ad meida Holld sijns Naaunga, og ad hefna sialfur sijn, Eñ stela Hefndeñe fraa Gude; Svo laangt er fraa þvi, ad Meñ giefe Gude hvad Guds er, Fæturner eru næsta fimer, til ad hlaupa aa hiñ breida Veg, Auguñ eru Skaalkur, svo ad allur Lijkameñ

verde Skalkur, Grañskign til ad sia Bialkañ i sijns Broodurs-Auga, eñ ad Kvistenum i siælfum sier giæta þau ecke, Eyrun klæia epter þvi er þau heyra vilia, og eru opeñ vid Bulldre Veralldar þessarar, svo ad Guds Ord faa ecke Rwm i þeim, Tungañ temur sier skamarleg Ord og Fiblslegt Hial, sem Christnum hæfer ecke, Roog, Lijge, Bakmælge, og añad þvi uñ lijkt. Æ! oss Auma Meñ, hversu illa hofum vier þa Gude gollded hañs Hwsa-Leigu? Vited þier ecke, ad þier erud Kyrkia Guds? Seiger Postuleñ: Eñ hañ sem Guds Kyrkiu skiemer, þañ vill Gud skiema, seiger hañ, 1. Cor. 3. Eñ hvernig hofum vier ræktad Guds Hws, Brædur mijner? Pad ætte ad vera Bæna-Hws, eñ vier hofum giort þad ad Ræningia-Bæle. Eñ ef Gud skilur sier nu þvilijkañ Skatt af Lijkomum vorum; Mun hañ þa læta Sælena bwa Oleigis? Aungvañ Veigeñ, Peninguren er Judar sijndu DRottne, hañ var gollden fyrer Hofud hvert i ollu Roma Rijke, þar fyrer gallt og JEsus Skatteñ fyrer sig og Petur, er hañ spurde hañ ad, hvert Veralldleger Konungar tækiu Skatt af sijnum eigeñ, edur af Añarlegum, Matth. 17. Þar hañ ætte þo ecke Skatt ad giallda, þvi hañ var ecke einasta Kongboreñ, helldur Konungur ad Eylijfu; Svo æ og sierhver Eiñ af oss fyrer Sælu ad siæ, hun bijr i Leigu-Hwse, hun æ ecke einasta epter þad ad giallda, helldur og fyrer siælfa sig: Eñ hvad eigum vier þa ad giallda, Edur hver er Skattur hiñs Allra Hæsta? Þad giorer hañ siælfur bert, Ps. 50. Ecke et eg Kiot hiña sterku Uxaña, og ecke dreck eg Blood Hafraña, Offra DRottne Lofgiordeñe, og lwk hinum Allra Hæsta þijn Heit. Hver er sw Lofgiord, er Gud af oss heimter? Er þad noog ad kasta uppa hañ Kvediu siñe, med einu Psalm-Verse? Fiærre sie þvi, Þad heiter ad nalægiast hañ med Vorunum, eñ Hiartad er langt þar fræ. Gud verdur ecke med Mælge prijsadur þeirre er Heidingiar brwka, og meina sig fyrer hana ad Bænheyrast, Matth. 6. Helldur svo sem David, þar hañ seiger: Lof seig þu DRottne Ond mijn, og allt hvad i mier er hañs blessada Nafne. Ef vier vilium Gud ækalla i Anda og Sañleika, þa skal Syndareñ koma hræddur og skiælfande frañ fyrer hiñ Heilaga i Israel, hañ skal yfervega hañs Heilagleik, og siñ Overdugleik: Mergd siña Synda, og Fiolda hans Myskunsemda: Guds Poleñmæde, og sitt Toomlæte: Guds breñande Elsku til sijn, og sijna Eymd og Olucku, sem ecke gietur i Lijkama þessa Dauda elskad hañ af ollu Hiarta, og ollum Kroptum, er oss svo heitt elskade: Og þegar hañs Hiarta er af slijkre Hugraun bræddnad i honum sem añad Vax, þa skal hañ hroopa af Diwpenu til DRotteñs, eins og David: Mijnar Synder eru mier yfer Hofud geingnar, þær eru vordnar mier mykels til Ofþwng Byrde, og med Tollheimtu-Mañenum, Gud vertu mier Syndugum Lijknsamur; Eñ er þu svo giorer, þa mun Andeñ bidia fyrer þier, med Oumrædelegum Andvorpunum: Eñ hañ ed Hiortun Rañsakar, veit hver ad er Andans Meining, þvi hañ er epter Gude Medalgangare fyrer Heilaga, Rom. 8 Og er Gud svarar þier i Leyndum Hiarta þijns fyrer Heilagañ Anda, sa ed ber þijnum Anda Vitne uñ, ad þu siert Guds Barn, segiande: Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar: Þa Offra Gude Lofgiordeñe, og seig med JEsu Mood-

ur:

ur: Mijn Ønd miklar Drotteñ og miñ Ande gladdest i Gude Heilsugiafara mijnum: Þesser eru Kaalfar Vara vorra, er vier eigum Gude ad foornfæra, Os. 14. Pad er þad Offred sem fyrer honum gyllder, þvi Harmþrungeñ og Sundurknosadañ Anda mun hañ ecke fyrerlijta, Ps. 51. Hver eru þau Heiteñ, er vier eigum honum ad luka? Pad eru þau er vier hietum honum i Skijrneñe, þegar hañs Eingieteñ Sonur, hiñ Frijdaste medal Mañaña Barna, Trwlofade oss sier i Rꜳd og Myskunseme; Hver voru þau, þad vier jꜳtudum Gude Helga Trw, uppa hveria vier skijrder vorum, eñ afneitudum Fiandanum og ollu hañs Athæfe; Hver er þa Heilog Trw? Ecke sw alleina sem þecker Gud ad vera, hvad einig giora Dioflarner, og skielfast þar af, Jac. 2. Helldur hun, sem ad verkar fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. Hver ad er þoleñmoodur og goodgiarn, ecke Øfundsiukur, giorer eckert Illmañlega, ecke blæs hañ sig upp, er ecke Osidsamur, hañ leitar ei epter þvi sem hañs er, ei þunglyndur, hañ þeinker ei Illt, hañ fagnar ecke yfer Rꜳnglætenu, eñ samfagnar Sañleikanum, hañ umber allt, hañ trwer ollu, hañ vonar allt, hañ þoler allt, 1. Cor. 13. Pad er su Trw, er vier jꜳtudum Gude i Skijrneñe, er slijka Avexte af sier giefur, hverier sijdur meiga vid hana skilia, eñ Byrtañ vid Soolena. Eñ hvert er þa Andskotans Athæfe er vier neitudum? Pad eru Holldsins Verk, sem Paulus upptelur, Gal 5. Hoordoomur, Saurlijfe, Oh reinleike, Lausung, Skwrgooda-Dijrkun, Fiolkijnge, Fiandskapur, Prætur, Kapp, Reide, Prꜳttaner, Sundur-Þyckia, Flockadrꜳttur, og añad þeim lijkt: Þetta eigum vier ad lꜳta, eñ hitt ad giora, ef vier vilium giefa þad Gude sem Guds er, þvi svo seger DRotteñ fyrer Muñ Esaiæ, Cap. 1. Þvoed ydur, Hreinsed ydur, Taked ydar Illskubreitne fra mijnu Auglite, Lꜳted af Illu, eñ læred Gott ad giora, Komed sijdañ og eigunst Log vid; Þo ad ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa skulu þær verda hvijtar sm Snior, og þo þær sieu sem Purpure raudar, þa skulu þær verda hvijtar sem Ull. Þeir sem eru skyllder under nockurn Konung, þeim byriar ecke Einungis ad greida honum Skatta og Skylldur, helldur og ad strijda ꜳ moote hañs Ovinum; Nu er eingeñ þvilijkur Guds Ovinur sem Diofflueñ, þvi Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte samañ, 2. Cor. 6. Nu fyrst vier erum geingner Gude til Handa, þvi skylldum vier þa draga eitt Ok med Satan? Andskotans Taum dregur Hollded, eñ Guds Lide stijrer Andeñ; Lꜳtum oss i honum gꜳnga, svo munum vier ei fremia Holldsins Gyrnder, og J-klædunst Guds Herskrwda, svo ad vier gietum mootstaded Þrettum Dioffulsins, Eph. 6. Þa erum vier rietter Guds Þegnar. Eñ JEsus Christus sꜳ ed Hoggormsins Hofud hefur i sundur mared, og nidurbroted Helvijtaña Port, hañ virdest ad troda Diofuleñ under Fætur vora; Eñ giefe oss ad beriast goodre Barꜳttu, behallda Trwñe og goodre Samvitsku, þar til oss um sijder verdur assijdes logd Corona Riettlætesins, sem DRotteñ Gud virdest ad giefa oss ꜳ þeim Deige, þegar vier eigum ad giallda þa sijdurstu Skulld, og afhenda þad Gude hvad Guds er, sem er Saal og Lijf, hvert vier hofum ad Lꜳne, og ecke ad Eign þeiged. Þad
Bœnheyre Fader Myskunsemdaña, fyrer Son siñ
JEsum Christum, AMEN.

# Tuttugasta og Fioorda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 9. Cap.

Í Þañ Tijma. Þa ed JEsus talade þetta til þeirra: Sia þu, ad Høfdinge nockur gieck ad, og tilbad hañ, seigiande: Mijn Dootter er ny-sæalud, eñ þu kom og legg þijna Hond yfer hana, og mun hun lifa. Og JEsus stood upp, og fylgde hønum, og so hañs Læresveinar. Og sia þu, ad Kona, hvør ed haft hafde Bloodfall i Toolf Ar, gieck a Bak til vid hañ, og snerte Falld hañs Klædnadar. Þvi hun sagde med siælfre sier: Ef ad eg mætte ad eins snerta hañs Klædnad, munde eg Heilbrygd verda. Eñ JEsus snerest vid, leit til heñar, og sagde: Vertu Hughraust Dootter, þijn Trwa giørde þig Heilbrygda. Og a þeirre somu Stundu, vard Konañ Heilbrygd. Og þa ed JEsus kom iñ i Høfdingians Hws, og sæ þar Lwdur-Þeitara, og Bulldran Foolksins, Sagde hañ til þeirra: Vijked fra, þviad ecke er Stulkañ daud, helldur sefur hun. Og þeir dærudu hañ: Eñ sem Foolked var wtdrifed, gieck hañ þar iñ, og took uñ heñar Hond: Og Stulkañ stood upp. Og þetta Ryckte barst wt uñ allt þad sama Land.

## Exordium.

ÞAD eru merkeleg Ord, Sem Esajas Spæmadur skrifar i hañs Bookar 26. Cap. Og þañig hliooda: I Angisteñe vitiudu þeir þijn DRotteñ, Þeir wthelltu Audmiwkum Bænum, þegar þu typtader þa. Svo er hættad voru auma Hollde og Bloode, Christner Meñ, Ad þegar allt ad Oskum geingur, þa þecker þad a Stundum hverke Gud, nie siñ eigeñ Veikleika, og þoott vier siæum nærre Daglega a þeim, sem DRotteñ typtar, hversu ad Mañeskiañ er sier Onoog ũm alla Hlute, þegar hañ byrger fyrer heñe sitt Auglite, þa er þad eins og þad ecke kome vid oss, svo sem ad eiñ helldur eñ añar sie undañ þegeñ þeim Okostum, er Syndeñe fylgia, og Eliphas af Theman kallar ollum jafn vijsa, seigiande: Ad Madureñ fædest til Armæduñar, svo sem Neistarner af Gloodeñe flwge i Lopted upp: Eñ þoott ad þessu sie svo vared, þa sijnest svo sem ecke eige aller vid lijkañ Kost ad bwa, þar nockrer bada i Roosum, og vita ecke af millum Mootgænge ad seigia: Hiner þiæst alla Æfe sijna, og siæ valla gladañ Dag: Eñ þad er Eptersioonar verdt, hvert ad hiña Kiør sieu betre eñ þessara, ef Meñ þad riett adgiæta: Ad vijsu sijnest þad svo fyrer Mañlegum Doome, añars er þad vijst, ad i Velgeingneñe er Mañenum hættast vid ad gleyma Gude, sem er hiñ stærsta Olucka, er Syndaranum kañ til ad falla. Þegar Israel vard fullur og feitur, þa giørdest hañ Lauslætur: Þegar Skeinkiare Pharaonis var aptur komeñ til Virdingar siñar, þeinkte hañ hverke a Joseph nie Myrkvastofuna, Gen. 40. Þegar Nebucadnezar virdte fyrer sier øll hañs Stoorvirke, er hañ hafde læted giøra i Babylon, þa upphafdest hañs Hiarta, þar til Gud straffade hañ, og liet hañ eta Gras med Villu-Dijrum, Dan. 4. Þegar Baltazar sat ad Dryckiu, og wt af Ofmetnade liet saurga Kiereñ, sem brwkud høfdu vered til Þioonustuñar i Guds Hwse, þa vard hañ rekeñ fra Rijke og Lijfe, Dan. 5. Þegar Herodes Kongungur metnadest i sijnu Hiarta af Velgeingneñe, og gaf ecke Gude Dijrdena,

ena, þa vard hañ fleigeñ af Eingle DRottens, og doo vesølum Dauda. Eñ svo ad Guds-Born ei rate i þvilijkañ Saalar-Haaska, þa leggur hiñ goode Gud þeim sijns Sonar Kross a Herdar: Eg þore ad seigia, ad DRotteñ hefur i sijnu Naadar-Rijke meira wtriett med hønum einum, eñ med ollu sijnu Epterlæte. A medal añara høfum vier Tvø Dæme þar uppaa i þessu Heilaga Evangelio, Samkundu Høfdingians Jairi, og hiñar Bloodfallssiwku Kviñu, og af baadum þeim hversu ad Trweñ reyniſt og ebliſt i Krossburdenum, svo sem Gulled hreinsast i Ofnenum, 1. Pet. 1. Vier vilium i Drottens Nafne Hugleida. 1. Jairi Dæme. 2. Hiñar Bloodfallssiwku.

O! þu goode Gud, Vert oss Naalægur med Fulltinge þijns Anda, J JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

SJaa Pu Ad Høfdinge Nockur Gieck Ad Og Tilbad Hañ seiger i Gudspiallenu: Lucas og Marcus seigia hañ hafe vered Samkundu Høfdinge: Kañ ske hañ hafe hverttveggia vered, þvi Gydingar høfdu Hofuds-Meñ i hverre Ættkvijsl, og þar ad auke høfdu þeir Forstødu-Meñ i þeirra Samkundum; Hvernig sem þetta hefur vered aa sig komed, þa hefur hañ þo Mykelsmeteñ vered medal Gydinga, eñ Lijkinde er, ad hañ mune ecke hafa matt JEsum mikels, aadur eñ Naudeñ þrijste honum til þess. JEsus hafde i heillt Ar kieñt, predikad og giordt Kraptaverk i Capernaum, Eñ þess er ei gieted, ad Høfdinge þesse hafe feingest myked þar um, fyrr eñ hañs einka Dootter var adkomeñ Dauda. Pad maa og allvijda lesa i Gudspialls-Søgunum, ad þess hatt-ar Meñ hotudu JEsum framar og offsooktu; Eñ ad þeir mundu leita Lids hiaa hønum i nockrum Hlut, og þar fyrer søgdu Gydingar fordum Daga, er þeirra Sendemeñ komu aptur, og søgdu um Drotteñ, Joh. 7. Alldrei hefur nockur Madur talad svo sem þesse, þa svorudu þeir, sege eg; Hvert erud þier og villter, Trwer nockur af Høfdingiunum a hañ, edur af Phariſæunum. Ad eg faae mier þad ecke til Orda, ad Judar høfdu aalycktad, ad hver sem medkiende JEsum ad vera Christum, hañ skyllde bañsettur vera, og rækur fraa þeirra Samkundu, Joh. 9. Edur um þad tale, ad Samkundu Høfdingeñ reiddest hønum nærsta miøg, er hañ læknade Kviñuna a Sabbats Deige, þa er i 18 Ar hafde Ohraust vered, Luc. 13. Af hveriu ollu siaa maa, ad Guds Sonur hefur ecke Velþockadur vered hiaa þessslags Foolke, eñ ecke ad sijdur rak Neydeñ þeñañ Mañ til ad falla Jesu til Foota med Audmiukre Bæn, svo sem bæde Lucas og Marcus skrifa, svo þad rættest a hønum, sem David um sig skrifar, Ps. 18. Pegar eg kveliunst, þa aakalla eg Drotteñ, og hroopa til Guds mijns, þa Bænheyrer hañ mijna Raust, af sijnu Mustere. Eñ þu Christeñ Madur, sem þetta heyrer; Tak þetta Dæme þier til Vidvorunar, og Trw þiñe til Styrkingar ef aaliggur, þu hefur maaske ecke hyrdt svo um ad leita ad Jesu a medañ þier vel gieck; A medañ Pu varst a Bloome þiñar Æsku, þad kañ vel vera, ad Synder þijns Ungdooms hafe vered margar: Hafe nu Drotteñ vitiad þijn med Krossenum, þa kañast þar vid, ad hañ bender þier til þess ad koma til sijn, sem ad er DRotteñ þiñ Læknare, hafe Gud ecke straffad þig med Lijkamans Ohreyste; Pa ransaka þo vel, hvert þu alheill siert. Pesse Høfdinge aatte Eina einka Doottur, sem aan alls Efa hefur vered hønum kiærare eñ øll hañs Aleiga: Pu aatt og fyrer eiñe Saalu ad siaa, Kostulegre Dijrgrip fiñur þu ecke i allre Verolldeñe, þvi hv-

ad

ad gagnar þad Mañenum, seger Endurlausnareñ, ad hañ eigneſt allañ Heim þeña, eñ lijde Tøpun a Saalu ſiñe, Matth. 16. Dijrmæt er hun, ecke einaſta þeſs vegna, ad hun er i Fyrſtu epter Guds Mynd ſkøpud, helldur hins añars laangtum framar, ad hun er med Guds Bloode Endurkeypt; Giæt ad hvert hun Heilbrygd er; Pier virdeſt ad ſvo ſie, af þvi þu kieñer þijn einkis Meins, og þijn Saala er ecke Orooleg i þier, ſvo ſem Davids var; Eñ trw mier til, Kiære, ad þau Saareñ eru ecke betre, ſem daud eru, helldur eñ hin, er ſvijda: Muntu þar fyrer hrauſtare vera þoott þu ſiert lijkur þeim er Jeremias ſeger? Cap. 5. Þu typtar þa DRotteñ; Eñ þeir fiña þar ecke til.

Ber Lijfernis Hættu þijna ſamañ vid Mæle-Snwru Guds Heilaga Løgmaals, hvert þu hefur elſkad DRotteñ Gud þiñ af allre Ondu þiñe, og ølln Hiarta þijnu, og øllu Hugſkote þijnu, og þiñ Naunga ſem ſiaalfañ þig, hvert þu gietur ſagt med hinum Rijka Yngling, ſem kom til JEſum, og villde faa ad vita hvad hañ giora ſkyllde, ſvo hañ mætte eignaſt eylijft Lijf, Matth. 19. Ad allt þetta hafer þu giort fraa Barndoome þijnum: Og vil eg nu ſleppa þeſſu, þviad eingeñ Maña hefur uñ Efe, Guds Løgmaal uppfylldt, nema hañ Eiñ, ſem bar vorar Synder, og alla Løgmaalſins Bølvan, ſiaalfur Syndlaus, Hreiñ, Heilagur, og fraaſkileñ Syndurunum, Heb. 7. Eñ ſeig mier, hefur þu hallded gløggvañ Reikningſkap vid ſiaalfañ þig hier uñ, ſvo þu hafer ydraſt Syndaña af Hiarta, og laated þier þær leidar verda? Hvert þu hefur lagt vid þijn rotteñ Saar og Andlegañ Hollds-Fwa, þañ Plaaſtur er alleina kañ ad græda, ſem er JEſu bleſſad Blood med Trwñe medteked af Læknarans Hende, og hvert þu ad Sijduſtu hefur af Alvøru kappkoſtad, ad betra þiñ Lifnad, hvert þu hefur ecke geinged Uñþeinkingarlauſt aptur til ſømu Synda, vellt þier i ſama Saur, og ſyndgad uppaa Nadena, og hvert hiñ ſijdare Dagureñ hefur bætt nockud uñ fyrer hinum fyrra. Reyned ydur, ſeiger Paulus, hvert ad þier erud i Trwñe, 2. Cor. 13. Giørum ſvo, vitum til hvad heitt vier elſkum Gud, þegar Holldſins Fijſn er odrumeigeñ: Hveria Trwar Alverte vier fiñum i Fare voru, hvert Guds Ande verkar i oſs fyrer ſaña Ydran, hvert vier erum ſvo tilbwner med vorn Reikningſkap, ad hveriu Kvøllde Dags, ad vier ſieum þar viſſer, ad þoott vier deyum, þa munum vier ſamt lifa, Joh. 11. Allt ſvo leinge ad vier ecke temium oſs þetta Hugarfar, þa þeinkia Meñ hid ſama, ſem Eingilleñ af Laodicea, Apoc. 3. Eg em Rijkur og Audugur noog og þarf Einkis vid, eñ þu veitſt ecke, ſeiger DRotteñ, ad þu Veſæll ert, Aumur og Voladur, Blindur og Fatlaus. Eg ræd þier, ad þu kauper Gull af mier, Gull þad i Ellde er reynt, ſvo þu Audugur verder, og J-klædeſt hvijtum Klædum, ſvo ad Vanvirda þiñar Fatleyſu ecke Openbereſt. Eñ nær vier hølldum Reikning vid ſiaalfa oſs, þa faaum vier ad þeckia, ad vorar Miſgiørder ſetur hiñ Alſkygne Gud frañe fyrer ſig, og vorar Ovitanlegar Synder frañe fyrer ſijnu Auglite, Pſ. 90. Hvad þa, Brædur mijner? Munu þa ecke uñ ſijder uppliwkaſt vor Augu, ſvo ad vier faaum ad ſiaa, ad allt Høfuded er ſiwkt, allt Hiartad er veikt, fraa Hvirfle og allt til Jlia er þar ecke nema Saar, Kaun, Beniar og Prote, Eſa. 1. Hvad er þa vor Saala betur aa ſig komeñ, eñ þeſſe Høfdingians Dootter, ſw er var

Daudvona, edur og Andvana Lijk, svo sem Matthæus skrifar: Stoor Naud þreingde Jairum til ad leita Christi; Eñ lætum oss ecke vera Næktar miñe vid Saaler vorar, eñ hañ var vid Doottur sijna: Eingeñ er Krossburdur meire, eñ sw Barætta, sem er æ millum Holldsins og Andans, Gal. 5. Og Tilfiñing Synda siña, med hverium vier hofum hiñ Naaduga Gud stygdañ, hun uppþurkade Davids Krapta, svo sem þa Hey þornar æ Sumre, hun lagde hañ i Daudans Dupt, hun hiellt Voku fyrer hañs Augum, þad hañ vard svo Mættlaus, ad hañ gat ecke talad, Ps. 77. Eñ hvad skulum vier þa Næds taka, Br. M? Hvad giorde Jairus? Hañ fiell til Foota JEsu, seiger Marcus, og bad hañ mykelega: Gior slijkt hid sama, Christeñ Madur, Ef þu villt ad þijn Saala heilbrygd verde, Audmijk þig under Vollduga Guds Hond: Eg jætade DRottne Synd mijna, seiger David, og þa fyrergafstu mier þad, þad var og satt, þvi under eins og hañ sagde: Syndgast hefe eg æ moote DRottne, Pa svarade Spæmadureñ Nathan honum: Svo hefur DRotteñ Synd þijna i burtu teked, 2. Sam. 12. JEsus rækte þad ecke vid þeña Samkundu-Hofdingia, þoott kañskie ad bæde hañ og hañs Lagsmeñ hefdu foracktad hañ meir eñ um eitt heillt Ar, þvi hañ visse ad hañs Saala var Angur full i honum, og villde þvi ecke leggia Sorg ofañ æ Sorg, helldur gieck hañ strax æ þa Leid, er hañ beidde hañ uñ: Hier ræteft þad sem Esajas uñ hañ spaær og Matth. 12. Jtrekar, seigiande: Hañ mun ecke deila og ecke kalla, og eingeñ mun æ Strætunum hañs Naust heyra; Eiñ brakadañ Reyr mun hañ ecke sundurbrioota, og eiñ Riwkanda Hor-Kveik ecke wtslockva, hins sama hefur þu ad vænta, Christeñ Madur, hver hellst þu ert, hiæ Gude er eckert Mañgreinar Allit, þegar þu med David kallar til DRotteñs æ þijnum Mootgangs-Tijma, þa þu upprietter þijna Hond æ Nættar-Pele og lætur ecke af, fyrer þvi ad þijn Saala vill ecke huggast læta, Ps. 77. Jæ, allra hellst þegar þu bidur uñ Fyrergiefning þiña Synda, þvi til þess er Guds Sonur i Heimeñ komeñ, ad hañ nidurbrioote Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. A medal hverra Syndeñ er hid versta. Edur meinar þu ad hañ, sem liet þad ad Bæn Jairi, ad uppvekia hañs Doottur, æn hvers hañ kuñe þo hoolpeñ ad verda, ad hañ mune neita þier uñ Kvittun þiña Synda, nær þu heñar Sorgfullur leitar, þar hañ veit ad þu kañt ecke æn heñar Sæluhiælpena ad erfa, eñ hañ er þo i Heimeñ komeñ til þess, ad kalla Synduga og ecke Riettlæta til Ydranar, Matth. 8. Og vill ad aller Meñ verde Sæluhoolpner og komest til Sañleiksins Vidurkieñingar, 1. Tim. 2. Af Hiartgrooeñe Medaumkvun og breñande Elsku til Syndugra Maña, hroopade JEsus fordum daga: Komed til mijn aller þier sem Erfided og Þunga þiæder erud, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Pvi kiemur þu þa ecke til Guds, hvers Synder ad eru yfer þitt Hofud geingnar, og þier mikels til Ofþung Byrde vordnar, þar þu veitst ad hañ svared hefur og sagt: A hverium heilst Tijma ad hiñ Ogudlege snijr sier fra sijnu Ogudlegu Athæfe; Svo sañarlega sem eg life, hañs Misgiorninga skal ecke ad Ei lijfu miñst verda, Ezech. 18. Slijka Hlute afrekar Umvondun Drottens hia syndugum Moñum, þa heñe er med audmiuku Hiarta teked, svo vier meigum jæta þad satt

ad vera sem Paulus til Hebræos seger, Cap. 12. Ad oll Typtan, medan hun aliggur, þyke oss hun Sorg og eingen Glede ad vera, en epteræ gefur hun Fridsamlegan Avoxt Riettlætesins. Jairus þesse, var ein Samkundu Hofdinge, æn Efa ein Skriftlærdur og uppfræddur i Moysis Logmaale, en i þvi finur han eckert Raad moote Daudanum, sem ei var Von, þvi Bookstafuren deyder en Anden lijfgar, 2. Cor. 3. Bæde han og hans Dotter hofdu syndgad a moote Logmaalenu, en Logmaaled skylldar þaa alla under Daudan, sem ecke upp fylla þad: Svo hofum og ecke vier synduger Men neinrar Hiaalpar ad vænta i Logmaalsins Verkum, þott vier sieum þau skyllduger ad giora, þvi Logmaaled er inkomed svo ad Synden yfergnæfde, seger Paulus, Rom. 5. Þad er, ad hun yrde uppviis, þvi æn þess mundum vier ei Syndena þeckia. Þad er ei anad en eitt Brijne, a hveriu Dauden hvesser sin Brodd, þar ed Synden er Broddur Daudans, en Kraptur Syndarenar er Logmaaled, seger Paulus, 1. Cor. 15. Þvi þad fordæmer þa sem hana dryga: Hvar hofum vier þa Lijfs ad leita? J Trwne a han sem Logmaaled hefur uppfyllt, Daudan sigrad, og bored Synder vorar uppa Tried, en fest þar Handskriftena þa sem moote oss var. En so sem Palmaviduren rietter sig upp under Þunganum, svo vex Trwen i Krossburdenum: Jeg skal ecke segia hversu Trwarsterkur ad Jairus hefur i Fyrstune vered, þad sijnest han hafe ecke meint, ad Jesus Guds Sonur være, helldur Spaamadur nockur, svo sem Elias, edur Elisæus, sæ ed kyne ad uppvekia Dauda eins og þeir, anars munde han ecke hafa meint, ad han þyrfte ad gaanga heim med sier, og leggia Hond yfer Dottur sijna: Hitt er vijst, ad hans Trw hefur ecke svo sterk vered, sem Kvinu þessarar, er hier um gietur, edur hinar Cananæisku, edur Hundrads-Hofdingians. O! min Herra JEsu, hversu naakvæmt er þijn Lyknar-Hond til ad Endurnæra hin riukanda Hor-Kveik, han liet sier þad ecke noog þykia, ad han Bænheyrde han svo fliott sem hin kune ad bidia, og geck strax af Stad, helldur a Vegenum styrkte han Trw hans med þvi allra dasamlegasta Kraptaverke, er han giorde vid Kvinuna: Ad sonu hefde Frelsaren kunad ad læta þetta Almættis verk leint vera eins og onur, er han banade ad bera ut, en þad villde han ecke: Hans Lijknar Hond er Friooffsom: Han giorde hier tvent i einu: Han læknade hina Raudstoddu og Faaraadu Konu, er allre Aleigu sine hafde forgiefens kostad uppa Læknara, og under eins styrkte han henar og Jairi Trw: Þvi trwed mier til, ad han hefur ecke forgiefens talad þesse Ord: Þijn Trwa giorde Þig Heila. Jæ, en þa framar, þegar Hws-Karlar Jairi runu i moote honum, svo sem Lucas og Marcus skrifa, og sogdu: Omaka ecke Meistaran; Þijn Dotter er sæalud, þa hefde honum maatt til Hugar koma, ad þad være wte, en Jesus slepte ecke sine Hende af honum, helldur sagde han: Ottast ecke, Trw þu alleina. Læt þetta Dæme vera þier jafnan fyrer Augum, Chr. M., þegar þijn Trwa tekur til ad veikiast i Mootgaangenum, og þier kiemur til Hugar med David, ad Gud hafe forgleymt Myskunsamur ad vera, Ps. 77. Siæ hier hvad trwr ad þin Lausnare er, ad han freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Þu megnar ecke hin allra minsta Trwar-Neista ad kveikia i þier, Guds Verk er þad,

er þad veik Trw, þa er þad þo Trw, Gud añ sijnum Giorninge, lætt siæ, ad þu allei-na ecke slockver hañ med Ofoleñmædeñe og Bænarleysenu, og vert svo vißum, ad hañ blæs siælfur ad þvi gloovande Kole, er hañ hefur lagt a Varer þijns Hiarta: Hañ liet ecke Petrum sockva, þo hañ være Trwarveikur, Matth. 14. Hañ leisde ecke ad hañs Læresveinar forgeingu; Þoott þeir væru Lijtil-Trwader, Luc. 8. Hañ uppvakte Lazar-um þoott Martha efadest uñ, ad hañ munde fyrr upprijsa, eñ a sijdasta Deige, Joh. 11. Og hversu opt ætalde hañ Læresveinana fyrer þeirra Trwarleyse; Svo ad þeir beiddu hañ, og sogdu: Herra, auk þu oß Trwna, samt ebldest Guds Kraptur svo med þeim, ad þeir urdu þeß Allshugar fegner, ad þeir mættu nioota þeirrar Æru, ad þo-la allar Hædungar hañs vegna. Jeg vil ei tala uñ þad mikla Myskunarverk, er Je-sus giorde vid hiñ Tunglsiwka, og Fodur hañs, er hañ sagde: Ef þu trwer, þa er Trwudum allt mogulegt; Eñ Fadereñ æpte Hæstofum og Tæradest miog, segiande: Jeg trwe Herra, eñ hiælpa þu Vantrw miñe: Og JEsus rak Dioffuleñ ut af hinum Tunglsiwka, Took i Hond hañs og reyste hañ upp, Marc. 9. Svo lææt þier nu og næg-iast DRottens Naad, Christeñ Madur, þott þier fiñest, ad þijn Trwa ecke sem sterk-ust sie, þvi hañs Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum, 2. Cor. 12. Og er þetta nu svo ut-talad uñ hid Fyrra.

Epterfylger ad tala med faam Ordum uñ þad Sijdara. Ecke miña Traust edur Hiælpar-Von stendur Christnum Mañe af þeirre Myskun, sem vor Frelsare giorde æ þeirre aumu Konu, er med Trw siñe þaade Heilbrygde af honum. Evsebius skrifar i hañs Christendooms-Sogu, og 7. Bookar 17. Cap. Ad hun hafe heideñ Mañeskia vered, kynind wr Cæsarea Philippi. Þier kyñe til Hugar ad koma, syndugur Mad-ur, ad Christur hafe ecke giora viliad þvilijk Stoormerke, nema medal sijns Foolks og Gydingaña: Eñ Dæme hiñar Cananæisku, Hundrads-Hofdingians, hiña Diofful-oodu i Gergeseaña Landamerkium, sijner allt añad; Og þvi skyllde hañ neita þeim Kraptaverkaña, hverium hañ hafde fyrerhugad Naad Evangelii, svo sem stendur hiæ Esa. 62. Ad DRotteñ mune framleida sitt Riettlæte og sijna Dijrd fyrer allar Þiod-er: Þu seiger, Gud giorer þo ecke Kraptaverk Maña æ medal æ þeßum Dogum: Eñ seig mier, hvert er Kraptaverk meira eñ þad, ad hañ hefur giort oß Abrahams Sonu af Steinum, þad er af Heidingium, þeim er Stocka og Steina dijrkudu, og voru þeim siælfer lijker: Þeße vesæla Kviña var þwngum Siwkdoome undervorpeñ, og Ohre-in kollud epter Logmælenu, hver hana snerte, skyllde Ohreiñ vera allañ Dag til Kvoll-ds; Eñ ecke skiede þad þar fyrer, ad Kviñurnar æ þeim Tijma væru meir Ohreinar i Guds Auglite, helldur eñ eiñ daudur Lijkame, hvern eingeñ mætte snerta, helldur svo sem þad var boded i Guds Logum, til ad teikna oß Andlega i Syndunum dauda, svo var og hitt til ad miña oß æ Spillingu Nætturu vorrar; Eñ þoott ad þeße fæ-rælda Mañeskia være svo æ sig komeñ, samt fyrerlijtur ecke JEsus hana: Allt er hrei-num hreint, Tit. 1. Svo var og honum, sem er Hreiñ og Heilagur, og fræskileñ Syndurunum: Þeße Kona var Ohrein epter Levitaña Logmæle, svo ad eingeñ mæ-

tte hana snerta, nie Klæde heñar; Eñ strax sem hun hañs Klæda-Falld snerte, er sialfur Levi Born hrein giorer, þa vard hun bæde hrein og heilbrygd. Tak þier þad til Huggunar, synduguг Madur, þegar Satan freistar þijn med Orvæntinguñe, kañ skie ecke fyrr eñ i þeim sijdurstu Andarslitrum, nær hañ er sem ækafastur, þvi hañ veit hañ hefur stuttañ Tijma. Þitt Riettlæte er svo sem Nidlags-Fat: Hvad munu þa vera þijnar Bloodugar Illgiorder? Eñ siæ, hier er opnadur eiñ Bruñur Davids Hwse, og þeim sem byggia til Jerusalem, til Hreinsunar Syndaranum og Bloodfallssiwkum: Þu ert Ohreiñ, svo sem Kona þesse, og eckert Ohreint mæ iñkoma i þa Himneska Jerusalem; Eñ hier er Blood JEsu, sem hreinsar þig af øllum þijnum Syndum, 1. Joh. 1. Þijnar Synder eru raudar sem Blood, Esa. 1. Eñ JEsus er fyrer sitt eiged Blood Einusiñe Jñgeingeñ i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadre Eylijfre Endurlausn, Heb. 9. Þar fyrer vill hañ giora þær hvijtar sem Snioo. Þu hefur eckert Gude ad lwka fyrer Syndena: Þesse Kviña hafde ecke helldur neitt ad giallda i Læknis-Laun, þvi hun hafde eidt þar til allre Eigu siñe, ad hun mætte heilbrygd verda, eñ soor þo jafnañ vesnande: JEsus æskte og aungra Launa af heñe, helldur sagde hañ: Vertu Hughraust Dootter, Þijn Trw Giorde Þig Heilbrygda. Hañ krefur og ecke Endurgiallds af þier, þvi hvad mæ Madureñ Gude giallda? Trw þu alleina þvi, ad hañ sie Forlijkun fyrer þijnar, og ecke einasta fyrer þijnar, helldur og fyrer allar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Og heyr þau Lijknarfullu Ord, er hañ talar, Esa. 55. Heyred, hver sem ad þyrstur er, kome til þessara Vatna, og hver sem eckert Gialld hefur, hañ kome og fæe fyrer eckert; Komed, seige eg, komed og kauped fyrer utañ Peninga, og utañ Andvyrde, bæde Vijn og Mioolk; Hvar fyrer læte þier ydar Peninga wte fyrer Matleysu, og ydar Erfide fyrer þañ Hlut sem ei kañ ad sedia. Kona þesse gieck Bak vid JEsum, hun var Ohrein, hun var Or-Fætæk, hun var ad øllu Leite aumlega æ sig komeñ, hun þorde ecke ad yrkia Orde æ hañ, og skamadest sijn ad bera sijna Kveinstafe fram fyrer slijkañ HErra: Æ! hvad mætte Syndareñ þeinkia, sæ er optlega hefur vellt sier i sama Saur, og eins og Hundureñ geinged aptur til Spijuñar; Mun hañ ecke fyrerverda sig, ad koma fram fyrer hañ, i hvers Auglite ad ecke eru Himnarner hreiner, fyrer hverium hiner Dijrdlegu Cherubim hylia sijn Andlite? Sañlega være þess meir eñ Von: Eñ fyrer JEsu Forþienustu Skulld, hvers Asioonu þeir hyrgdu, og hræktu i hañs Andlit, þa meigum vier med fullu Trauste gæanga til Nædar-Stoolsins, svo ad vier Myskun ødlunst, i hentugañ Tijma, Heb. 4. Þo skalltu vita, syndugur Madur, Skylldu þijna, þegar þu sem ert Molld og Aska, dyrfest ad tala vid DRotteñ, ad honum ber Dijrdeñ og Heidureñ, eñ þier ber Blygdan þijns Andlitis; Svo giorde þesse Kviña, þvi hlaut hun Myskun; Svo giordu hiner 10. Lijkþræu, þeir stoodu fiærre, þvi urdu þeir hreinsader; Svo giorde hin Bersynduga i Simons Phariseara Hwse, med hverium JEsus var ad Heimbode; Hun kraup Bak til vid hañs Fætur, og þvoode þæ med Tarum sijnum, og þerrade med sijnum Hærlockum, Kyste þæ, og smurde med Vidsmiore, eñ er Phariseus hneixladest þar æ i sijnu Hiarta, og

meinte

meinte þad være Ohæfa, ad slijkur Stoor-Syndare skyllde snerta hañ, sem Foolked hiellt Spaamañ ad vera, þa liet JEsus hañ sialfañ leggia Doomeñ aa, ad saa munde elska meir, sem meira uppgiefed være, eñ DRotteñ sagde til hañs; Af þvi hun elskade myked, þa eru heñar morgu Synder fyrergiefnar. Ad Sijdustu snerter Kona þesse hañs Klæda-Falld, epter þvi sem hun Raad fyrer giorde med sialfre sier; Nær þorde hun ecke ad gaanga, og er lijklegt, ad hun hafe ætlad ad dyliast, þar hañ stood midt i Mañ-Praungeñe, og munde heñar þvi ecke giæta. Margur hefur JEsum snorted i þessum Hopp, eñ eingeñ svo hart sem þesse Kona. Pad stendur skrifad um vorn HErra, ad þegar hañ saa Aumur aa nockrum, ad hañs Ydur hafe komest vid i honum af Medaumkan, svo hefur og hier vered, Hañ fañ Krapt wt af sier gaanga, hañs Fodurleg Giæska gat ecke leynt sier, Bruñur Myskuñareñar vall hier upp sialfskrafa, Og sialft Himnarijke þolde hier Ofrijke: Eñ laat þier þad af þessu til Hugar koma, Guds elskulegt Barn, ad JEsus Christur er uppfareñ yfer alla Himna, og er ecke framar med oss ad Lijkams Vistum, samt uppfyller þo hañs Klæda-Falldur þad heila Mustere, sem er Christeleg Kyrkia Guds hier aa Jorduñe, þar um spaaer Zacharias, Cap. 8. Pad skal skie aa þeim Dogum, ad Tiju Meñ af ollum Tungumaalum skulu þrijfa i Klæda-Falld Gydingsins, og seigia: Vier vilium fara med ydur, þvi vier heyrum ad Gud sie med ydur. Hvernig er hañ þa med siñe Kyrkiu hier aa Jorduñe? J Ordenu og Sacramentunum, þad eru hañs Klæde, þar er hañ ad fiña, þangad aattu ad þrijfa med Trwareñar Hende, þa ertu honum eins nærre, og eñ þa nær eñ þesse Kona, eñ allra hellst skalltu til þessa Raads taka, þegar oll oñur bila; Nær hiñ sijdarste Mootgaangur Daudeñ þier ad Hondum kiemur, og þijnar Lijkamlegar Hendur þreifa ei leingur; Haf þa svo fest þijna Trwar-Hond aa þessum JEsu Klæda-Fallde, um Raadar-Tijmañ, ad þu slepper honum alldrei fyrr eñ hañ blessar þig og mun i giegnum hañ ofañ flioota til Saalar þiñar Kraptur af Hædum, saa ed hana heilbrygda giøre af ollum Saalar og Lijfs Meinum: Eñ hañ sem eingañ vill fraa sier reka, er til hañs kiemur, hañ sem lofad hefur ad Bænheyra medañ þu ert ad bidia, hañ sem sialfur þreitte vid Daudañ, og took aakaflega ad bidia, og kañ þar fyrer ad sampijnast Eymdum þijnum, Hañ, seige eg, mun svara Saalu þiñe fyrer Heilagañ Anda, hver ed vitnar med þijnum Anda, ad þu siert Guds Barn: Vert Hughraust Mijn Dootter, Pijn Trwa Giorde Pig Hoolpna. Pad veite oss ollum Goodur Gud, Fyrer JEsum Christum, Amen.

# Tuttugasta og Fimta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth.. 24. Cap.

J Pañ Tijma. JEsus sagde til siña Læresveina: Nær ed þier siaaed Svijvirding Foreidsluñar (af hvørre sagt er fyrer Spaa-Mañeñ Daniel) standande i Helgum Stad. Hvør sem þad les, Hañ hygge þar ad. Hvørier þa eru a Gydinga-Lande, flije

þeir

þeir a Fiøll, Og hvør hañ er a Riaufre, Fare hañ eige ofañ nockud ad taka wr sijnu Hwse, Og hvør sem a Akre er, snwe hañ ei aptur, ad taka sijn Klæde. Eñ Vei Þwngudum og Briooſt-Mylkingum a þeim Døgum. Eñ bidied, ad ydar Flootte verde ecke uñ Vetur, og eige a Þvott-Deige. Þviad þa mun verda so stoor Hørmung, hvilijk ad eige var i fraa Upphafe Veralldareñar, allt til þessarar Stundar, og ei helldur mun verda. Og nema ad þesser Dagar verde stytter, Verdur eckert Holld Hoolped. Eñ fyrer Utvaldra Saker, þa skulu þeir styttast. Eñ ef nockur seiger þa til ydar, Siaaed, Hier er Christur eda þar, þa skulud þier ecke þvi trwa. Þviad þar munu upprijsa Fals-Christar og Fals-Spaameñ, og þeir munu giøra stoor Taakn og Undur, so ad i Villu munu leidast (ef skie mætte) eirneñ Utvalder. Siaaed, eg sagda ydur þad fyrer. Nu, ef þeir seigia til ydar, Siaaed, hañ er a Eydemørku, þa gaanged ecke wt. Siaaed, Hañ er i Laun-Kofum, þa trwed eige. Þviad lijka sem Ellding wtgeingur af Uppgaungu, og skijn allt til Nidurgaungu, Lijka so mun og vera Tilkoma Mañsins Sonar. Þviad hvar hellst ad Hræed er, Þaangad munu og Ernerner safnast.

## Exordium.

JESUS bijdur sijnum Læresveinum i þessu Gudspialle, ad þeir skule ei trwa, þoott ad þeim sagt verde: HJer EDur Þar Er CHRJSTur, Þvi Þar Munu UPPrijsa MArger FAls-Christar Og FAls-Spaameñ, Med ødru fleira sem Eptersylger, og i Gudspiallenu sier lijkast hermer. Allt rættest þetta strax epter hañs Daga, svo af þessu maa siaa, ad þad satt er sem Paulus uñ hañ seiger, Ad i hønum sieu hulder aller Fiaarsiooder Vitskuñar. Ecke einasta fundust þeir medal Gydinga, er sig giørdu ad Christe, Svo sem var Bar-Cocaba er Anno 130. safnade Ogriñe Her a moote Hadriano Keysara, og sagdest vera Stiarna sw, er Bileam uñ spaaer, Num. 24. helldur og medal þeirra er sig Christna kølludu, Svo sem var Simon hiñ Fiølkuñe, og Otal fleire, sem wt komu af hañs Skoola, og tøldu Foolkenu þa Trw, ad þeir væru Heimsins Endurlausnarar, giørdu og mørg følsk Kraptaverk, svo sem af fornum Christendooms Søguñ er alkuñugt; Vid þessum tekur JEsus Vara sijnum Læresveinum, og ecke einasta þeim, helldur og øllum þeim, sem hañ og hañs Kieñingar elska mundu, þvi svo sem hañ sagde i Bæneñe til sijns Himneska Fødurs: Eg bid ecke einasta fyrer þeim (hañ meinte Læresveinana) helldur og fyrer þeim, sem a mig trwa munu, fyrer þeirra Ord: Svo hefur hañ og þetta øllum þeim sagt, er Postuleg Kieñing bodud verdur, svo sem hañ og med berum Ordum seiger hiaa Marcum i 13. Capitula: Þad eg seige ydur, þad seige eg øllum, Vaked þier: Og fyrer þvi, ad Amiñing þesse heyrer og oss til, yfer hveria lijklegt er ad Heimsins Ender sie komeñ, Þa vil eg hana alleina med sijnum Lærdoomum Stuttlega yfervega.

Hvar til oss adstode goodur Gud med Krapte sijns Anda, J JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

ALLDrei kunnum vier Guds Fodurlegre Giæsku þar fyrer ad fullþacka, ad hann hefur Lande voru þyrmt fyrer Villum og Afgudadyrkun, hanns Nafn sie þar fyrer Lofad og Vegsamad umm Allder Allda. Samt mun þo ecke Satan laata ofs Hlutlausa, varne Guds millda Hond vid þvi, ad hann deyde Saaler Manna med Folskum Kienningum, þa leitar hann til med illum Dæmum, med vondum Fortolum, og Aeggian til Lasta og vondra Verka, med Toomlæte og Hyskne i þvi ad vijsa þeim Guds Gotu, sem hana ecke faa siaalfer ratad: Litlu skypter med hveriu mote ad Fiandenn og hanns Verkfære svijkia Daudlegra Manna Saaler vr Guds Hende. Jll Heimsins Epterdæme, sierdeilis þegar þau ecke stroffud eru, þau eru sterkare til ad draga Taum Andskotans, enn nockur Villu-Madur: Margur mun vera fyrer raanga Trw fordæmdur, og þo kannske ei færre fyrer illann Verknad; Þar fyrer seger og Endurlausnarenn. Vei þeim Manne, fyrer hvern ad Hneixlanenn kiemur, Matth. 18. Epterdæmed er ein Almenneleg Tunga, sem aller skilia. Þad var hallded Furduverk umm Mitridatem Konung i Ponto, ad hann hafde i Lide sijnu allrahanda Pioodez, og gat þo talad sinne Tungu vid hvern þeirra; Enn þad er stærra Furduverk, ad eitt Epterdæme talar þeigiande vid alla Menn, sem þad heyra, og þoott þad sie Hlioodlaust siaalft, giorer þad Þusund Tungur skijrt talande: Jll Dæme spilla bæde Vondum og Goodum: Vonda draga þau til Epterbreytne; Þvi hvad elskar sier lijkt. Þann Gooda til ad tala illa umm þann, sem þad af sier giefur, þvi faaer eru svo Raadsetter, ad ecke hallmæle þeim sem Jllt adhefst; Jafnvel þoott Verked byrie ad hata enn Mannenn elska, og Menn eige ad Lagfæra þad sem illa fer, enn lasta ecke, svo sem Paulus aaminner þa i Galatia, segiande, Cap. 6. Brædur; Ef nockur verdur yfersttijgenn af einhverre Hrosun, þier sem Andleger erud, Leidretted þann sama med hoogværum Anda. Þad er ad vijsu satt, ad eingenn er sa a medal vor, er kienne Villu neina; Enn hvert ad vier kunnum þar fyrer ad hroosa ofs af þvi, ad hin sanna Trw a Christum, fyrer hveria Menn Saaluhoolpner verda, hvert ad hun drottne i allra Manna Hiortum, þar umm mættu Menn Efast næsta miog. Endurlausnarenn seger umm Fals-Spaamennena, ad af þeirra Avoxtum skulu Menn þeckia þa: Og hid sama þore eg ad seigia umm þa, ed hroosa sier af Gudhrædslunne (Þad er af Christendoomenum, svo sem Paulus hann a stundum nefner) enn afneita þo hennar Krapte, 2. Tim. 3. Hver er þa christeleg Trw? Hun ed verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. Enn hverneg honum vared sie a þessum vestu og sijdustu Dogum; Þad finnur hver Eirn, þegar hann stijngur Hendenne i sinn eigenn Barm, og spyr sitt Hiarta ad, hversu fws ad hann sie at ad tilgiefa sijnum Naunga hanns Misgiorder: Hvad miked hann vill missa af sijnum Munum, til ad hiaalpa þeim Auma og Naudstadda: Hversu liufur hann er a ad afsaka sinn Broodur, tala vel umm hann, og færa alla Hlute til betre Vegar: Hversu Kostgiæfner ad Forelldrar og Hwsbændur eru i þvi, ad ala upp Born sijn og Hiw i Guds Otta og goodum Sidum: Med hveriu Skape ad Born og Pioonustu-Foolk hlijda Forelldrum og Hwbændum, edur hiner Undergiefnu þeim Yferbodnu: Allt ætla eg þetta fare i Olestre hiaa morgum Manne; Hver þad heyrer, hann hygge þar ad, edur

hver er þaa Christeñdoomureñ, er Meñ hroosa sier af, þegar Kiærleikañ vantar? Hver er ad er Saal Trwareñar; Svo sem Jacob seger; Ad hun sie daud aan Verkaña, Cap. 2. Hier stendur i Ondverdu Gudspiallenu: Nær þier Lijted Svivirding Foreydsluñar, Standande i Helgum Stad: Margar Getur eru a þvi, hvad þetta vered hafe: Nockrer meina þad hafe vered Bijlæte hins Romverska Keysara: Adrer neita þvi, og seigia þad hafe alldrei iñkomed i Jerusalems Mustere: Sumer ætla þad eckert añad sie, eñ Her Romveria, af þvi, ad þegar Lucas skrifar uñ þetta Efne, seger hañ: Þegar þier siaed Jerusalem umkrijngda med Herskyllde; Edur og svo Ralldar Flockur saa, er komu fyrer Eydeleggingunna braust iñ i Jerusalem, og saurgade Mustered med Morde, Mañdraapum, og allra handa Svijvirdingum: Þesser voru Gydinga Kyns, og kolludu sig Zelotas, þad er Vandlætara, og var þad Svijvirding noogu stoor, ad þeir settu uppa sig Nafn Gudlegrar Vandlætingar, sem Guds Mustere smaanudu og svijvirtu, verr eñ nockurn Tijma Heidingiar. Til eru þeir sem hyggia, ad þesse Svijvirding Foreydsluñar hafe vered Gull-Orneñ su, er Herodes Konungur liet setia uppa Mustered, til Ægiætis vid Rooma Rijke, hvers Merke ad Orneñ var, og hofdu Romveriar a þeim Atrwnad mikeñ, þess gietur Tacitus i siñar Añaala Bookar. Cap. 2. Er og all-lijklegt ad þad hafe nockud þesshaattar vered; Þvi Svijvirding Foreydsluñar, su er Daniel talar uñ, Cap. 11. Er aan alls Efa Bijlæte Skwrgodsins Juppiters, er Antiochus Epiphanes liet setia iñ i Guds Mustere, af hveriu raada maa, ad þesse, er Daniel uñ spaaer, Cap. 9. Og Endurlausnareñ hier uñ gietur, mune hiñe Fyrre a Einhvorn Haatt hafa lijk vered; Samt er allt þetta ad vijsu Ovijst, og þoott eg sege hier uñ Imsra Maña Meiningar, til Froodleiks þeim, er epter vilia taka; Þa vardar oss, Christna Meñ, nærsta lijted hier uñ; Eñ hitt byriade oss ad rañsaka hvert ad Svijvirding Foreydsluñar kyñe ecke eñ nu ad fiñast i Guds Kyrkiu, ef vel er leitad. I Jerusalem hafde Gud sett Miñing sijns Nafns Æfeñlega; Hin Lijkamlega er nidurbroteñ, Guds Reide-Stormur hefur heñe uñ Koll kastad, eñ hin And'ega mun verda hiaa oss til Enda Verralldar, Matth. 28. Eñ hvert heñe er alltijd svo hreiñe hallded, sem byriar, þar er vandlega adgiætande; Jeg sagde, ad i Jerusalem hefde Gud sett Miñing sijns Nafns, þar bioo hañ yfer Cherubim, eñ þad er ecke miñe Raad, ad hiñ Ædste Prestur hefur sagt til vor, Joh. 14. Hver sem elskar mig, hañ vardveiter mijn Ord, og miñ Fader mun elska hañ, til hañs munum vid koma, og Vistar-Veru hiaa honum giora. Eñ æ oss daudlega Meñ, under Syndena sellda, hversu lijtil er Miñing Guds Nafns hiaa oss, þegar vier metum alla Hlute framar hañs Dijrd? Hversu lijted af vorum Gagnsmunum, voru Lijkamans Epterlæte, vorum Virdingum, vilium vier aa stundum missa fyrer hañs Elsku? Hvad opt metum vier Bod Mañaña meir eñ Guds; og hrædunst meir þa ed Lijkamañ kuña ad deyda, eñ hañ, sem Lijfe og Saalu kañ ad kasta i eilijfañ Elld? Hvad opt giorum vier sialfa oss ad Gudum, er vier tilreiknum vora Hamingiu og Lucku-Laan Framsyne vorre og Erfidismunum, eñ giætum ecke ad þvi, ad nema Gud vakte Borgernar, þa vaka Vöku-Meñerner til forgiefens,

giefens, nema Gud bygge Hwsed, þa erfida þeir ed byggia til Onijtis? Ps. 127. Hvad lijtil er Minning hans Nafns hiaa oss, þegar vier vanbrwkum hans Heilaga Nafn, sverium og liwgum þar vid, Jaa, þyker þad eingen Synd vera, þvi þad sie Daglegt Maal? Jaa, margur selur JEsum fyrer minna enn Judas, saa ed leggur hans Nafn vid hinn allra minnsta Hiegooma: Hversu lijtil er Minning hans Nafns hiaa oss, þa vier foroktum hans Heilaga Ord, og fordunst þaangad ad koma, sem þad er um Hond haft? Hversu lijted minnunst vier þa aa hann, sem Mootmælenn þolde af Syndurunum, til ad openbera syndugum Monnum Lijfsins Veg? Þegar vier vilium ecke liaa vor Oumskorenn Eyru til ad heyra þad, sem þo er Kraptur Guds til Saaluhiaalpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. Menn sitia aa stundum under Heyrn Guds Orda, og vita ad Heilagur Ande er i Ordenu, og þad er eins og eitt Mustards-Korn, hvert ad er hid minnsta medal Saadanna, enn vex þo svo haatt, ad Fuglar Himensins bwa sier Hreidur i Greinum þess, Matth. 13. Samt vilia Menn ecke liaa þvi hid allra minnsta Rwm i Akre sijns Hiarta, hvar inne þad frioofgast meige og Avoxt færa. Svo sitia vorer Bwgardar, vor Akneyte og allra Handa Hiegoome Veralldarennar þar, sem hin Heilaga Guddoomsins Prenning ætte ad sitia, i sijnu Mustere, sem ad er vort Hiarta, 1. Cor. 3. Seiged mier i Guds Nafne, seiged mier; Er ecke þvilijkt Svijvirding Foreydslunar standande i Helgum Stad? JEsus hefur laated i sijna Kyrkiu hier aa Jordunne innsetia sitt Bijlæte, þad er Kiærleikurenn, þad er hans Mynd, þvi hann er Gud, og Lioome sijns Fodurs og Jmynd hans Guddoomlegrar Persoonu, Heb. 1. Enn Gud er Kiærleikurenn, 1. Joh. 4. Þetta sitt Bijlæte fieck hann i Hendur sijnum Elskulegum Læresveinum, er hann sagde, Joh. 13. Þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Læresveinar, ad þier elsked hver annann. Þessa Lijkneskiu JEsu settu þeir inn i hans Kyrkiu hier aa Jordunne, med allre Trw og Dygd, þvi skrifad er, Act. 2. Ad aller Hluter voru sameigenleiger med þeim Trwudu i Jerusalem; Þeir baaru Eigur sijnar framm fyrer Postulanna Fætur, til ad skipta þeim upp medal Naudþurftugra, og aller voru þeir i Eindrægne Andans: O! hvad Olijker þessum Tijmum; Þar Raan og Stulldur, Okur, Harddrægne, Raangsleitne i Kaupum og Solum, Myskunarleyse, Agg, Reide, Fiandskapur, Ofund og Drambseme þykia sumra Manna aa medal, annadhvert einger Okoster, edur og svo smaaer Lester ad vera: Er þad hans Bijlæte, sem svo heitt elskade oss, ad hann doo fyrer oss Raanglaata, þa vier vorum hans Oviner? Rom. 5. Er þad hans Lijking, sem ecke upplauk sijnum Munne, þegar honum var mootmællt, helldur enn Saudur til Slaatrunar leiddur? Esa. 53. Er þad hans Mynd, sem gieck i krijng, giorde Gott og grædde alla, Jaa, Allt giorde hann vel, þvi Daufa liet hann heyra, og Maallausa tala? O! Vei, O! Vei; Jeg þore ad seigia, þar er onnur Mynd innkomenn, ecke hins Romverska Keysara edur hans Merkes, helldur Andskotans og hans Merkes, sem er Syndenn, hveria ad Madurenn lætur drottna i sijnum Daudlegum Lijkama, og liær Limu sijna henne til Vopna: Þier erud af Fodurnum Fianda, og keitest vid ad fyrerkoma mier, seger JEsus vid Gydinga, Joh. 8. MEnn þeir ed eru Hardbriooslader, Asælner, Sierplægner,

ner, og ecke þyrma hañs Limum, Manu þeir ecke strijda under sama Merke og þeir ed hañ hotudu og af Lijfe tooku ? Edur hvad er þad sem Rausteñ af Himne sagde vid Paal, Act. 9. Er hañ foor med Hernade og Ofride til Damascum, a moote Guds Sofnude: Saul, Saul, þvi Offsæker þu mig? Edur þad sem Doomare Lifendra og Daudra vill seigia til hiña Gudlausu, þegar hañ kiemur i Skijum Himens med Magt og miklu Vellde, a hinum stræanga Dege alls Holldz: Hvad þier giordud Einum af þessum mijnum Miñstu Brædrum, þad giordud þier mier, Matth. 25. Andskoteñ kom i Orms lijke, þegar hañ sveik vora Fyrstu Moodur, þad var hañs Mynd; Eñ Christur nefner þa Eytur-Orma og Nodru Kyn, Matth. 23. Sem ad wtsiuga Hws Eckna og Fodurlausra; Þeir ed tijunda Mintu, Anis og Cumen, Hlute sem eckert var ispuñed; Eñ gleimdu þvi sem hellst er i Logmaalenu, Trwñe og Myskunsemeñe: Mun ecke þesse Hoggormsins Mynd Allvijda vera skrideñ iñ fyrer DRottens Altare, sem er Mañsins Hiarta? Þar Flaattskapur og Underhyggia spuñeñ samañ vid Agyrne og Fedraatt, og adra þvilijka Leste, þyker Framsyne ad vera, og Saa Vitfirringur, sem ecke kañ ad fleyta sier i þessu. Christur seger hier i Gudspiallenu; Ad Hauske þeirra Tijma, sem koma mune epter Jerusalems Eydeleggingu, mune svo mikell verda; Ad i Villu Mune Jafnvel leidast, ef ske kyñe, Utvallder; Og þad vegna Fals-Spaamañaña, þeirra er opudu epter Guds Almætte, og sviku margar Saaler fra honum: Svo skiedur og a þessum vondu Dogum alltijtt og allvijda, ad þeir sem añars mundu Froomer vera, þeim tekst þad ecke vegna hiña Raangsnunu og Hreckvijsu i Verollðeñe, um hveria Salomon talar, Prov. 1. Ad þeir sege: Kom med oss, vier vilium umsitia Blood; og hylia oss ad Osekiu fyrer hinum Meinlausa; Vier skulum eignast mikel Audæfe, og fylla vor Hws med Herfaung, legg Fe-Lag med oss, vier skulum aller eiñ Siood hafa. Einga argare Fals-Spaameñ þarf eñ þvilijka Belials Syne, og svo spillta Natturu vora, þvi hver Eiñ freistast þegar hañ af siñe eigeñ Gyrnd verdur tældur og afvega leiddur, þar epter Gyrndeñ, nær hun er friooffsom vordeñ, fæder hun Syndena, eñ þegar Syndeñ er giord, fæder hun Daudañ, seger Jacob. Cap. 1.

Drage eingeñ sialfañ sig a Taalar þar med, þoott ad slijker umgaangest med sama Hætte og adrer i Guds Christne; Þeir heyra Orded, eñ fæera ei Avoxt þar af, þeir brwka Sacramenteñ, eñ þo sier til Dooms-Afellis; Þeir seigia, Herra, Herra, eñ giora þo ecke Fodursins Vilia, þvi vill og Doomareñ til þeirra seigia a hinu mykla Allsheriar-Þijnge; Ecke þeckta eg ydur. JEsus seiger um Fals-Spaameñena, ad þeir kome i Sauda-Klædum, eñ iñra sieu þeir glepsande Vargar: Svo eru og þeir, ed locka Einfalldar Saaler fra Gude med vondum Fortolum: Þesser eru þeir er St. Judas umtalar i hañs Pistle seigiande: Þesser eru Bletter i ydar Kiærleiks-Veitslum, nær þeir hallda Samsæte med ydur: Fædande sialfa sig Hyggiulaust, Sky fyrer utañ Vatn, hveriu Vindureñ i krijng feyker, Rotnar Eykur og Avaxtarlausar, Tvisvar siñum daudar og upprættar; Og ef hañ Veg var hattad a hinum Fyrstu Christneñar Dogum, þegar ad Krapta-Verkeñ fylgdu eñ þa Kieñinguñe; Hvad mun ei nu vera,

ra, þar ad þvi mun lijda, ad Mañsins Sonur ecke fiñe Trw aa Jordu? Luc. 18. Og lijklegt er, ad þeir Tijmar nu yferstande, sem Roddeñ af Himne spaaer uñ, Apoc. 12. Vei ydur sem aa Jorduñe bwed og aa Sioonum, þvi Diøfulleñ er ofañ til ydar fareñ, hafande Bræde mykla, af þvi hañ veit hañ hefur stuttañ Tijma. Nu fyrer þvi, Christner Meñ, ad hier er slijkur Vode aa Ferdum, þa verdum vier af hinum Gooda Meistara aaminter i þessa Heilaga Dags Evangelio; Laatum oss ecke feikia af hverium Vinde Lærdoomsins, Eph. 4. Edur teigia med Hafgyu-Saung Veralldareñar i Snorur Diøfulsins. JEsus giører þad hier bert med skijrum Ordum, hvernig hañ og hañs Kieñingu þeckia meige fraa Aññarlegum Lærdoomum. Ef Þeir Seigia Hañ Sie A Eydemorku, stendur hier; Ad soñu kiende JEsus i Eydemorku, þo i margra Þusunda Aheyrn, Ecke i Laun-Kofum, þvi hañ talade eckert i Afkimum, helldur kiende hañ Opeñberlega i Musterenu, þar fyrer lijker hañ Tilkomu siñe vid Elldingu þa, er wt fer af Uppgaungu, eñ skijn allt til Nidurgaungu, hvad eg hygg ad ecke sie ad skilia uñ hañs Tilkomu til Doomsins, helldur uñ hañs Naadar-Tilkomu i Ordenu, og Leyptran Evangelii, hvers Byrta ad strax epter hañs Himna-For, og allra hellst epter Jerusalems Eydeleggingu upplijste mykeñ Part Veralldar fraa Austre til Vesturs; Og þad dreg eg þar af, ad hier talast ecke uñ Skiootleik Elldingareñar, helldur uñ heñar Byrte, og JEsus er hier uñ Kieñingar ad tala, eñ ecke uñ sijna Tilkomu til Doomsins, fyrr eñ sijdar i þessum sama Capitula. Uñ þessa Byrte Guds Evangelii og siñar Predikunar talar Paulus, 2. Cor. 4. Seigiande: Þar fyrer høfum vier affalad oss þau Fylsne, er Meñ meiga skamast sijn fyrer, Ecke gaangande med Underhyggiu edur falsande Guds Ord, helldur i Openberun Sañleikans, giørande oss i allra Maña Samvitskum Velþockada fyrer Gude; Þvi ef vort Evangelium er huled, þa er þad þeim huled sem tapader verda. Nu fyrst ad Guds Fodurleg Giæska hefur svo vijdt utbreidt Þeckingu sijns Nafns, svo þad Foolk sem sat i Myrkrunum hefur sied Lioos miked, Matth. 4. Og hun er eiñig til vor komeñ, sem bwum under þessu ytsta Heimsins Skaute, svo ad seigia aa Foot-Skør Veralldareñar, þa laat þiñ Foot vera fwsañ, Christeñ Madur, til ad gaunga i Guds Hws, þar sem hañs Ord er uñ Hond haft, og lijd ecke ad Saalu þijna velge vid þvi svo sem ødru Liettmete, þvi þad er Foodur heñar, aan hvers heñe mun med Eilijfu Hungre saalgad verda i Helvijte, hvar Fordæmder ecke faa munu, eiñ Dropa Vatns til ad kiæla Tungu sijna med, þar þeir kveliast i þeim Loga, Luc. 16. Hvar sem ad Hræed er, þaangad safnast Ernirner: Þetta talar Guds Sonur aan alls Efa uñ sialfañ sig. O! miñ Herra JEsu, þvi er svo adkveded þijnum blessada Lijkama? hvern ad jafnvel Einglarner og Hofud-Einglarner tigna: Fyrer hverium ad Kraptar Himnaña bifast: Fyrer hverium øll Verollden leikur aReideskiaalfe: J hverium ad bijr øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, Col. 2. Hañ verdur hier Hræ nefndur: Hvar fyrer er þetta sked, Christner Meñ? Jeg miñest a mijnar Synder a þessum Dege, sagde Skeinkiare Pharaonis fordum i Egyptalande, og þvi munde oss þa ecke ollu skylldara vera, ad miñast a vorar Jllgiørder, sem hafa Guds Son kvaldañ,

og Hertoga Dijrdareñar a Krosseñ festañ? Þvi sañlega bar hañ vorar Synder, og vorum Orkumslum hlood hañ a sig, Hegningeñ hefur a honum leiged, og fyrer hañs Beniar erum vier Heilbrygder vorder: Hañ er vorden hiñ Fyrerlitlegaste og Forsmaanarlegaste, Fullur Eymda og Kraankleika; Svo sem sa, ed hylde sitt Andlit fyrer oss, og þar var ekert a honum, sem vier viktum, Esa. 53. J einu Orde ad seigia: Hañ var svo sem eitt utkastad Hræ, svo sem Madkur og ecke Madur, fyrer vora Skulld, sem laaum i voru Bloode, utkastader a Vijdavangenum, og þar var ecke Eitt Auga sem Myskunade oss, þegar hañ sagde til vor, i voru Bloode, ad vier skylldum lifa, Ezech. 16. Eñ þeña Maalshaatt framsetur vor Drotteñ til þess, ad kieña sijnum Læresveinum, hvar hañ sie ad fiña, sem er, i hiñe soñu Christelegu Kyrkiu, er hañ hefur stiptad hier a Jorduñe, þar er hañs ad leita j Ordenu og Sacramentunum: Þaangad sækia aller hañs Elskendur; Svo sem Ernerner ad Hræenu. Ef eg verd upphafeñ fraa Jordu, þa mun eg draga alla til mijn sialfs, seger JEsus, Joh. 12. Hañ meinar aan alls Efa, þegar hañ yrde upphafeñ a Krossens Gaalga; Þvi Johañes skrifar; Ad hañ hafe sagt þetta, Teiknande med hverium Dauda hañ deya munde.

J þessum JEsu Dauda hafa allar Harmþrwngnar, allar Sañ-Ydrande Mañeskiur, allar þær sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, þær hafa þar, seige eg, Eitt Andlegt Foodur, ecke sijdur eñ Ernerner i Hræenu. Heilagur Johañes, sa ed þetta skrifar, um hvern og seigest, ad JEsus hafe hañ elskad, hañ verdur samlijktur Einum Erne, og þad þess vegna, ad hañ hefur med hañs Andlegum Skilninge svo haatt floged, ad eingeñ hefur svo greinelega talad um þañ Orañsakañlega Leyndardoom Guddoomsins Þreñingar, og Holldtekiuñar Christi, sem hañ i hañs Evangelii og Pistils Fyrstu Capitulum. Ein Riett-Christeñ Saala er eiñ sañur Christi Læresveiñ, hvern hañ elskar, heñar Umgeingne er a Himnum, hvar heñar Fiesioodur er, þar er heñar Hiarta, eñ heñar Fiesioodur er a Himnum, hverium ei kañ Molur nie Rid ad granda, Matth. 6. Hun flijgur upp i Hæder nar med Trwareñar Vængium, under hverrar Hlijdne hun giefur sijna Skilningu faangna, þar fiñur hun sitt Foodur, þvi hañs Holld er sañarleg Fæda, og hañs Blood sañarlegur Dryckur: Þetta sitt Holld og Blood gaf hañ sijnum elskulegum Læresveinum til Nautnar i Drotteñlegre Kvolldmaaltijd, skomu aadur eñ hañ Lijflaateñ var, og giordest svo sem eitt Hræ fyrer vorra Synda saker, þaangad safnast eñ nu i Dag, epter hañs Bode, Aller þeir sem Erfida og Þwnga eru þiaader, til ad Endurnæra Saaler sijnar og ad miñast Dauda DRottens, med hverium þeir forlijkter eru vid hiñ lifanda Gud, Hañ sedur þiñ Muñ med Giædum, og endurnyar þiñ Ungdoom, svo sem Arnareñar, seiger David, Ps. 103. Hverge skiedur þad helldur, eñ i Medtoku Christi Holldz og Bloodz, þa Madureñ þess neyter under eins med Trwareñar Muñe, og eiñ Harmþrwngeñ Ande smackar hvad sætur ad DRotteñ er, Þvi JEsus seiger: Eg er hid lifanda Braud, sem af Himnum ofañ kom: Ef nockur etur af þessu Braude, hañ skal eylijflega lifa: Eñ þad Braud, er eg gief, er mitt Holld, sem eg mun wtgiefa fyrer Lijf Veralldareñar, Joh. 6. Hañ meinar hier sa-

mt hina Andlegu Nautn, sem med Trwüe skiedur: Fyrer þvi seiger hañ aptur svo, Joh. 11. Eg em Upprisañ og Lijfed; Hver sem a mig trwer, þoott hañ sie daudur, þa skal hañ samt lifa: Ja, af þessare Andlegre Nautn, verda þeir himnesku Erner, sem eru Christnar Saaler Andlega Endurnijader, og alltijd ein nij Skiepna i Guds Auglite, þvi af heñe vidurkveikest Trwañ, af Trwüe kiemur Elskañ, af Elskuñe fædest Kiærleikureñ til Naungans, af hverium ad uppspretta allar Christelegar Dygder og Mañkoster: Þar fyrer seiger JEsus eñ þa, Joh 6. Sa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hañ bliifur i mier, og eg i hönum: Eñ sa Madur er bliifur i hönum, og hañ i Mañenum, hañ ber mykeñ Avöxt, Joh. 15. Eg hygg JEsus hafe teked þeña Ordshaatt af Jobs Bookar, Cap. 39. Þar ed DRotteñ seiger vid hañ um Örnena, hun biir i Klettunum og i Fiollunum, og i Turnunum, þadañ skygnest hun epter Ætum laangt a Leid med Augum sijnum; Heñar Ungar drecka Blooded, og hvar sem Hræeñ eru, þaangad flijter hun sier. Miñ HErra JEsu, hver er hañ, sem seiger, Cant. 2. Mijn Dwfa, þu sem i Biargskorunum biir, og i Fylsnum hiña þverhnijptu Klettaña; Sijn mier þitt Andlit, og laat mig heyra Raust þijna, þvi þijn Raust er fogur, og þijn Asynd Lysteleg: Ertu ei sialfur þad, miñ Herra JEsu? Hver er hin sæta Rausteñ? Þad er þad Lofed þu hefur hier tilreidt af Muñe Smaa-Barnaña, sem mylkia siñar Moodur-Brioost, og þiñar Uñustu. Hver er hin fagra Asynd? Þad er sw, sem þu oss afrekader, þegar þijn Asiaana vard afskræmd, meir eñ añarra Maña. Hver er þijn Dwfa, miñ HErra? Þad er þijn Christeleg Kyrkia, sem hier verdur i Evangelio Örn kollud. Hveriar eru Biargskorurnar? Þad eru þijnar blessadar Under, þu sem ert vort fasta Biarg, og Hella vors Hialpræðis. Hverier eru heñar Ungar? Þad eru þijn og heñar Born, þijn Born, sem DRotteñ hefur giefed þier, Es. 8. Og ecke epter Holldsins Villd, edur Mañsins Vilia, helldur epter Gude eru fædd, hverium þu hefur og Magt giefed Guds Bornum ad vera, Joh. 1. Hvert er þad Blooded, er þeir lepia? Þad er þitt Blood, O! JEsu, sem ad hreinsar oss af ollum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Hvert er þad Hræed, er þeir safnast ad? Þad er þiñ blessadur Lijkame, sem er sañarleg Fæda, Joh. 6. Og a Gaalgañ var fyrer vorar Illgiorder heingdur; Þaangad vilium vier safnast, þar vilium vier Sadning fiña Saalum vorum, þar vilium vier lifa og deya: I þessum Biarg-Skorum vilium vier hylia oss a hinum straanga Deige, medañ Reideñ fram hia geingur, og ecke seigia til Haalsaña, hylied oss, edur Fiallaña, hrinied yfer oss, þvi þu DRotteñ ert vor Kastale, vort orugt Vijge, vort fasta Biarg. Þier med Fodur og Heilogum Anda, sie Lof, Prijs, Heidur, Vegsemd og Æra, af ollum Utvoldum Einglum og Moñum, Sogd og Swngeñ, um Allder Allda, Amen, I JEsu Nafne Amen.

# Tuttugasta og Siötta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 11. Cap.

I Þañ Tijma. JEsus Andsvarade og sagde: Eg þacka þier Fader og DRottiñ Himens og Jardar, Ad þu dulder þetta fyrer Spekingum og Vitringum, og opeñberader þad Smælingium. Ad soñu Fader, Þviad þad var so Þægelegt fyrer þier. Aller Hluter eru mier i Valld giefner af mijnum Fødur. Og eingeñ þecker Soneñ nema Fadereñ, og eingeñ þecker Fødureñ nema Sonureñ, og hvørium Sonureñ vill þad opeñbera. Komed aller til mijn, þier sem Erfided, og Þwnga erud hladner, Eg skal Endurnæra ydur. Taked a ydur mitt Ok, og læred af mier, þviad eg em Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur, og munud þier fiña Hvijld Saalum ydrum, Þviad mitt Ok er sætt og mijn Byrde er liett.

## Exordium.

Valla trwe eg, ad nockur Huggunarsamlegre Grein fiñest i Heilagre Ritningu, Eñ þau Dijrmætu Ord Frelsarans, er standa i þessu Blessada Evangelio, med hvørium hañ hefur til siñar Nædar og Endurnæringar boded øllum þeim, sem Erfide drygia, og Þwnga eru þiaader. Hvad kañ sa Gledelegra ad heyra, sem allskins Eymdum hladeñ er, og einkis a Von nema eilijfra Pijsla, helldur eñ þad, ad hañ sem allt Valld er giefed a Himne og Jørdu, Matth. 28. Hañ bijdur til sijn ad fyrra Bragde svoddañ eiñe voladre og tapadre Mañeskiu, og ecke einasta bijdur heñe til sijn, helldur og lofar ad hañ vilie Endurnæra hana? Þetta er svo Dijrmætt Ord, ad eckert kañ Fagnadarsamra ad hugsast edur talast: Eñ hverier ad sieu meinter med þessum Lausnarans Ordum, þar uñ er ecke allra Meining eins. Sumer ætla ad DRotteñ hafe talad hier uñ þa sier i Lage, sem ad leitudu Saaluhiaalpareñar a þeim Døgum i Kyrkiu-Sida Løgmaalenu, i Fedraña Setningum, og i Verkum Løgmaalsins, eñ kuñu þo einga Hvild ad fiña Saalum sijnum þar af. Þesse Meining er Guds Orde Samhliooda, þvi Esajas Cap. 9. Kallar Løgmaaled Byrdar Þwnga. Adrer meina ad hier med sieu þeir meinter, sem under Krossenum stynia, og bera Christi Ok a Herdum sier, Eñ briota þo ecke Oked i sundur, edur Þverskallast a moote Gude, sem þad aaleggur. Ad Sijdustu ætla nockrer, ad þad sieu þeir, sem stynia under Byrde Syndaña, og skielfast fyrer Guds Reide og eilijfre Fyrerdæmingu. Nu fyrer þvi, ad hiñ Stoore Biskup med þa vellærdu Twngunna plagade a sijnum Hiervistar Døgum mikla og marga Hlute i faaum Ordum iñe ad binda, þa hygg eg ad allt þetta, sem aadur er uñ gieted, sie foolged i þessu Maale, Hañ bijdur øllum til sijn, þad er øllum þeim, sem a einhvørn Haatt eru mædder edur Þwnga þiaader, Jafnvel Ogudlegum, Ydrunnarlausum og Þverbrotnum, hverium hin mesta Byrde a Herdum liggur, þoott ei fiñe þeir til heñar, þar hañ er fyrer alla daaeñ, 2. Cor. 5. Og fyrer hveria hañ daaeñ er, þeim hefur hañ til sijn boded, þvi eingeñ vill hañ tapest, helldur ad aller komest til Sañleikans Vidurkieñingar, 1. Tim. 2. Eñ søkum þess, Nu er eingeñ sa medal vor, sem leite ad Saaluhiaalpeñe i Løgmaalsins Verkum edur Setningum, Eñ uñ Krossburd DRottens hefe eg nockrum Siñum aadur talad. Þa vil eg i þetta Siñ tala uñ þa, sem under Byrde Syndaña þreitter eru, og hvad þad sie hellst, sem oss eige ad leida til ad taka feigens Hende a moote þessu Naadarfulla Tilbode. Eñ þu Giæskurijke Fader, sem øllum hefur til þiñar Myskunar boded, Styrk oss med Krapte þijns Anda til þessa Verks, Fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Þott þar eckert añad være, sem kyñe ad hræra oss til ad fagna þessu Giæskurijka Bode, þa er þad vor eigeñ Synd: Hvor er svo Þyrstur, ad hañ verde ecke feigeñ ad drecka, Hwngradur ad mettast, Þreyttur ad hvijlast, Sioohrakeñ ad naa Hofneñe, Siwkur, ad hañ ecke giefe Aleigu sijna til, ad hañ meige heill verda, og saa ed i Faangelse situr, ad hañ kaupe ecke Lausn sijna dijrum Doomum? Eñ nu er þad audvitad, ad Mañeskiuñe a medañ hun er under Guds Reide, heñe er midur fared eñ ollum þessum. Eingeñ Þorste, Hungur, Erfide edur Siwkdoomur kañ ad jafnast vid þad, ad eiga Von a hañs Oblijdu, fyrer hvers Auglite ad skialfa Fiskar Siaafarens, og Fuglar Himensens, og Dijr Merkureñar, og oll Skridkvikinde a Jorduñe, og aller Meñ, sem a Jorduñe eru, Fiolleñ klofna, Biorgeñ hrynia, og aller Murvegger munu til Jardar falla, Ezech. 38. Eckert Haf-Root er svo sem Belials Becker, Ps. 18. Svo sem þau Votneñ, sem gaanga iñ ad Saalu eins aangraads Syndara, Ps. 69. Hver eru þau Bond og Fiotur, sem meige jafnast vid Myrkraña Hlecke, 2. Pet. 2. Vid þad Dijke sem vellur af Ellde og Breñesteine? Apoc. 21. Og kuñum vier ecke ad efast um, ad allt þetta er Syndaranum bwed, þegar vier lesum i Logmaale Drottens, Devt. 27. Ad saa skule Bolvadur vera sem ecke helldur allt þad sem þar er iñe skrifad: Seged mier þa, Born mijn, hvilijk Faasiña er þad, ad taka ecke a moote honum med allskonar Blijdu, sem Bijdur Moñunum ad giora þa kvitta vid Ofkop þesse? Hiaa hverium oll Verallsdareñar Ogiæfa, Hungur, Fatleyse, Banvænar Sootter, Orbyrgd, Utlegd, Offsookner, Ellds-Naud, Sverds-Eggiar, og jafnvel siaalf Fiorbroteñ i Daudanum; Þott allt þetta i Einu hladest a Eina Mañeskiu um allañ Heims Alldur, þa være þad, seige eg, hid mesta Epterlæte og Sæla hiaa hinum eilijfu Hormungum, er Syndeñ hefur tiluñed. Og være nu þetta Tilbod ecke svo mikels virdande, ef vier hefdum nockud til þess uñed, edur leitudum þess ad fyrra Bragde, þvi þad kyñe þa ad heita svo sem nockurskonar Verdkaup, svo sem ef eiñ Þienare giorer eitthvad þad, sem einum Hofdingia vel lijkar, ad hañ setur hañ vid sitt Bord, og sæmer hañ Giofum, jafnvel meir eñ hañ hafde tiluñed: David giorde vel vid Mephiboset, og liet hañ eta Mat vid sitt Bord, sokum Vinaattu siñar vid Jonathan Fodur hañs, 2. Sam. 9. Vidlijkt giorde hañ og vid Son Barzillai wr Gilehad, 1. Reg. 2. Eñ þvi er ecke til ad seigia hiaa oss; Eingeñ leitar ad Gude þegar hañ kiemur i þeña Heim, siaalfur bijdur hañ oss til siñar Endurnæringar i Skijrneñe: Þad maa um alla Meñ seigia, sem Ritningeñ seger um hina Vantrwudu Verolld, ad allt Holld hafe fordiarfad sijna Vegu, Gen. 6. Reideñar Born fædunst vier, Eph. 2. Reideñar Born mundum vier uppalast, og deya Reideñar Born, nema Gud fyrer JEsu Dauda hefde meire Myskun a oss giort. Eg heyre ecke i Gudspiallenu, ad þad Foolked sem var samañkomed ad heyra þessa Predikun, þad hafe leitad epter þessu Tilbode. Hañ Blessadur var i þessare Rædu ad straffa þær Ogudlegu Borger Corazin, Betzaida og Capernaum, i hverium giord voru flest hañs Kraptaverk, og er hañ sem mest aangradest af Mañaña Opacklæte, þa spratt upp þesse Lijknarfulla Vatns Æd af Bruñe Myskunareñar, og skulum vier ecke meina, ad hañ hafe þad

alleina

alleina talad til þess Foolksens, er þa nalægt var, helldur og til vor, sem Ord hans heyrum eñ nu i Dag. Dæmed þier nu sialfer, Brædur miner, Ef eiñ Naudstaddur og allskonar Eymdum hladeñ visse sier Hæle vijst, og villde þess ecke leita, jafnvel þoott ecke være honum þad boded, jafnvel þoott hañ mætte hafa stoora Eptergaungsmune þar fyrer, munde hañ ei Raadlaus hallden af ollum Moñum? O! Hvad tefur oss þa ad reña a moote vorum Brwdguma, er ad Fyrrabragde hefur oss Glæpa Moñum og Ovinum sijnum þessa dijru Heilsu-Giof frambodeð, og liett af oss þessu Oke? Þu seger kanske i Hiarta þijnu, eg fiñ ecke til þessarar Byrdar, vel fer um mig, og eg keñe mijn einkis Meins; Þetta er allt Offatt, hvad Gud Nade, fyndu Meñ til Meina siña, þa mundu fleire heilbrygder verda: Þu typtar þa Drotteñ og þeir fiña þar ecke til, sagde Jeremias, Cap. 5. Um Foolked i Jerusalem; Sama mæ eg segia um þa, sem Guds Heilaga Logmaals Reidar-Þrumur slaa um Eyrun, og þeir fiña þar ecke til, þott þar flinge eiñ Skruggu-Steiñ af Synai i hveriu Orde. O! Þu Vesæll Madur, giæt þo þess, ad betra er eitt miked Saar, ef þad er lifande, helldur eñ lijtel Skeina daud og fweñ; Betre voru allar Raanglætingar Tollheimtumañsens þegar þær voru jaatadar, helldur eñ allt Phariseærans Riettlæte, sem hañ stærde sig af, Luc. 18. Betre voru Synder hiñar Bersyndugu, sem þvoode JEsu Fætur i Taarum sijnum, helldur eñ Vandlæte Simons, er kallade þad Ogiorning, ad snerta hana, Luc. 7. Þu ert þier eingra Stoorglæpa medvitande, muntu þar fyrer vera Saklaus fyrer Gude? Veistu ecke ad Himnaña Himnar eru ecke hreiner i hans Auglite? Job. 15. Þvi muntu þa vera, sem Daglega syndgar, og viñur ei nema til Hegningar? Veistu ecke ad jafnvel hin minsta Synd steiper Mañenum i eilijfa Glotun, nema Sonur Guds hefde bætt fyrer hana? Ecke einasta hañ, sem giorer Stoormerkeñ af þvi sem bañad er i Logmaalenu, helldur og sa, sem ei giorer allt þad sem i þvi boded er, hañ er Bolvadur, Gal. 3. Muntu þa ecke vid Gud sekur vera; Þott ei veger þu Mañ, edur kreinker Egta-Kviñu þijns Naunga; Edur steler med Launung hans Femunum? Edur er þad forgiefens, sem hañ hefur sagt, Matth. 5. Hver sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hañ hefur allareidu drygt Hoor med heñe i sijnu Hiarta; Og hver sem reidest Broodur sijnum, hañ er Raads sekur?

O! Gud giæfe, ad Meñ væru svo Kostgiæfner i þvi, ad rañsaka sialfa sig, svo sem ad hnijsa um añars Hattsemi, þad er oss ecke svo forult ad giora, jafnvel þoott eckert sie oss Þarfara edur Naudsynlegra, til ad nalægast vorn Frelsara med Christelegre Ydran, þad er svo Omissande, ad ef vier vilium þad ecke giora, þa giorer hañ þad sem ad Hiortun og Nijrun Rañsakar: Þvi seiger hañ hiaa Zophon, 1. Cap. Þad skal ske aa þeim Deige, ad þegar eg Rañsaka Jerusalem med Lioose, ad eg skal straffa þa Meñ, sem eru samañgrooner vid þeirra Saurende; Ecke þess vegna, ad DRotteñ hafe Þorf ad Rañsaka vorar Hugreñingar, aller Hluter eru berer og nakter fyrer hans Augum, Ebr. 4. Helldur ad hañ auglijse Fatleyse vorrar Blygdunar, Apoc. 3. Nær vier hana ei sialfer þeckia vilium, og kasta vorum eigeñ Þreck i vorar Asioonur, svo sem

Malachias ad Orde kiemst, Cap. 2. Pegar vier vilium ecke þvo hañ af med Taarum vorrar Ydranar: Vite þvi aller Meñ, ad eingeñ er svo heilagur, ad ef hañ aa fram fyrer Gud ad koma, ad hañ ecke aa einhvern Haatt meige lietta af sier Byrde Syndaña; Eñ hverneñ maa hañ heñe aflietta, hafe hañ alldrei til heñar funded? Og svo leinge hañ ecke til heñar fiñur, svo leinge er hañ Gude og hañs Syne fiarlægur; Hañ er komeñ ad kalla Synduga og ecke Riettlaata til Ydrunar, Heiler hafa ecke Læknarans Þorf, Matth. 9. Guds Sonur er i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sem sundurmared er; Eñ hverneñ maa hañ þitt Hiarta lækna, ef þad er heillt, og þu fiñur til eingra Meina? Eg heyre hier i Gudspiallenu, ad hañ bijdur til sijn Ollum Þeim Sem Erfide Dryga, Og Þwnga Eru Þiaader, Þad er ollum þeim, sem eru sundurkramder af Megne Samvitskuñar, fyrer þeirra Afbrota Saker, hverier ed erfida i Taarunum, og væta uñ Nætur sijna Sæng med David, hverium Guds Hond er Of-þwng vordeñ, og þar er eingeñ Maattur i þeim fyrer hañs Ognan, Ps. 38. Og laangar svo epter DRottne aa Þurrlendenu, Ps. 63. Þessum bijdur JEsus til siñar Endurnæringar, eñ ecke þeim sem hroosa sier af þvi, ad þeir sieu ecke eins og adrer Meñ, Luc. 18. Ei helldur hinum, hverier þott ad þeir sieu hinum verstu og swlustu Klækium og Skomum hladner, þa fiña þeir ecke meira þar til eñ Kletttureñ; Þo Meñ legge heilañ Skips-Farm edur alldrei svo mykeñ Þwnga ofañ aa hañ, svo maattugur er Diofulleñ i þeirra Vantrw, Eph. 2. Þar fyrer, syndugur Madur, vilier þu niota þessa Tilbods, og allra hellst i heilagre DRottens Kvolldmaaltijd (hvar Endurnæringeñ er aan Mælingar frañboðeñ ollum Þreyttum og ollum Sorgbitnum) Vilier þu þessa Not hafa, seige eg, þa kvel Hiarta þitt med J-hugan þiña vondu Verka, og Guds heilaga Logmaals: Alldrei eru þau svo faa, ad ecke meige þau ofbiooda þier, nær þu hugleider þiñ Overdugleik og hañs Riettlæte. Tem þier slijkt Hugarfar, og slijt Hiarta þijnu med svoddañ Þaunkum Daglega, þa muntu braadlega erfida þig moodañ, og svo mykeñ Þwnga fiña, ad þu munt valla faa under rised, þa ertu og fyrst hæfur til ad taka a moote þessu Bode, þvi Giallds-Þeningureñ verdur ecke giefeñ þeim, sem Jllt adhafast, ei helldur þeim, sem eckert viña, helldur þeim, sem bera Hita og Þwnga Dagsens, Matth. 20. Þoott sumer bere hañ skiemur eñ sumer, og þoott i þeim Stad tale Frelsareñ uñ hid Eilijfa og Oforþienta Verdkaup aa Himnum, þa er þo sw Endurnæring, sem eitt Ydrande Guds Barn fiñur i Vitnisburde heilags Anda þar uñ, ad þad sie Guds Barn, hun er, seige eg, Þantur þeirrar eylijfu Endurnæringar, sem Johañes uñtalar i hañs Opeñberana Cap. 14. Þar hañ prijsar Sælu þeirra, sem i Drottne dauder eru, þvi þeir hvijlast edur endurnærast af Erfide sijnu, Jaa, ef þier svo giøred, Born mijn, þa mun ydur braadlega laanga epter Gude, svo sem Hiorteñ epter fersku Vatne, Ps. 42. David laangade eitt siñ i Bruñeñ i Betlehem, eñ þegar þeir færdu honum Vatned, þa villde hañ ei drecka, helldur wthellte þvi fyrer DRottne, 1. Paral. 12. Eñ þegar þier wthelled ydar Taarum fyrer Gude, sem Þecking Syndaña hefur kreist wt af ydar Augum, þa mun hañ Endurnæra ydur med þeim Himnesku Vatns-Straumum, sem fram

fliota

flioota af Stoole Guds og Lambsins, Apoc. 22. Hver sem þar af dreckur, hañ skal ecke smacka Daudañ ad eylijfu. Komum þvi til þessara Vatna, giegnum þessu Tilbode; Komum og kaupum fyrer alls eckert, bæde Vijn og Mioolk, Esa. 55. Og þoott ad Angist Syndaña kuñe ad þrijsta svo miøg ad Hiarta Syndarans, nær hañ stendur under Ransake Samvitskuñar, ad hañ telie sig Overdugañ Guds Nadar, þa giør ei þijnum Frelsara þañ Oriett, ad þu efer uñ hañs Guddoomlega Myskun, sem er eins stoor og hañ er sialfur, hversu sem þu ert hinum verstu Syndum hladeñ, ef þu ydrast af Hiarta, og lætur af þeim, hver sem þad efar, þad er eins og hañ vilde setia Christ af Tign siñe, þvi hañ er þess vegna Konungur vor Syndaraña, ad hañ hefur sigrad vora Ovine, eñ keypt oss Gude til Handa med sijnum Dauda. Seig mier, hvad skal sa hafa til ad bera, sem einum skal Myskuna, nema Mætteñ og Viliañ? Eñ uñ hvert-tveggia þetta tekur Drotteñ allañ Efa fra Syndaranum i þessu Heilaga Gudspialle. Fyrst seger hañ: Aller Hluter eru mier Ofurgiefner af mijnum Fodur: Þetta talar Christur epter Mañdoomenum, Þvi epter Guddoomenum er hañ Sialfrade allra Hluta, Fra Eilijfd til Eilijfdar, med Fodur og Heiløgum Anda: Eñ fyrst honum er allt Valld giefed bæde a Himne og Jordu, af honum sem þad alleina hefur, og sem alleina kañ ad fyrergiefa Syndernar, þvi skyllde hañ þa ecke kuña ad tilgiefa þier þijnar Synder, hversu sem þær liootar eru og Andstyggelegar, nær þu hatar þær, og villt af þeim lata? Hañ sagde Fordum þegar Judar hneixludust a þvi, ad hañ sagde vid hiñ Halfvisna; Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, hvert er liettara ad seigia, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, edur ad seigia, Statt upp og Gack? Matth. 9. Miñ HErra JEsu, meira kostade þig þad, ad Endurskapa mig af Andskotanum Vanskapadañ, helldur eñ ad skapa honum Heilsuna, sem þu hafder i Fyrstuñe i Moodur-Lijfe skapad, eñ fyrst þu fijnder med þessu Kraptaverke, ad Mañsins Sonur hefde Magt til, ad fyrergiefa Synder a Jordu, þa giet eg ecke efast uñ, ad þu kuñer mijnar Synder ad tilgiefa, hversu sem þær fwlar eru: Þu sem sagder til ens Halfvisna: Statt upp, tak Sæng þijna og gack i burt, Matth. 9. Eg veit og ad þu gietur hialpad mier med Nad þijns Anda, ad rijsa upp af þeim Syndaña-Bed, er eg svo leinge hefe sofed a, Gud er alleina sa, sem Dasemdarverkeñ giører, Ps. 72. Hañ er og sa alleina, sem tilgiefa ma Syndena: Hverttveggia giører þu hier, DRotteñ miñ, þvi giet eg ecke uñ Valld þitt efast; Eñ uñ Viliañ myklu sijdur, Þvi hañ seiger hier i Gudspiallenu: Komed Til Mijn Aller. Þa veit eg ad þetta Tilbod nær og til mijn, þoott eg være syndugre eñ aller Meñ; Þegar eg Erfida i Þeckingu og Jatningu Synda miña, i hverum þu miñ Frelsare hefur Erfidad, Esa. 43. Þegar eg var þiñ Ovinur, Rom. 5. Þvi þu seiger: Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided, og þegar eg stin under Þunganum, er þu barst miña vegna, þegar Hegningeñ la a þier, eñ eg vard Heilbrygdur fyrer Beniar þijnar, Esa. 53. Þvi þu seiger: Komed Til Mijn Sem Þwnga Erud Piader, Til hvers? Ecke til þess, ad skipa mier ad borga hiñ sijdarsta Pening, þvi Gud hefur fyrer þijna Skulld uppgiefed mier alla Skulldena: Ecke til þess, ad eg lwke þier

þa Handskriftena er þu hefur a Krossen̄ neglt, Col. 2. Helldur til þess, ad þu taker a moote mier fauraadre Man̄eskiu, svo sem Faderen̄ vid hinum auma Syne, er sin̄e Arfleifd sooad hafde, Luc. 15. Þvi vil eg Alls-Hugar feigen̄ koma; O! HErra JEsu, og þvo Fætur þijna med Taarum mijnum, og smyria þa med Angre mijns Hiarta og Elskun̄e til þijn, er mier hefur svo margar Synder tilgiefed, Luc. 7. Ef eg þess verdugur verda mætte fyrer þijna eigen̄ Forþienustu. Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided, seiger Brun̄ur Giæskun̄ar, Þetta mætte tilheyra jafnvel hinum allra-Heilögustu Mön̄um, Noe, Abraham, Job, Eliæ, Johan̄i Baptista, og jafnvel Guds Moodur sialfre, Svo Heilagur er Gud, Svo er han̄ Riettlaatur, ad han̄ maa ei lijda hid min̄sta Grand a Man̄eskiun̄e, aan fullkomens Endurgiallds fyrer Syndena, en̄ þad verdur ei golldet nema i Christi Forþienustu, og af hen̄e hafa Men̄ eingen̄ Not, utan̄ Men̄ ydrest Syndan̄a af Hiarta, En̄ ad ydrast Syndan̄a, kostar þan̄ alltijd nockurt Erfide, sem þecker Guds Haatign og sin̄ Veikleika, þar fyrer skulu han̄ aller Kvittunar bidia, Ps. 32. A þeim Tijma nær Reikninguren̄ skal halldast, fyrer þvi hrædest Job oll sijn Verk, En̄ ef han̄ hræddest þau og jafnvel hin bestu, þa mun þeim Guds Man̄e þoott hafa, ad han̄ þyrfte Ydranar vid, hver alldrei geingur Erfideslaust af, eige hun Gude ad lijka, Þar um̄ ber lioosast Vitne han̄s sijdarsta Jaatning fyrer honum, Cap. 42. Eg straffa sialfan̄ mig, og ydrast i Molld og Osku: Þetta sagde Job, um̄ hvern Gud vitnade a moote Satan, ad ei være han̄s Lijke i Landenu, ad han̄ være fullkomen̄, Riettvijs, Gudhræddur og fordadest þad Vonda, Job. 2. Hvar af Men̄ siaa, ad þad satt er, sem Paall seger: Ad allur Heimuren̄ sie fyrer Gude Sakfallen̄, Rom. 3. Og ad eingen̄ sie svo Heilagur, ad han̄ ecke Allshugar fegen̄ meige taka þessu Naudarfulla Lausnarans Tilbode; En̄ þar min̄ Herra seger: Komed til Mijn Aller þier sem Punga erud Piaader, þa kalla eg mier boded med þessare Gudlegu Raust, og ollum Stoorsyndurum, sem miken̄ Part Æfe sin̄ar hafa i Priooskun̄e og Glæpunum aled, en̄ fyrst han̄ hefur þad talad, hvers Blood ad hreinsar oss af ollum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Han̄ sem er Forlijkun fyrer allar Veralldaren̄ar Synder, 1. Joh. 1. J Krapte þeirrar Foornar, i hverre Gud forlijkade Heimen̄ vid sialfan̄ sig, 2. Cor. 5. Pa get eg ecke ætlad, ad han̄ sem alleina er San̄ordur, Rom. 3. Ad han̄ mune spyrna mier synduanm Orme i burt af Skor Foota sin̄a, nær eg þar ligg med san̄re Ydran, og fullum Asetninge til Yferbootar, þvi skyllde eg þa laata mijnar Illgiorder og bloodug Afbrot hindra mig fraa, ad taka þessu Giæskufulla Tilbode med hinum mesta Fognude mijns aangraada Hiarta? J þessu styrkia mig han̄s Blessud Fyrerheit, þar han̄ svared hefur, ad han̄ ei vilie Syndarans Dauda, helldur ad han̄ sune sier og life, Ezech. 33. Um̄ þetta taka allan̄ Efa fraa mier þau Dijrmætu Ord, er han̄ talad hefur, ad han̄ vilie eingan̄ fraa sier reka þan̄ sem til han̄s kiemur, Joh. 6. O! þvi skyllde eg vera þa svo Myskunarlaus vid sialfan̄ mig, ad eg ei skyllde leita han̄s Naadar, þar eg veit han̄ er svo Myskunsamur? Þad er kun̄ugt hversu ad Juda hafde reitt DRotten̄ til Reide, og hversu ad han̄ neyddest til ad reka þa wt wr þvi Landenu, er han̄ hafde gefed Fedrum þeirra; En̄ þegar han̄

hafde

hafde teked þa i Saatt aptur, þa seger hin eilijfa Giæska, Zach. 10. Eg skal Myskuna þeim, og þeir skulu vera eins og eg hefde þeim alldrei burtkastad; Svo laangt er fraa þvi, ad Gud tilreikne saññydrande Mañe drijgdar Synder, þegar hañ snijr sier til hañs af ollu Hiarta, og þoott svo meige tilbera, ad Drottiñ legge a þig Tijmanlega Refsing, Christeñ Madur, þu sem a JEsum trwer, fyrer undaññfarnar Synder, til þess ad þu ecke meiner þig Saklausañ ad vera, þa laat þier ei Hugfallast: Edur ætla ad hañ mune burtreka Eilijflega. Valla nockur Þiood i Heimenum hefur svo þungre Hegningu sætt af hañs Volldugre Hende, svo sem hañs Frumgieteñ Sonur Jsrael, Exod. 4. Uñ nockra Stund; Og þo seger Fader Myskunsemdaña, Jer. 31. Heyred þier Ord Drottens, O! þier Heidingiar, og kuñgiored þad i fiarlægum Londum, og seged, hañ ed sundurdreifde Jsrael, hañ samaññsafnar honum, og vardveiter hañ svo sem Hyrder Hiord sijna, þvi Drottiñ Endurleyser Jacob, og frelsar hañ af þess Hende sem er sterkare honum. Þacker sieu þier þu Dijrdareñar Konungur, ad þetta Fridar Bod er og komed til vor þiña Aumustu Vesælinga, sem bwum a Hala Veralldareñar, þvi vilium vier Allshugar fegner heyra hiñs Gooda Hyrders Raust, sem til sijn bijdur ollum þeim Sem Erfide Drygia, Og Þwnga Eru Þiaader. Hver er sa Þioon, ef hañ misbrijtur nockud vid siñ Laanar-Drottiñ, og hafe hañ nockra Æru Taug i sier, edur hyrde uñ Velferd sijna, ad ecke leite hañ Saatta til hañs aa alla Vegu, sierdeiles ef hañ aa Fyrergiefningar Von. Nu þoott vier aa hverre Stundu, hveriu Augnablike, styggium Drottiñ Himens og Jardar; Þvi skylldum vier þo ecke samt leita Forlijkunar hiaa honum, er vier vitum ad er svo audvelldur ad taka vid Syndurumum, ad hañ seiger, Zach. 1. Snwed aptur til mijn, og skal eg snwa mier til ydar. Hier þarf ecke Joab ad brwka Vijsdooms-Konuna af Thecoha til ad frida fyrer Absalon hiaa David, 2. Sam. 14. Ecke þarf hier Paulum til ad sætta Onesimum vid Philemonem, Philem. v. 10. Eñ hier er JEsus Christus Gud og Madur, Sa einaste Medalgaangare millum Guds og Maña, 1. Tim. 2. Hañ seiger i Krapte þess Umbods, er hañ hafde af hinum Allvallda Konunge, til ad sætta Mañkyned vid hañ og siaalfañ sig; Hañ seiger med fullum Myndugleika: Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided Og Þwnga Erud Þiaader, Eg Vil Endurnæra Ydur. Þad er eitt myked Fyrerheit, sem Gud giefur Jacob edur Jsraels Hwse, Jer. 30. Hañs Hofdinge skal af honum koma, og hañs DRottnare skal af honum framgaanga, hverium eg biooda mun ad hañ naalægest mig; Þvi hver er saa, sem þore ad losa sier i sijnu Hiarta, ad hañ vilie naalgast mig, seiger Drottiñ. Hver er saa Hofdinge? Þad ertu Dijrdareñar Konungur, JEsu Christe. Hver er saa DRottnareñ? Þad ertu Guds og Mariu Sonur, þu sem af Meyar Lijfe ert wtgeingeñ, af Lijfe Doottur Jacobs, jafnvel þoott þiñ Utgaangur sie þo fraa Eylijfu, Mich. 5. Hverium eg mun biooda til mijn ad koma, seiger DRotteñ, þvi skal hañ til þijn koma, O! HErra? Hañ sem er i þijnu Skaute fraa Upphafe Eylijfdareñar, Joh. 1. Og epter Mañdoomenum er hañ saa Madur sem þier nærstur er, Zach. 13. Vor vegna hefur hañ naalgast þig, O! Gud, sem fiarlæger vorum, laangt fraa þijnu Auglite,

og

og fra Vellde Diirdar þiñar, Eph. 2. Hverium kasta atte i hin ytstu Myrkur. Vor vegna er hañ hier nalægur vordeñ, svo sem Kieñemadur epter Skickan Melchizedechs, Hebr. 5. Iñgeingeñ i þad Allra Helgasta, i Himeneñ fram fyrer þig, med Eina Foorn, ad utvegadre eilijfre Endurlausn Ebr 9. Hver er sa, sem þyrde ad lofa i Hiarta sijnu, ad hañ villde naalgast þig? Hver villde taka sier þañ Heidur til? Eingeñ syndugra Maña. O! DRotteñ; Hvad munu Haalm-Straaeñ bwa vid eiñ fortærande Elld? Edur Riked vid Storineñ af Eydemorkuñe? Hvad Leyreñ vid Jarn-Spijruna? Hvad Vatns-Boolañ; Hvad Gufa Jardareñar vid Reydarslog Himensens? Hañ eiñ; Hañ eiñ ma þig nalægiast, fyrer hverium Troonarner og Magtarvollldeñ skialfa, og hañ tilbidia, Ebr. 1. Hver alleina i Himeneñ uppstijgur, Mañsens Sonur sem ofañ er stijgeñ af Himne, og þo a Himnum, Joh. 3. Og med hønum mun uppstijga aller þeir sem hañ hefur med sier dreged, þa hañ upphafeñ var, þad eru aller ydrande Syndarar; Aller þeir sem Erfida og Þwnga eru hladder; Ja, aller þeir sem trwa a Nafn Eingietens Sonar Guds, Act. 10. Eñ þess er ad giæta, Brædur mijner, ad þessu Naadarfulla Tilbode fylger Skilmaale nockur. Taked a ydur mitt Ok, og Læred af mier, þvi Eg Em Hoogvær, og af Hiarta Lijtelaatur. Eg vil nu i þetta Siñ ecke tala margt uñ Ok DRottens, er sier i Lage nefnest hañs Kross, og er iñefaled i Mootlætingum þessara Tijma, helldur vil eg tala uñ þad, sem hlijder þvi Efne, er eg i Ondverdu hoof uñ ad tala, sem i Tveim Hlutum er foolged; Þad er i Fyrstu ad plaaga Saalu sijna med Hræsneslausre Jaatningu og Tilfiñingu Syndareñar, hvar af Ydraneñ sprettur. Og i Añañ Mata, ad Krossfesta hiñ gamla Mañeñ, Rom. 6. Er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, Eph. 4. Þesse Krossburdur er Gude hvad kiærastur, og ef Mañeskiañ temde sier hañ Daglega, þa munde þad afstijra morgu Utvortis Mootlæte, jafnvel þo DRotteñ a Stundum virde sijna bestu Astvine med Teikne sijns Sonar.

Vier skomunst vor ad sonu, ad jata Synder vorar fyrer Moñunum: Vier dylium þær hvad mest vier kuñum, jafnvel fyrer þeim sem verre eru eñ vær (nema þeir sem Diøfulleñ hefur svo bared Sigg i, ad þeir hafa mist alla Tilfiñingu, svo þeir stæra sig af Glæpunum:) Og þad velldur þvi, ad Syndeñ er svo lioot, ad jafnvel marger þeir sem Ohlutvarder eru, hata hana og lasta a odrum; Eñ þvi munu Meñ vilia dylia hana fyrer Gude, eins og aller Hluter sieu ecke berer og nakter fyrer hønum? Ebr. 4 Eñ þetta giørum vier ecke einasta, nær vier ecke jatum Syndernar, helldur og nær vier ecke Rañsøkum þær; Leitum ecke epter þeim Smaasmuglega i iñstu Filsnum vors Hugskots, og ecke ydrunst þeirra af Hiarta, nær vier høfum funded þær. Eñ þvi dylium vier Siwkdoomeñ fyrer Læknaranum? Edur Þorsena og Vanmatteñ fyrer hønum, sem er alleina Rijkur? Þyrmer þu sialfum þier, þa mun hañ þier misþyrma, ef þu hylur, þa mun hañ opeñbera, þvi skyllde eg ei vilia angrast fyrer hønum, sem gledst af þessu Angre, og vill mier þad launa med Þusundfalldre Glede; Þvi eg vil Endurnæra ydur, seiger Lausnareñ: Þvi mun eg skyrrast vid ad jata Synder mijnar i Augsyn

heilagra

heilagra Eingla, þar meire Glede er i Himnenum yfer einum syndugum, sem Ydran giører, eñ yfer Niju og Nijutiju Riettlætum? Luc. 15. Meñ hafa alldrei heyrt, ad Gud hafe deilt Ill-Deilum vid eirn saññydrande Beſæling, eñ um hina seiger hañ, Jer. 2. Eg skal þrætta vid þig, af þvi þu seiger: Eg hefe ecke syndgast; Eñ hvar med þrættar hañ? Ecke med Ordum toomum, ecke med Overgmaals-Hlioode, svo sem Spæmadureñ ad Orde kiemst, helldur med Drepsoott og Mañdræpum, Ezech. 38. Og jafnvel med Ylfre og Tañagnijstrañ vid þa, sem ecke skipast vid þetta Nædar Tilbod. Þar fyrer, Brædur mijner, þess betur sem vier þeckium Guds Fodurlega Giæsku, i þvi, ad taka vid Syndaranum, nær hañ ydrast, og þess meire Hærska sem vier vitum oss þweñ vera, neina vier ydrunst: Þess helldur leggium allt Kapp a, ad bleita vor Hiörtu fyrer Gude, svo Heilagur Ande fare þar iñebued, æn hvers vier ecke getum til JEsum komest, svo sem vier medkieñum i vorre Trwarjætningu, og er þad ecke noog, ad ængrast fyrer Syndernar um Stundar saker, þad er eins og Elldur i Sinu Hlaupe, ad læta sier volgna nockra Stund um Hiartarœturnar, nema Ydraneñ verde oss svo sterk, ad vier hötum þær Syndernar, er oss ædur hafa hvad kiærastar vered. Hvad gagnade þad hinum Volldugu i Jerusalem, ad þeir gæfu lausa þræla sijna og Ambætter; Þegar Nebuchadnezar hafde lagst um Borgena, eñ hneptu þau aptur i Þrælddooni, nær hañ var burt vikeñ um Stundar saker? Jer. 34. Eins er þeirra Maña Ydran, sem græta Synder sijnar fyrer Gude, eñ hverfa þo aptur til hiña somu: Sodd- añ Ydran fordæmer Mañeñ meir, eñ affsakar; Þvi hun sijner þad, ad hañ hefur þeckt Syndena, og vill þo ecke af heñe læta. Drotteñ hefur kient syndugum Mañe eirn Skriftagæng hiæ Jeremiam. Hañ skyllde oss alldrei wr Miñe falla: Þier skulud hafa Leida a siælfum ydur fyrer ydar Ræungletinga Saker, og skamast ydar fyrer ydar Svijvirdingar, og blygdast fyrer ydar Vegu. Ef Meñ lietu sier þetta Hugfast vera, þa mundu þeir ecke læta sier þykia svo vænt um Syndena, ad þeir vellte sier i heñe aptur strax, sem þeir eru geingner fræ Prestsens Kniæun. Good Uppbyriun er þad ad soñu, ad ausa wt Hiarta sijnu fyrer Gude med Jætningu Syndaña, og ecke skiedur þad nema fyrer Verkan Heilags Anda: Eñ St. Paull æmiñer þa i Tessalonica, 1. Tess. 5. Ad þeir ei skule slockva Andañ, og mun hañ þad viliad hafa ollum sagt; Hrygged ecke Heilagañ Anda Guds; J hverium þier Jñsiglader erud til Dags Endurlausnareñar, seger hañ, Eph. 4. Hvar af audsært er, ad Madur kañ med Apturhvarfe til Syndareñar ad fæla Guds Anda fræ sier. Eins og Dufurnar flya Reikeñ; Svo flyr Guds Ande Syndsamlegar Huxaner, eñ þegar Heilagur Ande er burtvikeñ; Hvad liggur þa fyrer Vesælle Mañeskiu? Ecke añad eñ fyrer Saul Konunge, 1. Sam. 16. Ad þegar Gud took siñ Anda fræ honum; Þa þuste yfer hañ Guds vondur Ande, Jæ; Ecke añad eñ ad eiñ Ohreiñ Ande tekur Sio adra Anda sier verre, og hverfur aptur i Hws sitt hvadañ hañ kom; Og verdur svo þess Mañs hid Sijdara argara hinu Fyrra, Luc. 11. Jæ, þad kañ ad koma þar, ad sæ sem svo tijdt forsmæer Anda Nædareñar, Ebr. 10. Ad Gud verde honum svo reidur um sijder, ad hañ yfer-

giefe han̄ i fræleitt Sin̄e; Eins og Pæll talar um̄ Heidingiana, Rom. 1. Pad er Mælshættur Guds optlega i Ritninguñe, ad þegar Mañeskian̄ lætur sig ængra Syndena, þa vilie han̄ ydrast þess Illa, er han̄ hugde ad giora heñe; Eñ þesse Foðurleg Giæska Hins Myskunsama Guds, sem ætte ad draga oss til Ydrunar, hun ablar mørgum Dæra eñ meire Pverudar, so þeir hverfa aptur til Spijuñar, sem Petur ad Orde kiemst, 2. Pet. 2. Af þvi Gud hefur svo tijdt forlaated þeim Syndena; Eñ siæe þeir til, sem þañeñ hafa vaned sig til ad misbrwka Guds Poleñmæde, ad ecke verde þeim sagt eins og Jerusalem: Pu hefur yfergiefed mig; Pu ert a Bak aptur horfeñ, þar fyrer vil eg utrietta mijna Hond a moote þier, til ad farga þier; Eg em vordeñ þreittur af ad ydrast, Jer. 15. Gud giæfe, ad þeir sem einusiñe hafa smackad hid goода Guds Ord, og Krapt epterkomande Alldar, þeir villdu Hugleida hvad miklu yndælle er, jafnvel su Hrygd, sem ad er epter Gude, 2. Cor. 7. Helldur eñ allur Heimsins Munadur; Pegar han̄ geingur sem hædst, Pvi ef hid heidna Skallld seger, ad þar sie nockur Vellyst i þvi ad græta, hvad mun ei þeim þykia, sem Ande Fagnadarens þressar Tæreñ wt af Augunum. Taked a ydur mitt Ok, seger Frelsareñ hier i Gudspiallenu, þvi mitt Ok er sætt, og mijn Byrde er liett. Eg vil ecke i þetta Siñ tala svo eigenlega um̄ Kross-Byrde Drottens i Utvortis Mootlætingum, og þa Hugsvolun hins gooda Anda, sem heñe jafnan̄ fylger, helldur vil eg tala hier um̄ Deydingu Holldsens, og Krossfestingu hins gamla Adams, sem bijr i oss; Sege mier þeir, ed Einusiñe hafa kient a hvad sætur ad Drotteñ er, mun nockur Assverus i sijnu stoora Heimbode, Esth. 1. Mun nockur Baltazar i ollu sijnu Ohoofe, Dan. 5. Nockur Herodes i sijnum Hooru-Danse, Matth. 14. Nockur Benhadad i Herbwdum sijnum, 1. Reg. 20. Munu þeir, sege eg, una svo vel sijnum Hag; Svo sem Rett-trwads Mañs Sæla i Jatningu Synda siña fyrer Gude; Pegar Ande Drottens ber heñe Vitne um̄, ad hun sie Guds Barn? Rom. 8. Alldrei hefur hiñ gamle Madureñ svo mikel Um̄brot, ad ecke sie þad Yndæle þeim sem i Guds Herskrwda berst, Eph. 6. Ad sigra han̄, og han̄ gledst af Logmæle Drottens, seger Pæll, Rom. 7. Jafnvel þott han̄ siña þykest eitt añad Logmæl i sijnum Limum, sem Hertake han̄ under Syndareñar Logmæl: Ad soñu kuña hiner ad klædast Pelle og Purpura, og hafa kostulegt Bordhalld, Luc. 16. Margur mun sæ vera, er seger til Sælar siñar, þegar han̄ hefur alls Nægter misjafnt wtvegadar; Et og Dreck Sæla mijn, þvi þu hefur til margra Ara safnad, Luc. 12. Eñ alldrei kañ þetta ad jafnast vid þa Nædar-Mola, er detta af þvi Himneska Borde ofañ a Footskør Drottens, Matth. 15. Hvar vier synduger Ormar skrijdum og mænum i Himeneñ, epter hiñe eilijfu Hugsvolun, er Guds Ande heiter oss fyrer Pæls Muñ, ef vier berum Christi Ok med Poleñmæde. Læred af mier, Pviad Eg Em Hoogvær og af Hiarta Lijtelætur. Hvar fyrer? Hier um̄ talar Postuleñ, Heb. 5. Seigiande: Poott han̄ Sonur Guds være, þa hefur han̄ lært Hlijdneña, af þvi, sem han̄ lided hefur. Seged mier nu, þier sem erud Ættleidingar, og ecke Guds einka Syner, eins og han̄ var, munud þier nockurn Tima leggia þañ Kross a

hiñ

hiñ gamla Adam, ad ecke hafe Drotteñs Kroſs vered honum þyngre, ſem hañ bar a ſijnum Lijkama, ſamlijkur Holldenu Syndeñe undervorpnu, þegar hañ var af ollum yfergiefeñ; Og jafnvel af ſijnum Himneſka Fodur.? Marc. 15. O! hvilijk Mijnkun er nu þad, ad vier ſkylldum ei vilia vaka eina Stund med honum, til ad þiaa Saaler vorar med Chriſtelegre Ydran, og Deydingu vorra vondra Gyrnda; Þar hañ hefur lofad oſs ſijns Anda Hugſvolun, nær vier ſvo giorum. Taked a ydur mitt Ok, ſeger DRotteñ hier: Eñ hvad er Chriſti Ok? Þad er allt þad, ſem Meñ bera med Poleñmæde, hvert helldur þad kiemur fra Gude ſialfum, ſvo ſem eru Siukdoomar, Aſtvina-Miſſer, Skade ſa, er vier meinum ad kome ad Hendingu, edur añad þvilijkt, Ellegar hañ kiemur fra Moñunum; Svo ſem er Orettur, Forſmaan, Offookner, og þeſſhaattar; Edur og ad þad er Straff vorra eigeñ Synda, er vier ſialfer a oſs leggium i Ydranareñar Verke, og Baraattuñe moote Holldſens Gyrndum. Allt er þad ChriſtiOk, ef Meñ bera þad ſo ſem hañ ſkipad hefur, þvi eckert af þeſſu kañ ad henda oſs, ſem vier ecke forþienad hofum med Syndeñe edur añadhvert fyrer hañs Tilhlutan edur Tillaatſeme; Eñ ef vier koſtum Okenu i burt med Oleiſelegum Hætte, Jer. 2. þa verdur þad Heilſuſama Drottens Ok ad Dioſulſens Oke; Ef vier erum Opoleñmooder i Siukdoomenum, Moglunarſamer i Orbyrgdeñe, ef vier giolldum eiñ Orett med odrum, og bætum vorn Skada med Skada Naaungans; Þegar vier þañ Veg breitum, þa hofum vier eingrar Endurnæringar, eingrar Hugſvolunar ad vænta Saalum vorum, þa hverfur Sætleike ſa, er Chriſti Oke, og hañs Byrde fylger; Ja; Hvad meira er, ad þad Ok, ſem oſs verdur uppalagt fyrer Heimſku vorrar og Synda Saker, þad kuñum vier ad giora ad Drottens Oke; Ef vier berum þad med Hoogværd og Chriſtelegre Poleñmæde. David er oſs til Epterdæmes hier i: Eg Efaſt ei um, ad þad hefur geinged honum til Hiarta, þegar hañ var rekeñ fra Rijke af ſijnum eigeñ Syne, 2. Sam. 15. Og þegar Mord-Eingelleñ ſloo Foolked Sokum hañs Yferſioonar. 2. Sam. 24. Þo vañ hañ ſvo miked a med ſañre Ydran og Audmykt Hiarta ſijns, ad Gud leidde hañ heim aptur, med Sæmd og Heidre, 2. Sam 19. Og linade Plaagurnar, 2. Sam. 24. Laatum oſs þeſſe Dæme til Chriſtum leida, Audmijkium oſs under Vollduga Guds Hond, 1. Pet, 5. Vegeñ vitum vier, ſporum ecke ad gaanga hañ, tokum a oſs hid ſæta Ok Chriſti, og ſkiootum oſs ecke undañ hañs Byrde, ſvo vier meigum fiña eilijfa Endurnæring, eilijfa Hugſvolun Saalum vorum, og gaanga iñ til hañs Hvijldar. Þad veite oſs goodur Gud,
Fyrer ſijns Sonar Bleſſada Forþienuſtu, A M E N.

## Tuttugaſta og Siøunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudſpialled, Matth. 17. Cap.

A Þeim Tijma. Og Sex Døgum þar epter, Took JEſus med ſier Petrum og Jacobum, og Johañem Broodur hañs, og hafde þa Aſſijdis uppa haatt Fiall, og uñumyndadeſt fyr-

er þeim. Og Hans Asiaana skein sem Sool, En̄ hans Klæde urdu so biort sem Lioos. Og siaa, ad þeim byrtust þeir Moyses og Elias, og toludu vid han̄. En̄ Petur ansade og sagde til JEsu: HErra, hier er oss gott ad vera. Ef þu villt, þa viliu̅m vier giora hier Þriaar Tialldbwder, Þier Eina, Moyssi Eina, og Eliæ Eina. Og þa han̄ var þetta ad tala, Siaa, ad biart Sky um̄skygde þa. Og siaa, ad Rødden̄ wr Skyenu sagde: Þesse er Sonur min̄ Elskulegur, ad hverium mier Velþocknast, Hlijded þier honum. Og er Lærisveinarner heyrdu þad, Fiellu þeir fram̄ a sijnar Asiaaner, og urdu miøg hrædder. En̄ JEsus gieck til þeirra, Took a þeim, og sagde: Standed upp, og vered ei hrædder. En̄ þa þeir litu upp, saau þeir aungvan̄ nema JEsum alleinasta. Og er þeir geingu ofan̄ af Fiallenu, baud JEsus þeim, og sagde: Þier skulud aungvum þessa Sijn seigia, þar til ad Man̄sins Son er upp aptur risen̄ fraa Daudum.

## Exordium.

ÞEirra Guder eru Fiallan̄a Guder, Søgdu Fordum Þienarar Benhadads Syrlands Konungs, er þeir voru ellter af Jsraels Mon̄um: Graatlegt er til þess ad vita, hvernen̄ Satan hefur blindad Man̄eskiuna, ad Skynseme Holldsins smijdar sier svo Daarlega Þaanka um̄ Guds Haatign, svo sem ad han̄s Rijke sie ecke eins rijkt i øllum Attum han̄s Velldis, En̄ hvernig sem þvi er nu vared, þa siaa Men̄ þo, ad Gud hefur sig hvad mest opin̄berad Man̄kynenu a Fiøllunum: A Fiallenu Sina wtgaf han̄ sitt Løgmaal, Exod. 20. A þvi sama Fialle talade han̄ vid Eliam i Hellernum. A Fiallenu Moria talade Guds Sonur vid Abraham, er han̄ villde hafa offrad Gude Syne sijnum Jsaac, Gen. 22. A þvi Fialle stood Jerusalems Mustere, hvar Gud hafde sin̄ Elld og sin̄ Ofn, Esa. 31. Og maa sijnast, ad Gud hafe Teiknad med þessu; ad han̄ være hin̄ Allra Hærste, og bygge i Hædunum, svo ad Diøfullen̄ hefur og apad epter þessare Guds Dijrkan, eins og i mørgu ødru, og laated sier a Hædum þioona: Þad vitna þær Hædernar medal Guds Foolks, er han̄ svo miøg til Reide reittu, a hverium han̄ seiger, ad ei sien nema Þretter. En̄ i þessa Dags Evangelio heyrum vier hina allra Dijrdlegustu og Huggunarsømustu Opinberan, þar hin̄ Eingietne Sonur Fødursins, Jklæddur voru Hollde, Um̄myndadest Sijnelega fyrer Lærisveinunum a Fiallenu Helga, hvert ed hiner Gømlu Lærefedur Christnen̄ar hafa meint ad vera Fialled Tabor i Galilæa. Af Fiallenu Nebo i Moabs Lande sijnde DRotten̄ Moysi alla Fegurd og Giæde Canaans Lands, En̄ a þessu Fialle hefur han̄ sijnt Lærisveinunum, og øllum þeim er a Sonen̄ trwa fyrer þeirra Ord, in̄ i þad Himneska Canaan, er han̄ nefner sijna Hvijld, Hebr. 3. Og til frekara Vitnis þar um̄, þa vil eg kvedia ydur, Guds Børn, til ad gaanga Afsijdis med Christo og han̄s Lærisveinum, til ad Hugleida þessa Dijrdlegu Opinberan, J hverre Tven̄t er ad athuga, Sem er, 1. Sialfa Forklaarunena. 2. Vottana sem Naalæger voru. Drotten̄, vertu i Verke med oss, og Naad þijns Anda, fyrer JEsu Forþienustu, Amen.

## Utleggingen̄.

HAn̄ Um̄myndadest Fyrer Þeim, seiger Texten̄; Ecke er þad svo ad skilia, ad han̄s Man̄doomleg Nattura hafe um̄breytst ad nockurn Haatt, helldur Forklaaradest hun; Hin Dijrdlega Guddoomsins Fylling, sem i honum bioo, skaut wt Geislum sijnum

um i Mañlegu Hollde, ſvo þeir kyñu ad ſiaa hañs Dijrd, Dijrd ſvo ſem Eingietens Sonar af Fodurnum; Hañ afklæddeſt, ſvo ad ſeigia, Pioons-Myndeñe um Stund-arſaker, eñ ecke Natturuñe. Tak þad til Hugleidingar af þeſſu, Guds Barn, ad eidur eñ þu maatt ſamlijkur verda þeſſare Dijrdlegu Mynd þijns Frelſara, ſem hier um gietur, þa byriar þier ad umḿyndaſt epter hañs Mynd, ſem þig ſkapad hefur, þad er, Endurnyaſt i þijnu Hugſkote, þvi ſvo ſeiger Frelſareñ, nema þier umḿyndeſt, og gior-eſt ſvo ſem þetta Ung-Barn, þa kuñed þier ecke ad iñgaanga i Guds Rijke. Matthæ-us ſkijrer fraa þvi i Textanum, hvilijk ad vered hafe Forklaaran þeſſe, þar hañ ſeiger, Ad Hañs Aſiaana Hafe Skyned Sem Sool; Og ſkulum vier þo ecke ætla, ad Sool Riettlæteſins, Mal. 4. Hafe þo ecke øllu fegur ſkyned, eñ þeſſe er aa Himnenum lioo-mar; Þvi heñar Byrte kuñum vier aller ad ſtandaſt, eñ þegar Læreſveinunum gafſt Sijn þeſſe en mykla, þa ſkrifar Marcus, Cap. 9. Ad þeir hafe vorded Ottaſlegner, ſvo ad Petur viſſe ecke hvad hañ talade, ſvo ſem bæde hañ og Lucas Cap. 9. ſkrifa, helldur tekur Gudſpiallamadureñ Lijking af Sooluñe, þvi hañ hafde eckert biartara ad jafna vid, ſem Daudlegum ſkiliaſt kuñe, og ei ſkulum vier helldur meina þetta hafe vered ſu Dijrd, er Guds Sonur atte hiaa ſijnum Fodur, aadur eñ Grundvollur Veralldar-eñar var lagdur; Þvi jafnvel Utvallder ſkulu ſkijna eins og Sool i Rijke ſijns Fodur, Matth. 13. Eñ hvilijk ſu Byrte mune vera, er þar af audſært, ad vier ſkulum verda Einglunum jafner, hverra Siooner ad Daudleger Meñ þo valla ſtadeſt faa, þvi ſagde Manoha; Vid munum ſañlega deya, þvi vid hofum ſied Eingel DRottens; Og ſkulum vier þo vita, ad Dijrd og Haatign Guds Sonar yfergeingur ſvo myked Eingl-aña Dijrd, ſem hañ hefur þeim Ædra Nafn Odlaſt. Framar ſeiger Texteñ, Ad Ha-ñs Klæde Hafe Vorded Svo Biort Sem Lioos: Þegar Moyſes kom ofañ af Fiall-enu Sina med Logmaaled, þa ſkrifar Paulus, ad hañs Aſiaana hafe vered ſvo biort, ad Iſraels Syner hafe ei maatt lijta i giegn heñe, alleina af þvi, ad hañ hafde vid Gud tal-ad, og þo fieck Moyſes hana byrgt med Skijluñe, er hañ heingde fyrer ſitt Andlit; Eñ þetta yfergnæfer, hier faa ecke Klædeñ iñelukt þañ ſkiæra Guddoomſins Fegurdar-Liooma, ſem bioo i Chriſti Forklaarudu Hollde, helldur ſkein hun i giegnum, ſvo þau ur-du fogur eins og Lioos. O! miñ HErra JEſu, er þetta ſu Mynd, ſem ad hieck aa Kroſſenum, þegar þu giordeſt Bolvan fyrer mijnar Synder? Su ſem Eſajas um talar i 53. Capitula, ſeigiande: Þar er eingeñ Mynd edur Fegurd aa honum, og þeg-ar vier lijtum hañ, er þar eckert Alit, ſem vier girnunſt, hañ er forſmaadur og Mana Audvirdelegaſtur, hañ er plaagadur af Meinum, og Kraankdæmenu alvanur, og ſvo ſem eiñ Madur er byrger ſitt Andlit fyrer oſs, ſvo Foracktanlegur, ad vier virdum hañ Einkes? O! þu Saklauſa Guds Lamb, hvilijk voru nu þeſſe Umſkipte, DRotteñ miñ? Hvad vorum vier Synduger Ormar, ad þu Lioome Fodurſins Dijrdar ſkyllder ſvo bera vor Kraankdæme? Hvad þrijſte þier til þeſs, miñ Lauſnare, ad þu ſkyllder breyta þeſſare Dijrd i þa herfelegu Aſiaan, er Spaamadureñ talar um; Eckert añad eñ þijn Guddoomleg Elſka, þijn diupu Myſkunar-Ydur, i hverium þu vitiader vor

Upprunen af Hædum. En þu Guds Barn, sem heyrer þena Diirdlega Atburd, Tak þier hina mestu Huggun af honum, þegar Guds Fodurleg Giæska virder þig med siins Sonar Krosse, ad svo Diirdlegur sem han giordest hier fyrer Augum Læresveinana, svo Vegsamlegur og ollu Vegsamlegre muntu verda, nær þu ingeingur i þiins Herra Fognud, ef þu tekur hans Ok a þig, og fylger honum epter, þvi þessa hans Diird sau þeir Daudlegum Augum, svo sem bæde Petur og Johanes votta; En þad hefur ecke Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ecke hefur þad i nockurs Mans Hug edur Hiarta komed, hvad Gud hefur þeim tilbwed sem han elska: En Elskan til hans sest alldrei betur en i Mootlætenu, þar reyneft hun svo sem Gulled i Ofnenum, þar er sa Leik-Vollurenn, hvar ed hinar Andlegu Kiempur eiga ad siina Frækleik sin; Par er Skeid-Flotureñ, er aller þeir eiga ad hlaupa med Pæle, sem villa Hnossed odlast. Lucas einn hefur sagt oss þad, hvert ad vered hafe Jñtak þess Samtals, er þeir Moyses og Elias attu vid DRotten a Fiallenu Helga, sem var um þa Utfor, er han skyllde fullkomna i Jerusalem, þad er sw Burtfor til Fodursins, er hañ nefner hia Johanem i 16. Capitula, i þeirre Hiartnæmu Predikun, er hañ talade fyrer Læresveinunum under siina Piislar-Gaungu, þa ed han fullkomnade og batt fullañ Enda a þad, sem hans Fader hafde honum umboded. Ecke hefur þesse Siin edur þetta Samtal skied fyrer Christi Skulld, þvi sialfur visse hañ allt þad er yfer hañ atte ad koma; Sialfur þeckte hañ og Guddoomsins Hatign og Vegsemd, sem ad i honum bioo, helldur Postulana vegna, hverier ed siidañ mattu þola svo myklar Hormungar, Fiotur, Hwdstrokur, Offsooknir, Umsatur, Ja, Siita og Grata, þegar Heimurenn fagnade; og þad fyrer Christi Nafns Saker; svo ad alltiid nær þeir i Hormungunum mintust a þessa Diirdlegu Opinberan, skylldu þeir hafa þad þeir kyñu ad Endurnæra Hiarta sitt med, sem var ein Fullvissa um þvilijka Diird, er þeir sau nu fyrer Augum sier, og þvi er ecke ad undra, þoott ad þeir og þeirra Lagsmeñ geingu glader wt fra Radenu, nær þeir Hwdstrykter voru, Ja, ecke þoott ad S. Pall være vel til Frids i Offsooknunum, i Angisteñe, i Naudunum, þar hañ hefur ecke einasta þessa Siin heyrt, helldur og var sialfur i hiñ Pridia Himen uppnumeñ. Petur hafde fyrer skomu spurt DRotten ad, hvad þeir skylldu i Laun hafa, sem ad yfergafu alla Hlute, og fylgdu honum epter; En Drotteñ siiner honum hier a Fiallenu, ad svo myklu Leite sem hañ sia kune, i þessu Daudlega Hollde, hvers hañ ætte Von fyrer siina Pioonustu, og er þad Mæla sañast; Petre þootte svo myked til þessa koma, Jafnvel þoott ecke være þad meira hia hlñe Eilijfu Diird, helldur eñ Rikte Salomonis fyrer Drottningune af Arabia, honum þootte svo myked til þess koma, seige eg, ad hañ sagde, Hier Er Oss Gott Ad Vera: Hañ var fæddur i Judæa, einu Lande, sem er Paradys af Verolldeñe, hañ hafde viida vered med Christo, bæde þar og i Galilæa, hañ hafde sied Jerusalems Mustere, og hina kostulegu Guds Pioonustu þar iñe; En ollu gleymde hañ þvi sem til Baka var, hier þockte honum alleina Gott ad vera. O! hversu munu þeir þa gleyma ollu Oflæte Verolldar, ollu Eptirlæte og Fagnade i Heimenum, Er sitia Lambsins Brwdkaup i Himnenum? Ad vijsu,

ſu, var Siin þeſſe mikel, er Poſtulunum gafſt, og ſæla maa þa kalla af heñe, eñ þo er þeim ei miña veitt, ſem DRotteñ Auglijſer ſig i Hiartanu, Þvi ſæler eru þeir ſem ei ſiaa og trwa þo, ſagde Lauſnareñ Fordum vid Thomas; Pad ſie eg aa ſvo morgum Puſund-um Piijſlarvotta DRotteñs, um̃ hveria þad ſañkveded er ſem Eſajas ſpaaer, Cap 24. Ad þeir priiſudu DRotteñ midt i Elldenum. Petur var vidſtaddur þeſſa Openber-un; Hañ heyrde Moyſen og Eliam tala um̃ Fullkomnan DRottens Utfarar, og þar ad auke heyrde hañ Fodurſins Rauſt, þo gleymde þeſſe Guds Vinur ollu þeſſu ſkom̃-um Tijma þar epter, i Biſkups-Holleñe, ecke varde þeſſe Um̃myndan DRottens lein-ge hiaa honum; Eñ þegar Chriſtur var i honum til fulls myndadur, ſvo ſem Paulus ad Orde kiemſt, þa munde hañ fyrr hafa þolad hinar ſkielfeleguſtu Piiſler Veralldar, eñ ad falla fraa Chriſto, og gafſt Raun þeſſe optlega ſiidañ: Og þetta er nu ſw Siioon aa JEſu Chriſto, er vier eigum ad koſta Kapps um̃ ad naa, aa allre vorre Reiſu fraa Vogguñe til Grafareñar: Pad er þad heilaga Fiall, er vier eigum ad klifraſt uppaa, medañ vier lifum. Saa ſem þañig hefur komed Auga aa Chriſtum, hañ kallar Drott-eñ fyrer ſitt Hlutſkipte, þoott ad Saal og Lijf vanmegneſt, og nær hañ Gud ſiñ hefur, þa ſkeiter hañ hverke um̃ Himen nie Jord. Eñ ſvo ſem ad þetta er eitt myked Hlut-ſkipte, hver ſem þvi nær, Jaa, ſvo myked, ad Himen og Jord meiga i eingañ Sam-jofnud koma; Svo ſkal og myked til þeſs viña, ef vier vilium verda niootande Arfſkipt-is Heilagra i Lioosenu, Col. 1. Ef vier vilium þocknaſt Gude i Lioose lifande Maña, Pſ. 56. Pa byriar oſs ad ſkrijdaſt Hvijta-Vodum, ecke ſijdur eñ þeir i Fyrndeñe, ſem Skijrn og Chriſtne taka villdu, þad er, ad vier J-klædunſt Herklædum Lioosſins, ad vier J-klædunſt einum nijum Mañe, ad vier J-klædunſt Guds Herſkrwda, þad er, i einu Orde ad ſeigia, med Paals Ordum, Col. 3. Ad vier J-klædunſt ſvo ſem Utvalder Guds H. og elſkuleger Hiartgrooveñe Myſkunſemi, Goodgyrneñe, Lijtelætenu, Hoog-værdeñe, Poleñmædeñe. Eg veit þad maa þykia undarlega til Ords teked, ad Poſt-uleñ temur ſier þeña Ordshattt, ad Jklædaſt Dygdunum, eñ valla kañ þo nockur bet-re ad fiñaſt: An Klædaña gietum vier ecke lifad, þau eru þad ſem veria oſſ Froſte og Kulda; Svo kuñum vier ecke helldur ad lifa Andlegu Lijfe fyrer utañ þeña Sakleyſe-ſins Skrwda: Hañ varnar oſſ vid Helvijtis Bruna. Klædnadur DRottens vard fagur og Leiptrande af þvi, ad Guddoomſins Byrte, ſem i hañs Hollde bioo, hun ſkein i giegnum þau, eins og Sooleñ Glered, Svo eigum vier ad laata þad ſiaa i vorum Lijf-ernis Haattum, Ordum og Athofnum, ad Gud bwe i oſſ fyrer Trwna; Pad bijdur Frelſareñ Læreſveinunum, Matth. 5. med þeſſum Ordum: Svo lijſe ydar Lioos fyrer Moñum, ad þeir ſiaae ydar Goodverk, og dyrke ydar Fodur, ſem a Himnum er: Eñ fyrer þvi, ad Daglega ſletteſt uppa vort Skyrnar-Klæde, a medañ vier gaungum i giegnum Forod Veralldar þeſſarar, þa maa þad Daglega þveiged verda. Marcus ſkrifar um̃ Klædnad DRottens, Cap. 9. Ad hañ hafe ſvo Biartur vered, ad eingeñ Pvotta Madur a Jordu kuñe þvilijkt ad giora: Og ſama er ad ſeigia um̃ vort Brwd-kaups-Klæde, Pad kañ eingeñ ſvo hreint ad giora a Jordu, ad i Guds Augum byrt-

ast meige: Þad maa um̃ oss alla jaata, sem DRotteñ seiger um̃ sitt Foolk, Jer. 2. Þoott þu þvoer þig i Sallt-Petre, og safner þier mikille Saapu, þa ertu samt Ohreiñ fyrer mier: Hañ eiñ, hñ eiñ gietur þau ad fullu hreinsad, sem er eins og KoparSmidsins Elldur, og eins og SaapaÞvotta Maña, Mal. 3. Þad er þitt dijrmæta Blood, miñ Frelsare, J hveriu ad aller Heilager hafa þveiged siñ Skrwda, Apoc. 7. Svo kañtu og, Drotteñ miñ, ad giora jafnvel Synder mijnar hvijtar eins og Snioo þoott þær sieu raudar sem Blood, og Ullhvijtar, þoott þær Purpura raudar sieu, Esa. 1. Jaa, eg em þess fullsruggur, ad nær þu breider þiñ Lioomande Klædafalld wt yfer mijn saurug Totur, þa mune þeirra ei giæta, Guddoomsins Fylling sem i þier bioo Lijkamlega, hun skein i giegnum þiñ Klædnad a Fiallenu Helga, Eñ Sorte miñar Illsku mun alldrei gleta brotest i giegnum þessa Byrte iñ i Augu þijns Himneska Fodur: Þessu fulltreiste eg DRotteñ miñ, þvi eg veit, ad þu ert komeñ til ad leita ad þvi sem tapad er, og ad kalla Synduga, og ecke Riettlaata til Yðrunar, Þier sie Lof, Æra, Magt og Dijrd, ad Eilijfu, Amen.

J Muñe Tveggia edur Þriggia skulu oll Ord standa, sagde DRotteñ i Log-Book siñe Fordum: Eñ um̃ þetta Þijng maa eg seigia þad, er Johañes seiger i hañs fyrsta Pistils Fim̃ta Capitula. Þrijr eru þeir sem vitna a Himne, og þrijr eru þeir sem vitna a Jordu. Hier eru þrijr Vottar Jardnesker, og adrer þrijr Himnesker. Eg vil tala fyrst um̃ þa Jardnesku, þvi Texteñ gietur fyrr um̃ þa. Þad voru Petrus, Jacobus og Johañes, Þesser voru einger Smælingiar i Guds Hwse, Jafnvel þoott þeir være halldner Afrak og Hreinsunar Foorn hiaa Verolldeñe. Petur var sa ed fyrstur allra Postulaña þeckte, ad JEsus være Christur Sonur Guds lifanda, Matth. 16. Hañ var sa ed DRotteñ fyrstum afhendte Lykla Himnarijkis, til ad leysa og binda, ecke þad, ad Petur afhendte þa hinum Postulunum wt af sier, helldur giorde DRotteñ þad sialfur sijdañ: Hañ lagde Lijfed ofañ a sijna Medkieñingu um̃ JEsum, Þvi Jafnvel þoott ecke hafe Meñ svo vissar Sogur um̃ hañs Lijflaat, Þa kieñer Johañes oss þad, ad Lausnareñ hafe spaad honum þvi; Ad hañ munde Gud med sijnum Dauda dijrka. Jacob var saa, er fyrstur allra af þeim Toolf liet Lijf sitt fyrer Vitnisburdeñ JEsu, og underskrifade hañ med sijnu Saklausa Bloode. Johañes var saa, ed laa fyrer framañ Drotteñ um̃ Kvolldmaaltijdena, honum auglijste hañ Svikarañ, hañ er saa Læresveiñ, um̃ hvern skrifad stendur, ad JEsus hafe hañ Elskad; Hañ hefur og Greinelegast af ollum Gudspiallamoñunum talad um̃ Persoonu Frelsarans, honum auglijste DRotteñ þa miklu Hlute, er ske skylldu a eptersylgiande Tijmum; Svo sem lioost er af hañs Openberunum: Hañ lifde og leingst allra Postulaña, til ad mootstanda þeim Ebioni og Cerintho, er neitudu Guddoome vors Frelsara, Og þess vegna er þad af Gudlegre Forsioon sked, ad hañ feinge hañs Haatign Augum ad lijta i þessum Stad, svo hañ þess betur kyñe þar um̃ ad vitna. Mooder þeirra Jacobs og hañs beidde Frelsarañ um̃, ad añar Sona siña mætte sitia honum a hægra Veg, eñ añar a vinstre, Drotteñ svarade þeñe; Þier vited ei hvers þier bidied: Eñ þo sijnest mier, ad hañ

Blessadur

Blessadur hafe ad nockru Leite orded vid Boon heñar i þessum Stad; Þar hañ took þa framar ødrum med Petre, til ad sijna þeim svo sem Aleingdar iñ i þa Dijrd, sem hañ a hiaa sijnum Himneska Fodur. Eñ af þessare veglegu Sioon hafa þesser Guds Meñ lært, þar þeir valla gaatu stadest hana, ad ei munde þeim hendt i þessu Daudlega Hollde ad sitia honum a hægre edur vinstre Hlid i Dijrd Himnaña, og þvi sporudu þeir ecke sijna Daudlega Lijkame sijdañ fyrer hañs Skulld, þegar þeir vaxner voru epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, svo þeir med Paulo, Phil 3. Mætte kuñu i Upprisu hiña Daudu, Hnosseuu þeirrar Kollunar, sem þar uppe er i JEsu Christo. Eñ vier sem nu heyrt hofum Vitne þeirra um Forklaaran DRottens, og vitum ad þeir iñgeingner eru i Dijrd sijns Herra; Vier skulum leggia allañ Hug a, ad vera eins lynder og þeir, ad vier holldum alla Hlute Preck ad vera, og jafnvel sialfst Lijfed, svo vier aviñum Christum, Phil. 3. Þvi hver sem ad hatar Saalu sijna i þessum Heime, hañ mun vardveita hana til eilijfs Lijfs, Joh. 12. Og þesser eru nu hiner Jardnesku Vottar ad Stoormerke þessu, sem teked hafa vid Vitne þeirra Himnesku; Um̃ hveria eg hefe hier epter nockud ad tala.

DRotteñ sagde Fordum under sijna Pijnu, Joh. 12. Fader, Vegsama þitt Nafn, og Rausteñ af Himne svarade honum, Eg hefe Vegsamad, og eg skal aptur Vegsama, Þa sagde hañ vid Læresveinana: Þesse Raust skiede ecke vegna mijn, helldur ydar vegna. Svo maa eg og segia um̃ þa Himnesku Votta, sem Texteñ um̃getur, ad ei byrtust þeir DRottne fyrer hañs Skulld, helldur þeirra sem med honum voru, Jaa, vegna allra þeirra, sem epter þeim heyra mundu þeña Tilburd. Vottarner eru Prijr af Himnum, Moyses, Elias, og sialfs Fodursins Raust, er vitnade af Skyenu. Moyses var eiñ trwr Raadsmadur i ollu Guds Hwse, Hañ valde Gud til ad wtleida sitt Foolk af Egyptalande, Hañ talade vid Gud i Horeb, Þegar Israel villde hafa sig undañ þegeñ ad heyra Raustena DRottens Guds sijns, Hañ medtook Logmaaled af hañs Hende, og talade vid hañ Optlega eins og Madur vid Mañ talar. Hvert Moyses hafe vered hier med Saal og Lijkama, skal eg ecke margt um̃ tala, Þad er vijst, ad hañ Doo a Fiollunum Habarim, hvadañ Gud sijnde honum Landed Canaan, og Gud groof hañ i Dalnum, seiger Ritningeñ, Devt. 34. Þo er Lijklegt, ad Moyses hafe hier allur vered, Þvi um̃ Eliam er þad vijst, ad hañ foor med Ond og Lijkama til Himens, Eñ eingañ Mun giorer Matthæus edur hiner Gudspiallameñerner þeirra i sijnu Rite um̃ þessa Opeñberan. Nockrer færa til ad styrkia þessa Meiningu, þad sem stendur i Judas Pistle, v. 9. Ad Michael Hofud-Eingell hafe þraattad vid Satan um̃ Lijkama Moysis, Svo sem ad villde Andskoteñ hafa feinged Valld hañs, Eñ Gud hafe hañ uppnumed, Og ad vijsu lijtur Petur til þeirrar Sogu, er þar skrifud stendur, J sijns Sijdara Pistils Odrum Capitula. Eñ hvorneñ sem þessu er vared, Þa veit eg, ad hañ sem uppvakte Son Eckiuñar af Sarepta, og hiñar Sunamisku, Hañ sem Lazarum leidde wt af Grofeñe, Hañ sem uppreiste Doottur Jairi, Hañ sem liet marga Framlidna gaanga wr Grofunum i Christi Upprisu,

Honum var ecke um̃ Megn, ad læta Moysen koma til þessarar Hærtijdar a Fialle-enu Helga med Ond og Lijkama, Og þesse var nu Hiñ Añar Himneskra Votta af Moñum. Eñ hiñ var ad sijnu Leite eingu miñe, Elias, hver med ollum Riette mæ nefnast hiñ Ypparste af Spæmoñunum, Hañ var hiñ meste Vandlætare vegna Guds Nafns, Hañ liet slætra Jessabels Spæmoñum vid Lækeñ Kischon, Honum sende Gud Elld af Himne yfer þa Tveña Fimtiju Achabs Sendemeñ, Hañ fieck med Bæn af Gude Dogg af Himnenum, þa ecke hafde rignt i heil Þriu Ar, Hañ foor med Elldlegum Hestum og Vognum til Himna, Hañ talade vid Gud a Fiallenu Horeb, Eins og Moyses, og bæder fostudu þeir i 40. Daga og 40. Nætur, Eins og Christur i Eydemorkeñe, Beggia þeirra gietur og Malachias i Þridia Capitula siñar Mæla-Bookar, under eins og hañ Endar hid Gamla Testament. Slijka Votta byriade Guds Syne ad hafa til Dijrdar siñar, er hañ Forklæradest; Og skulum vier vita, ad Gud giorer eckert Forgiefens, auk helldur svo mikla Hlute, sem þesse var, Oll var og Þorf a því; Su Tijd var nærre komeñ, ad Gud munde slæ Hyrdereñ, og ad Sauder Hiardareñar mundu sundur tvistrast; Eñ hversu ad Læresveinarner hafe vered buner under þa Ogn, þad sijna oss Gudspialls Sogurnar. Ad Soñu hafde Petur lijst því skoñu ædur, Matth. 16. Ad JEsus være Christur Sonur Guds lifanda, og kallad Frelsareñ hañ sælañ þar fyrer; Því Holld og Blood hefde honum þad ecke Opeñberad, helldur Ande sijns Fodurs; Eñ þo took Hollded svo ad Ræda skoñu þar epter; Er JEsus talade um̃ sijna Pijnu, ad Petur ætalde hañ, og sagde: Spara sialfañ þig ad ei verde þier þetta: Jæ; Þegar hañ heyrt hafde, ad Moyses og Elias toludu vid Drotteñ um̃ hañs Sijdurstu Utfor fræ Jerusalem, þa var þo Einfelldneñ svo rijk i Holldenu, ad hañ sagde: Vier vilium giora hier þriær Tialld-Bwder, þier eina, Moysi eina, og Eliæ eina, og þoott hañ hefde Mæl fyrer þinum Postulunum, þa er audvitad, ad þeir hafa eins faakiæner vered. Hier mæ nu segia þad sama um̃ þeña Guds Ast-Vin, sem Paulus um̃ sig seger: Þegar eg var Barn, giorda eg sem Barn, og eg talade sem Barn: Petur var eñ nu ecke fullvaxeñ i Christendoomenum, og því talade hañ Bernsklega. O! þu Guds Madur, Munde hañ nockud þurfa Tialldbwdar vid, hvers Asiæna ad skein sem Sool, og hañs Klæde voru biort eins og Lioos? Munde hañ ætla sier ad eiga længa Dvol a þessu Fialle, sem ædur sagt hafde, ad hañ munde Lijflæteñ verda i Jerusalem; Hvad þu og heyrder, Guds Vinur, af þessum Tveimur Himnesku Vottum? Var þesse Openberan til þess gior, ad hun skyllde leinge vara, og ei miklu helldur til ad vera Forsmeckur hiñar eilijfu Dijrdar? Því skyllde Moysi og Eliæ giora Tialldbud; Eins og ad ei være i Jesu einum Sælañ full? Riett hafa þeir nu Marcus, og Lucas skrifad um̃ þetta Fæfræde Peturs, ad hañ hafe ecke vitad hvad hañ sagde, kañske því, ad Felmtur var yfer þa komeñ; Eñ i því mæ marka Elsku þa og Traust, er hañ hafde a Drottne, ad hañ giorer ei Ræd fyrer neiñe Tialldbwd handa sier edur sijnum Lagsmoñum, því hañ hefur

ver-

vered fulltrwa þar um̃, ad þar sem hañs Herra være, þar mundu og þeir verda. Svo skulum vier og Lynder vera, Christner Meñ, þegar vier erum visser um̃ Christs Vinaattu, þa verum ecke Hugsiuker fyrer Lijfe þessu. Hvar kuñum vier svo ad vera hiaa JEsu, ad oss illa lijde? Hvar meigum vier svo vera fyrer utañ hañ, ad oss vel lijde? Vørpum þvi allre vorre Ahyggiu uppa Drotteñ hañ mun þvi vel til Vegar koma. Og þesse var nu Veiklekke Peturs og hiña Lærefveinaña; Eñ til þess ad bwa þa under hina miklu Freisting, sem a epter fylgde; Pa skede nu þesse Dijrdlega Jardteikn, og þoott þeim fiellest miøg svo Hugur, þegar i Raunernar rak; Pa er þad vijst, ad þeir hefdu miklu midur haft sig, hefde þeir aan heñar vered. Þesser voru þeir þrijr Lærefveinar er Jesus took Affsijdes med sier, a þeirre Naatt er hañ forraadeñ var, þegar Kvoleñ hoofst. Gud naade oss Auma og Synduga; Vier gietum hverke þolad Heitt nie Kallt med Jesu; Þessa Dijrdlegu Syn gaatu þeir valla stadest, eñ i Kvoleñe svaafu þeir, þa yfergaafu þeir hañ aller: Eñ Þacker sieu þier, hin Guddoomlega Speke, þu kant ad midla fyrer oss bæde Medlæte og Motlæte, epter þvi sem þu veitst ad med Mañenum bijr: J þiñe Dijrdlegu Forklaaran lietstu þijna Postula siaa þijna Dijrd, ad svo miklu Leite, sem þeirra Daudleg Augu gaatu þolad, eñ i Kvoleñe leifder þu þeim ad sofa um̃ Hrijd; Þu gafst þeim og Fararleyfe þegar Hoopur Maña var yfer þig komeñ, svo þad maa jaata, Drotteñ miñ, ad þu ert Eiñ Biskup freistadur a allañ Haatt lijka sem vier, þo aan Syndar; Þar fyrer kantu ad Sampijnast Eymdum vorum.

Adur eñ eg skilst vid þetta Maal, þa vil eg þar um̃ tala, ad Postularner þecktu þa Moysen og Eliam, er þeir alldrei høfdu þo aadur sied: Lijkleg er þeirra Gaata, er meina, ad af Samtalenu hafe þeir maatt þeckia þa: Eñ hverke Moyses nie Elias høfdu Greinuglegar spaad um̃ DRottens Pijsler, helldur eñ David og hiner Spaameñerner, sierdeilis Esajas, nema hañ hafe þa vid Nafn kallad, hvar um̃ eckert er skrifad, Þvi helld eg þad lijklegra, og nærre þvi fyrer satt, ad Guds Ande hafe þeim þad Opeñberad i þad Siñ, Þvi hañ sem liet Samuel þeckia Saul Kongung, aadur eñ hañ hafde hañ sied, sem liet Johañem þeckia siñ Herra i Moodur-Lijfe, Hañ gat og Audvelldlega giefed Christi Lærefveinum þessa Þeckingu a Moyse og Elia, og er þad ecke lijtil Huggun fyrer Christna Meñ, ad hver Eiñ mun þeckia ecke Einasta sijna Ast-Vine, i þeirre Himneſku Glede, helldur og alla Utvaldg, sem hafa yferuñed fyrer Lambsins Blood, fraa þeim Fyrsta til þess Sijdarsta, sem iñgeingur i Fognud sijns Herra, og med þeim Eilijflega glediast, og Gude Lof sijngia a þessu Fagnadareus Lande, og er nu þetta sagt um̃ Moysis og Eliæ Vitne, sem voru fra Himnum. Eñ hier kiemur eiñ øllum meire, sem uppfyller bæde Himen og Jord, Þad er Fader Drottens vors JEsu Christi, sem hier vitnar, Þesse Er Sonur Miñ Elskulegur, HOnum SKulud Þier HEyra. Riett er Gaata Hieronymi Lærefødur, ad miñe Hyggiu, er hañ skrifar ad Moyses og Elias hafe þess vegna vered sveipader i Skye þvi hinu biarta, aadur eñ Rausteñ kvad vid, ad ei skylldu Postularner meina, ad añar-

hver af þeim være sa, er til var talad: Og þegar þeir uppstoodu, þa sau þeir eingañ nema JEsum: Þeir sau hañ alleina, J hverium alleina er Saluhialpeñ: Þeir sau hañ alleina, sem er hiñ einaste Medalgangare mille Guds og Mañа: Eñ hvi-lijkur er nu Vitnisburdureñ? ÞEsse Er Miñ ELSKUlegur SONur. JEsus stood hier i sijnum fullum Mañdoome, fullum af Guddoomenum, og þo seiger Fad-ereñ: ÞEsse Er Miñ ElSkulegur SONur, Hvar af audsært er, ad Christur er Guds Sonur, bæde epter Guddoomenum og Mañdoomenum. Miñ Frelsare, Þeir koll-udu þig Tymburmañsins Son, Þiñ Fader seiger: ÞEsse Er Miñ Elskulegur Son-ur. Þeir sögdu ad þu giorder þig ad Gude, af þvi þu kallader Gud þiñ Fodur, Eñ Gud seiger hier: ÞEsse Er Miñ Elskulegur SONur. Þeir sögdu: Vier vilium ecke lata þeña drottna yfer oss, Eñ DRotteñ allra DRottna, þiñ Fader, er þeir koll-udu siñ Gud, eñ þecktu hañ þo ecke, Hañ seiger: ÞEsse Er Miñ Elskulegur Sonur, HOnum Skulud Þier Heyra. Moyses hafde adur fyrer sagt, Devt. 18. Spa-man mun DRotteñ uppvekia ydur af Brædrum ydar, honum skulud þier heyra: Eñ sa hiñ same kom til siñar Eignar, og hañs eigeñ þecktu hañ ecke. Moyses lærde og sialf-ur meira hier, helldur eñ hañ sialfur hafde fyrerspad: Ad soñu vijsade hañ til hañs i greindum Spadoome, Eñ hier sa hañ þad, sem bæde hañ og marger Spameñ gyrntust ad sia, og sau þad ecke. Abraham sa hañs Dag ad soñu, Eñ ei sa hañ DRotteñ voru Hollde Jklæddañ, eins og Moyses i þessum Stad. Allra Sijdarst vil eg giæta þess Myskunar-Verks, er DRotteñ giorde a Læresveinunum, er þeim var lided i Briooſt af þessare Dijrdar-Sioon, ad hañ gieck ad þeim, og snart þa, og sagde: STanded Upp og Vered O-Hrædder. Hañ sem alvanur var Dijrdeñe, og þo i Mañlegu Hollde Opeñberadur, hañ kuñe best ad vægia Holldsins Veikleika: Þad sijner hañs Mañdoom, ad hañ snart þa, þad auglijser hañs Guddoom, ad hañ reiste þa a Fætur med þessu Atvike. Miñ HErra JEsu, Eg veit ad þu ert ei sijdur Mattugur nu eñ þa, og ekert Mañgreinar Alit er hia þier: Svo þegar vier follum i Andleg Omeige, og hofum eingañ Matt edur Frid i vorum Beinum vegna Syndaña, þa gietur þu snorted oss, og reist oss a Fætur aptur, Ja, DRotteñ, þeg-ar hid Sijdarsta Aungvited lijdur yfer oss i Daudanum, Snert oss þa miñ Frelsa-re, og seig til Salar vorrar: Statt upp og vert Ohrædd, og leid oss svo iñ i þijna Dijrd, þar er oss gott ad vera, þar vilium vier Eilijflega med þier bwa: Þier, Fodurnum og Heilogum Anda O-Endañlegt Lof sijngia, um Allder Allda,

AMEN.



